# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

**ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.**

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

ÁTTUNDA BINDI

1261—1521.

REYKJAVÍK.
Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU.
1906—1913.

Í registr þessa bindis hafa þeir cand. juris Ólafr Lárusson frá Selárdal og cand. philos. Guðmundr Guðmundsson safnað tilvitnunum öllum, og hefi eg síðan steypt því í heild á svipaðan hátt og fyrri. Þó hefir verið vikið frá um orðið kirkja á þá leið, að þeirra orða margra, sem þar hafa áðr staðið með tilvitnunum öllum, er nú að eins getið þar, og vísað til þeirra, þar sem þau standa á við og dreif í þessu registri með tilfærðum tilvitnunum.

Ekki ábyrgist eg, að tilvitnanirnar við hin almennu daganöfn (sunnudagr, mánudagr o. s. frv.) sé alveg tæmandi í þessu registri, enda mun það saklítið, því að þeim orðum má nú, nema sérstaklega standi á, sleppa úr registrunum við þetta safn framvegis. Alt annað vona eg sé tæmt svo sem orðið hefir.

Misprentazt hefir í registrinu (bls. 889) Geitastokkar fyrir Geitastekkar. Nafn Hallberu Þorleifsdóttur stendr og (á bls. 902) á undan nafni Hallberu Sölmundardóttur, en hefði átt að standa síðar.

Það ber að afsaka, að letrið á tölunum í registrinu er sumstaðar ekki alveg samkynja, og varð ekki hjá því komizt, sökum óhagræðis í prentsmiðjunni. Þó mun þetta ekki valda neinum baga við notkun registrsins.

Ártöl við nöfn ýmsra manna frá síðari öldum hér í registrinu eru sett eptir munnlegri tilsögn Hannesar skjalavarðar Þorsteinssonar.

*Jón Þorkelsson.*

---

# Efnisyfirlit.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

1. [24. Apríl 1261?].

Forsögn að heiti til guðs allsvaldanda, hinnar heilögu drottningar guðs móður Marie og allra guðs heilagra manna.

Eptir bréfabók Gizurar biskups Einarssonar AM. 232. 8vo bl. 43 (frumbókin skrifuð á árunum 1540—1547). — AM. 266. Fol. bls. 25 með hendi síra Haldórs Jónssonar í Reykholti um 1660.

Við ár 1261 stendr svo í Sturlungu (Oxford 1878, II. 259): „Þá var vetr mikill, ok feldu menn mjök fé sitt. Þat vár stofnaði Gizurr (Þorvaldsson) heit, til guðs ok hins heilaga Óláfs konungs, á Einmánaðarsamkomu[1]), at vatnfasta skyldi jafnan fyrir Óláfsmessu ina fyrri alþjóð manna á Íslandi. Var þat heit þá fest ok játað af allri alþýðu. Gizurr jarl sendi menn með bréfum suðr til Sigvarðar biskups; ok gekk þat við um alla biskupssýslu hans. Varð ok svá við um heitið, at bati varð á veðráttu bæði skjótr ok góðr. Sigvarðr biskup lét festa heitið páskadag sjálfan í Skálholti, því at Gizurr jarl ritaði til hans á föstunni. Var ok þann dag veðr svá gótt, at langlega hafði aldri slíkt komit".

Bréf þetta, sem fer hér á eptir, er að vísu miklu eldra en frá dögum Gizurar biskups Einarssonar, og er svo fornlegt, að það getr vel verið frá 13. öld. Af því að orðalagið er nokkuð alment, svo sem heitbréfs forsögn, er erfitt að finna því vísan samastað um ár.

---

1) Svo annar handritaflokkr Sturlungu; hinn hefir: „á várþingi". Þriðjudagrinn fyrstr í Einmánuði er 1261 hinn 15. Marts.

Af sömu ástæðum verðr heldr ekki ætlað, að það sé bréf um það heit, er Gizur jarl gerði og nú var talið næst. Hitt gæti nær legið að ætla, að það ætti eitthvað skylt við heitfesting Sigvarðar biskups á páskadaginn (24. Apríl) 1261 og form til heitbréfs, er hann hefir sent út til klerka í öllu Skálholtsbiskupsdæmi um það leyti viðvíkjandi heiti því, er Gizur jarl hafði ritað honum, þó að þetta verði ekki sagt með vissu.

Heit hofum wier stofnat. enn Til heitz þessa nefnu uier fyrstañ og fremstañ allzvalldanda guð þann sem allz er upphaf. og ender allz hins goda. þar næst hino h(eilogo) drottningv guðz modur marie og hinn h(eilaga) ɦ og alla guðz h(elga) menn at þeir siev oss arnandi myskvnnar vid guð. Þessv aheite heitvm vier oss og alþydv til fridar og farsælldar. til heilsv og hæginda og ǻrs og avdæfa. til veidiskapar og vedrattu godrar. til sættar og samþyckis allra manna ȷ millum til gagns ok giæda þessa heims. enn eilifrar sælv annars heims. Bidivnzt eigi sua fullkomliga vndan guðz radningar sprota hier ǻ iardriki at þat byrgi fyrir oss himna ʀiki. helldr bidivm vier sialfan guð giora rad og sia leid fyrir oss badi ȷ brad og leingd. þann sama sem allt ueit og allt ma. og allt vill. þann veg sem bezt fer og er. Nv siae guð og signe heit vort enn vier festvm þat med þeirri alyckt og formala sem sialfr guð hefer til sett ollvm til myskvnar og godrar hialpar. og seigivm nv med ahyggiv og athuga drottinliga bæn Pater noster. Ostende nobis. fiat m̄ia. domine exav(di). dominus vobis. Protector in [te[1])

---

## 2. 1302. [á Alþingi].

Samþykt nefndarmanna á Alþingi um að sverja Hákoni konungi land og þegna eptir þeim eiðstaf, sem stendr í lögbók, og um játun Jónsbókar.

Ísl. handrit í Ríkisbókasafninu í Stokkhólmi perg. 34. 4to (= áðr C24) bl. 91, og er sá kafli skinnbókarinnar með íslenzkri hendi frá

1) [266; fúið úr 232.

hér um bil 1370. — Prentað í Norges gl. Love III, 146, í 6. neðanmáls grein. Sbr. Safn II. 52. Við ár 1302 kemst Konungsannáll svo að orði: „Svarit Hákoni konungi land ok þegnar á Íslandi, ok játat lögbók til umbóta virðuligs herra Hákonar konungs". Í sáttmálanum frá 1302 (Dipl. Isl. II, Nr. 177) er komizt svo að orði, að hann sè gerðr „af almuganum" og (í einu handriti) „utan handgeingnum mönnum". Er því svo að sjá sem samþyktirnar á því þingi hafi verið tvær; sáttmálanum hafi allr þingheimr játað, en nefndarmenn (handgeingnir menn) hafi gert þessa samþykt út af fyrir sig.

Þetta er samþyckt nefndarmanna. at þeir vilia sveria hakoni konungi land ok þegna eptir þeim æidstaf sem stendr i bók vári ok sealfs hans bref þickir oss vátta. ok her med vilium vęr iátta bok þa er virdulighr herra magnus kon-ungr sendi oss med joni lögmanni i valld virdulighs herra hakonar konungs til þuilikra vmbota sem sealfr hann vill firir sea med beztu manna rædi ok samþyckt þeirra sem æ ero landi váru.

---

3. [1331].

Máldagi kirkjunnar í Hólum í Hrunamannahreppi (Hreppholum), [er Jón biskup Haldórsson setti].

AM. 66.a 8vo bl. 10b, skr. c. 1600 með hendi síra Jóns Egilssonar. — AM. 262. 4to bl. 5 a—b, skr. c. 1600. Báðar afskriptir orðrétt samhljóða, en 262 misskrifaðri. Máldagi þessi er forn, því að kirkjan á hér ekkert í heimalandi, en hinsvegar meira í gangandi fé en henni er talið hjá Vilchni og í öðrum síðari máldögum. Máldagi þessi mun því varla vera yngri en frá dögum Jóns biskups Haldórssonar.

Þessi fa ord hef ec ny fundit og eckirt datum yfer skrifat.

Sa er maldagi j hoolum j hrunamannahrepp. þad kyrckian a xx kyr. og c. asaudar. vij hesta og iiij hross. ij^c j nautum og iiij^c jnnan gatta.

allañ skog a steinastodum. j mille holltamannaðr[1]) og

1) holltamaar (!) 262.

raudár. annan ȷ aslakstungum[1]). hinn þridia ȷ bringu a millum gilia[2]).

---

*4. [1343].

**Máldagi** kirkjunnar í Borgarhöfn í Hornafirði, [er Jón biskup Sigurðarson setti].

AM. 259. 4to bl. 119a með hendi Odds biskups um 1592 (=a) og bl. 35a skr. 1595 (= b). — Afskript máldaga þessa, sem hér er nú fylgt, er betri um sumt, en sú sem eptir er prentað í Dipl. Isl. II, Nr. 494.

Borgarhofn.

Kirkian ȷ borgarhofn á suo mikid ȷ lande sem prestskylldu heyrer.

kirkian á ij kyr. xxx asaudar.

kluckur iij. ij biollur. ij krossa. ij tiolld. alltarisklædi ij. kolu. sacrariu(m) munnløg. kross annar.

Þar tekst heima tijund og halfer lysitollar.

Þar skal syngia páskadaginn fyrri. og annan huern dag helgan. og xij messur ad auk fyrir bænhus þad sem verid hefur ȷ heksgardi. tekur prestur vj aura.

Þar skal og luka presti jc.

Þar skal vera biskupsgisting.

---

*5. [1343].

**Máldagi** Kirkjubæjarklaustrs á Síðu, [er Jón biskup setti Sigurðarson].

---

1) aslægstungum 262. 2) Skógr í Bringu millum Gilja er að vísu ekki talinn í Vilchins-bók, og mun það vera af vangá, enda er þessi skógr talinn í máldaganum í Dipl. Isl. IV, Nr. 658, sem heimfærðr er til tímanna kringum 1440, og mjög svipar til Vilchinsmáldaga og er um sumt fult svo fornlegr, og hefði mátt heimfærast til Oddgeirs biskups, ef ekki teldi hann „Núpsland“, sem Vilchin hefir ekki.

Eptir máldagabókinni gömlu í Biskupsskjalasafni í Landsskjalasafninu (= D 12) skr. 1601. Máldagi þessi er áðr prentaðr í Dipl. Isl. II, Nr. 503, en þar hafa af slysi fallið úr nokkur orð í prentun, sem þó er lagfært í sama bindi bls. 874, og svo má fylla dálítið frekar eyður frumritsins en þar er gert.

Kirkiubæarklôstur.

Stadur i kirkiubæ ä heimaland allt. dali ij. mau[r]tungu. geirlañd. mork. ytra bæ. heidi. tuñgu. erpstadi. v[i]k. selbudir hraun. steiñsmýrar ij. fliot. sel. slyar. breckur.

Suo mykit kuikfie. hälft iiij huñdrad asôdar. ccc lamba ä fiall rekit. gelldijñgur med hrutum c. og xxx. veturgamallt huñdrad og tijgityger. kälfar vj og xx. c. äsaudar ä leigum. og x kyr. xl. kva heima og at vtbuvm og iij. gelld naut tuævetur og elldre. xij og xx. veturgomul. hälfur þridie togur. hross tuævetur og elldre xvij og xx. med londum .lx. kugillda og iij.

J fiorum niju tijgir fadma hiñz fiorttäñda huñdradz vm xx. xxx asaudar.

kirkiań ä jñnañ sig .v. kaleka gyllta. einn medur gyll. iij ogyllda klockur viij. xij hokla hina betre medur pell og silki og dyrum klædum. niju lettare. xiiij käpur hinar betri. vı. lettari. vj dalmatikur. viij sloppa. ıx messu . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . ar flores beate vir[ginis] . . . . . . . . . duę partes moralium. atta [mer]kur brendar. eru þar j vij rosir og ein spira. tuær skurñer. .v spænir. eitt mosurkær. textar. ij. bunir. eitt klædi gott med balldikinn. og hokull godur blär. fiorttän añtepeńdija. tiolld og bordar vmhuerfis kirkiu. xij lectaradukar. iiij. glodarker. elldbera. vij kertistikur thil häalltaris. jarñstiku stora. foñtz vmbunijñg. skrijn. krossar .ij. smellter. iij adrer. mariuskript og katrijnar skript stor. kross frami ä kőr. tabulum fẏrir alltare og brijk vpp yfir.

Þessar jtolur ää stadurinn j kirkiubæ.

frä þverä skulu lukast niju aurar voru huert vor.

frä kelldugnupi half mork voru.

af horkzlañdi hälf mork voru.

af breidabőlstad xij aura.

af dalbæ hállf mork voru og ij vetrunga fodur.
af vppsolum hálf mork vorv.
af þýckuabæ halfur fiordi eýrer.
af hraunsmula hálfan fiorda eyrir.
af selbvdvm fimm aura.
af dalbæ audrum .v. avra.
af ásgardi. c. voru og vj aurar.
j hátvnvm skal fæda iiij kyr og vetrung og greida vætt miols.
j efri vijk ij kýr.
j asgardi skal fæda vetrung.
af . . . [1]) tuær alnar hins v eyrirz.
af holmvm half vætt smiors og xij fiordungar melmiolz.
J arnanesi atta vætter salltz.
thil kirkiubæiar liggia xi og xx bæir at tijvndum og lysitollum vtan at á fiorvm bævm tekst heima.
Suo mikil er jnntekt af londvm stadarins i kirkiubæ
J dal eystra .c.
j vestra dal .c.
J mortungu halft annad.
æ geirlandi. .ccc. (oc) .v. aurar.
j mork .cc.
j ytrabæ .cc.
á [heidi .c.
J tungu. cc].
a erpstodum iij merkr.
j vijk .c. og .v. [aurar.
a selbu]dum .c.
á steinsmýre. c. og v aurar.
at fliot[um .c. og v]aurar.
á steinsmýre eýstre .c. og xv aurar.
af seli [ij merkr].
at slygium hálft annad hun[drad].
a brekkum þriu [hundrud].

---

1) Eingin eyða, en bæjarnafn hefir gleymzt.

***6.** **1354.**

MÁLDAGI kirkjunnar á Desjarmýri í Borgarfirði eystra.

AM. 259. 4to bl. 79—80, skr. 1610 fyrir Odd biskup. — Máldagi þessi er áðr prentaðr í Fornbréfasafni III, Nr. 59, eptir afskript, sem ekki stafar frá gömlu frumriti. Þar er þessarar afskriptar að eins getið. Geta má þess, að í skýrslu Þorgeirs prests Þorsteinssonar á Desjarmýri 13. Maí 1599 til Odds biskups er þessi máldagi árfærðr til 1554 (AM. 259. 4to bl. 99—100), sem líklega er þó ritvilla.

Desiarmyre.

Anno Domini ꝏ. ccc. l. iiij var þetta kuikfie med[1]) kirckiunne á Desiarmyre. v. kyr og xviij ær. iiij sauder veturgamler. hrutur tuevetur. naut veturgamallt. kalfar tueir. eitt hross.

kirckian a land alltt á Desiarmýre. til mötz vid Hűsvíjkíjnga suo sem med fornu hefer staded og allañ hrafnzdal og ut til mötz vid Hofstrandar land.

Þridiung ȷ vidreka under oxafalle.

allan vidreka ȷ Hellisvíjk fra drang þeim er gegñtt stendur runuskala og ȷnn til þess drangs er næst er űt frá laxa.

Hualreka ȷ Hellisvíjk og suo huar sem kemur inn til drangsens.

vidreka allañ og suo hualreka ȷ mariubűs.

Sallttfiara ȷ geitavıȷk űt á millum lækia.

hálfañ hualreka og vidreka űt a sande nordan fra Jökulsárreka og austur ad Helga.

Jtem a kirkian tueggia manna agöngu a hual ȷ kiősvıȷk.

Jtem hun á allañ vidreka og halfañ hualreka á Eyre űt frá dráng og til kambs.

Hun (a) nijundu huoria vætt ȷ hualreka ȷ Mariufioru ȷnn frá laxá.

Þangad liggur tijund af öllum bæium ȷ mille breidavıȷkur sýdre og Niardvıȷkur. og lambelde a huorium bæ og lýsetollar af ollum þeim bæium.

---

1) tvískrifað.

Jtem a kirkian fiskevist ad aullduhamre. er Olafur prestur liet sueria. saudabeit ût a sand.

Jtem a kirckian âttatije sauda beit j haukinn. j ness lande. upp a mânud og tueggia hrossa gaungu j backaþýfe. og taka eij undan folaulld.

Jtem a kirckian fiortân fota torfgrôf j Jokulsâr lande ârliga og hun a attundu huoria vætt j hual a uxafallsfiôru.

Þetta er skrifad eptter eigin handskriftt sera Þorgeirz. enn ber ecke saman huorke vid Wilchens mâldaga nej (!) Visitatiubôkena Anno 1610.

---

*7. 4. September 1358. í Skálholti.

Gyrðr Ívarsson biskup i Skálholti samþykkir þá skipan Jóns biskups Sigurðarssonar, er hann hefir skipað jörðina Svínafell í Hornafirði undir kirkjuna í Hofsfelli.

AM. 259. 4to bl. 125b, skr. um 1592 fyrir Odd biskup. — Afskript þessi er fornlegri um sumt og réttari, en sú, sem prentað er eptir í Dipl. Isl. III, Nr. 93.

Hoffell.[1])

Vier girder med gudz nad biskup j skalholltte heilsum ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra med q. g. og vorre kunugtt giorandi ad vier hofum heyrtt og yfer lesid opid bref virduligz herra. herra jons biskups sigurdarsonar godrar minningar vors foruerara j hueriu hann hafdi skipad jordina at suinafelle vnder kirkiuna j hofsfelle. med þeim skilmala. at þar sie bænhus og lukist preste sex aurar. enn bondi j hofsfelle luke preste fiorar merkur heima og hafe alla eign suinafellz sier til nytia. Nu saker þess ad oss syndist þesse hans giord og skipan mega vel standa. þui samþickium vier hana og stadfestum med þessu voru brefe. Og til sanenda hier vm setium vier vortt jnnsigle fyrir þetta bref er giortt var j skalholltte þann 4 dag septembris anno domini ꟾꟾ ccc. (l) viij.

---

1) Ritað neðan undir bréfið í handritinu.

8. 1368.

**18. Marts 1508. á Hrafnseyri.**

Vitnisburðr fjögurra manna um landamerki Gnúps í Dýrafirði eptir 140 ára gömlu bréfi, er Jón bóndi Björnsson lagði fram.

Eptir afskript á pappír í Landsskjalasafni staðfestri af síra Laurusi M. Johnsen (1852) eptir afskript staðfestri í Skálholti 24. Mai 1712 af Árna Magnússyni, Þorleifi Arasyni, Þorgilsi Sigurðssyni og Páli Hákonarsyni, en frumritði, sem var á kálfskinni, hafði verið með 4 innsiglum „óskafið, óskorið og í allan máta falslaust að svo miklum hluta sem á mátti sjá“.

Þat gjörum vér Hrafn Oddsson, Pétur Þórðarson, prestar, Ari Haldórsson, Brummaður Tumasson góðum mönnum kunnugt með þessu voru opnu bréfi, að á föstudaginn næstan eptir Guðmundardag[1]), þá liðið var frá hingaðburð vors herra Jhesu Christi 1508 ár á Eyri í Arnarfirði sáum og yfirlásum vér mjög gamalt Gnúpsbréf þó lesandi með sex heilum óskertum hangandi innsiglum, er Jón bóndi Björnsson þar fyrir oss fram lagði, hvert bréf var hundrat og fjörutiger ára, í hvörju svo stóð meðal annara orða:

garðurinn gnúpur á land allt til fjalls og fjöru í læk þann er heiter kalldelækur upp í uppsprettuna og svo rétt upp að leyte og beint á fiall upp og inn í gnúpsá. Alviðra á móskurð í gnúpsland í lambhaga. enn gnúpsmenn beit í alviðrubakka vor og haust. gnúpur á dal allann og í á þá er geingur ofan úr gjelldingadal og rennur í gnúpsá. Gnúpur á hestabeit á klukkulands hjalla.

Til sanninda hér um setjum við fyrr nefndir prestar og leikmenn vor innsigli fyrir þetta vitnisburðarbréf, er skrifat var í sama stað og ári, deigi síðar enn fyrr seigir.

---

9. **[um 1370].**

Skrá um eignir kirkjunnar í Berufirði í föstu og lausu og

---

1) þ. e. 17. Marts

um reka og landamerki jarðarinnar, þegar Ólafr Jónsson meðtók, en Jón Gillisson seldi.

AM. 259. 4to bl. 123 a—b (= *a*) og bl. 32a—b (= *b*), skr. 1595 (máldagasafn Odds biskups), og bl. 129 a—b í bréfi Odds biskups frá 3. Febr. 1608 (síðari hluti skrárinnar = *c*).

[Berufiordur[1]).

Suo mikid godz tok Olafur Jonsson med Berufirdi.

x kyr. lx ær. xviij^c j jordum og ij^c (a) ofan fyrir virdingafie. v^c j vadmálum. var þetta j kaupi þeirra Jons Gijllissonar[2]). ad fyrrnefndur Olafur skyllde eiga jarder er suo heita Jorviik og kiellduskoga. enn luka kirkiunni j Berufirdi ef hann villdi xviij^c j virdingarfie. ef hann villdi helldur eiga fyrr sagdar jarder þa er hann skildist vid berufiord.

A kirkian j Berufirde messuklædi og huijtañ hokul med ad auk. kaleik. ij kantarakapur. slopp. ij allttarisklædi. glodarkier. vatzkietil. ij. krossa mariu lijkneski. Olafs lijkneski. þar yfer glitadur dukur. vontt paxspialld. merki eitt vontt. fonttzklædi. iiij bækur. kierttastika fyrir hueriu lijkneske. ij kluckur. onnur lest og ur kolfurinn. kistutetur loklaust og lectari.[3])

Jtem fylgia þesser holmar Berufirdi til eignar. Hroalldzholmur. kidaholmur. Rijsey. Gripn€y[4]). melholmar ij. þeistholmur. kietilholmur. kiellingarholmur. kiellingarskier, hafnarey. Meinvijk med holmi. Lýngholmi. langanesholmi. hædarsteirn. seglsteinsflesiar.

Jtem á Berufiordur alla strond sudur ad nausttott þeirri. er stendur fyrir hiedan backa fyrir hiedan bulandzá. sionhending upp j skardid þad sem efst er j fiallinu gegntt nausttottinni.

Jtem A Berufiordur allañ reka j þessu takmarki huad sem á land ber. og fiemætt er.

Jtem A Berufiordur allañ fossárdal fyrir sunnan og nordan uppá fiallid. þar sem hallar votnum sudur og upp ad þíjngmanna vpz[5]) ut ad tunglá.

1) [með hendi Odds biskups í *b*. 2) Gillissonar *b*. 3) Hér hefst *c*. 4) Gripnaey *b*. gripaey *c*. 5) upj *b*; fyrir þessu orði er eyða í *c*.

A berufiordur uppá[1]) Avxi ad beinsvordu.

Jtem á berufiordur landzmerki ut fra gardi. ut ad læk þeim er fellur fyrir hiedan borg þa er stendur j kiellduskogarmerki.

---

***10. 4. Oktober 1378. á Sólheimum.**

Einar Oddsson selr Bessa Sighvatssyni jörðina Auðólfsstaði í Langadal med tilgreindum ítökum og ummerkjum fyrir Sólheima í Sæmundarhlíð með tilteknum landamerkjum.

Eptir frumritinu á kálfskinni, fundnu vorið 1904 í dómskjölum Landsyfirdómsins (Auðólfsstaðamál 1809), og er það nú geymt í Landsskjalasafninu. Þar með fylgir og stafrétt afskript með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna gerð 1732: „Framan- og ofanskrifad er riett utskrift af gömlu originalbrefe á pergament. sem synest. ad hafe vered fyrer sex Jnnsigle. Enn er epter eitt. og tveir þveinger Jnnsiglalauser. brefed siálft allt vel læselegt. Þessu til vitnis eru ockar nöfn ad Reineness stadar Claustre. þann. 13. Octobris Anno 1732.

Jőn Magnusson. Jőn Jőnsson.“

Neðar á þessa afskript er ritað: „Framlagdt fyrir Areidar Rétt ad Sydri Mjóadal þann 13. Aug. 1808. markaz No 1 ad Litr. G.

vitnar S(igurdur) Snorrason“.

Ennfremur fylgir frumritinu frumritað transskript á pappír með hendi síra Gísla Brynjólfssonar frá 1637, ásamt afskript frá hér um bil 1707 af þessu transskripti. Þar stendr að fyrirsögn „Vtskript aff audolfstada Brieffe“. en að lyktum: „Medkenum vier Epterskrifader menn sıjra Gıjsli Brynjulfsson. Jon Jonsson og Benedict Biornnsson ad vier hofum sied og yfirlesid suo latandi brief med tueimur hangandi Jnsiglum ord fyrir ord sem hier fyrir framan skrifad stendur. j Bolstadarhlıjd 15 dag Junij anno 1637.

Gıjsle Brÿniulfsson E. h.

Benidict Biornnsson med Eigin hendi.

Jon Jonsson med Eigiñ hendi“.

Á þetta transskriptarbréf er ritað: „Þetta framann og ofann skrifad auglyst og vpplesid ad bölstadarhlijdar lögsettu manntalzþıjnge og þess originall syndur og auglystur a kalfskinn skrifadur med hang-

---

1) upp ad c.

andi tueimur oskiertum hangandi (!) Jnnsiglum d. 4. maij Anno 1707. til merkes vndirskrifud nöfn sama stad ar og dag sem hier greiner.

Thorualldur Olafsson med Egh. — Jon Eyriksson med Egh.
Einar Einarsson. — Sigurdur Einarsson.
Biarne Conradzson. m. e. h. — Sueirn Gudnason Egh.
Eirijkur hromundsson m. e. h.

Upplesed a Bolstadahlidar Manntalsþinge d. 5. Maij 1729 Testor Biarne Halldorsson."

Frumrit bréfs þessa er nú orðið nokkuð skemt, og það, sem nú er fallið úr af orðum og stöfum, er hér tekið þegjandi eptir afskript Jóns Magnússonar. Bréf þetta er áðr prentað í III. bindi Fornbréfasafnsins Nr. 276 eptir afskript af transskripti síra Gísla Brynjólfssonar.

um audulfsstada landamerke[1]).

Jn nomine domini amen.

var þetta kaup þeirra bersa siguatzsonar af annari halfu ok einars oddzsonar af annari. lagdiz under handaband þetta at einar selldi adruefndum bersa iordina æ audolfstodum i langadal med ollum þeim gognum ok hlunnendum sem io(r)dunne átti at fylgia at fornu ok nyo ok einar vard fremiz at eigandi tilgreindri hrossa beitt bonda i karastada iǫrdu fra uetrnottum til sumars ok torfskurd suo mikinn sem vill bőndi skera lata i karastada iȯrdu hafa huartueggia arliga ef uill. selldi ok einar jȯrdina æ audolfsstǫdum med þessum ummerkium vid gunusteinsstadi hlodugil ok or þuí rettsýni upp i trȯllaskard. ofan or gilinu i lækiar osinn vid sikit ok rædr karlastada sik ut þadan. eiga audolfsstadir likholm ok vargey i blǫndv. millum æsustada rettsýni fram or gilinu i blȯn̄dv. or melshorninu i sionarhol rædr háfa ȯxl upp þadan vid miofadal uppi auxlina suo sem ser kirkiuna ok mann a gautauirki. vid gautzdal smiorskalargil ok þadan rettsyni upp a fiall. a eingiuuum uppi fyrir framan in forni arfaruegrinn upp i sikit ok or sikinu ifer i melinn. sagdi einar til halfkirkiu skylldar a iǫrdu. luka ut presti ij.

1) Utan á frumbréfinu með hendi frá 18. öld.

merkr. tekr bondi heima kirkiu tiund sina ok sinna heimamanna ok lysistolla. skilldi einar af ser fyrnd ok abyrgd æ kirkiu ok ǫllum hennar ornamentis er hun a i ser. her i mot gaf fyrr nefndr bersi iörd a solheimum i sæmundarhlid med öllum þeim gögnum ok hlunnindum sem iördunni átti at fylgia at fornu ok nyiu ok bersi vard fremzt eigandi at med þessum ummerkium. millum bersastada rædr gardr nedan or æ upp i bessastadagil. vid dæli gardr nedan or æ ok upp i fiall. tueggia manada beit i elevaga iord. teigr fyrir framan hollt hia holmansvadli. hefer honum sagt uerit at þufa ok pollr radi fyrir nordan en kelldusog fyrir sunnan. skilr bersi af ser alla abyrgd um teig ok beit þott af segiz iordu i solheimum. sagdi bersi þessa skylld æ iordu i solheimum syngia huern dag helgan ok luka ut presti kaup. iiij. merkr. prestfylgd epter þui sem ꝺ᷑ taka heima tiund sina ok liostolla skilr bersi af ser alla fyrnd ok abyrgd a kirkiu vtan kirkiu ok innan ok ǫllum hennar ornamentis. her i milli gaf fyr nefndr bersi milli iardanna einari tiu kugilldi med þessum fridleika. iij. kyr tuö asaudar kugilldi. xx. saudi uetrgamla. tuǫ nöt tueuetr .iij. nöt uetrgömul. vxi .iiij. uetra gamal edr kyr. tuǫ hundrut i slatrum. ok hest. luka ut a næstum fardögum. vij. kugilldi. en standa med xij alna bata þǫ þriu sem epter ero þat iij. nöt uetrgömul ok .x. sauder uetrgamlir ok vxinn. skal huar abyrgiaz lagariftingar æ þeirri iordv er selldi en þeir halldi til laga. samþykti ingibiorg husfrv bersa þetta kaup med hañdabandi. samþykti þorny bersadotter kona einars þetta kaup adr med hañdabañdi epter þui sem þar um giort bref vattar. voru þessir kaupuattar sira andress finnbiarnarson. marteinn berssason. prestar. bryniolfr biarnarson. hiallti bergsson. eilifr biarnarson. thumi þordarson ok marger adrer dugandi menn. Ok til sanninda her vm settum ver fyrr nefnder menn var innsigli fyrir þetta bref er gert var i solheimum i sæmundarhlid in festo francisci abbatis. sub anno gracie millessimo ccc⁰ lxx⁰. viij⁰.

---

11. 20. Marts 1391. | 2. Janúar 1393. } á Økrum.

Sumarliði Þorsteinsson selr Benedikt Brynjólfssyni jörðina Sauðá í Skagafirði, með tilteknum rekamörkum millum og Sjáarborgar, fyrir Egilsá og Ánastaði og lausafé að auki.

Landsbókasafn 226. Fol. bls. 127—128 með hendi Jóns háyfirdómara Pétrssonar c. 1854 „eptir transskriptarbréfi rituðu af Gísla Konráðssyni, en bréfin sjálf á nú Sigurðr prestr Arnórsson á Mælifelli, sem nú á jörðina Sjávarborg, er kona hans Elínborg fékk í arf eptir foreldri sín, Pétr prófast Pétrsson á Víðivöllum og Þóru Brynjólfsdóttur“. Transskriptarbréf þetta er frá 31. Okt. 1475.

Øllum mønnum þeim sem þetta bréf sia edr heyra. senda Einar prestr Ólafsson. Hrafn Jónsson. Þorsteinn Bjarnarson. Jón Þorsteinsson. Vigfús Arason. Grímur Jónsson og Þorfinnur Einarsson. kvediu guds og sina kunnigt giðrandi. ad þá er lidid var frá hingadburd Christi þúshundrud þriú hundrud nijutyger og eitt ár á sydrum Økrum i Blønduhlíd manadagh næsta eptir paschaviku vorum vér i hiá. sáum og heyrdum á. ad Sumarlidi Þorsteinsson seldi Benidikt Briniúlfssyni med handabandi til fullrar eignar ȷ́ǫrd alla Saudá i Skagafirdi med ǫllum þeim gǫgnum og giædum. rekum og hlunnindum sem nefndr Sumarlidi og Þorsteinn fadir hans hǫfdu átt og fremst ordid eigendur ad. og greind ȷǫrd hafdi átt ad fornu og nýu til rettra ummerkia vid adrar ȷardir. Sagdi Sumarlidi Borg eiga reka stærra vidar og hvala. ad undanteknum smareka. jǫrdu og landgǫgnum frá þeim vǫrdum fornum. er standa nokkud svo fyrir sunnan Saudárós og austur ad Borgarmarki. en þar á móti ætti Saudá Borgarey. reiknadi hann halfkirkiu skylld og þingstad á ȷǫrdunni. Skildi Sumarlidi af sér alla kirkjufyrnd og af hennar ornamentis. Hér i móti gaf Benidikt optnefndum Sumarlida ȷardir Ei(g)ilsá og Anastadi. þvilikar sem þær voru þá ad húsum og ódrum hlutum til ummerkia þeirra. sem adrar jardir ætti þar i mót. og med þvilikum itǫlum. sem þær ætti i adrar ȷardir edur adrar ȷardir i þær. þar med halfan þridia tug kugillda. þridiungafé. lukast xc á fyrra ári. en fimtan á sıȷdara. Skyldu hvorir hallda lǫgsvørum

fyrir sinu kaupi. en abirgiast allar lagariptingar hvorir vid annan á sögdum jordum. Og til sanninda hér um settum vær fyrrnefndir menn vor innsigli fyrir þetta bréf er giört var ad sydrum Økrum i Blönduhlid nijunda dag jóla. anno domini m⁰ ccc⁰ lxxxx⁰ iij⁰.

---

***12. 31. December 1393. Í Hítardal.**

Kaupbréf þeirra sira Hallsteins Jónssonar og Snorra Brandssonar, að Snorri selr sira Hallsteini jörðina Hrafnabjörg í Hörðadal með tilgreindum landamerkjum og alla jörð að Laugum fyrir sextigi og sex hundraða í lausafé.

Eptir afskript staðfestri 18. Júní 1779 á Blönduhlíðarþingi af sira Benedikt Hannessyni og Magnúsi sýslumanni Ketilssyni, og er afskript þessi komin $^{15}/_{12}$ 1903 frá Hirti Sigurðssyni bónda á Hrafnabjörgum, og er gerð eptir transskripti á skinni frá 30. Maí 1599. — Bréf þetta er áðr prentað í Fornbréfasafni III, Nr. 406 eptir Tímariti Jóns Pétrssonar (III, 102—103), því að þá fanst eingin afskript af því. Nú er það prentað hér eptir þessari afskript, sem nú er frumrit vort að bréfinu.

Jn Nomine Dominj Amen.

Var þetta kaup þeirra Sijra Hallsteins Jonssonar af annari halfu. enn Snorra Brandssonar af annare ad adrnefndr Snorri selr honum land allt ad Hrafnabiorgum i hordudal med ollum þeim gognum oc giædum sem fylgt hefr ad fornu oc nyu oc hann vard fremst eigande ad til vmmerkia þeirra sem adrer menn eigu til mots vid þad land allt ofan ad markgrof oc hana halfua oc upp ad kornamuulagili. Sambeit a hals til motz vid middalamenn. Enn land so sem vatnsfoll deila. Laugadal allañ badum meigiñ upp i Botn og ofan til motz vid lauga fyrir nordan ofañ ad Einhomrum. Allt holfiall ofan ad skialldargili og upp til motz vid Lauga. Miouadal allañ so sem vatsffoll deila vr Tiornine midre til motz vid hitdæla badum meigin ofan i sõpandaskard. Tuttugu gelldfiar kugillda beit i langa vatnzdal. Hrijshogg til stecka a vor j Dunkurskog og trodhrijs

til hwsa oc Ellda under mat a haust sem þarf. Bænhus a skog allañ i Palshollte. Hier med selr hann honum Lauga Jord alla med sijnum vmmerkium. Hrafnabiorg eigu Torfskurd i kollugrof i holsland. Hier i mot gefur Sıjra hallsteinn sextiu hundrada oc sex hundrud med þessum frıjdleika. halfan þridia tug kugillda. þrettan asaudar kugillde og Tolf kyr. fimtan haustlags hundrud halft i saudfie enn halft atta hundrad i nautfie. Tiu hundrud vadmala. halft vara. enn halft hvitar hafnarvoder. þrettan hundrud i gripum. þriu hundrud i hrossum. lukist ut a tveimur arum enn eigi sokn a þridia. lukist vt a fyrra ari atta asaudar kugillde og v kyr. Tiu hundrud vadmala. siau haustlags hundrut. þrettan hundrut i gripum. þriu hundrut J hrossum. a ødru åri þad sem epter stendr. Skillde Snorri sier so micid fe aptur i Jarder sinar sem honum brysti [J uerdinu[1]). Tolf alna leiga skylldi epter huert hundrad þad er eigi lykist a fyrsta ari sem i landi liggi. halft fridt enn halft ofridt. Skylldi Snorri alla Jordina ad hrafnabiorgum oc bænhusit i abyrgd Sıjra hallsteins vpp fra næstum fardogum. Skyllde Snorre abyrgiast allar lagarıjptingar a greindum Jordum. enn Sıjra Hallsteinn hallda til laga. Skildi og optnefndr Snorre ad Sıjra Hallsteinn skylldi kaupa ad honum Geitastecka ad odrum fardogum ef hann villde selia. fyrir sextan hundrut. vj. kugillde. x[c] i haustlagi oc vadmalum. Enn Snorre skylldi selia ødrum fyrir næstu fardaga ef hann villdi og skylldi Hallsteinn luka þad vt a þridia åri enn eigi sokn a fiorda.

For þetta kaup fram̄ i hijtardal pridie kalendas Januarii Anno Domini M. ccc. xc. iij.

Voru þesser vottar vid Sıjra hrafnsvartr Skeggiason. Eyolfr Snorason. albeidur flosadotter. Gestur Jonsson. Snore Þorarinsson og marger adrer goder menn.

Og til sanninda hier vm settum vier fyrnefnder menn vor Jnnsigli fyrir þetta Bref med optnefndra manna Jnnsiglum Sıjra Hallsteins oc Snorra. Giort i stad deigi oc åri sem fyr seger.

---

1) [J iardinu, afskr., sem án efa er mislestr gamall fyrir: J uerdinu.

[Þá kemr í transscripto Blönduhlíðardómr um þetta kaup frá 16. Júní 1509].

Þad medkennunst vær epterskrifader menn sijra Magnus Svartsson. Sigurdr Þorsteinsson. Skwli Jonsson og Magnus Þorleifsson ad vier hofum sied oc yferlesit so latandi kaupbref ord epter ord fyrir hrafnabiorgum sem hier fyrir ofan skrifat stendr eigi skafit edur mad i nockru. So og hofum vier sied og lesid so hliodandi dom þar vid festañ vppa sama Bref ord epter ord med heilum hangandi Jnnsiglum og hreina skript eij skafit edur mad j nockru. so sem hier oc eirnin fyrir ofan skrifadr er. Og til sanninda hier vm setium vær vor Jnnsigli fyrir þetta Transkriptar Bref huert skrifad var a hrafnabiorgum i hordudal þann xxx dag mai manadar anno ꝏ. d. xc. og ix.

Under þvi Pergamentesbrefe sem þetta er epter skrifad voru 3 hangande Jnnsigle nefnel. Sira Magnusar Svartssonar. Skula Jonssonar og Magnusar Þorleifssonar, enn eitt var í burtu nefnel. Sigurdar Þorsteinssonar. utan a Pergaments brefinu var þetta skrifad:

Anno 1664. þann 1. Julii i Lögrettu á Øxarárþinge var þetta bréf upplesed í Lögrettu Lögmönnum og Lögrettumönnum áheyrande.

Sigurdur Jonsson — Thorleifur Kortson
€. h. — €. h.

Paall Gislason
m. €. h.

Þetta Pappirsbref var fyrer Rette ad Blönduhlid d. 18. Maii 1779 samanlesed vid áđurnefnt Pergamentisbref og samhlioda i allañ máta funded. testor die et loco ut ante

Benedict Hannesson — M. Ketilsson
(L. S.) — (L. S.)

---

## 13. 14. Maí 1406. í Rómaborg.

Innocencius páfi hinn VI., sem í lifanda lífi Vilchins biskups i Skálholti hafði áskilið sér að veita þann biskupsstól að honum látnum, skipar Jón ábóta í Munklífi biskup í Skálholti og ritar með honum klerkum og öllum lýð í Skálholtsbiskupsdæmi, svo og erkibiskupinum í Niðarósi.

Diplomat. Norveg. XVII, Nr. 336 (eptir bréfabókum á páfagarði).

a. Innocentius etc. dilecto filio Johanni electo Schalotensi salutem etc. Diuina disponente clemencia cuius inscrutabili prouidencia ordinacionem suscipiunt vniuersa (!) in apostolice sedis specula licet immerite constituti ad vniuersas orbis ecclesias aciem nostre consideracionis extendimus et pro earum statu salubriter dirigendo apostolici fauoris auxilium adhibemus sed de illis propensius cogitare nos conuenit quas propriis carere pastoribus intuemus ut eis iuxta cor nostrum pastores preficiantur ydonei qui commissos sibi populos per suam circumspectionem prouidam salubriter dirigant et informant ac bona ipsorum non solum gubernent utiliter sed eciam multimodis efferant incrementis. Dudum siquidem bone memorie Wilkino episcopo Schalocensi ecclesie presidente Nos cupientes ipsi ecclesie cum vacaret per dicte sedis prouidenciam utilem et ydoneam presidere personam prouisionem eiusdem ecclesie ordinacioni et disposicioni nostre duximus ea uice specialiter reseruandam decernentes extunc irritum et inane si secus super hijs per quoscunque quauis auctoritate scienter uel ignoranter contigerit attemptari. Postmodum uero dicta ecclesia per obitum ipsius Wilkini episcopi qui extra Romanam curiam diem clausit extremum uacante nos uacacione huiusmodi fidedignis relatibus intellecta ad prouisionem ipsius ecclesie celerem et felicem de qua nullus preter nos hac uice se intromittere potuit siue potest reseruacione et decreto obsistentibus supradictis ne dicta ecclesia longe uacacionis exponeretur incommodis paternis et solicitis studijsinten dentes post deliberacionem quam de preficiendo eidem ecclesie personam vtilem et eciam fructuosam cum fratribus nostris habuimus diligentem demum ad te abbatem monasterii in Munkliue ordinis sancti Benedicti Bergensis diocesis religionis zelo conspicuum litterarum sciencia preditum uite ac morum honestate decorum in spiritualibus prouidum et in temporalibus circumspectum alijsque multiplicium uirtutum donis prout ex fidedignorum testimonijs percepimus insignitum direximus oculos nostre mentis quibus omnibus attenta meditacione pensatis de persona tua nobis et eisdem fratribus ob dictorum tuorum exigen-

ciam meritorum accepta eidem ecclesie de dictorum fratrum consilio auctoritate apostolica prouidemus teque illi preficimus in episcopum et pastorem curam et administracionem ipsius ecclesie tibi in spiritualibus et temporalibus plenarie committendo, In illo qui dat gracias et largitur premia confidentes quod dirigente domino actus tuos prefata ecclesia per tue industrie et circumspeccionis studium fructuosum regetur utiliter et prospere dirigetur ac grata in eisdem spiritualibus et temporalibus suscipiet incrementa. Jugum igitur Domini tuis impositum humeris promta deuocione suscipiens curam et administracionem predictas sic exercere studeas fideliter et prudenter quod ipsa ecclesia gubernatori prouido et administratori fructuoso gaudeat se commissam tuque preter eterne retribucionis premium nostram et sedis predicte benediccionem et graciam exinde uberius consequi merearis. Datum Rome apud sanctum Petrum secundo jdus Maij anno secundo.

b. Dilectis filijs Clero ciuitatis et diocesis Schalotensis salutem etc. Diuina disponente etc. Quocirca — obseruari. Datum ut supra.

c. Dilectis filijs populo ciuitatis et diocesis Schalotensis salutem etc. Diuina disponente etc. Quocirca — gaudeatis. Datum ut supra.

d. Venerabili fratri arciepiscopo Nidrosiensi salutem etc. Ad cumulum — promereri. Datum ut supra.

xx. x. x. x. A. Aldimarius.

---

**14*. 15. December 1411. í Vallholti.**

Hjálmr bóndi Marteinsson og Astríðr kona hans Jörundardóttir selja Pétri Ormssyni jörðina Syðra-Vatn í Tungusveit, tilgreina landamerki og kvitta Pétr fyrir andvirði jarðarinnar.

Eptir frumriti á skinni komnu inn í Landsbókasafnið úr dánarbúi Jóns háyfirdómara Pétrssonar. Fyrir því hafa verið 4 innsigli,

sem nú eru öll dottin frá. Bréf þetta er áðr prentað í v. bindi safns þessa sem Nr. 4 eptir afskript frá 1704, eigi stafréttri.

bref vm vatn ed sydra i tungusveit.[1])

Ollvm monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda arne gudbiarzson. biarne gvnnarsson. þordr oddz(son) kvediv gudz ok sina kvnnight gerande at þa er lidit var fra hegatbvrd vórrz herra ihesv christi þvshvndrat. cccc ok ellefv áar þridia dag hinn næsta efter magnvsmesso æ iolafôstv j sydra vallhollte vorum ver j hia sæm ok heyrdvm æ handaband hialms bonda marteinssonar ok astridar jôrvndardottur hvsfreyiv hanz af einni halfv en af annarre peturs ormssonar at nefndir menn hialmur ok astrid kendvz at þar hefdi sellt greindvm petri til fvllrar eignar iord sydra vatn i tvngvsveit med ôllvm þeim gôgnvm ok gædvm sem greindri iordv hefer fylgt ok þar vvrdv fremz eigande at til þeirra vmmerkia sem adrer menn attv þar j mot. sagdv þar at gardstadr riedi firir svnnan ok or honum riettsyne vpp æ fiall ok ofan i marklæk þann sem gengr vtan efter myrinni mille skidastada iardar en firir vtan mille vatz iardar riedi lækur vpp a fiall rietsyne firir vtan þioknappa. reiknôdv þar tveggia attfedminga torfskvrd fra ytra vatne ok eigi torfstôdv lengra en bera heim or hrakvm ok spilla hvorke tôdvm ne eingivm j vmferd. hier med kendvz oft nefndir menn hialmur ok astrid at þar hefdi svo marga peninga tekit firir iordina sem þeim vel ænægde af petre ok þi gerdv þar hann ôllvngis kvittan ok lidvgan af sôgdv iardar verdi. Ok til sannynda hier vm sette þratt nefndr hialmur sit inncigle med værvm inncigivm firir þetta bref gert j sôgdvm stad degi ok ære sem fyrr seger.

---

**15.** **22. December 1411.** **í Rómaborg.**

Jóhannes páfi XXIII. skipar Jón förumunk biskup að Hólum í Hjaltadal, því að Pétr biskup er dáinn.

---

1) Utan á frumritinu með fornri hendi.

Dipl. Norveg. XVII, Nr. 366 (eptir bréfabókum á páfagarði).

Johannes etc. dilecto filio Johanni electo Hollensi salutem etc. Suscepti cura regiminis cor nostrum continua pulsat instancia ut solicitudinis debitum ad quos uniuersis orbis ecclesiis nos apostolice seruitutis necessitas obligat earum singulis prout nobis ex alto conceditur exoluamus in eo potissime ut ipsarum regimina que suis sunt destitute pastoribus personis talibus committantur per quarum solerciam circumspectam et solertem circumspeccionem ecclesie ipse in spiritualibus et temporalibus ualeant adaugeri. Dudum siquidem bone memorie Petro regimini Hollensis ecclesie presidente Nos cupientes eidem ecclesie cum eam vacare contingeret per operacionis nostre ministerium utilem et ydoneum presidere personam prouisionem ipsius ecclesie ordinacioni et disposicioni nostre ea uice duximus specialiter reseruandam decernendo extunc irritum et inane si secus super hijs per quoscumque quauis auctoritate scienter uel ignoranter contingeret attemptari. Postmodum uero prefata ecclesia per obitum eiusdem Petri episcopi qui extra Romanam curiam diem clausit extremum pastoris solacio destituta Nos uacacione huiusmodi fidedignis relatibus intellecta ad prouisionem eiusdem ecclesie celerem et felicem de qua nullus preter nos hac uice se intromittere potuit neque potest reseruacione et decreto obsistentibus supradictis ne ecclesia ipsa longe uacacionis exponeretur incommodis paternis et solicitis studiis intendentes post deliberacionem quam de preficiendo eidem ecclesie personam utilem et eciam fructuosam cum fratribus nostris habuimus diligentem demum at te ordinis predicatorum professum cui de religionis zelo uite mundicia honestate morum spiritualium prouidencia et temporalium circumspeccione alijsque multiplicium uirtutum donis apud nos fidedigna testimonia perhibentur duximus oculos nostre mentis quibus omnibus debita meditacione pensatis de persona tua nobis et fratribus nostris ob dictorum tuorum exigenciam meritorum accepta ipsi Hollensi ecclesie siue premisso aut alio quouis modo uel ex alterius cuiuscumque persona uacet de eorumdem fratrum consilio auctoritate apo-

stolica prouidemus teque illi preficimus in episcopum et pastorem curam et administracionem ipsius ecclesie tibi in spiritualibus et temporalibus plenarie committendo, in illo qui dat gracias et largitur premia confidentes quod eadem ecclesia pro tuę circumspectionis industriam et prouidenciam circumspectam sub tuo felici regimine dextera domini tibi assistente propicia salubriter et prospere dirigetur ac grata in eisdem spiritualibus et temporalibus suscipiet incrementa. Volumus autem quod quamprimum presentes litteras habueris expeditas ad dictam ecclesiam te transferas et resideas personaliter in eadem quodque extra ciuitatem et diocesim Hollensem pontificalia officia nequeas exercere. Jugum igitur domini tuis impositum humeris promta deuocione suscipiens curam et administracionem predictas sic exercere studeas soliciter fideliter et prudenter quod ecclesia ipsa gubernatori prouido et fructuoso administratori gaudeat se commissam tuque preter eterne retribucionis premium beneuolencie nostre graciam exinde uberius consequi merearis. Datum Rome apud sanctum Petrum decimo kal. Januarij anno secundo.

De mandato
Stephanus de Prato.

---

**16. 24. Júlí 1413. í San Antonio.**

Jóhannes páfi XXIII. hefir feingið að vita, að Jón biskup í Skálholti væri líkþrár og gæti ekki aðstaðið biskupsstörfin; biðr hann því (Jóhannes) biskup í Lybiku að rannsaka, hvort Árni (Ólafsson), kanoki af Augustínusreglu, um þrítugt, muni hæfr til að stjórna Skálholtskirkju -- en hún er á úthafsey á úthjara heims að sagt er — og ef svo reynist, að hann þá skipi Árna aðstoðarmann og umboðsmann Jóns biskups.

Dipl. Norveg. XVII, Nr. 368 (eptir bréfabókum á páfagarði). Sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 626.

Johannes etc. venerabili fratri episcopo Lubicensi salutem etc. Summi disposicione rectoris ad regimen vniuersalis ecclesie reputati curis assiduis angimur et assidua medita-

cione pulsamur ut opem et operam quantum nobis ex alto conceditur impendamus ne orbis ecclesie quarum pastores importabilibus morbis tacti earum onera et regimina exercere non ualent in spiritualibus ledantur et in temporabilibus recipiant detrimenta. Accepimus siquidem quod venerabilis frater noster Johannes episcopus Scalotensis adeo sit lepre et alijs grauibus et incurabilibus infirmitatibus grauatus et percussus quod ex ipsius corpore tam in manibus quam etiam pedibus diuerse carnis petre (!) ex huiusmodi infirmitate putrefacte unacum ossibus ceciderunt propter que ad regimen in spiritualibus et temporalibus ecclesie Scalotensis cui preesse dinoscitur inhabilis et impotens est effectus. Nos igitur ne dicta ecclesia in jnsula maris in finibus mundi ut dicitur constituta in eisdem spiritualibus ledatur et temporalibus detrimenta sustineat intendentes prout nobis ab alto commisso incumbit officio quantum salubriter possumus prouidere, ac considerantes quod dilectus filius Arnerus Olaui canonicus regularis beati Augustini qui ut asseritur in presbyteratus ordine et tricesimo quinto uel circiter sue etatis anno constitutus existit cui apud nos de religionis zelo litterarum sciencia uite mundicia morum honestate spiritualium prouidencia et temporalium circumspeccione alijsque probitatis et uirtutum meritis fidedigna testimonia perhibentur eidem episcopo in regimine dicte ecclesie Scalotensis in eisdem spiritualibus et temporalibus administrator et coadiutor esse poterit multipliciter fructuosus et de premissis certam noticiam non habentes, fraternitati tue per apostolica scripta mandamus qnatenus si est ita et dictus Arnerus ad hoc ydoneus existat super quo tuam conscienciam oneramus prefatum Arnerum administratorem ipsius ecclesie in spiritualibus et temporalibus constituas et eidem Johanni episcopo quoad uixerit et dicte ecclesie Scolatensi prefuerit coadiutorem in eisdem spiritualibus et temporalibus auctoritate apostolica deputes constituas et ordines, ita quod liceat dicto Arnero quamdiu eiusdem ecclesie administrator et eidem Johanni episcopo coadiutor fuerit ut prefertur dictam ecclesiam Scalotensem per se uel alium seu alios in eisdem spiritualibus

et temporalibus regere et eciam gubernare fructusque redditus et prouentus iura obuentiones et emolumenta ad mensam episcopalem Scalotensem spectantia recipere et de receptis quitare ac huiusmodi fructus redditus et prouentus iura obuentiones et emolumenta in Johannis episcopi et mense ac ecclesie predictorum et etiam sui ipsius usus conuertere ceteraque facere exercere libere et licite que ad administratoris et coadiutori sofficium spectant et pertinent quoquo modo, alienatione tamen bonorum immobilium et pretiosorum mobilium mense et ecclesie predictorum eidem Arnero penitus interdicta, faciens per te uel alium siue alios dictum Arnerum ad huiusmodi administratoris et coadiutoris officium ut est moris admitti, sibique ab eis ad quos spectat obediri et de huiusmodi fructibus redditibus prouentibus iuribus et obuentionibus et emolumentis vniuersis officio durante predicto integre responderi. Contradictores per censuram etc. Non obstantibus constitutionibus apostolicis ceterisque contrariis quibuscumque. Nos enim exnunc irritum decernimus et inane si secus super hiis a quocumque quauis auctoritate scienter uel ignoranter contigerit attemptari. Datum apud sanctum Antonium extra muros Florentinos nono kal. Augusti anno quarto.

de mandato.
Stephanus de Prato.

---

**17. 6. Febrúar 1414. Í Bologna.**

Jóhannes páfi XXIII. leyfir Jóni biskupi (Heinrekssyni) á Hólum að fremja biskupsverk í öðrum biskupsdæmum, þó með því móti, að þeir biskupar leyfi það, er hlut eiga að máli.

Dipl. Norveg. XVII, Nr. 370 (eptir bréfabókum á páfagarði).

Johannes etc. venerabili fratri Johanni episcopo Hollensi salutem etc. Personam tuam nobis et apostolice sedi deuotam tuis exigentibus meritis paterna beniuolencia prosequentes uotis tuis quantum cum deo possumus fauorabiter

annuimus in hijs presertim que status tui decenciam respicere dinoscuntur. Nuper siquidem ecclesie Hollensis tunc uacanti de persona tua auctoritate apostolica prouidimus et voluimus quod pontificalia officia preterquam in ecclesia ciuitate et diocesi Hollensi minime exercere ualeres prout in nostris inde confectis litteris plenius continetur. Nos igitur huiusmodi tue deuocionis exigentibns meritis uolentes tuam honorare personam tuis in hac parte supplicacionibus inclinati fraternitati tue ut huiusmodi pontificalia officia in quacunque alia ecclesia ciuitate diocesi ac prouincia de licencia tamen diocesani loci ac absque eius preiudicio ubi te huiusmodi pontificalia exercere contigerit nostra ac alijs constitucionibus apostolicis ac statutis non obstantibus quibuscumque libere exercere possis auctoritate apostolica tenore presencium indulgemus. Nulli ergo etc. nostre concessionis infringere etc. Si quis etc. Datum Bononie ottauo jdus Februarij anno quarto. de mandato

Stephanus de Prato.

---

**18.** **25. Maí 1425.** **[í Róm].**

Martinus páfi hinn v. skipar (Jón) munk af smábræðrareglu biskup á Hólum, því að bróðir Jón biskup (Heinreksson) á Hólum er dáinn.

Dipl. Norveg. XVII, Nr. 432. (eptir bréfabókum á páfagarði). Dagsett ranglega 25. April í Dipl. Norv.

Eadem die [Veneris viij kal. Junii dominus noster prouidit] ecclesie Olorensi in Noregia uacanti per mortem fratris Johannis de persona fratris . . . ordinis minorum.

---

**19.** **6. Marts 1426.** **í Róm.**

Martinus páfi hinn v. skipar Jón (Gerreksson), sem áðr hafði verið erkibiskup í Uppsölum, biskup að Skálholti; hafi hann bætt lifnað sinn, biskupsdæmi þetta sé langt í burtu og þar ekki yfir miklu gózi að ráða, fólkið þar svo sem óþjóð, og sjálfr hafi hann ekki annað á að lifa nú en það, sem vinir hans láti honum í té.

Dipl. Norveg. XVII, Nr. 445 (eptir skjalasafni á páfagarði).

Eadem die [Mercurij pridie Non. Martij dominus noster prouidit] ecclesie Schallocensi uacanti per obitum Arnerij vltimi episcopi de persona Johannis olim Vpsalensis archiepiscopi et restituti ad executionem pontificalis officij et ordinis non obstante quod auctoritate apostolica a dicta ecclesia Vpsalensi dudum fuerat depositus et illa priuatus atque pontificalis officij et ordinis exercitium sibi fuerat interdictum. Cum Dominus noster fuerit sufficienter informatus quod idem Johannes depositionem et priuationem atque interdictum prefata patienter sustinuit vitamque et mores bene et iuste uiuendo correxit et emendauit etiam quia dicta ecclesia exigua est et in partibus remotis inter gentes quasi barbaras modicamque habeat administrationem et vt ex illa valeat de vite necessitatibus sustentari cum nihil sibi penitus remanserit ad vite sustentacionem nisi suffragia amicorum et uult Dominus Noster quod hec ponantur in littera.

---

**20. 19. Apríl 1426. í Róm.**

Bróðir Jón, sem kosinn er biskup á Hólum, lofar að lúka aðalembættisgjald sitt, 240 flórínur, til fjárhirðslu páfa og kardinala samkundunnar og fimm greiðslur aðrar minni.

Dipl. Norv. XVII, Nr. 446 (eptir skjalasafni á páfagarði).

Eadem die [Veneris decima nona Aprilis anno mccccxxvj°] dominus frater Johannes electus Olensis principalis obtulit camere apostolice et collegio reuerendissimorum dominorum cardinalium pro suo communi seruicio debito racione prouisionis de dicta ecclesia sibi facte ducentos quadraginta florenos auri de camera et quinque minuta seruicia consueta pro familiaribus et officialibus d. n. pape et dicti collegii. Eorumdem autem communis et minutorum seruiciorum medietatem infra octo menses extunc immediate sequentes soluere promisit submisit renunciauit jurauit et se obligauit ut in

de kopman gude endracht holde jo bj namen de xviij man so bljft de kopman wol de kopman men schut dat nycht so is jw djnk vte so wj njcht en hapen twjffelt dar nycht an wat wj dem kopman to gude don solt[1]) kant sol gj vns gud wjlljch fynden konde gj jt passen dat gj hyr so fele geldes schjkken machten dat men al djnk vt lossede wer wol geraden dar gj wol vp denken wjlt. Ammelunk is an god for starffen god gnade der selen dar ok den nock so fele bj js vt to lossende wj werden jw in kort mer bescheden schrjffende wjl god de jw sund spare.

j koppige de der kopman schref wart anno xv^c ij jnt Hamborch schip in de fasten.

---

77. [30. Júní 1502]. á Alþingi.

Alþingisdómr um mál Þorleifs Björnssonar og Þórðar Jónssonar; hafði fyrri stefna Þorleifs til Þórðar verið dæmd ónýt, og stefndi hann þá Þórði á nýja leik með öðrum stefnusökum.

Bókasafn háskólans í Uppsölum í Svíþjóð ísl. handrit R. 714. 4to C. bl. 22a skr. c. 1650. Annaðhvort er, að ártal þessa bréfs (1482) er marklaust og að Þorleifr sá Björnsson, sem hér er nefndr, er ekki Þorleifr hirðstjóri, eða þá, að nöfn lögmannanna eru ranglega sett hér; þó mun það síðr vera, og mun því dómrinn vera frá árunum 1499–1508. Rétt ártal gæti verið 30. Júní 1502. Annars er hætt við, að dómságrip þetta kunni að vera afbakað um fleira enn þetta eitt.

Domur Alþıngiz vm Breittar stefnu Saker.

Anno 1482 a almenniligu Oxararþınge fimtudagin næstañ eptir Petursmesso og Påls war so alicktad af Heidarligum Herrum Þorvarde Erlendssyne[2]) logmanni sunnan og austan a Jslande og Finnboga Jonssyni logmanni nordañ og westañ a Jslandi åsamt med allri logrettunne vm mal Þorleifz Biornssonar til Þordar Jonssonar[3]). þui walldzmadurinn

1) strykað út aptr í frumritinu; 2) leiðrétt; Wigfussyne, hdr. 3) Hér stendr: „Hafdi þesse Þorleifur stefnt greindum Þordi“, en er strykað út aptr í handritinu.

og domsmennirner hofdu ei samþickir ordid vm stefnufarir adurnefndz Þorleifs Biornssonar. til Þordar Jonssonar. Hafde þesse Þorleifur stefnt greindum Þorde. enn su stefna var o-nyt dæmd. Og enn aptur stefndi hann honum med odrum stefnusokum. huar vpa Þordur frijadi og villdi Þorleif tuij-mælizmann giora segiandi sijna meining þar vm̄. ad ei væri rett vm̄ sodañ sakir ad skipta. Willdu þesser Bader tijtt neffnder menn þad vnder vorum vrskurde Eiga. Og eptir vorri Godri Samvisku þotte oss þad omoguligt sakaraberann þar fyrir onytañ ad giora. Og þui ȷ Gudz nafni Amen. ad H(eilags) anda nad med oss til kalladri alyktum vær þad so stodugliga standa meiga optgreindum Þorleifi ad osekiu. og full skyrsla skuli a þad ganga heima ȷ hieradi. og til stad-festu þessum vorum vrskurde settu Bader logmennerner og firrneffnder Lögliger Domarar sijn skijrnarnoffn[1]) hier vnder med Eiginhondum sama stadar og dag sem firre segir.

---

**78. 9. Janúar 1506. á Hólum.**

Tylftardómr klerka útnefndr af Gottskalk biskupi á Hólum um kærur biskups til Páls Þórálfssonar um kúgildahald fyrir Hólakirkju „um tólf ár síðan sóttina" (1494).

AM. Fasc. XXXVIII, 5, frumrit á skinni. Af 12 innsiglum eru nú 5 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 3408.

Akiæra biskups Gottsha(l)chs til pals þolleifssonar (!)[2].)

Þat giorum vier broder nicolas prior a mavdrvvollvm. ion þorgilsson. finnbogi einarsson. ȷon finnbogason. ȷon ȷonsson. steingrimr bessason. hallvardr biarnason. haldan narfhason. hallr hallvardzson. gudmundr olafsson. hallr gvdvardsson ok þorbiorn ȷonsson prestar holabiskupsdæmis godvm monnum viturligt med þessv voro brefi. at þa er lidit var fra hingadburd vors herra ȷhesv christi þvsvnd fimm hvndrath ok sex ær fostvdagen næsta epter en þrettanda dag ȷola.

---

1) Svo. 2) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

æ holvm ȷ hialltadal. vorum vier ȷ dom nefnder af vorvm virdvligvm herra ok andaligvm fodur gothskalk med gvds nad biskup æ holvm at dæma um þa akærv at biskupinn kærdi til pals þoralfssonar at hann hefdi at sier tekit sex malnytv kugilldi sem stodv med ytra krossanese ȷ kræklingahlíjd ȷ eyiafirdi epter jn̄drida þorkelsson sem þa hafdi buid ȷ krossanesi. enn holakirkia atti þa bædi iordina og kvgilldin. sagdi biskupinn þar fyrir oss at hann ok heilavg holakirkia hefdi mist þessi sex malnýtv kugilldi vpp æ tolf ær sidan sottina[1]). enn adr greindr pæll þoralfsson hefdi þessi kvgilldi haft ok halldit ȷ ongv sinv frelse ne leýfi ok ongra sinna vmbodsmanna suo hann vissi. þvi at svo profudv sem þar kom þa fyrir oss. dæmdvm vier stefnvna logliga þvi hvn var þar svarin af tveimur vottvm. at pall þoralfsson hefdi verit svo nærr at hann hefdi matt heyra ef hann villdi. kom pall ecki ȷ sagdan stefnodag. enn biskupinn beiddizt hans þar eda hans vmbodsmannz ok kom þar hvorgi fram ok ecki lagasvar af hans hendi. þvi dæmdvm vier pal logliga fyrir kalladan̄ hier ȷ dag. ok skyllvgan[2]) at giallda heilagri hola kirkiv ok biskvpinvm aptur onvr sex malnytv kvgilldi jamgod[2]) med fvllvm laga avexti vnder sinn svarinn eid at næstvm fardogvm at heýrdvm dominvm. nema pall sýni med tveimr logligvm vitnvm at hann hafi þav somv kvgilldi eda onnur jamgod kirkivnni æ holvm aptur lvkt eda logliga kvittan (feingit). Ok til sannin̄da her vm settvm vier fýrrskrifader prestar vor ȷnncigli fyrir þetta domsbref skrifad æ holvm ȷ hialltadal sama dag ok ær sem fýrr seger.

---

**79. 10. Janúar 1506. á Hólum.**

Vitnisburðr Nikulasar príors á Möðruvöllum um, að Ólafr biskup hafi tekið Salbjörgu Gunnarsdóttur, konu Ólafs Grímssonar, til æfinlegrar prófentu „heim til Hóladómkirkju", og að í prófentuna var gefin jörðin Brúarland í Deildardal, en „cop-

1) Plágan seinni hefir því með vissu geingið 1494. 2) Svo.

ium“ af prófentubréfinu stendr í „biskups Ólafs bréfabók“, og „stóð það þar, þá eg gaf þenna vitnisburð út“.

AM. Fasc. XXXVIII, 7, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá, — AM. Apogr. 3409.

Þath giorer ek broder niculas prior a modruuollvm godvm monnum viturligt med þessv mínv brefi. at ek var j hia heima æ holvm j hialltadal sa ek ok heyrdi ek æ ord ok handaband biskup olafs godrar minningar. sem gvd hans sæl nadi. ok olafs bonda grimssonar. at suo fyrir skildi[1]. at biskup olaf tok salbiorgo gvnnarsdottur eiginkonv fyrr nefndz olafs grimssonar til ævinligrar proventvkonv heim til hola domkirkiv. med þeim skilmala at olafr grimsson gaf jordina brvarland. sem liggur j deilldardal j hofs kirkiu sokn. med radi. vilia ok samþycki greindrar salbiargar konv sinnar. sem hann bad at gefa prouentuna fyrir sig til holakirkiu. ok þar til .x. malnytu kugilldi. skrifadi ek ok sialfur hennar proventv bref. ok allan þann skilmala sem fram for milli biskup olafs ok olafs grimssonar ok salbiargar um þessa prouentvgiof. vissi ek ok fyrir full sanniñdi at salbiorg huspreyia var æ proventvnni heima æ holvm. ok hun hafdi jordina brvarland til lans og leigv af biskupinvm ok kirkivnar vmbodsmonnum epter þui sem skilit uar j hennar proveñtvbrefi. ok þad copivm ut uísar sem j biskup olafs brefabok stendr. stod þat þar þa ek gaf þenna vitnisburd vt. Ok til sanneñda hier um setta ek mitt jnncigli fyrir þetta vitnisburdarbref. skrifat æ holvm j hialltadal lavgardagenn næsta epter þrettanda dag jola. anno domini. ɱ°. d°. sexto.

---

**80. 13. Janúar 1506. í Björgvin.**

Hans biskup í Björgvin lýsir því að Björn Þorleifsson hafi þjónað sér sem trúr dandisveinn þann tíma, sem hann hafi verið í sinni þjónustu, tekr hann í vernd sína og heilagrar kirkju, og gefr honum meðmæli til allra góðra manna, einkanlega til fógeta konungs og umboðsmanna.

1) Svo.

AM. Fasc. XXXVIII, 1, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá.

vm kvíttvn biarnar þorleifssonar ens yngra er hann þionade herrvñvm vtanland(s)[1].

Wij Hans med gutz Nad Biscop i Bergen Giöre alle gode men Vittherligt med thetta wort opnæ breff ath thenne nerffwarendis breffwijssere wor elskelig swen oc tienere biørn torlecson[2]) haffuer tient oss som en troo dandysswen den stwndh han oss tiente i alle hande mathe Ock wii framdelis med thetta wortt opnæ breff take oc anname fforne biørn i wortt oc then helge kirckis hægn oc beskermelsse dagtyngie oc forswara till all retthe mall hwar behoff giörs. Hwar fore bidie wii alle gode men oc besinderlige wor Nadige Herris ffogete oc vmbotzmen ate[2]) late honum thetta wort fforswarelzebreff nywtande worde. Eij hindre helder hindre late mødhe plage vmaka heller vfforrette vppa godz heller persone i noger mathe Huilcked wii gerne forskulle ville i alle gode oc thesligis giöre naar oss worder till sagt.

Till sannende her wm hengie wii wortt secret fore thetta breff Datum Bergis anno Domini Millesimo Quingentesimo sexto infra octauas ephifanie domini.

---

**81. 13. Janúar 1506. Í Björgvin.**

Sjö þjónar Hans biskups i Björgvin votta, að Björn Þorleifsson hafi „þjónað í garði“ saman með sér „sem einn dandisveinn“, og má hann skirskota til þeirra um framferði sitt, ef hann þarf á því að halda.

AM. Fasc. XXXVIII, 2, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum eru nú tvö alveg dottin frá, og þau, sem fyrir bréfinu eru enn, eru sum mjög bráknð. — AM. Apogr. 5700.

Jak anders Hansson. Eric arnulszon. Gwnnar ericson. anders gudmvndszon. pedher nielszon. Biørn galle. Hanss steffansson Biscops Hansz tienere i Bergen. Kennes medh

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) Svo.

thetta wort opnæ breff ath thenne nerffwarendis breffwijssere biorn tollacszon[1]) haffuer tient i garde med oss som ein dandisswein oc haffuer wii honum inted anned ath skulde en goth i alle hande mathe. oc maa han vthermeire skywte sæg in till oss wm framdelis behoff giørs.

Till sannende her wm hengie wij wor indsigle forer thette breff Datum Bergis anno domini md sexto inffra octauam epifanie.

---

82. 18. Janúar 1506. á Hólum.

Vitnisburðr þriggja presta um skipti þeirra Jóns Finnbogasonar og Gottskálks biskups um Barð í Fljótum (**Falsbréf**).

Syrpa Guðbrands biskups í Biskupsskjalasafni, bls. 205, með eiginhendi biskups (= *a*). — Bók í Landsskjalasafni með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600, bl. 21 (= *b*). *Falsbréf.* Sbr. bréf frá 1. Maí 1505. (D. I. VII, Nr. 697).

falsbref Jons palmasonar[2]).

Þad giorum vier Jon Jonsson. michel steingrijmsson og gisli gudmundsson prestar [i holastickti[3]). godum monnum viturlig(t)[4]) med þessu voru opnu briefi ad vier vorum hia stadder ad[5]) holum j hialltadal. þa lidid var fra hingatburd vors herra jesu christi m d vj ar a suñudægiñ næstan fyrir palsmesso og heyrdum þar a ad[6]) gottskalk med gudz nad [biskup a[7]) holum j hialltadal bijrti fyrir oss þan dom. sem dæmdur hafdi verit a vijdivollum i blonduhlid af xij prestum. huer domur ad hliodadi so. ad þeir dæmdu joni fimbogasyni jordina Bard i fliotum [til fullrar eignar[8]). En jon finbogason skylldugañ til ad [greida og giallda heilogu)[9] holadomkirkiu alla þa peninga sem halldor brandzson skylldugur var i porcio kyrkiuñar vegna a bardi og epter þeim domi sagdist hann[10]) biskupiñ vppbioda jordina bard eñ beid-

---

1) Svo; rétt: torlafszon = Þorleifsson. 2) Annat Giornings Brief *b*. 3) [Hola Biskupsdæmis *b*. 4) vitanligtt *b*. 5) a, *b*. 6) b. v. *b*. 7) [at *b*. 8) [sl. *b*. 9) heilagre *b*. 10) b. v. *b*.

ast þeirra dæmdra peninga. Jtem sagdist Jon fimbogason eiga so mikla peninga hia biskup gottskalk oborgada sem hier epter seigir. J fyrstu xxjc[1]) i silfri og afgialld epter grund i suarfaradal[2]). med xvj kugilldum vpp a xij ar. og landskyllder af oslandi vppa xij ar. Reiknudust þessir peningar cc [og ıxxxc[3]) betur. ad auk siıns avaxtar. og þessa alla adur greinda[4]) peninga medkiendist biskup gottskalk. og þessa peninga fyrr sagda gallt Jon fim̃bogason opt nefndum [gottskalk biskup[5]) og heilogu[6]) holadomkirkiu. þa peninga sem halldor brandzson skylldugur var j porcio kirkiunnar vegna a bardi. og ad þeim peningum golldnum sem þa epter stædi þa skylldi Jon fim̃bogason [ad sier taka Jordina bard[7]) vnder sig og sina erfingia. og til meiri sanninda hier vm setium vier [fyr skrifader menn[8]) vor insigle[9]) fyrir [þetta vort vitnisburdarbref er skrifad var i sama stad deigi og ari sidar enn fyrr seigir[10]).

---

## 83. 9. Febrúar 1506. í Vestrhópshólum.

Vitnisburðarbréf um lýsing Sigurðar Ívarssonar um viðtal Gottskálks biskups á Hólum og Jóns Sigmundssonar um meinbugi milli Bjargar Þorvaldsdóttur og Jóns.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1903 bls. 32—33 eptir afbötunarskrá Jóns Sigmundssonar (Nr. 8) 1506. — AM. Apogr. 3961.

Þad giörum vier[11]) Gunsteinn prestur Asgrijmzson. Rusticus benedictzson. godum Mônnum viturligt med þessu ockru opnu briefe. ad vid medkennunst. ad vid vorum hia. og heyrdum a. ad Sugurdur Juarzson sagdest hia hafa wered. og heyrt a Ord þeirra Herra Gotskalks byskups a Holum og Jons Sigmundzsonar heima þar i byskups bordstofunne. vm Hausted. þad fyrsta ær[12]) hann kom vt vm̃ Sumared.

---

1) xxc *b.* 2) suarfadardal *b.* 3) [xx og ıxc, *b.* 4) sagda *b.* 5) [Biskup Gottskalk *b.* 6) heilagre *b.* 7) [Jordina Bard ad sier taka *b.* 8) [sl. *b.* 9) hier b. v. *b.* 10) [et cetera *b.* 11) vid 3961. 12) er (!) 3961.

Ad Jon sagde sier være sagt ad biskupenum være hermt. ad nockur Mein være a millum sijn og biargar Þorvalldz Dottur. huad Jon hefde sagt sier være þad ovitanligt[1]) ad nockur mein[2]) være med sier og greindre Konu biỏrgu. Enn ef þad finndest fyrr[3]) med riett. þa hefde Jon bodid sig vnder Laga ransak[4]) Herra byskups[5]) og Jon hefde sagt byskupinum til[6]). Hann villde þar ecke [med blijfa ef þad mætte[7]) i mote Lỏgum vera. Sagde Sygurdur ad Jon Prestur Þorualld Son. sem nu er Abote hefde og þann tijd þa inne verid i Naveru byskupsins. er Jon baud þesse bod fyrer sig. Lyste Sigurdur þessari lysingu[8]) fyrer ockur og fleirum Mỏnnum ỏdrum i Holum i vestra hope. Mænudæginn næstann epter Agatte Messu vm Veturinn. Arum epter Gudz burd ꝏ. D. og vj. Ar. Og til sannenda hier vm [et cetera[9]).

---

## 84. [1506].

Vitnisburðarbréf um biskupstíundagreiðslu Jóns Sigmundssonar.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1902 bls. 23, eptir afbötunarskrá Jóns Sigmundssonar (Nr. 2) frá 1506. — AM, Apogr. 3961.

Þad giỏrum vid Jon Bardarson. og Þorkell Olafsson. godum mỏnnum viturligt. med þessu ockar[10]) opnu Briefe. ad vid medkennunst ad vid færdum heim til Mels. og skiludum og vtstikudum sera Jone Gislasyne i Hỏnd vegna Jons Sigmundzsonar[11]) þær Byskups Tiunder sem hann reiknade sig skylldugañ þad æred sem hann kom aptur til Tungu fra[12]) Breidabolstad. voru þad iij Voder og x. alner Vadmals vel. og lagdur Þumlungur Vadmals fyrer huỏria stiku. luktum wid og afhentum fyrsagdar Tiunder a Huijtasunnu vm̄ vored. og tokum Kuittun med handabande af sera Jone Gijsla-

---

1) ovitanda 3961. 2) sl. 3961. 3) fyrer 3961, 4) Rannsauk 3961. 5) biskupsins 3961. 6) sl. 3961. 7) [sl. (!] 3961. 8) lysing 3961. 9) [þ. v. 3961. 10) okkru 3961. 11) i, þ. v. 3961. 12) hia 3961 (!)

syne. vegna Jons Sigmundssonar. vm̃ halld og Sekter sagdra Tiunda. so myklar sem adur greiner. Og til sanninda hier vm̃ þessa[1]) Tiunda vtlukning. þa vilium vid sueria ef þurfa þiker, Og til meire stadfestingar og audsyningar hier vm̃. þa setium vid fyrrnefnder menn ockar Jnsigle [et cetera[2]).

---

**85. 13. Marts 1506. í Víðidalstungu.**

Vitnisburðarbréf, að Jón Sigmundsson hafi aldrei Rómaskatt í Tunguþingum tekið, heldr þingaprestar.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1902 bls. 26—28, eptir afbötunarskrá Jóns Sigmundssonar.(Nr. 4) 1506. — AM. Apogr. 3961.

Þad giörum vier Asgrijmur Jonsson. Jon Bardarson. Þorarenn Finnbogason. Gretter Jörundsson. Biarne Gudlögsson. Bardur Jonsson. Biarne Þorsteinsson[3]). Geirmundur Jonsson. Petur Augmundsson. Vermundur Jonsson[4]). Magnus Magnusson. Oddur Jonsson. godum mönnum viturligt med þessu voru opnu Briefe. ad vier medkiennunst. ad vier höfum verid bwfaster[5]) i Vijdudalstungu kirkiu Sokn. enn sumer Heimelismenn i Vijdedals Tungu. Sumer fyrer Mann Plæguna. sem nu var. mörgum Arum fyrer adur[6]) enn hun kom. [enn sumer nu[7]) epter hana. sa skemst. sem vered hefur Tolf Manude i greindre Kirkiusokn. Enn eg Biarne Gudlögsson bio xj. Vetur samfleytt a Vatzhorne i Tungu Kyrkiusokn. nu sijdan fyrer Mannplæguna og epter. Enn eg greindur Þorarenn og kona mijn Biörg. höfum verid xiiij. tolf Manude i Tungu Þingæ[8]) fyrer Sottena og epter. med þeim iiij tolf Manudum eg[9]) greindur Þorarinn bio i Huarfe. Vered hef eg og Asgrijmur Jonsson. vij tolf Manudi i Tungu Þijngum. enn vitad til grañt vppa xxxiij Vetur. So og hef eg Petur Augmundzson [vitt-

---

1) þessara 3961. 2) [sl. 3961. 3) Oddur Gislason b. v. 3961 (rangt). 4) Bardur Jonsson b. v. 3961. 5) vistfaster 3961. 6) sl. 3961. 7) [nu sumer 3961. 8) Þingum 3961. 9) og(!) 3961.

ad til[1]) vppa xx vetur. edur leingur. og optast i Tungu Þingum (verid). So og hef eg Geirmundur Jonsson vered i Tungu Kyrkiusokn i Vijdedal ei midur enn xx. tolf Manudi. Vitum vier fyrer full Sanninde. aller þesser greinder Menn sem hier fyrer skrifader standa. ad Jon Sigmundsson hefur alldre Roma Skatta[2]) i Tungu þijngum teked. og eingenn annar enn þijnga Prestar. sem verid hafa. Og þeim hofum vier lukt. og afent bæde fyrer oss. og ǿll vor skulldahion. So og medkennest eg Jon Bardarson. Eg hefe optliga lukt fyrer Jon Sigmundzson. og hans heima Folk Romaskatta. þui vitum[3]) vier[4]) fyrer full Sanninde. ad Þijnga Prestar. sem vered hafa i Tungu. hafa vppbored. og vt teked alla greinda Romaskatta. enn alldre Jon Sigmundzson eda nockur hans Vmbodsmadr. Og ongua Tolla nie Tiunder hǿfum vier honum lukt. adrar enn þær sem [vanaligar eru[5]). prestz Tiund og Kyrkiu Tiund. Og til meire Auglysingar[6]). og sannrar Afsakanar. vid greindañ Jon Sigmundzson vm̃ þessa[7]) hans Bannsetningar Sakargift. þa vilium vier þesser xij. menn. sem hier eru fyrer skrifader. sueria fullañ bokar Eid. ad vier vitum greindañ Jon Sigmundzson [þessarar Sakargiftar[8]) saklausañ. Og til Sanninda hier vm̃ setium vier[9]) vor Jnsigle fyrer þetta Afsakanar vitnisburdar Brief. er giǿrt var i Tungu i Vijdudal. næsta[10]) dag epter Gregorius Messu a Langa Fǿstu Anno Domini ꝏ. D. vi.

---

**86. 21. Marts 1506. á Marðarnúpi.**

Vitnsburðarbréf um biskupstíundagreiðslu Jóns Sigmundssonar.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1902 bls. 23—24, eptir afbötunarskrá Jóns Sigmundssonar (Nr. 3) frá 1506. — AM. Apogr. 3961.

---

1) [sl. 3961. 2) Romaskatt 3961. 3) vitnum 3961. 4) fullkomlega b. v. 3961. 5) [vanaligt er 3961. 6) audsyningar 3961. 7) þessar 3961. 8) [sl 3961. 9) fyrrgreinder menn b. v. 3961. 10) næstan 3961.

Þad giörum vier Ormur Þorsteinsson. Jon Þorualldzson. Biörn Þolleifsson[1]). godum Mönnum viturligt med þessu voru opnu Briefe ad vier medkennunst. ad vier[2]) vorum i hia. ad Þorvalldur Oddzson handfeste Jone Sigmundssyne so felldañ Vitnisburd. Ad Þorualldur sagdist lukt hafa xij. alner Vadmals[3]) vpp a þrenna Tolfmanude. i Byskups Tiunder af Jarda Gotze Jons Sigmundssonar. sem honum hefur bored Lögum fyrer ad suara. og Jon Sugurdzson[4]) hefde vid teked. vegna sera Jonz Gislasonar. er sig hefur reiknad Profast i Hunavatsþinge. Og til sanninda hier vm̄. setium [vier fyrnefnder menn[5]) vor Jnsigle fyrer þetta Vitnisburdar Brief. er giört var a Mardar Nwpe i Vatsdal. Laugardagenn næstañ fyrer Mariu Messu[6]) [Anno ɱ. D. vi.[7])

---

87. **24. Marts 1506. á Hvoli í Vestrhópi.**

Vitnisburðr um lúkningar Jóns Sigmundssonar til Gottskálks biskups á Hólum.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1902, bls. 28 eptir afbötunarskrá Jóns Sigmundssonar (Nr. 5) frá 1506. — AM. Apogr. 3961.

Þad giörum vier[8]) Þorsteirn Eyuindsson og Jon Þorsteinsson godum mönnum viturligt med þessu ockar[9]) opnu Briefe. ad vid medkiennust ad vid höfum vt teked. vpp a[10]) Herra Gotskalks vegna. af Jone Sigmundzsyne. fyrer gamlan Vxa. ij Asaudar Kugillde. med Lömbum. godar og vel gilldar. Höfum vid fyrr greinder menn þesse ij. Malnytu Kugillde. sem Jon gallt ockur vt. haft til leigu med Þueræ i [vestara Hope[11]) nu vpp a iij. Ar edur iiij. Og til Sanninda hier vm̄ [setium vier vor[12]) Jnsigle fyrer þetta Vitnis-

---

1) Biarne Þorkielsson 3961. 2) vid 3961. 3) ärliga b. v. 3961. 4) Sigmundzson (!) 3961. 5) [3961; sl. útg. 6) „NB ɔ: Mariumessu ä Langaföstu", segir Árni Magnússon i AM. 240. 4to bls. 30. 7) [sl 3961. 8) vid 3961. 9) ockru 3961. 10) uppa á (!) 3961. 11) Vesturhopi 3961. 12) [settum vid ockur 3961.

burdar Brief. er giört var a Huole i [Vestur Hoope[1]) næsta[2]) dag fyrer Mariumessu a Föstu. Anno Domini ꝏ. D. vi.

---

**88. 27. Marts 1506. á Hólum.**

Gottskálk biskup á Hólum skipar síra Sigmundi Guðmundssyni þing um allan Öxarfjörð, um næstu 12 mánuði og það leingr, sem hann gerir ekki aðra skipun á.

AM. Fasc. XXXVIII, 6, frumrit á skinni nokkuð flagnað; er og innsiglið dottið frá. — AM. Apogr. 74 eptir þessu frumriti, er Árni fékk frá Haldóri sýslum. Einarssyni, en átt hafði síra Skúli á Grenjaðarstað. Afskript er og í AM. 255. 4to bls. 368, og eptir því meðal Apogr. 5760.

Axarfiardar þyngabrieff 1506.[3])

Vier godskalk med guds nad biskup a holum j hialttadal giorum godvm monnum vitvrligt med þessu uoru opnu brefi ad ver havfvm skipad sira sigmvndi gvdmundssyni þing vm allañ axarfiord skinnastada kirkiv. og tvnggv kirkiv. ærlæk(i)ar kirkiu. klifshaga kirkiv. aas kirkiv. gardstadar kirkiu. fialla kirkiu og oll bænhvs j þessum þingvm med aullvm̄ þeim tollvm og tivndum sem almenneligum þinggapresti ber ad hafa. næstu .xii. manvdu og þad leingur sem ver giorum ei adra skipun a. Og til sanninda hier vm̄ settvm ver uortt innsigli fyrir þetta þinggabref skrifad a holum j hiallttadal favstudaginn næsta eptter an̄vnciacio sancta maria þa lidid var fra hingadburd vors herra ȷhesu christi. ꝏ. d. og vi. ar.

---

**89. 1. Mai 1506. í Víðidalstungu.**

Vitnisburðarbréf um lýsing Bjarnar Þorsteinssonar um frændsemi Jóns föður Þorvalds á Móbergi og hústrú Kristínar Björnsdóttur.

1) [vestra hopi 3961. 2) næstan 3961. 3) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1902, bls. 33, og er það næst síðasta skjal í afbötunarskrá Jóns Sigmundssonar (Nr. 9) 1506. — AM. Apogr. 3961.

Þad giörum vid Asgrimur Jonsson og Jon Bardarson godum Mönnum viturligt med þessu ockru opnu Briefe. ad vid medkennunst. ad vid vorum i hia. og heyrdum a, ad Biorn Þorsteinsson lofade Biörgu Þorualldzdottur sofelldann vitnisburd ad bera. nær hann være tilkuaddur. Ad Biörn sagdist verid hafa hia Jone Bonda a Moberge. födur Þorualldz. enn Afa Biargar. Lagde Jon þad i sinn Vitnisburd. ad hann heyrde greindann Jon telia frændseme sijna vid Hustru Kristine[1]) Biörnsdottur ad þridia Manne. eda fiorda. enn alldre skylldara. ef hann skyllde Eid a leggia. Og til Sannenda h(ier) v(m) s(ettum) v(id) fyrr nefnder Menn ockar[2]) Jnsigle fyrer þetta vtgefed B(rief) vm̄ Vitnis B(urd) Biarnar er giört var i T(ungu) i Vijdudal. a Föstudagin næstann fyrer Kross Messu vm̄ vored. Anno ꝏ. D. og sex.

---

## 90. [1506].

Vitnisburðr Sigurðar Ívarssonar um lýsing Þuríðar Björnsdóttur um ætt Þorvalds á Móbergi.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1902, bls. 33—34, og er það síðast í afbötunarskrá Jóns Sigmnndssonar (Nr. 10) frá 1506. — AM. Apogr. 3961.

Suofelldann Vitnisburd ber eg Sugurdur Dadason. ad eg hefe optsinnes talad vid Þuride Biörnsdottur vm̄ huad hun visse med Sannleik huersu skyllder þeir hefde vered. Biörn Fader hennar og Þorualldr Bonde a Moberge. Enn greind Þuridur hefur þad Suar gefed mier þar til. ad hun visse ongua sijna ætt vid Þorualld heitenn vera[3]). so hun kynne þad ad reikna. og ecke annad Mobergs Folk. Nema hun sagdest hafa heyrt. Þad være einnrar ættar. Enn ei visse[4]) hun þar meire Sannende til. [Og til Sannen(da). et cetera.

---

1) Kristinu 3961; 2) vor, útg. 3) sl. 3961; 4) vissu (!) 3961

**91.** **4. Maí 1506. á Grenjaðarstöðum.**

Vitnsburðr Eiríks prests Einarssonar um gjöf Salbjargar Gunnarsdóttur á Brúarlandi í Deildardal til Hóladómkirkju í prófentu sína.

AM. Fasc. LXV, 14, frumritið á skinni, og er innsiglið fyrir. — AM. Apogr. 3609, eptir frumritinu. — Afskript af þessu bréfi er og í bréfabók Biskupsskjalasafnsins þeirri, er Þorlákr biskup lét rita 1641—1642, bls. 404—405, með hendi síra Sveins Jónssonar á Barði.

Profentubref Salgierdar (!) bruarlandz[1])

Þat gerer ek eirekur prestur einarsson godum monnum uiturligt med þessu minu opnu brefi at ek uar hia heima a holum ȷ hialtadal sa ek og heyrdi ec a ord og handaband biskupz olafs godrar minningar sem gud hans sal nadi og olafs bonda grimssonar. at suo fyrir skilldu at biskup olaf tok salbiorgu. gunnarsdottur eiginkonu fyrrnefndz olafs grimssonar til æuinligrar prouentukonu heim til hola domkirkiu med þeim skilmala at olafur grimsson gaf iordina bruarland sem liggur ȷ deilldardal ȷ hofskirkiu sokn med radi. uilia og samþycki greindrar salbiargar konu sinnar sem hann bad at gefa profentuna fyrir sig til holakirkiu. og þar til. x. malnytu kugilldi. Vissa ek og fyrir full sannendi at salbiorg huspreyia mate uera a prouentune heima a holum þa hun uilldi og hun hafdi iordina bruarland til lans og leigu af biskupinum epter þui sem skilit uar ȷ hennar prouentubrefi og þat copium utuisar sem ȷ biskupz olafs brefabok stendr. Og til sanenda hier um setta ek mitt incigli fyrir þetta uitnisburdarbref skrifat a greniadarstodum manudaginn næstan epter krossmesso um uorit anno domini m. d. sexto.

---

**92.** **6. Maí 1506.** **á Þverá.**

Vitnisburðr um landeign og landamerki Reykjahlíðar við Mývatn.

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

Eptir afskript frá c. 1650 af Reykjahlíðarskjölum í Landsskjalasafninu. Var þá „j jnnsigli fyrir" bréfinu.

Þad giore eg þorolfur hranason. godum monnum viturligt med þessu mijnu opnu breffi. ad eg hefi verid heimilisfastur i þijngeyarþijngi meir enn .l. vetra og veit eg fyrir full sannendi ad þeir dandimenn sem att[1]) hafa jordina reikiahlijd er liggur uid uatn[2]) hafa haft og halldid og sier eignad j allañ þennañ tijma auræfi þau oll er liggia fyrir austañ myuatn ad Jokulsæ og alla omerkinga a milli Jlifsvatna og brædrakliffs er liggur sudur a auræffum. og þessi landamerki og jardar eigñ hefi eg heyrtt seigia skilrijka menn mier ellre. ad haft hafi verid og eignad jordunni reikiahlijd langt fyrir minn alldur af þeim sem þa attu reikiahlijd atolulaust vtañ þær beitar jtolur sem skilrijki ad ganga er a melana hefur haft verid. Og thil sanninda hier vm̃ setti eg mitt Jnnsigli fyrir þetta vitnisburdarbreff giortt a þuera j laxardal a miduikudaginn næsta eptir krossmessu vm̃ vorid anno domini ꝏ. d. vi.

---

## 93. 8. Maí 1506. á Þverá.

Vitnisburðr Finnboga lögmanns Jónssonar og tveggja annara um landeign Reykjahlíðar við Mývatn.

Eptir afskript frá c. 1650 af Reykjahlíðarskjölum í Landsskjalasafni. Var þá „þetta Breff med iij Jnsiglum".

Þad giorum vier finnbogi Jonsson logmann. magnus þorkelsson og gamli þorsteinsson godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi ad vier hofum verid heimilisfaster [i þingeyiar]þijngi meir Enn xl vetra og vitum vier fyrir full sannindi ad þeir dandimenn sem att[1]) hafa jordina Reykiahlijd er liggur vid Myvatn hafa haft og sier eignad j allañ þann tijma auræfi þau er liggia fyrir austañ Myvatn ad Jokulsá og alla omerkinga j millum Jlifsvatna og brædra-

1) *leiðrétt;* ad, hdr. 2) Svo.

klifs er liggur sudur a øræfum og þessi landamerke og jardar Eigñ haufum vier heyrtt skilrijka menn seigia oss ellre ad haft[1]) hafi verid og eignud[1]) jordunni reikiahlijd langt fyrir vorñ alldur af þeim er þa attu reikiahlijd atolulaust. vtañ þær beitar jtolur er skilrijki ad ganga er a melana hefur haft verid. Og thil sanninda hier vm̃ setium vier fyrrnefndir menn vor jnnsigli fyrir þetta witnisburdarbreff. giortt á þuera i laxardal fóstudaginn næstañ eptir krossmesso vm̃ vorid. anno domini Millesimo qvingentesimo sexto.

---

94. **16. Maí 1506.**

Úrskurðr Stepháns biskups í Skálholti um hjónaband Jóns Þorvaldssonar og Vilborgar Sigurðardóttur.

Bisk. Skalh. XVII, 30b, ritað aptan á frumrit Þykkvabæjardóms frá 10. Maí 1496, „og hefur þetta þar alldri leingra fram skrifad vered, en hier stendur. Synest vera uppkast til urskurdar eda og Copia þar af. Enn hvert sa urskurdur hafi utgefin vered, eda eige af orded, þad er oviist" (AM.) — AM. Apogr. 2374 eptir Skálholtsfrumritinu „accuraté".

Vær stephan med gvdz nad biskup j skalhollte giðrvm godvm monnum kvnigt med þessv uorv optnv brefe ad sub anno gracie M. d. vj. jñ crastino sancti hallvardi martyris kom firir oss joñ þorvalldzson ad fa vissv vm þad hioñabañd sem hann hafde giort med vilborgu sygurdardottur. nv af þvj ad oss og morgvm godvm monnum avdrvm er kvnigt vm þa meinbvge sem a erv med greindvm monnum jone og vilborgv med þvi motte ad j eina kvils[1]) var asmvndur sveinsson en sygrdur sonur hans annar og þa vilborg dotter hañs hiñ þridi. Enn i adra ættkvils[1]) erv grofa sveinsdotter syster fyrr nefñs asmvndar og oddur sonur hennar og gvdrvn dotter hans hin þride. Reicknazt þær þrimennjngar vilborg og gvdrvn oddzdotter er jon hafdi samrædi med haftt ad margra mana vitorde. þvj ad heilax añd(a) nad til kalladre

1) Svo.

ad svo pro(f)vdv og firir oss komn̄v segivm vær med fvllvm dome og laga vrskvrde þad hionaband sem verit hefur med greindvm monnum jone og vilborgv ologligt.

---

95. **17. Maí 1506. á Strönd í Selvogi.**

Þorvarðr lögmaðr Erlendsson leyfir þeim enskum kaupmönnum, sem liggja á Bátssöndum og í Grindavík, verzlunarleyfi um 10 eða 12 daga, þar til hann geti sjálfr að forfallalausu komið til þeirra.

AM. 238. 4to bl. 49, skr. c. 1570, (Bessastaðabók, eptir bréfabók Þorvarðs lögmanns).

leyfis bref Eingilsk(r)a.

Þat giore eg Þoruardur ellendsson logmadur á Íslandi godum monnum kvnnigtt med þessu mínu opnu brefe at eg hefe gefit einngelskum kaupmonnum. sem liggia á bassendum og grindavik lof til at kaupa vid Íslendzka menn riettum halfstyckis kaupum sem sett hefur verid og logtekit hier i landit sem byggia og bua á rosmala nese og grindavik. til skilldum seckia giolldum og utlucktum sem mínum herra kongenum ber af þeim at hafa ella hans umbodzmanne. skall þetta mitt leyfe standa til innann x daga eda xij. þar til at gud gefur at eg kann utann loglig forfoll til þeirra at koma. og til sanninda hier um þryckie eg mitt innsigle fyrer þetta bref skrifat á Strond j Selvoge sunnudagenn næstann fyrer asscentionis domini Anno salvatoris m d vj.

---

96. **17. Maí 1506. á Þverá.**

Dómr sex manna útnefndr af Finnboga lögmanni Jónssyni um það, hvort Þorsteinn Finnbogason skyldi að lögum halda mega með jörðunni Reykjahlíð öll öræfi þau, er liggja fyrir austan Mývatn, og hann reiknaði greindri jörðu hefði að fornu fylgt.

Eptir afskript frá c. 1650 af Reykjahlíðarbréfum („Copia af Reikiahlydar Briefum") í Landsskjalasafni. „Þessi fyrir ofan skrifadur domur er med tueimur jnnsiglum".

Øllum monnum þeim sem þetta Bref sia Eda heyra senda magnus Þorkielsson. Gamli Þorsteinsson. hauskulldur Runolfsson. Biorn Hakonarson. Eirikur Jvarsson og Hallur Kietilsson K(vediu) G(udz) og sijna kunnugt Giorande at þæ er lydit var fra hingat Burd wors herra Jhesu Christi M. d. og vi ar a faustudæginn næstan fyrir gagndaga viku[1]) j Haganesi vid myvatn æ þingstad Riettum vorum vier j dom nefndir af ærligum Dandimanni Finnboga Jonssyni logmanni fyrir nordan og vestan æ Jslandi at skoda og Ransaka. Dom. a at leggia vm þau Bref. prof. vitni og skilriki Er Þorsteinn Finbogason þar leiddi og framlagdi vndir vorn dom og løgmannsins laga skypan[2]) huort hann skylldi at laugum hallda mega med jordinni Reykiahlid oll auræfi þau er liggia fyrir austan myvatn og hann reiknade greindre jordu hefdi at fornu fylt. kom þar fram j fyrstu fimm godra manna Bref med þeirra skilrijkustu manna jnnsiglum sem i þui heradi hofdu i langan tyma heimilisfastir verid. so hliodanda. ad þeir vissu fyrir fvll sannindi ad þeir dandimenn. sem att[3]) hafa jordina Reikiahlyd sem liggur vid mýuatn hefdi haft og halldid og sier eignad meir enn xl vetra atolulaust i allan þennan tijma auræfi þau er liggia fyrir austan mýuatn ad Jokulsæ og alla omerkinga i millum Jleifsvatna og brædraklijfs er liggur sudur a auræfum. Og þessi landamerki og jardareign hefdi þeir heýrtt skilrika menn seigia sier elldre. haft hefdi verid og eignad jordunni reikiahlyd langt fyrir þeirra alldur af þeim er þa attu Reikiahlyd vtan þær beitar jtolur er skilryki ad ganga er a melana hefur haft verid. þar eptir soru tueir skilrijkir menn med fullum bokareidi þessi somu greind øræfi og landamerki hefdi verid hofd og halldin eign fyrr greindrar jardar reikiahlydar. meir enn lx vetra atolulaust so onguan vissu þeir sier kalla annan nie akiæru veita j millum Jokulsꜳ og fiallgardz þess er geing-

1) Þ. e. 15, Maí. 2) leiðrétt; skypta (!) hdr. 3) leiðr.; ad, hdr.

ur næst fyrir austañ mẏuatñ og ei nemur bufiar haga med omerkingum fra Jlifsvottnum og thil brædraklijfs fyrir vtañ herdibreid. soru þeir og ad þeir hefdi heẏrtt marga skilrijka menn so seigia sier ellre ad þessi landareign hefdi fẏlgt Jordunni reikiahlijd langt fyrir þeirra daga Jtolulaust. vtañ þær kaplagaungur sem breff og mældagar thil seigia er a melaua hefur haft verid. Og þui fyrir þessi greind[1]) vitni. prof. og skilriki leidd og frañ komiñ. Dæmdum vier fyrrnefndir domsmenn med fullu doms adkuædi Jordunni reikiahlijd thil fullrar Eignar auræfi oll fyrir austañ myvatn med þeirra ollum Endimaurkum sem þar hafa vitni vm̃ borit og eidar vm̃ geingid og hier i dominum standa og Jordina fẏrr greinda obrigdugliga eiga og att hafa so hiedan af sem hijngad thil. vtan leidist med profum eda logligum vitnum ad nockura manna Jtolur thil eignar verdi i sagda landareigñ nema þær kaplagongur sem maldagar thil seigia.

Samþẏckti þennañ vorn dom finnbogi Jonson logmann. Og thil sanninda hier vm̃ setium vier fyr nefndir domsmenn vor Jnsigli fyrir þetta domsbreff giort a þuera j laxardal a sama ari tueim nottum sijdar enn fyrr seiger.

---

**97. 23. Maí 1506. á Þverá.**

Finnbogi lögmaðr Jónsson samþykkir og staðfestir dóm frá 17. Maí 1506 um landeign Reykjahlíðar.

Eptir afskript frá c. 1650 af Reykjahlíðarskjölum í Landsskjalasafni. Sbr. dóm frá 17. Maí 1506 og vitnisburði frá 25. Sept. 1505, 6. Maí 1506 og 8. Maí 1506. (Sbr. DI. VII, Nr. 720; VIII, Nr. 92, 93, 96).

Vrskurdur Finnboga logmanns.[1])

Eg Finnbogi Jonsson logmann nordañ og vestañ a Jslandi heilsar alla goda menn þa sem þetta mitt breff sia edur heyra med gudz kuediu og minni. vil eg ẏdur viturligt giora ad sub anno gratie M. d. sexto a fôstudaginn næst-

---

1) greingd, hdr. 1) „med hans Jnnsigli" b. v. hdr.

añ fỳrir gagndagaviku[1]) ȷ Haganesi vid mýuatn á þijngstad riettum. kom fyrir mig Þorsteirñ Bondi Finnbogason. beiddi mig og kraffdi fulla lagaskipun a giora og vrskurd a ad leggia sinna vegna og Seceliu torfadottur kuinnu sinnar vm̃ þann godra manna dom. sem þæ var þar samstundis dæmdur og vpp sagdur og fyrir mig ȷñ skriftis fram borinn. sem vottar og seigir vm̃ landareign ȷardarinnar j Reikiahlijd er liggur vid mývatn. Sa eg dominn og ýffir las og leistz mier domur loglegur og skiælegur j allañ handa mata med ollum sijnum greinum og articulis eptir þeim hefdarvitnum̃ sem leitt var med skilrijkustu manna brefum og ȷnnsiglum og suordum bokareidum. huad j dominum reiknadest og thil sagdi ad att hefdi og fýlgt meir enn lx vetra atolulaust ȷordunni Reikiahlijd oræfi þau oll er liggia fyrir austañ mývatn ad Jokulsæ oc omerkinga alla ȷ millum̃ Jlifsvatna og brædraklifs er liggur sudur a oræfum̃. Stendur so skriffad i vorri landzlaga bok. Ef madur hefur skog. eing eda haga eda adrar landzný́tiar xx vetur edur leingur atolulaust þa á sa er haft hefur vtañ annar leidi thil þess loglig vitni ad hann a ef hann skal oræntur vera. Seigir og so ad med skapti og t(a)ugu skulu (menn) ȷordu skipta ȷnnañ gardz enn sionhending vtan[2]) gardz. Er oc eigi skillt ad ganga a merki a fioll upp vr bufiarhogum þar sem vattnsfoll deilast i millum̃ herada. Þui fyrir allar þessar greinir og fleiri adrar sem hier æ laganna vegna ad luta og ad so profudu máli sem þa kom fyrir mig og (med) þeirra bestu manna radi og samþycki sem þa voru hia mier sagda eg greindur finnbogi Jonsson logmann ȷn nomine domini amen. med fullum laga vrskurdi adur nefndañ dom logligan og fullmegtugan med ollum sijnum greinum og articulis og nefndañ Þorstein finnbogason sinna vegna og firrnefndrar Setceliu torfadottur eiga og att[3]) hafa og logliga hallda meiga med ȷordunne reikiahlijd alla fyrskrifada ȷardar eigñ og hier fyrir greinir ad ollum oræfum thil greindum̃ þeim er liggia j millum Jokulsar og bufiarhaga þeim er liggia austur fra þeim ȷordum er vid myuatn standa. og sionhending fyrir austañ alla bufiarhaga

1) þ. e. 15. Maí. 2) tvískrifað. 3) leiðr.; ad (!) hdr.

fyrrnefnda sudur i oræfi so langt sem vatzfoll deilast og votn ad draga. eptir þui sem logbok utuijssar vtañ þad synist med mǻldogum og logligum vitnum sem i dominum greinir ad nauckrer eigi hier vti þær jtolur eda itok sem logbok skipar j mot riettum̃ hefdarvitnum eiga ad koma epter logum̃.

Var þessi minn vrskurdur af mier vpp sagdur og iñ skriftis fram̃ borinn morgum godum̃ monnum nærverondum̃ og þennañ minn vrskurd samþyckiandi þar þa samstundis i greindum stad. deigi og ǻri.

Og thil fullrar stadfestu og sanninda hier vm̃ setta ec fyrr greindur finnbogi Jonsson logmann mitt ȷnnsigli fyrir þetta wrskurdar Bref skrifad a Þuera i laxardal Anno vt suppra atta dogum̃ sȷdar Enn fẏrr seiger.

---

**98. 26. Maí 1506. á Grýtubakka.**

Dómr sex manna útnefndr af Finnboga lǫgmanni Jónssyni um ákæru Þorsteins Finnhogasonar til Magnúsar Pálssonar, að Magnús hefði grafið land og jörð Þorsteins í Reykjahlíð sér til fjár og eigi farið sjaldnar til en tíu sinnum og í hvert sinni haft burt sjö tunnur brennisteins.

ÍBfél. Khd. 125A 4to bl. 96—97, skr. c. 1680 (bókin er úr Þingeyjarsýslu).

Domvr wm̃ averka og Jardar spilling dæmdur af Finnboga logmanne.

Ollum̃ monnum sem þetta Breff sia edur heẏra. senda Hoskulldur Runolfsson. Biorñ Hakonarson. Halldor Sigmundsson. Niukulas Gudmundsson. Jon Sueinsson og Floent Þorarinsson Q(uediu) G(udz) og sȷna (kunnugt giǒrandi) ad þa er lidit var fra hijngadburdi vorz herra Jesu Christi 1506 ǻr a þridiudaginn næstañ fyrir festum̃ germani episcopi a grẏtubacka j hofdahuorfue a þijngstad rettum vorum vier j dom nefndir af erligum dandismanni Finnboga Jonssyni logmanni n(ordan og) v(estan) a Jslandi (til ad) rannsaka. skoda og dom æ ad leggia vmm þa ǻkiæru er þorsteirn finnbogason kiærdi þar thil magnusar pǻlssonar.

J firstu ad hann heffdi grafid land sitt og jord sijna j Reŷkiahlijd thil fiar sier og tekid þadañ og gripid fyrir sier j onguo sijnu frelsi og eigi sial(d)nar for thil giortt enn x. sinnum og haft j huort sinn ei minna j burtt enn vij tunnur Brennesteins. og ad suarinne steffnunne ad Magnus Palsson var þangad steffndur j sagdañ stad og dag fyrir greindar sakir. dæmdum wier steffnuna logliga og hann þar logliga firir kalladañ og sekañ mork j steffnufall firir þann skulld ad hann kom eigi og Einginn hans vm̃bodzman thil nockra lagasuara[1])

Enn firir þann skulld ad Þorsteirñ kiærdi þar thil Magnusar ad hann heffdi grafit land sitt og ȷord sier thil fiar og j burtt flutt Brennestein sem j stefnunne stod og fyrr skrifad er.[2]) dæmdum vier Magnus skilldugan ad vinna vj eid jnnañ vij natta ad heyrdum̃ dominum ad hann heffdi huorki hans ȷord grafid nie brennistein j burttu flutt. Enn ef hann fiellist ad eidinum gialldi kongi iij merkur j eidfall. Enn flytia heim thil reikiahlijdar jnnan xiiij natta[3]) þar eptir so mikinn og so godañ Brennistein sem hann hefur burttu haft. smelltañ. þueiginn edur oþueiginn vndir jafnhafañ bokareid sem fyrr seigir. og þar nidur setia og vm̃ bua so huorki spillist nie fyrir spiollum standi ȷord nie Brennisteirñ af hans frǻgangi. Enn fyrir þann skulld ad greindur Þorsteirñ hafdi lögfesting a lagt fyrr neffnda ȷord reikiahlijd. dæmdum vier magnus pǻlsson skilldugañ ad giallda þorsteini fullretti hans fyrir huoria þa thilferd er hann thil giordi ad taka sagdan Brennistein vtañ Magnus suerie logligañ Bokareid ad hann hugdi sier heimillt vera eptir þui heimilldartaki sem lögbok skipar og skyrir ad heimilldartaka ǻ ad vera eptir logum og leida þar tuo logleg vitni ad hann hafi so heimilldina tekid sem login skipa[4]). og ef Magnus leidir þessi vitni og suer þennañ eid sem greint er bæti jardar spioll ad Eins. Enn landnǻm og fullretti falli nidur. Nu ef Magnus færir ei aptur Brennisteininn sem greint er þa dæmdum vier hann skilldugan ad giallda Þorsteini so mikla peninga eda adra so goda. sem hann hefur fyrir

1) Þijngfararb. 9. 2) Þiófab. 14. 3) Kaupab. 1. 4) Þjófab. 4.

Brennesteininn tekid og med þui lagi sem kaupin voro a hann sett allra manna j milli vid vtlendska menn þar j hieradi. sem var tunna Brennisteins oþueigiñ firir tunnu miols. Enn tuær tunnur þueigñar fÿrir iiij tunnur mǻlltz eda so dÿra peninga. Enn smellt tunna Brennisteinz firir iij tunnur miols edur annañ varning jafngodañ. Enn ef hann hefur ei þessa peninga sem hann heffur firir tekid. edur adra jaffnvirda. þa dæmdum vier fyrr neffndan Magnus p(als)s(on) skilldugañ ad giallda og greida neffndum Þorsteini f(innboga)-s(yni) so morg hundrud j frijdum peningum og ofrijdum sem flestra manna geingur j milli thil kaups ad hundradatali eptir þui sem hieradzmenn med logmans rǻdi hafa þar lag ǻ sett. ad ganga skilldi flestra manna j milli j nefndre sueit þijngeÿarþijngi. skilldi Magnus giallda þridiung j frijdum peningum og þridiung j ofrijdum peningum nytilegum og þridiung j ollum peningum og gialldi fyrsta þridiung allra peninganna jnnañ manadar ad heyrdum dominum. Eidunum og vitnunum follnum sem j dominum standa. heim a heimili þorsteins a grÿtubacka. annañ þridiuñg ad Michaelsmesso. þridia ad næstum̃ fardogum̃. skulu þeir badir gialldast j Reÿkiahlijd Þorsteine j hond eda hans vm̃bodzmanni. skal og kongsins sakeÿrer golldinn ad næstum̃ fardogum̃. skal þratt nefndur Magnus p(als)s(on) leida ǿll fyrr skriffud vitñi og eida firir finnboga Jonssyni logmanni. Eda þeim hann thil skipar Eptir þui sem j dominum stendur.

Og thil sanninda hier vm̃ et cetera.

---

**99. 22. Júní 1506. í Hvammi.**

Dómr sex manna útnefndr af Sturlu Þórðarsyni kongs umboðsmanni millum Gilsfjarðar og Gljúfrár um ákærur þeirra hvors til annars Arnórs Finnssonar og Bjarna Haldórssonar út af haldi á mála Ingigerðar Þorsteinsdóttur, konu Sigmundar heitins Haldórssonar, og um aðtekt á jörðunni Breiðabólsstað á Fellsströnd.

Dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, skr. c. 1608. Hér

er blað skaddað í bókinni. — AM. 211,c 4to bls. 95—97, dómabók, skr. c. 1700 (lakari afskript, og orðamunr þýðingarlaus).

Domur vm halld æ mala konu epter
Bonda andadañ.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heyra. Senda Ari Andresson. Sigurdur Narfason. Brandur Einarsson. Ormur Jllugason. Asmundur Clemensson og Guttormur Olafsson. kuediu Gudz og sijna kunnigt giorandi ad þa lidit var fra hingadburd vors herra Jhesu Christi ꝏ d vj ar. manudægin næstañ fyrir Jonsmesso holabiskups vm vorid [j huammi i huamssueit ꝏ. þingstad ꝛiettum[1]] vornm vær [j dom nef]nder af ærligum dandimanni Stulla bonda Þordar[syni er] þa hafdi mins herra kongs syslu [og vmbod[2]) j millum Gilsfiardar [og Gliufræ]r ad skoda og dæma i millum arnors finnssonar og bi[arna ha]lldorssonar vm þa akiæru sem huor þeirra kiærdi til annars. [J fyrst]u kiærdi Arnor finnsson þad til Biarna. ad hann hielldi fyrir [honum þeim] mala og villdi ecki giallda sem Jngigierdur Þorsteins[dotte]r atti j gard Sigmundar heitins mannz[3]) sins halldorssonar [bro]dur biarna halldorssonar. og honum bar nu ad giallda. Enn Ar-[nor] hafdi laugligt vmbod ꝏ. tekid af Jngigierdi til vtheimta[4]) [og allrar] epterkiæru. Enn Bjarni kiærdi þad til Arnors ad [hann hef]di ad sier tekid og bygt halfa jordina Breidabolstad er [liggur j sta]darfells kirkiu sokn og Biarni ꝛeiknadi sier til erfda [fallid hafa] epter sigmund halldorsson brodur sinn. j þa giof sem hann [sagdi Jngi]gierdur hefdi gefit sigmundi bonda sinum. Nu af þui [suo stendur j laug]malinu. at ef madur fær konu ad landzlaugum ꝛiettum og gefur i mot henni tilgiof og fellur hann i fra sidan. þa skulu henni lukast þing sijn og heimanfylgia af hans fie medan þad vinst til. Enn ef þad vinst eigi. þa skulu erfingiar ecki luka af sijnu fie. Þess annars ad huar sem mali konu er jnne. lıȷst oss ad hann eigi[5]) ad gialldast allur enn sækia til sinnar giafar med laugum. þar sem huorki er anafnad fie nie afhendt. Logdu þessir adurgreindir menn vndir dom

1) [sl, 211. 2) [b. v. 211. 3) bonda 211. 4) utheimta, bæði. 5) eiga, skrifað á spássíu í Vatnshornsbók.

þessi sijn mal þar ad hafa þad og hallda sem laugsamdañ dom hier um huor fyrir sig. sem þeir dandu menn dæmdu sem Stulli Þordarson til nefni. Dæmdum vier vndirlægit laugligt og huorn þeirra þar þa laugliga fyrir kalladañ vid annañ vm sagt mal og ækiæru. Þui ad suo prouudu og fyrir oss komnu dæmdu vier adur skrifadir domsmenn fýrskrifadañ Biarna Halldorsson skylldugañ ad giallda arnori finnssyni ad næstum fardaugum alla þa peninga sem abristi ǿ þann mala sem Jngigerdur Þorsteinsdottir atti i gard Sigmundar heitins halldorssonar bonda sins. suo hafañ og mikinn sem Arnor fær vitni til ad jnn hafi komid. edur Sigmundur heitinn hefdi vid geingit ad hann væri mikill til. og ad auk halft sietta hundrad er kom fyrir einn silfurkross. er Sigmundur heitinn hafdi sellt Birni Gudinasyne. er Jngigerdur atti og ad auk uar hennar mala sem reijknadur var. Skal þetta fie og mali gialldast af fie Sigmundar heitins halldorssonar. huort sem þad er jord eda lausapeningar edur huortueggia. suo leingi sem þad fie vinst til sem Biarni hefur eptir hann tekid. vndir sinn suarinn bokareyd.

Jtem j annari grein syndist þad þar þa fyrir oss at arnor finnsson hefdi beitt og krafid Biarna halldorsson sagdra peninga og ecki feingid. Þui dæmdum vier xij alna abata eptir huort hundrad sem ecki uar golldit. Enn laugleigu eptir huort malnytu kugilldi. og suo mickla landzskylld. sem biarni hafdi tekid med saumum abata. Skal malinn gialldast af fie Sigmundar. Enn alaugur af fie biarna.

Jtem (i) þridiu grein kom þar fram bref med jnnsiglum. suo latanda. ad jngigierdur adur nefnd skylldi hafa gefid Sigmundi bonda sinum. sem nu var andadur. enn hun lifdi eptir. fiordungsgiof vr lxxx.cvm og ecki vm greint meir. og huorki i þessa giof ǿ nafnadir peningar nie afuentir. Þui dæmum vier Biarna Halldorsson skylldugañ. ef hann villdi eptir kiæra sagdri giauf. ad leida tuo lauglig vitni fyrir Stulla Þordarsyne. suo arnor sie nær ef hann vill. Skal þad vera Jon Bondi Erlingsson og annar madur skiallligur sem fyrir er skrifadur fýrsagt bref ad sueria med fullum Bokar eydi. med huorium skylmala fýrsaugd giof uar gefin vpp ǿ Bad-

ar sıjdur. og leyna aunguo af. sem framast sau þeir eda heyrdu hier um. og ad þeirra eıjdi vnnum. dæmdu vier til laugmanz. huort afl hafa skylldi saugd giof. edur i huorium peningum hun skylldi gialldast.

Jtem dæmdu vier med fullu doms atkuædi. ad Jngigerdur Þorsteinsdottir hefdi ecki matt meira gefa enn tiundargiof þui hun hafdi ecki annad fie enn erfdagodz. Enn ef vottarnir sueria ecki eptir brefinu eptir þui sem dæmt uar. dæmdum vier opt skrijfad giafarbref onytt. og ad aungu halldandi. Enn vm þessa ækiæru sem biarni kiærdi til arnors vm bygging á ıaurdunni breidabolsstad dæmdum vier aungua sauk a. þui arnor hafdi aunguañ abata af henni tekid. Þess annars ad oss leıjst biarni ecki mega afvenda sier sialfum neina peninga.

Samþyckti med oss þennañ vorn dom nefndur stulli þordarson kongs vmbodzmann og setti sitt ınnsigli med vorum ınnsiglum fyrrgreindra domsmanna fyrir þetta domsbref skrijfat j liarskogum i Laxardal i hiardarhollz kirkiu sokn a sama ari deigi sıjdar enn fyrr seigir.[1])

---

**100. 25. Júní 1506. á Hofi í Vatnsdal.**

Tylftardómr útnefndr af Einari bónda Oddsssyni, er þá hafði míns herra kongsins sýslu í Húnavatnsþingi, um eignarheimildir Einars fyrir jörðunni Bólstaðarhlíð í Langadal.

JSig. 66. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ex originali. frä syslumanne Jone Benedictssyne sendt 1740. collatum". Af 13 innsiglum voru þá 2 fyrir bréfinu.

ihesus.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heyra senda brandr olafsson. semingur olafsson. eyiolfur ǒgmundzson. þorarinn steinþorsson. ǒrnolfur steinsson. sygurdur ıonsson. ulfur indridason. steinþor soluason. arngrimur liotzson. brandr

1) Þ. e. 23. Júní.

hliop j bvrt vr vistinne fra sigvardi oc vera adrar uj uicur hia siguardi.

---

**119. 22. Janúar 1507. á Hólum.**

Dómr átta presta útnefndr af Gottskálk biskupi Nikulássyni um Björgu Þorvaldsdóttur.

AM. Apogr. 3964 eptir transskripti frá 9. Aug. 1592, sem gert var eptir bréfabók Gottskálks biskups Nikulássonar. — Afskript af þessum dómi er og í syrpu Guðbrands biskups AM. 242. 4to bl. 16b — 17a.

Domur um Biorgu Þorvalldz D(ottur).

Þad giorum vier Jon Þorgilsson Radzmann heilagrar hola kirkiu. haldan Narfason kirkiuprestur. Nichulás wilhialmsson. hallvardur biarnarson. hallur Gudvardsson. Pietur Pálsson. Þorbiörn Jonsson. Jon Jonsson. Prestar holabiskupsdæmis godum mönnum kunnikt med þessu voru opnu brefi ad [arum eptir gudz burd[1]) m. D. vij ár á holum j hialltadal fimtudagin næstann eptir geisladaginn[2]) vorum vier j dom nefnder af vorum [andalegum faudur[3]) Goskalk med gudz nad Biskup á holum. ad dæma um þá ákiæru er biskupin kiærdi til biargar þorvalldzdottur og j stefnunne stod. þvi in Nomini Domini amen. Dæmdum vier stefnuna löglega og Biörgu Þorvalldzdottir löglega fyrerkallada hier i dag og hun kendizt sialf stefnuna.

Enn fyrer fyrstu grein sem i stefnunne stod. og biskupin klagadi til Biargar Þorvalldzdotter. ad hun hefdi vijsvitandi bundit sinn hiuskap med kaup og festingu j fiormennings frændseme vid Jon Sigmundsson. sáum vier og yferlásum þann dom sem dæmdur uar um Jon Sigmundsson um þetta sama hiuskaparband. á milli sama Jons Sigmundssonar og nefndrar biargar þorvalldzdottur. hver oss leijst loglegur ad svo profudu þvi dæmdum vier fyrrnefnder prestar ádurnefnda biörgu þorvalldzdottur med sama sak-

---

1) [anno Domini M. D. vij 242. 2) þ. e. 14. Janúar. 3) [sl. 242.

felli. fiesekt og skript[1]) og lausn fyrer ádurgreinda sauk og dæmt var um Jon Sigmundsson og i þeim dome stendur og þessu somu mali tilheyrer.

J annare grein kiærdi Goskalk til biargar þorvalldzdottur ad hun hefdi halldit sig til likamligra samvista vid Jon Sigmundzson. epter þad þau voru dæmd skilin̄. þvi dæmdum vier biörgu þorvalldzdottur[2]) skyllda ad sveria siettareid fyrer Biskupinum heima[3]) á holum eda hanz umbodzmanni eda þar hann tilskipar jnnann mánadar ad heyrdum domenum. fellzt henne eidur þa dæmdum vier hana j bann af sialfu verkinu og skyllduga ad taka skript og lausn og gialldi heilagri hola kirkiu og Biskupinum .lx. marka fyrer þetta sitt brot ohlydne og þriosku.

J þridiu grein kiærdi Biskupin til Biargar. ad hun hefdi verid j svefn og samneyte og aullum samuistum vid Jon Sigmundsson med ord og verk. rád og styrk og allann samdratt j fullre þriosku. sidann hann var j forbodi og bannsettur. og nidrad svo heilagrar kirkiu rietti þvi dæmdum vier biörgu skylldugа ad sveria siöttar eid. ad hun hefdi huerki ord eda giorder. atvik eda samvist olaugliga haft vid Jon Sigmundsson. sidann hann var bannsunginn. fellst henni þessi eidur. dæmdum vier hana j sama bann. sem Jon Sigmundsson var i sunginn: adur enn hann var leystur. og skyllduga[4]) ad taka skript og lausn af biskupinum heima á holum eda han̄s umbodzmanni. þar sem hann tilskipar. og giallda heilagri holakirkiu og biskupinum lx.[5]) merkur.

J fiordu grein kiærdi biskupinn til biargar. ad hun hefdi ecki komid heim til hola suo sem hann hefdi bodid henni ad taka skript og lausn. fyrer [þá olöglega sambud[6]) og samvist sem hun hefde[7]) haft vid Jon Sigmundsson medann hann var i. banni og forbodi og geingid svo j heilaga kirkiu oleyst j langann tima j fullre þriosku. þvi dæmdum vier Biörgu skyllduga[8]) ad giallda heilagri hola kirkiu og biskupinum. xij. aura fyrer hvert .xvj. daga halld sem hun hef-

1) skriptum 242. 2) sl. AM. 242. 4to. 3) 242; heim 3964. 4) skylldugan 242. 5) 242; xl. 3964. 6) [þad ologlega samband 242. 7) hafdi 242. 8) skyllda 242.

ur j kirkiu geingit. enn fyrer sunnudaga og postulamessur. svo opt sem hun hefur j kirkiu geingid. vj. aura. enn um̄ minne haulld eda rumhelga daga. svo opt sem hun hefur geingid i kirkiu xviij[1]) alner og .iij.[2]) merkur fyrer hvert år er hun hefnr þionustu tekid sidann fyrst hun batt olôglegann hiuskap vid Jon Sigmundsson. skal þessi sakeyrer golldinn ad næstum fardaugum. nema biskup vilie leingur bida eda uppgiefa. og ad aullu svo profudu sem fyrer oss hefur komid haufum vier fyrrskrifader prestar þennann dom dæmt. og til sanninda hier um[3]) setium vier vor Jnnsigle fyrer þetta domsbref skrifad å ħolum j ħialltadal die vincentii martiris et levitæ: sama åre sem fyrr seiger.

---

## 120. 9. Febrúar 1507. á Svalbarði.

Vitnisburðr, að Hálfdán Jónsson fékk Gottskalk biskupi á Hólum umboð sitt og Eyjólfs og Erlends sona sinna til útheimtu á arfi þeim, er Hálfdan taldi sér og sonum sínum hafa fallið eptir Magnús Jónsson móðurbróður þeirra.

AM. Fasc. XXXVIII, 16, frumrit á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 3410.

umbodsgiof Haldanar i hond Gottskalks b(iskups).[4])

Þath giorvm vid asgrimr hallzson ogh biorn indridason godvm monnum kvnnigt med þessv ockrv brefi ath svb anno gracie ꝏ⁰ d⁰ vij⁰. hinn nęsta dag fyrir festum scolastice virginis æ sualbardi ȷ þistilsfirdi vorvm vid hia sævni ogh heÿrdvm a ord ogh handaband sira ȷons ȷonssonar ok halfdanar ȷonssonar at sva fyrir skildv at adr nefndr halfdan gaf sig ogh sitt vmbod ogh sinna sona eyiols ogh erlendz ȷ valld biskups godskalks sva framt sem hann villdi sier ogh sinvm sonum til hialpar ogh atstôdv (vera). epter at tala. vtt at heimta ogh at sier taka edr taka lata þann hlvta arfs sem hann kalladi sinum sonum eÿiolfi ogh erlendi til eignar fall-

1) atian 242. 2) Þriar 242. 3) sl 242. 4) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

id hafa epter magnus jonsson. modrfodr þeirra. Skylldi biskupinn þetta umbod ogh fiarhalld obrigdiliga hafa ogh hallda mega ogh alla medgiord a eiga þar til þessir somu pilltar væri af omaga alldri. af greida þa þeim edr þeirra erfingia helming þes fiar sem feingizt hefer. en eiga sialfr annañ helminginn fyrir sinn godvilia. þar med alla sokn og akærv æ ollvm þeim peningum fostum og lavsum fridum og ofridvm ogh hvar sem standa er þessvm fyr nefndum pilltvm falla edur falled hafa til eignar. Skildi halfdan þat til at þessir hans syner skylldv hier a halldazt ogh vpp fædazt hann sialfr ogh hans varnadr mega hialpligr uera vpp ꝋ̃ þeirra hluta. Ogh til fullrar avdsyningar ogh medkenningar hier vm setr sira jon jonsson sitt jnnscigli med ockrvm jnsciglvm fyrir þetta bref giort j sama stad degi ogh ári sem fyrr segir.

---

## 121. 1. Marts 1507. á Kirkjubóli. 8. Janúar 1516. í Vatnsfirði.

Helmingalagsbréf Björns Guðnasonar og Ragnhildar Bjarnadóttur konu hans.

AM. Fasc. XXXVIII, 13, frumritað transskript á skinni með hendi mjög keimlíkri hendi Björns Guðnasonar,

Helmingafielagsbref ragnhilldar og biarnar,[1])

Þadh giorum wær grímr prestr þosteinsson oficialis heilagrar skalhollzkirkiu æ millum geirholms og langanes j añarfirdi. eigi sidr profastvr og almenniligr domari j greindu takmarki. þolleifr anñolfsson. þorgils jndridason og eyolfr jonsson leikmenn. sama biskupsdæmis godum (monnum) witurligt med þessu woru opnu brefi adh ꝋ̃ sunnudaginn epter [quarto tempore[2]) wiku wm uetrinn æ langafaustu. þꝋ̃ lidid war fra híngadburd wors herra jhesu christi þusund fimm hundrud og wii ær. ꝋ̃ kirkiuboli j ualþiofsdal. worum wer j hiꝋ̃ saum og heyrdum ꝋ̃ ord og handaband tueggia

1) Utan á bréfinu með hendi Magnúsar prúða, að mér sýnist.
2) Svo. Þ. e. 28. Febr.

ærligra manna Biarnar bonda gudinasonar af einni alfu. Enn husfru ragnhilldar biañadottur hans eigin ektar kvinnv af annari alfu. adh suo fyrir skildu J þessu þeirra hermdu handabandi greindra manna. adh þau laugdu med sier helmingafelag allz þess fiar er þau attu þä og eigande adh yrde og adh hefde ordid og þä war ofortærtt og eigi fargath sem woru jarder hærra[1]) nafnbota eda smærre med aullum fastaeignum sem þau fyrr greind hion med erfdum eignatz hafa eda sidar meir kann med erfdum wndir þau adh bera stærre og smærri Eigi sidr þau odaul sem auketz hafa eda aukatz kunna hier epter adh saulu eda sama med giauf eda giallde eda huern ueg sidar sem þeim med eign odul aflatz wnder sliku skilyrde sem wm̄ gripi og ganganda fiar[1]) kuika og og davda sma og stora sem skilur vm jarder stærre og smærre adh avllum peningum feingnum og ofeingnum til teknum enn aungum fra tauldum. under þetta þeirra helmingafelag. skyllde greind husfru ragnhilldr eiga kost adh kiosa huenar sem hun uilldi j sinn helming þau haufudbol af þeirra gozum sem hun uillde. so skylld(e) hon hafæ huort hon vill silfur [edur tÿe j sinn hlvt[2]) Eigi [sidvr[2]) skylldi hun eigä kost og skildaga til adh leysa þau haufudbol til sin sem hun uillde af þeim sem a partt biarnar kæmi ef suo kynne ske adh nauckrar oskullder kynni upp ä biorn adh koma. Attu þau þesse fyrr nefnd hion biorn og ragnhilldr baurn sín ä mille skilgeten þæ þetta fiar helmingx skipte greindra manna ä millum giorditz. Hier til ofan ä greinde og gaf titt nefndr biorn bondi husfru ragnhillde kuinnu sinni kiaurgrip ur fe sinu. Og til meiri avdsyníngar og sannrar medkenníngar þä sette biorn gudinason sitt jnsigle med worum adr greindra manna jnsiglum fyrir þetta helmingsfelagsbref huertt er skrifad war j sama stad og ar degi sidar enn fyrr seigir.

Medkennntz wær olafr gudmundzson. helgi jonsson. jon siguazson. loptr gudmundzson og gudmundr sigrdzson adh wær haufvm sed og heyrtt yfer lesed suo hliodanda bref sem hier fyrer ofan skrifad star wnder þeirra godra manna

---

1) Svo. 2) [milli lína í frbr.

jnsiglum sem fyrir þat eru skrifader. Og til sanninda hier wm settum wær fyrnefndir menn wor jnnsigli fyrir þetta transkriptarbref huertt er skrifad war j uazfirde j jsafirde þridiudagin næsta epter þrettanda dag jola[1]). anno domini (ꝏ) d xvj.

---

**122.** **5. Apríl 1507.** **á Hólum.**

PRESTASTEFNUBRÉF Gottskalks biskups á Hólum.

AM. Fasc. XXXVIII, 17, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3411.

Citatia Gottscalchi episcopi Holani.

Wier Godzkalch med gudz nad biskup ꜳ holum j hialltadal giðrum godum monnum kunnigt med þessv voru opnu brefi at wier hofum sett ogh skipad almenniligt synodum uora prestastefnu ꜳ uideuollum j skagafirde þridiudagin ogh miduikudaginn fyrir halluardzmessu nu nęst er kemur[2]). epter þui sem laugin utuijsa ogh godur gamall wane er til. þui bidium wier alla um lęrda menn ogh vnder skyllduga hlydne biodum sem byggia ogh bua millum hrutafiardarar ogh ulfsdalafialla ogh hier efter nefnazt j þessu uoro brefi at þeir kome j fyrr greindañ stad ogh dag med sinum jnciglum ogh aullu þuj sem þeim ber ath hafa ꜳ prestastefnv ogh statutam giðrir ʀad fyrir at tractera ogh skoda aull mal sem þar fram koma ogh oss ogh heilaga kirkiu ꜳhrerer ogh oss ber yfer ath taka med uorum lęrdum monnum. Skylldum wier þar til fyrstan

brodur eirek med gudz nad abota ꜳ þingeyrum nema hann sie j Riettum laugligum stadarins umbodum.

jon þorgilsson.
petur palsson.
gilbrict jons(son).
nichulas vilhialmsson.
þorstein jonsson.

1) Þ. e. 8. Janúar. 2) Þ. e. 12 Maí 1507.

gunnar þordarson.
halluardur biarnarson.
þorbiorn jonsson.
jon sueinsson.
olafur gudmundzson.
snioolfur jonsson.
jon jonsson.
jon marteinsson.
þorualldur olafsson.
einar magnusson.
magnus gudmundzson.
halfdan narfason.
jon brandzson.
gisle gudmundzson.
steinn markusson ogh
þorleifur jonsson

prestar holabiskupsdęmis. Skulu allir þessir koma til fyrr nefndrar prestastefnu sem laugliga stefndir vndir fulla hlydne uit heilaga kirkiu ogh oss,

Ogh til sannenda hier wm heingium vier uort secretum fyrir þetta bref er skrifat war æ holum j hialltadal manudaginn nęsta epter ambrosiusmesso. anno dominj ꝏ. d. uij ar.

Bidium uier wm alla goda menn at þeir uerdi uorum sendiboda hialpliger med þetta uortt bref.

---

**123. 9. Apríl 1507. í Skálholti.**

Stephán biskup í Skálholti úrskurðar Smáhamrareka í Steingrímsfirði eign kirkjunnar á Hvanneyri í Andakíl samkvæmt gjafabréfi Auðunar Salomonssonar.

AM. Apogr. 1736 eptir kopíu með hendi Páls lögþingisskrifara Gíslasonar. „Þetta bref miög lased og jnncigled fra slited“.

Um smáhamra reka j Steingrimsfirde.

Vær Stephan med gudz nád Byskup j Skalhollte giör-

um godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe ad Jon Þordarson á Hvanneyre kom fram med bref Audunar Salomonssonar med hans hanganda jncigle. ad hann hefde lukt kyrkiunne á Hvanneyre Smáhamra reka j Steingrimsfirde j Fells kyrkiu sokn. hvalreka og vidreka. Þvi leitst oss þad med ödrum gódum monnum þeim sem vier höfum til kallad med oss lærdum og leikum j allan máta skiallegt vera. og þar fyrer skipum vær greindan allan reka kyrkiunnar Eign á Hvanneyre. svo framt sem ecke kiemur annad skiallegra fram hier j mote. Og til sannenda hier um setium vær vort jnncigle fyrer þetta skipunarbref skrifad j Skalhollte sexta feria ebdomade[1]) pascę anno Domini 1507.

---

**124. 10. Apríl 1507. í Skálholti.**

Björn Þorleifsson fær af sínum parti Stepháni biskupi í Skálholti í vald alla bóndaeignina í heimalandinu í Vatnsfirði og hálfa Borgarey, guði, jungfrú Marie, Ólafi kongi og öllum helgum til æfinlegrar eignar, ásamt öllum peningum í Vatnsfirði, kvikum og dauðum og ánefndum jörðum, en biskup kvittar Björn um þær sakir, er Björn (ríki) afi hans reið í Skálholt og greip peninga stólsins og hélt síðan leingi, og að sami Björn afi hans, ásamt Þorleifi syni sínum, reið til Helgafells og eyddi og spenti klaustrsins peninga, ennfremur að Þorleifr Björnsson, faðir hans, í annan tíma reið í Skálholt með fjölmenni og tygjabramli og rauf biskupsherbergin, berandi út tygin og harneski staðarins í forþrot við staðarins umboðsmann og kirkjunnar, sem og um aðrar sakir, er Birni ber fyrir að svara.

AM. Apogr. 904 „Ex orig Vatzfiord. accuraté". — Apogr. 1225 „Ex originali Reykholensi in Islandia 1733". Staðarfrumritinu frá Vatnsfirði og Reyhhólafrumritinu, sem Björn Þorleifsson og niðjar hans hafa átt að hafa i höndum, ber undarlega mart á milli. — Afskript af bréfinu er og í Kriegers safni 2. 4to bls. 108—113 með hendi Slyrs Þorvaldssonar.

---

1) ebbede (!) Apogr.

Giǫrningsbref biskups Stephans og Biǫrns Þorleifssonar um̄ Vatsfiǫrd og mǻldaga þar.[1])

Þad[2]) giorum uær helgi prestur jonsson officialis [heilagrar skælhollz[3]) kirkiu mille botzar og gilsfiardar. gisle jonsson kirkiuprestur j skalhollti. asbiorn sigurdzson skolameistari sama stadar og[4]) jon eireksson prestar skalhollz byskupsdæmis godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi æ laugardagin j paskaviku þa er lidid uar fra hingadburd uors herra jhesu christi. ϖ. d. vij. ar j skrudhusinu j skalhollti voru vær[5]) j hia. saum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna af einni alfu herra steffans med guds nad biskups j skalhollti enn af annari [biarnar bonda þorleifssonar[6]). faldizt þat og skildizt undir þeirra handabandi æd nefndur biorn gaf upp og lagdi j ualld biskupsins [af sinum parte[7]) [alla bonda eignina[8]) j uatzfirdi j heimalandinu og halfa borgarey [herra biskupinum til frials forrædis. Ɛnn gudi og jungfru marie. hinum helga olafi konungi og ollum helgum til æfinligrar eignar[9]) med þeim [ollum peningum[10]) sem [þa voru ǻ stadnum[11]) og stadarins jordum ollvm[12]). kuikum og daudum. fridum og ofridum. [svo framarléga sem hann matti fremzt med logum giora[13]). ad þeim peningum frateknum. sem greindr biorn hafdi þangad [latid reka um haustid sua sem j fodur[14]) Ɛnn aullum audrum peningum[15]) kyrum og ohrærdum. voru þessar stadarins jarder æ nefndar kirkiunni til æfinligrar eignar. fyrst sueinshus. midhus. halshus. þufna land. halfa[16]) skalauik. eyri[17]) j miofafirdi. giorfudalur j isafirdi. [hest land og[18]) drangar æ straundum. Jtem lagdi greindur[19]) biorn kirkiuni til æfenligrar eignar. ij. jarder suansuik og uoga. skylldu greindum[20]) uatzfirdi fylgia oll þau jtok. rekar og reka partar sem honum hafa fylgt adur ad fornu og nyu. ad ollu til teknu. enn ongu fra skildu.

1) Krieger 2; 2) þath, 1225; 3) [sl. 1225. 4) ok 1225 5) 1225; sl. 904; 6) [1225; biorn þorleifsson 904; 7) [1225; sl. 904; 8) [bonda eignina alla 1225; 9) [sl. 1225; 10) [peningum ollum 1225; 11) [1225; á stadnum uoru 904; 12) 1225; sl. 904; 13) 1225; sl. 904; 14) [vm haustid j fodre 1225; 15) [1225; sl. 904; 16) half 1225; 17) eyr 1225; 18) hestur. 1225; 19) skrifadur 1225; 20) sogdvm 1225;

Jtem [hier j mot j[1]) sama handabandi gaf adur skrifadur biskup steffan fyrr greindan[2]) biorn ollungis kuittan og aakiærulausan firir sier og ollum sinum epterkomendum kirkiunnar formonnum sierliga um þessar saker sem hier epter fylgia. fyrst um þa sauk ad biorn faudurfader hans reid heim aa stadenn j skalhollti med fiolmenni greip[3]) og tok ad sier stadarins peninga. j moti uilia og radi kirkiunnar formanna þeirra sem þa uoru [og hellt sidan vm langa tima[4]). Jtem reid enn[5]) sami biorn bondin[5]) aa klaustrid aa helgafelli og med honum þolleifur sonur hans. eydandi og spennandi klaustursins peninga. Jtem firir þa þridiu sauk ad þolleifur fader hans reid og heim aa stadin j skalhollti [j annañ tima[6]) med fiolmenni og tya bramli og rauf biskups herbergin berandi[7]) ut tyin[8]) og harneski stadarins j forþrot uid stadarins umbodsmenn og kirkiunnar [og ollum audrum sokvm þeim sem opt saugdvm birne ber ath svara firir sinn part sinna forelldra vegña þeirra sem þangat til hofdv ordit[9]). Jtem skylde titt skrifadur biorn og[10]) uera olllungis[11]) kuitur [og akiærulaus[11]) um reikningsskap kirkiunar j uatzfirdi ad holdnum ollum þessum skildaga[12]).

Og[13]) til sanninda hier um festum uier fyrnefnder prestar uor jnsigli firir þetta bref skrifad j sama stad og are dei[14]) sidar enn fyrr seigir.

---

**125. 7. Maí 1507. í salnum á Hólum.**

Vitnisburðr, að Jón Sigmundsson hafi feingið Gottskalk biskupi á Hólum til fullrar eignar jarðirnar Hól og Bessastaði í Sæmundarhlíð, fyrir þá peninga, sem biskup reiknaði, að Björg Þorvaldsdóttir væri Hóladómkirkju skyldug fyrir eyðslu stólsins (**Falsbréf**).

---

1) [1225; sl. 904; 2) sagdan 1225; 3) 1225; sl. 904; 4) [1225; sl. 904; 5) 1225; sl. 904; 6) [1225; sl. 904; 7) takandi 1225; 8) tye 1225; 9) [1225; sl. 904; 10) b. v. 1225; 11) [sl. 1225; 12) skilmala 1225; 13) Ok 1225; 14) 904; deige 1225.

Bréf þetta er prentað hér eptir AM. Apogr. 4015 „Ex charta", með hendi Páls Hákonarsonar. — AM. Apogr. 4024, eptir afskript með hendi síra Jóns Gottskálkssonar. — Prentað áðr í Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum III. Hólum 1608, bl. Bvij a—b (= *b*) og Reykjavík 1904 bls. 155, og í hinum II. Hólum 1595 og Reykjavík 1903 bls. 107—108 (= *c*). Þetta er það bréf, sem Guðbrandr biskup kallar „falsbréf um Hól og Bessastaði", hið fyrra. Um þetta bréf fer Guðbrandr biskup svo feldum orðum í bæklingnum 1595 bls. 111—112:

„Hér vil eg og svo kunnugt gera góðum mönnum, úr hverju vér hyggjum þetta bréf spunnið. En hér er bæði gamall og langur atrekandi.

Eptir biskup Ólaf Rögnvaldsson frá fallinn (Anno M. cccc xc vij) nær krossmessu um vorið, varð Gottskálk Nikulásson, bróðursonur hins dauða, kjörinn til biskups á Hólum. Hann sigldi og setti síra Jón Þorvaldsson til ráðsmanns og officialis yfir stigtið, hver síra Jón eð í þann tíma hélt Höskuldstaði. Gottskálk hafði verið utan í tvö ár. Nú þá eg tók til að áhræra þessar jarðir, þá fann eg síra Gottskálk heitinn Jónsson í Glaumbæ; bað eg hann og krafði að sýna mér eignabréf biskups Gottskálks fyrir þessum jörðum, en hann lagði þar við sína trú, sál og æru, að hann hefði ekkert bréf þar um, að frá teknum þeim tveimur kaupmálabréfum Kristínar móður hans, sem gerð voru á hennar brullaupsdögum, sem hann þá sýndi mér, og ei sagðist hann nein bréf önnur hafa um þær jarðir. En þó í öðru gat hann þess svo sem í spurningu, hvort Björg mundi ekki hafa verið á Hólum hjá Jóni Þorvaldssyni bróður sínum. Og til merkis hér um, þá fanst eptir hann afgeinginn bréf skrifað á lausan pappír soddan meiningar":

Þad giorum vier Sæmundur Simunarson. Gilbrigt Jonsson. Jon Halldorsson[1]) ad vier hofum heyrt sagt ad Biorg Þoruallzdotter hefde setid a Holum med fiolmenne. hia Sijra Jone Þorualldzsyne Brodur sijnum. þa hann var Officialis og eydt storum Peningum fyrer Dom Kirkiunne et cetera.

„Nú af því að þetta var laus pappír, þá var nauðsyn að gera bréf hér upp á, ef duga skyldi, en skipta þó um mannanöfnin, því að þeir vissu að innsigli Sæmundar Símunarsonar mundi þekkjast, ef það væri ei sem það ætti að vera; annars þóttust þeir vita það, að þetta mundi ei meir rannsakast, og ekki rangdæmast, hvort sem það væri hvítt eða svart, þegar bréfið væri innsiglað og vel skrifað".

1) Þannig.

Þad medkiennust Jeg Asgrimur Ormsson. Þorvalldur Asmundzson og Brandur Gunnarsson og giore ollum monnum[1]) viturligt med þessu voru opnu brefe. ad sub anno [.m. d. og vij[2]) ar. j salnum a holum j hialltadal þann vij dag maius[3]) manadar vorum vier til vitnisburdar kallader, ad heyra ord og sia handsol[4]) biskup[5]) Gottskalks og Jons Sigmundzsonar. er Jon Sigmundzson fieck biskupinum þar strax til fullkomlegs gialldz jardernar Hol og Bessastade [liggiandi[6]) j Sæmundarhlijd j reinistadar[7]) kirkiusokn. fyrer þa peninga sem biskupin reiknadi ad biorg þorualldzdotter være Hola domkirkiu skylldug fyrer eydslu stolsins. Og til sanninda hier um [setium vier vor Jnsigli fyrer þetta bref sem[8]) skrifat var[9]) i sama stad deigi sijdar enn fyrr seiger.

---

126. 1507.

Brot af nokkrum bréfum Gottskálks biskups um Jón Sigmundsson, tekin eptir bréfabók biskups sjálfs.

Bréfabrot þessi eru hér öll tekin eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum II. Hólum 1595 og Reykjavík 1903 bls. 114—115, og hinum III. Hólum 1608 og Reykjavík 1904. Tilvísunarmerki eru hér sett við orð Guðbrands biskups sjálfs.

I.

„Item i bréfabók biskupsins standa þessi orð með hans eigin hendi“.

Vier Goskalk med Gudz nad Byskup a Holum giørum godum Møñum viturligt [med þessu voru opnu briefe,[10]) ad vier hôfum forbodad Jon Sigmundzson og sett honum anefndan tijma til Betranar. [eptir þui sem Lôgin skipa.[10]) Enn sa tijme er fyrer lôngu lidin. og hefur Jon ecke [til vor komid[11]) [et cetera. (Et post pauca)[12]) þui vit fyrer vijst Jon Sig-

1) sl. 4024, b. 2) [1507, b. 3) þannig *öll.* 4) handaband 4024. 5) biskups 4024; B., b. c. 6) [sem liggia 4024. 7) Reynenesstadar, b. 8) [et cetera, b. c. 9) [et cetera 4024. 10) [sl. 1608. 11) [giört þad til vor ad koma 1608. 12) [sl. 1608.

mundzson. ad vier setium þier xv daga frest. þu siert komen[1]) heim til Hola [jnnan þeirra xv daga.[2]) villtu þa enn ei koma. þa Bannsyngium vier þig fyrer vijst þegar oss lijkar.

II.

„Ei kom Jón að heldur til Hóla, þar fyrir hefur biskup bannsungið hann. Því að það vottar dómur Bjargar, hann hafi það ár ꝏ. D. vij bannsunginn verið eður fyrr. Nú eptir þessa bannfæring, þá skrifar biskupinn enn bréf, sem vottar hans bréfabók með eiginhendi":

J fyrstu biodum vier þier Jon Sigmundzson Lausn Heilagrar Hola Dom Kirkiu vegna og vorra af þui banne sem vier hofum þig i sett og sungid med vorum Prestum fyrer þijnar Dæmdar opinberar Saker. [so framt Kirkian fær sijnar Sekter. sem þier hafa verid a hendur Dæmdar.[3])

III.

„Grein úr einu sendibréfi biskups Gottskálks til Sveins[4]) (nokkurs) Pálssonar um Jón Sigmundsson":

Vier hølldum hann i forbode og banne. epter vorum [Domum: Hofum vier giort honum bod og latid tala vid hann.[5]) ad hann skyllde koma til vor i Friheit[6]) af oss. [og giora oss Reikningsskap af Kirkiunum og taka sijnar Skripter sem hǫnum hafa verid Dæmdar.[7]) enn hann hefur so suarad. ad hann villde koma og vera sættur. Enn hann kiemur [þo[7]) alldrei [et cetera.[7])

IV.[8])

„Item standa þessi orð i bréfabók biskups Gottskálks, skrifuð með hans eigin hendi":

Vm Jon Sigmundsson. meigi þier vita. ad vier fullkomlega. seigium þennan sama Jon Sigmundsson sem þier kalled Lǫgmann. j hæstu Pauans Banne.

---

127. [14. Maí 1507]. á Reynivöllum.

Dómr sex manna útnefndr af Þorvarði lögmanni Erlendssyni um boðfall Sigurðar Þorleifssonar.

1) jnnan þeirra xv, b. v. hér 1608. 2) [sl. hér 1608. 3) [sl. 1608. 4) Jóns 1608. 5) [Dome 1608. 6) Friheite 1608. 7) [sl. 1608. 8) þetta brot stendr að eins í bæklingnum 1608.

AM. 238. 4to bl. 49b — 50, skr. c. 1570 (Bessastaðabók), eptir bréfabók Þorvarðs lögmanns. — Dómr þessi er til í mörgum afskriptum ýngri, öllum ártalslausum, og sýnast þær allar stafa frá Bessastaðabók.

Domur vm bodfall.

Þesser domsmenn millvm Sigv[r]dar Þolleifssonar oc logmanzens Þorvard[z Ellendzsonar].

lagdi Petvr vnder log vid logmannenn vm bodfall fostvdagenn j gagnndagavikv æ Reynivollvm. dæmdo þeir bodfall vpp æ Sigvrd Þolleifsson vm. iiij. bæe. eyre fyrer hvornn bæ. sor sa bokar eid er bod bar til Sigvrdar at hefde þingbod borid til Sigvrdar at logvm. hiet sa madvr Eyolfvr Havksson sem sor. dæmvm vier honvm Sigvrde eid eda konvnne þeirre sem bodit bar innan .xiiij. natta j Savrbæ fyrir logmanninvm eda hans logligvm vmbodzmanni at hvn hefdi bodit borit at logvm til Petvrs oc Jons i Laxarnes oc at þessvm eid vnnvm kvittvr j fyrsettan tima. Svo oc dæmdvm vier j sama dome Petvr Jonson oc Jon Gislason skvlldvga at svara bada at helminge hvor fyrir .xviij. bæe. enn konge eyre fyrir hvornn bæ. sem logbok seiger j bodfall. fyrsta salit innan siovndar en allt lvct fyrir Michaelismesso j havst.

Asbiarnn Sigvattsson. Jon Sigvrdzson. logriettvmenn.

Gvdmvndvr Jonson. Brandvr Bardarson. Ellendvr Odzson. Kietil Snorason et cetera.

---

**128. 18. Maí 1507. í Fíflholti.**

Dómr sex manna útnefndr af Narfa Erlendsssyni, umboðsmanni Vigfúsar Erlendssonar kongs umboðsmanns í Rangárþingi, um kæru síra Jóns Árnasonar til Hafliða Arnórssonar, að hann hefði og héldi sinn móðurarf Eystra-Fíflholt í Landeyjum.

Bisk. Skalh. XVIII, 39, frumrit á skinni. Öll (6) innsigli eru dottin frá. — AM. Apogr. 2382.

Domur sira jons arnasonar vm partinn j eystra fiflhollti.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra

senda. Gudmundur ionsson. þorualldur eireksson. olafur ionsson. eygiolfur helgason. sygurdur andresson ok Gunnstein biornsson. Q. G. ok sina kunnigt giorandi. ad sub anno gracie ɱdvij. vorum vier j dom nefnder af ærligvm manni narfa ellenzsyne vmbodsmanni vigfus erlenzsonar kongs vmbodsmannz a þridiudægin næsta epter halluardzmessv j eystra fiflhollti aa þingstad riettum. ath dæma ok skoda þa akæru sem sira ion arnason kærdi til haflida arnorsonar. ath hann hefdi ok hielldi sinn modurarf eystra fiflhollt. var greindur haflidi þar þa laugliga firir kalladur epter þui sem stefnan bar vitni vm ok hans sialfs medkenning. Jtem kom greindur sira ion þar fram med opit bref vnder hangandi oskauddum godra manna jnsiglum ath adur greind iord eystra fiflhollt var gefin heiman til giptingar haullu gunarsdottur modur adurskrifads sira ions af gunari markussyne faudur hennar til moz vid arna heitin ionsson. Hier med tiedizt þar firir oss vitnisburdarbref med dandimanna jnnsiglum huert ed vottadi ath adur skrifadur arni ionsson fader sira ions hafdi hiellt ok tivndati fyrskrifada iord vppaa x vetur ok þadan af leingur ok eigi gaf hann nie selldi suo þeir vissv. Jtem kom þar ecki neitt skial fram af hendi haflida ath oppt skrifud iord hefdi med nauckrum laugum vndan geingit tittskrifudum sira ioni. þui at suo proffudu ok firir oss komnv dæmdum vier þrattskrifudum sira ione arnasyne til eignar[1]) suo micin hluta j tittskrifadri iordv sem haflidi hafdi halld ok medferd yfer. hvad reiknadizt x^c ok þar epter frialsliga niota mega. vtan a næsta þingi er þingat veri j greindum stad j fiflhollti veri framborit þad sannenda prof ok skilriki vnder dandimanna dom ath þratt skrifud iord hefdi med laugum vńdan þrattskrifudum sira ioni geingit. samþykti þenna vorn dom med oss greindur narfi erlenzson ok marger adrer goder menn. Ok til sanneńda hier vm festum vier vor

---

1) Hér er útskafið nokkuð úr frumritinu, allmörg orð. „Mun eitthvad ofskrifast hafa, en þeir þessvegna ei viliad brefed upp aptur skrifa" (AM.)

jnsigli firir þetta domsbref skrifad a breidabolstad j fliozhlid deige sidar enn fyrre seiger.

---

**129. 18. Maí 1507. á Munkaþverá.**

Elín Magnúsdóttir, Einar Sigurðsson og Jón Sigurðsson fá Einari ábóta og klaustrinu á Munkaþverá til fullrar eignar þann part í jörðunni Illugastöðum, er þau hefði mátt hljóta að erfð eptir Stíg Einarsson, en ábóti kvittar Stíg um alt það, er hann hefði mátt vera klaustrinu skyldugr.

AM. Fasc. XXXVIII, 23, frumrit á skinni með hendi síra Finnboga, og eru öll (3) innsiglin fyrir. — AM. Apogr. 3033. Prentað í Tímariti Jóns Pétrssonar IV, 71—72.

Uppgioff Elenar Magnusdottur Einars og Jons Sigurdssona a jllugastada tiltale 1507[1])

Þat giorum wier finnboge prestr einarsson. hallr asgrimsson ok jon þosteinsson godum monnum viturligt med þessu woru brefe. þa lidit var fra hingatburd vors herra ihesu christi þushund fimm hundrut ok vij ær æ mvnkaþueræ j eyiafirde þridiudaginn næstan eptir halluardzmessu vm̄ vorit vorum vier hia. sæum ok heyrdum æ ord ok handaband heidrsamligs herra abota einars a mvnkaþuera af einne ælfw. enn elenar magn̄wsdottur. einars sygurdzsonar ok jons sygurdzſſonar af annare. at suo fyrir skildu. at elen. einar ok jon feingu gæfu ok upplaugdu jwngfrv marie ok klaustrinu æ mwnkaþuera. þann part i iordunne illugastaudum. sem huert þeirra hefde eignazt mætt ok hliota ath riettre erfd epter stíjg heitinn einarsson. til æuinligrar ok obrigdeligrar eignar til friæls forrædis. afhendingar ok adtecktar. enn þar í mot gaf fyrr nefndr abote einar sagda menn elene. einar ok ioṅ kuitt ok ækiærulaus fyrir sier ok sinum eptirkomendum vm þa akiærv ok peninga sem stíjgr heitinn einarsson matte skylldugr verda klaustrinu æ munkaþueræ ok þeim bar at suara ef þau skillde erfdina tekit hafua efter nefnd-

---

1) Utan á bréfinu með hendi frá 16. öld.

aň stíjg heitinn. Ok til sanninda hier vm̄ heingium vier fyrr nefndir menn vor incigle fyrir þetta bref. skrifuat i sama stad ok dege ok ære sem fyrr seigir.

---

**130.** **19. Maí 1507.** **í Saurbæ.**

Dómr sex manna útnefndr af Hákoni Björgólfssyni, kongs umboðsmanni milli Botnsár og Hvítár í Borgarfirði, um kæru Jóns Þórðarsonar um geldnautarekstr í jörð hans Drageyri í Skorradal.

AM. 238. 4to bl. 49, skr. c. 1570 (Bessastaðabók) — Dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, skr. c. 1608 (= b). Afskript af þessum dómi er mjög víða til í dómabókum, en alloptast með raungu ártali (1570, fyrir 1507).

vj manna[1]) domvr vm eignn sierliga ok afriett.

Þat giorvm vier Jngemvndvr Finsson. Rvnolfvr Hoskollsson. Stefann Þorarinsson. [nefndarmenn ok[1]) svarner logriettv menn. Sigvrdvr Sigvrdarson. Sigmvndvr Þosteinsson oc Semvndvr Jonson godvm monnvm kunnigtt med þessv vorv opnv brefi þa lidit var fra gvdz byrd[2]). ꝏ. d. ok vij ar midvikvdagenn næsta fyrir hvitasvnnvdag j Savrbæ æ Hvalfiardarstrond æ þingstad riettvm vorvm vier j dom nefnder af vellbornvm[3]) manne Hakone Biorgolfssyne er þa hafde mins herra kongzins syslv ok vmbod j millvm Bodzar ok Hvitar j Borgarfirde at skoda og dæma vm þa akiærv sem Jon Þordarson[4]) kærdi sig fyrir mier vm þat skadræde er hann sagdezt hafa feingit af æagange gielldnavta rekstvrs æ jordv sinne Drageyre j Skoradal af þeirra manna fienade er avngva jtolv eda[5]) beit ætte j hans jord. Svo ok kvomv þar fram fleire menn adrer er sama mal attv at kiæra ok jarder attv þar j nander. nv af þvi at þar vorv noger þeir ed þat barv at þat hefde leinge micil(l) osidvr at þvi verid hvorsv rangliga[6]) þangat hafa[7]) marger rekit oc latid reka

---

1) [sl. b; 2) Burt b. 3) ærlegum b. 4) Þoruardzson (!) b 5) nie b. 6) ad b. v. b. 7) haufdu b.

þar j jardernar ok þeir sem jardernar eiga hafa optliga micin skada af feingit. nv ef þeir villia hallda samre[1]) ofdirfd fram ok ranglæti. þa dæmdvm vier fyrnefnder domsmenn Jone Þorda(r)syne[2]) fvllrette han(s) æ avllvm þeim er rangliga lætvr reka j hans jord. En af þeim sem færri navt reka þangat enn fvllrietti æ fyrir at koma leyfislavst. bæte landname sem menn meta. svo þicker oss aller menn[3]) eiga eina sok er þar eiga jarder j nander. nv ef þesse navtfienadvr giorer meira skada brytvr hvs manna edvr skemmer fienad manna eda spiller forverke manna. þeir sem þenna fienad eiga leyse vt med fvllvm skadabotvm. Ok til sanninda hier vm settvm vier fyrnefnder domsmenn vor jnsigle fyrir þetta domsbrief er skrifad var æ Jnndridastodvm æ sama are sem fyr seiger.

---

**131. 7. Júní 1507. Í Saurbæ á Kjalarnesi.**

Dómr sex manna, útnefndr af Þorvarði Erlendssyni lögmanni sunnan og austan á Íslandi, um hald Jóns Sveinssonar á jörðunni Stærri Leirárgörðum i Leirársveit fyrir Oddi Vilhjálmssyni.

AM. 238, 4to bl. 50, skr. c. 1570 (Bessastaðabók). — AM. Apogr. 1678 (tvær afskriptir; önnur eptir Bessastaðabók).

Domvr vm Leirargarda.

Ollvm godvm monnvm sem þetta bref sia edvr heyra senda Hakon Biorgolfsson. syslvmadvr [j sama stad[4]). Narfe Sigvrdzson. Olafvr Asbiarnarson. Jngemvndvr Finnsson. Steffann Þorarinsson. logriettvmenn. og Sigvrdvr Sigvrdarson quediu gvdz ok sina kvnnigtt giorande þa lidit var fra gvdz byrd m d vij ar. fostvdagenn næstan epter festvm corpvs christi[5]) æ Heynes þinge æ Akranese vorvm vier j dom nefnder af vellbornvm manne Þorvarde Ellendzsyne logmanni svnnan oc avstan æ Jslande ok kongz vmbodzmanni j sama stad.

---

1) sliku (!) *b.* 2) Þoruardzsyne *b.* 3) b. v *b.* 4) [Þ. e. milli Botnsár og Hvítár (sjá næsta bréf hér á undan). 5) = 4. Júní.

at skoda dæma ok alita vm þa akærv er Oddvr Vilhialmzson kærde ok klagade til Jons Sveinssonar vm eina jord er stærre Leirargardar heita er liggia j Leirar kirkio sokn ok Jon Sveinsson hefer leinge haftt ok halldit fyrir greindvm Odde Vilhialmssyne[1]) ok fyrnefnd jord hefer stadit j morg forliden ar j storre þrætv ok klogvnn j millvm advrgreindra manna. logdv þeir vnder log þar æ þingenv med handabande svo vier savm aller greinder domsmenn at hafa þat ok hallda stodvgtt ok obrigdvligtt sin æ millvm sem advr nefndvr Þorvardvr logmadvr giorde med dome edvr sama þeirra vj dande manna sem hann til nefnde med sier vm advr greint mal opttnefndra manna Oddz ok Jons. komv þar j domenn fyrir oss ok þar vpp lesen vitnisbvrdar bref hin ok onnvr ok domvr af hvo(r)stveggia parte er oss leitz hvoretveggio bref ok domar hvorer dæmder j mote odrvm hvor vier lietvm svo blifa ok vera hvorke nytt nie onytt ok hvoregvm þeirra til nytta koma þrattnefndra manna Oddz ok Jons. Seigir[2]) svo vor logbok at avll þav mal sem jafnvizt er hverttveggia þa skal oll til betra efnis færa at svo profvdv ok fyrir oss komnv þvi dæmdvm vier fyrnefnda jord Leirargarda halfa hvorivm vm sig til æfinligrar eignar Odde ok Jone til fvllrar eignar ok frials forrædis sem henni hefvr fylgtt at fornv ok nyiv ok hvn er til reiknvt at riettv xxiiij c. en þrattnefndan Jon Sveinsson med frialso mega æ bva æ fyrnefndre jordv fra fardogvm nv j vor ok til annara fardaga ena næstv med svodan skilord at greindvr Jon skal bitala optt nefndvm Odde Vilhialmssyni svo mykla landskylld af halfvm Leirargordvm fyrir part Oddz sem vj menn meta eda þeim sialfvm semvr. Samþyckte þennan vorn dom fyrnefndvr Þorvardvr logmadvr ok sette sitt insigle med vorvm insiglvm. Og til sanninda hier vm settvm vier vor insigle advrnefnder domsmenn fyrir þetta doms bref skrifat j Savrbæ æ K(i)alarnese iij dogvm seinna enn fyr seiger.

---

1) Vilhiamlssyni, hdr. 2) siegir, hdr.

**132.** **21. Júní 1507.** **á Varmá.**

**Dómr** sex manna, útnefndr af Þorvarði Erlendssyni lögmanni sunnan og austan á Íslandi, um ákæru upp á Þorleif Jónsson á Lágafelli um framfærslu bróðurbarna hans.

AM. 238. 4to bl. 47b — 48. skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Domvr Þolleifs Jonsonar æ Lagafelli.[1])

Þeim godvm monnvm sem þetta bref sia edvr heyra senda Olafvr Olafsson logriettvmadvr. Arne Erecksson. Þoroddvr Oddzson. Jon Halldorsson. Gvdmvndvr Snorason oc Kietel Jonsson kvediv gvdz oc sina kvnnigtt giorande þa lidit var fra gvdz[2]) byrd vors herra jesv christi ꝏ. d. oc. vij. ar manvdagenn næstan fyrir Johannis baptiste vm svmarid æ Varmæ j Mosfelltzsveit æ þingstad riettvm vorvm vier j dom nefnder af velbornvm manne Þorvarde Ellendzsyne logmanne svnnan oc avstan æ Jslande at skoda. dæma oc ransaka vm þa ækiærv oc aklokvn[2]) er dæmd hafdi verit vpp æ Þolleif Jonson vegna brodvr barna greindz Þolleifs oc þratt nefndvr Þolleifvr beidde hier doms æ sem var vm framfærslv advrgreindra barna hvort fyrgreindvm þolleife bære med logvm fram at færa greinda omaga oc epter þeim dome sem þar hefdi verit vm dæmdvr kom j dominn fyrir oss bref svo hlydanda med oskoddvm insiglvm abotans vr Videy oc annara godra manna ad sied hefde oc virtt[3]) alla penninga frida oc ofrida optt nefndz Þolleifs Jonssonar hvorier reiknvdvst. lxxx. annars .c. er ecki vantzt til skvlldanna sem bref þar vm giort vtvisar oc hann sialfvr litt fær bæde saker alldvrs oc krankleika. stendvr svo skrifat j vorre logbok at omagar skvlv framfærast æ fie en ecki æ skvlldvgleika oc fara fram j ætt þar til er hittir æ forlagseyrer. At svo profvdv oc fyrir oss komnv dæmdv greinder domsmenn opttnefndvm Þolleife einn omaga af þessvm hans brodvr bornvm hvorke ed elldzta nie yngsta med svodan penningvm oc tillage sem þvi heyrer med riettv. Skall hann þvi vord veita oc þess pen-

1) Framan við þetta bréf er ritað: „Hier epter fylgia nokkvr bref oc domar sem at skrifved (!) er vr bok Þorvardz Ellendzsonar“.
2) Þannig. 3) verit, hdr.

ingvm sem sialfs sins omogvm edvr lata veita svo leinge sem greinder omaga penningar til vinnast.

Og til sanninda et cetera.

---

133. 1. Júlí 1507. á Þingvelli.

Vigfús hirðstjóri Erlendsson veitir Þorsteini Finnbogasyni sýslu á milli Vargjár og Úlfdalafjalla (Vaðlaþing).

AM. Fasc. XXXVIII, 11, frumrit á skinni, og er innsiglið enn fyrir. — AM. Apogr. 1177.

Syslubref Þorsteins Finbogasonar.[1])
Bref Vigfuss Erlendssonar hirdstiora er hann veitte Þorsteine fim̃bogasyne syslu.[1])

Eg vigfvs erlendzson hirdstiore oc haufvdzmann yfer allt jsland heilsar alla goda menn þa sem býggia oc bva j millvm vargiar oc ulfdalafialla med gvds kuediu oc minne. uil ec ydr uiturligt giora. at ec hefer unt oc ueitt ærligum manni þorsteini finbogasyni mins herra kongsins syslu oc umbod hier med ydr med skauttum oc skylldum rekum oc renningum hvolvm oc hafregstrvm oc avllum þeim ʀette oc ʀentu sem kongdomin oc mer til heýrer oc eigi er adur lauggligur sattmali a komin. skal hann aull mal smære oc stære sætta oc semia segta oc nidur setia fyrir sig stefna yfer at taka doma yfer at nefna at aullu suo fullu sem ec sialfur. skal hann oc eignazst aull sex marka mal oc þar fyrir jnnan sier til lettis fyrir sitt starf en ef stęrre mal kunna til at falla sem gud lati fęrri en fleire þa skal hann þau sækia under kongdominn oc mic oc mier þar rettan reikning af giora. skal hann oc kongsins iarder býggia j greindu takmarki. landskyllder uppbera oc uiseýri saman taka edr taka lata oc þangad færa sem eg giori rad fyrir at afluktu nefndarmonnum sitt þingfararkaup. skal hann oc fullt ualld til hafa at gefa þeim monnum dag sem j uandræde kunna at falla edr fallid hafa þeim a kirkiunar nader komazt. skal

1) Utan á bréfinu með tvennslags höndum frá 17. öld.

hann oc stefna þeim monnum aftur ȷ þa syslu sem þeir hafua brotliger orded ef þeir hlaupazst ȷ adrar sueiter. skal hann oc fullt ualld til hafa þeim manni umbod at gefa til laug oc rett at giora ȷ fýrgreindri sýslu at suo fullu sem hann sialfur. byd ec þrattnefndum þorsteini at hann tali laug oc rett til huers mannzs þo med uægd oc miskun þar sem þess þarf med en þriozskum oc þralyndum se hann rettur domari oc refsingasamur. bidr ec um alla goda menn oc sierliga míns herra kongsins uini oc mina at þier seud greindum þorsteini greider oc goduiliuger huers sem hann kann med þurfua oc latid vel oc reiduliga at komazt þeim goduilia er þier uilid honum giort hafua. skal hann þessa míns herra kongsins syslu hafa oc hallda til nęsta auxararþings oc þat leingr sem eg giore ecki adra skipun upp a. Og til sannenda hier um setta ec mitt incigli fyrir þetta syslubref giort a þinguelli fimtudagin nęsta fyrir uisitacio sancte marie uirginis. anno domini ꝏ⁰. d. vii.

---

## 134. 5. Júlí 1507. á Öxarárþingi.

Dómr sex manna útnefndr á Alþingi af Finnboga lögmanni Jónssyni um fjórðungsgjöf Þorbjargar Brandsdóttur.

Landsskjalasafn 94. 4to bl. 4a—b með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — ÍBfél. Kh. 67. 4to bl. 66a „Iclis" með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745), og er ártal þar 1504. — Landsb. 873. 4to bls. 59, skr. c. 1620 (ártal 1504).

Alþingis Domur wm sama Efne.[1])

Þeim Godum Monnum sem þetta Brief sia Edur heyra [sendum vier[2]) Stulle Þordarson. Magnus Þorkielsson. Hakon Hallsson. Pietur Tomasson. Audun Sygurdsson og Jon Sigmundsson. Quediu Guds og sijna kunnugtt giorande ad þa lidit var fra Guds burd ꝏ d vij[3]) ær[4]) Manudaginn næstañ epter pieturs messo og pals æ Almenniligu Auxararþinge worum vier ȷ dom nefnder af ærligum manne finnboga Jonssyne Laugmanne nordañ og westañ æ Jslande Ad skoda Og

1) Sjá dóm frá 13. Okt. 1506. 2) [senda 67, 873. 3) iv, 67. 4) b, v. 67, 873.

dæma vm̄ þau vitnj sem Asgrimur Þorbiarnarson hafde leitt vm̄ þa fiordungsgiof sem Þorbiorg Brandsdotter skillde giefit hafa greindum Asgrime Bonda sinum. sem var Juar Sygurdsson og Alridur[1]) Gunnlaugsdottir er reiknud var hoorkona Asgrims Þorbiarnarsonar. Suo og þa orda herming sem Juar Sygurdsson hermde æ Eigil[2]) Grimsson. Litast[3]) oss þesse vitni eij fullkomlig epter logum Boriñ hafa verit. Þuj ad suo profudu Male sem fyrir oss kom Dæmdum vier þesse vitni eij afl hafa vpæ fyrgreinda fiordungsgiof.

Samþyckte [þennan dom greindur Laugmann og sette sitt Jncigle med vorum Jnciglum et cetera[4]).

---

**135. 6. Júlí 1507. á Öxarárþingi.**
**14. Apríl 1508. í Ögri.**

Vitnisburðarbréf um samtal þeirra Einars Oddssonar og Björns bónda Guðnasonar um grip á eignum Einars, er hann bar á Björn, en Björn þóttist hafa heimildir Einars fyrir.

AM. Fasc. XXXVIII, 14, frumrit á skinni. Af 3 innsiglum er nú 1 fyrir bréfinu.

Þat giorum wer olafur gudmundzson. helgi jonsson ok æri sigmundzson godum monnum uiturligt med þessu woru oppnu brefi ath þæ er lidith war fræ hingatburd wors herra jhesu christi M d ok vij ar æ þridiudagin næstan epter peturs messo ok pals um sumarid æ almenniligu auxarárþingi woro wer j hia ok heyrdum æ ath þeir toluduz med biorn bondi gudnason af einne alfu enn einar oddzson aff annari ath suo byriudu mali ath einar spurdi biorn fyrir hweria sock biorn hefdi gripid sina peninga ok greindi til med nafni jarder ok kugilldi goddastadi. laugar ok bessatungu. gaf Biorn þat suar þar til ath hann sagdi einar sialfan feingit hafæ sier med handæbandi til fullrar eignar attecktar ok frials forrædis med slickum kugilldum sem þæ woro med

1) 94, 873; = Álfríðr = Álffríðr; „al. Astríður“, Jón Pétrsson á spássíu eptir 67. 2) Svo 67; Eigill 94. 3) Litust 67. 4) [sl. 67.

adr nefndum jordum er einar hefdi æfsifiat sier þessar adr nefndar jarder heima æ hofi j uazdal. þar under kirkiuuegnum. Enn fyrir þessæ sogn ok fræmburd biarnar æ logligri heimilld til hallz æ her(m)dum jordum og kugilldum syniadi einar med osæmiligri afsackan med oswarligri neitan j naueru suo gaufugra mannæ sem þo[1]) woro nær stadder þeirra uidtali ok baud biorn þæ einari ath synia fyrir hermpt handaband sem logmalit giorer ʀad fyrir. Enn einar syniæde sem fyr seiger sagdræ laga ʙodæ. wændiz þratt nefndr biorn ath einar hefdi þessi greind kugilldi xij ok tilsagdar jarder til skipat sier med samæ eignarordi ath næstum fardogum sem adr hermer wnder swo felldæ grein ath einar [skylldi stadin[1]) eignaz jordinæ Bolstadærhlid. hweria Biorn sagdi einar hefde bodit sier æ uegnæ Olafs filipussonar fyrir þann ǻskilnad ok peninga ʀeikning er Biorn reiknadi ok hiellt sina eign weræ j gard greindz olafs Enn einar at sogn manna mundi hafæ suar æ ok umbod olafs til slikra malæ lycktæ. Ok til sanindæ hier um vittal þessarræ mananæ[1]) wm greint samtal þæ settum wer fyrr greinder menn wor jncigli fyrir þetta ʙref er giort war j augri j isafirdi æ faustudagin næstan fyrir dominica palmarum æʀi sidar enn fyr seiger.

---

**136. 18. Ágúst 1507. á Melum.**

Stephán biskup í Skálholti gefr öllum þeim mönnum 40 daga aflát, er sæki með guðrækni og góðfýsi Hvanneyrarkirkju í Borgarfirði eða rétti henni hjálparhendr.

AM. Apogr. 1689, eptir frumriti, sem innsiglið var dottið frá.

Uer Stephan med guds nad biskup j Skalhollti heilsum ollum godum monnum þeim sem þetta wort bref sia edr heyra kerliga med guds kuediu og worri kunnigt giorandi at j heidur uid allz valldanda gud og jungfru Sanctam mari-

1) Svo.

am guds modur haufum wer uigt kirkiuna æ huanneyri ȷ borgarfirdi med (þeim) maldaga sem hun hefer adr haft ad fornu og nyiu. hier med haufum wer gefit ȷ guds trausti og heiglagra[1]) postula petri et pauli og modur worrar heilagrar kirkiu ollum rett skriptudum monnum og ȷdrandizt synda sinna. xl. daga aflat þeim monnum ollum sem uitia greindrar kirkiu med gudhrędzlu eda godfysi fyrir bęna saker eda pilagrimsferda heyrandi þar messur eda nockur gudlig embætti. ȷtem þeim sem retta sinar hialparhendr til gagns[2]) edr goda um upphelldi edr efling smid eda byggiñg greindri kirkiu. wm messuklędi. skruda eda onnur ornamenta. lysing. uax. reykelsi. uid eda adra naudsynliga hluti. Suo og þeim sem ganga um kirkiugardinn og lesa pater noster eda aue Maria fyrir kristnum salum. ȷtem þeim sem fęra lios eda uatn til messu eda þiona til gudz embęttis. ȷtem þeim sem lesa pater noster og aue maria uid þritekna hringing æ morna og a kuolld. ȷtem þeim sem liosta æ briost sier þa er presturin seiger ȷ Messoni nobis quoque peccatoribus. Suo og þeim sem fylgia gudz likama þa hann er borin til siukra manna eda ȷ processione. ȷtem þeim standa uid predican og huert þat sinn er þeir giora eitt huert af fyr nefndum[3]) hlutum eda odrum þuilikum þa seigum wer þeim til adr greint .xl. daga aflat[4]). Skipvm wer ad kirkiudagrinn se halldinn

1) „ita extat. corr. *heil*". (AM.) 2) „*gangs* in originali perperam" (AM.) 3) in originali extat: *fyr nefnendum.* sed perperam" (AM.) 4) Það, sem eptir fer af þessu bréfi, segir Árni væri „ritad med annarre hende enn hid fyrirfaranda. syndest i fyrstu ölldungis ólæselegt i originalnum. grillte alleina i fáa eina stafi. so siást kunne. ad þad var einhver skrift. Eg bleytte brefed ok skóf bak til. uard þä skriften syneleg og allæs. Bleked hefur ä þessu vered fölara enn þvi fyrir faranda i brefenu. Er þetta og i originalnum ritad med annarre hende enn hid fyrerfaranda — höndenn ä þessum sidarsta hluta brefsens er hin sama sem ä einu Skalholltzbrefe um legkaup Stafafellz kirkiu daterudu 1495 utgefnu af Stefane biskupe [Dipl, Isl. VII. Nr. 309] eda og miög lik henne. ef þad er ecke riett hin sama — Er þó eins genuinum og hid fyrra i brefinu. Hefur og alldrei hier brefed skafed vered. helldur er þetta so. strax i öndverdu. originaliter skrifad. med annarre hende og ödru bleke enn ä fyrra parte brefsens er. Skriften ä þessu sidarsta vard vid bleytinguna so liós. ad

svnnvdaghin næsta epter assvmpcionem beate virginis. jtem lvckti jon bondi Þordarson kirkiunni messvklędi og skrvdakistv huortueggia fyrir .ccc. svo sem þat reiknazt til vppa porcionem. Oc til sannenda hier vm festvm ver vort jnnsigle fyrir þetta bref skrifad a melum j melasueit tercia die post assvmpcionem eivsdom virginis anno domini ꝏ d vij.

---

**137. 16. September 1507. á Möðruvöllum.**

Guðmundr prestr Jónsson selr Nikulási prior og klaustrinu á Möðruvöllum jörðina Böggustaði í Svarfaðardal fyrir jarðirnar Bakka og Steindyr í sömu sveit með þeirri milligjöf, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XXXVIII, 22, frumrit á skinni. Annað innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 2985.

Þath giorum vith hiallte þorfinzson ok jon biornsson godum monnum kunnigth med þessu ockrv brefi ath þa er lidit var fra hingatbvrd vors herra jhesv christi þusvnd ok fimhundrut ok vij. ær. ǻ miduikudagenn j fardaghaviku[1]) vm vorit æ vollvm j swarfadardæl vorum vith j hia sæwm ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna brodur nicholas priors ǻ modruuollum ȷ́ haurgardæl ok sira gudmundar jonssonar. ath suo fyrir skildu ath sira gudmundr jonsson selldi priornvm ok klaustreno ǻ modruuollum jordena bauggustadi j swarfadardæl er liggr j vpsa kirkiv sokn til fullrar eignar med ollum þeim gognum ok gædum sem greindre jordu bauggvstaudum fẏlger ok fylgth hefer ath fornv ok nyio ok sira gudmundr vard fremzst eigandi ath. hier j moth gaf adrnefndr prior nichvlas jardernar backa ok steindyr er ligia þriar j einni torfv er liggia j valla kirkiu sokn j swarfadardæl med ollvm þeim gognum ok gædum

---

aller apices literarum urdu tuto exprimerader. og er þetta sidarsta accuratissime copierad epter þessum hluta originalsens (eins vel sem þad fyrra) so hier er ecki um neitt af (!) efast. Ecki helldur um arstaled. sem augliost vard. eins sem allt annad". 1) Þ. e. 2. Júní.

sem greindvm jordum fylger ok fylgt hefer ath fornv ok nyiu ok klaustrid vard fremst eigande ath. Gaf fyrnefndr sira gudmundr jonsson j millum greindra jarda fim hundrvt j þarflighum peningum fyrir vtan kapla ok skyllde gialldast ath næstum fardogum. Skyllde huor þessara manna hallda til lagha hvor sinne jordu epter kaupe siñu. kynne ok bauggustader ath ganga af med laughvm þa skyllde prioren ok klaustret ganga aftur ath sinvm jordvm. Enn hvor vm sigh þessara lærdra manna byggia sina jord epter komanda fyrir næstu fardagha. Ok til sannenda hier vm settvm vith fyrnefnder menn ockur jncigle fyrir þetta jardakaupsbref er skrifat var a modruuollum j haurgardal vm haustid fimtudagenn j ymbruviku a sama ære sem fyr seigir.

---

**138.** **6. Oktober 1507.** **á Munkaþverá.**

Pétr bóndi Loptsson selr Gottskalk biskupi á Hólum jörðina Bjarnarhöfn í Helgafellssveit fyrir jarðirnar Þverá í Fnjóskadal og Vík í Flateyjardal með þeim greinum, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XXXVIII, 18, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum eru tvö fyrir bréfinu nú. — AM. Apogr. 3412.

kavpbref (fyrir) biarnahofn[1]).

Þat giorum wier hallr prestr guduardzson. magnus arason. sæmundr simonarson. ion sygurdzson ok helge sygurdzsson leikmenn godum monnum viturligt med þessu voro opnu brefe sub anno gracie millesimo quingentesimo septimo. a laugardaginn næstañ fyrir dionisij martiris[2]) j myklagarde i eyafirde. vorum vier hia. saaum ok heyrdum a ord ok handabañd þessara manna. vors virduligs herra ok andligs fedr godskalkz med gudz naad biskups a hoolum af einne halfu. enn peturs bonda loptzssonar af annare. at suo fyrir skildu. at greindr petur bonde loptzson sellde biskup godskaalke

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) Þ. e. 2. Okt.

iordina biarnarhaufñ er liggur i helgafellzsueit ok þar med kothraun. sel ok amyrar. er liggia i biarnarhafnar kirkiu sokñ. med ollum þeim gaugnum ok giædum eignum ok itaulum ok audrum hlunneñdum sem þessum nefndum iordum fylger ok fylgt hefer at fornu ok nýu. ok hann vard fremzt eigande at vndan sier ok sinum erfingium. enn biskup godskalke til fullrar eignar. frials forrædis ok laugligrar atteckt-ar. hier a mote sellde biskup godskalk petre bonda loptzsyne iardiñar þueraa i hnioskadal. er liggur i laufaas kirkiu sokñ. ok víjk i flateyardal er liggur i flateyar kirkiusokñ. ok þar til. x. malnytu kvgillde. med ollum þeim gǫgnum ok giædum sem þessum iordum fylger ok fylgt hefer at fornu ok nýu. ok eigi er aadr med logum undan kom(i)t vndan sier ok heilagre holakirkiu. enn petre bonda loptzsyne ok hans erfingium til æuinligrar eignar ok frials forrædis. hier med tilskilde biskupinn i sama handabande. at petur bonde loptzson skillde fa kirkiunne i biarnarhaufñ suo maurg kugillde sem hann være henne med riettu skylldugur. skillde sa er keypte hallda til laga sinu kaupe. enn sa suara lagariptingum er sellt hefde. Ok til sanninda hier vm̃ heingium vier fyrr nefnder menn vor incigle fyrir þetta bref skrifat a munkaþueraa i eyafirde in die fidis virginis et martiris a sama are sem fyrr seigir.

---

**139. 7. Oktober 1507. í Björgvin.**

Gauti erkibiskup í Niðarósi veitir síra Finnboga Einarssyni Grenjaðarstað, sem laus var eptir dauða Eiríks prests Einarssonar.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Hans lögmanns Beckers og leiðréttingum Árna Magnússonar „ur brefabok biskups Ögmundar“.

Bref fyrer greñiastǫdum.

Gavto miseracione Divina Archiepiscopus Nidrosiensis ac Apostolice sedis Legatus. dilecto in Christo filio Domino

Finnbogo Einari. presbytero Holensis Dyocesis. salutem in Domino.

Vacante ad presens de jure et de facto ecclesia sancti Marthini in Greniostadi. prefate Holensis Dýocesis. per obitum bonæ memoriæ Domini Eirici Einari. eiusdem ecclesiæ immediati possessoris. cujus ad nos. jure metropolitico. qvociens eam vacare contigerit. povisio dinoscitur pertinere. de tuę personæ jdoneitate confisi quod parochianis[1]) eiusdem ecclesiæ. exemplo vitæ et verbo doctrinæ preesse velis et valeas pariter prodesse. ipsam cum omni jure et onere presbiterali sibi annexo. de consensu venerabilis capituli nostri. tibi avctoritate metropolitica conferimus.[2]) curam et regimen animarum atque Administrationem spiritualium et temporalium in eadem tenore presencium. assignantes. in cuius Collationis[3]) Testimonium et firmius robur. presentes fecimus secreti[4]) nostri[4]) appensione[4]) communiri.

Datum in curia nostra Bergensi[4]) septima die mensis octobris Anno Domini ꝏ⁰ D⁰ vij.⁰

---

**140. 7. Oktober 1507. Í Björgvin.**

Gauti erkibiskup í Niðarósi staðfestir dóm og úrskurð Stepháns biskups í Skálholti, að Vatnsfjörðr í Ísafirði skuli vera staðr (beneficium) æfinlega.

A.

*Latínski frumtextinn.*

AM. Apogr. 903 með hendi Árna Magnússonar „Ex original. Vatzfiord. accuraté“. Árni lýsir innsiglinu.

Nos Gauto Dei gratia Archiepiscopus Nidrosiensis ac Apostolice sedis legatus. notum facimus universis presentes visuris vel audituris. nos vidisse et diligenter considerasse ex parte Reverendi Domini et fratris nostri. Stephani Dei gratia

1) parodjianis, hdr.; AM. leiðrétti. 2) AM. leiðr.; confirmemus, hdr. 3) leiðr. AM.; Collationem, hdr. 4) —is (!) hdr.; AM. leiðrétti.

Skalotensis Episcopi. sententiam super Ecclesia Wadzfierda i Jsafyrde latam. et plurium sacerdotum ejusdem diocesis testimoniis et sigillis roboratam. in qva qvidem sententia. post diligentem per eos actam examinationem. prefatam Ecclesiam exhinc perpetuis temporibus beneficium appellari et esse pleno jure decreverunt. qvam deniqve sententiam. tanqvam juri consonam et pontificialis dignitatis auctoritati debitam. approbamus. ratificamus et auctoritate metropolitica in Domino confirmamus. omnem qvorumcumqve adversariorum contradictionem districte inhibentes. Jn cujus nostræ confirmationis evidentiam et firmius robur presentes fecimus secreti nostri appensione communiri. Datum in curia nostra Bergensi ipso die Sancte Birgitte vidue. anno domini millesimo qvingentesimo septimo.

## B.

### *Íslenzk þýðing (frá 1514 eða fyrri).*

Eptir máldagabókinni gömlu í Biskupsskjalasafni (D 12, bl. 139b–140a) með hendi Bjarna Marteinssonar 1601 (= *a*). — AM. Apogr. 931 (eptir kopíukveri Vatnsfjarðarkirkju hinu meira), — Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 350—351, með latínskri þýðingu eptir Finn biskup sjálfan.

Erkebiskupsbref vm vestfiordu.

Vij Gauto med gudz nad Erkebiskup j nidaros oc paualigs sætis legatus giorum kunnugt aullum þeim sem þetta vortt bref sia edur heyra ad vij hofum sied oc yfirlesid og giorla skodad vegnna vors virdugliga[1]) brodur. herra stephans med gudz nad biskups j skalhollte. dom oc vrskurd yfir vatzfiardarkirkiu j jsafirde framsagdann og vpplesinn. styrktann oc staudugann giordann med samþycke. brefum oc jnnsiglum margra kennemanna þess sama biskupsdæmis. j huerium dome edur vrskurde þeir hofdu alyktarord[2]) gefid (kirkiunnar logum. ädur[3]) smasmugliga[4]) vnndir skodudum) þessa savmv[5]) vatzfiardar kirkiu vera oc eiga ad blijfa fullmegtugt benificium æfinliga hier eptir. huernn dom edur vrskurd vij

1) virdvligs 931. 2) — eid *a*. 3) sl. 931. 4) adur, b. v. hër 931. 5) sl. *a*.

sampÿcktum̄[1]) oc stadfestum̄ med rǫgsemd hofuddomkirkiunnar j nidarose oc j gudz nafne[2]) alsenndiliga stÿrkium fÿrirbiodande strijdliga aullum̄ oc sierhuerivm̄ hier j mote at[3]) tala eda giora. oc til meire [stadfestijnngar oc stÿrkijnngar[4]) hier vm̄ festum̄ vier vortt jnnsigle fÿrir þetta bref. skrifad uppä vornn gard j biorguin̄ vppa sancte Brijgittardag. Anno domini [Millesimo quingenntesimo septimo.[5])

---

**141.** **6. Nóvember 1507.** **í Glæsibæ.**

Dómr tólf klerka út nefndr af Gottskálk biskupi á Hólum um sakir þær, er biskupinn kærði til Hoskuldar Runólfssonar.

AM. Fasc. XXXVIII, 19 frumrit á skinni. Af 10 innsiglum eru nú 2 ein fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 3413.

Dőmur vm sakir Hoskulldar Runolfssonar 1507.[6])

Þath giorum vier broder nicvlas med guds nad prior æ modrvvollvm. jon jonsson radzmadur heilagrar hola kirkiv. gudmundur jonsson. jon finnbogason. jon þorvardzson. jon arason. þorbiorn jonsson. jon philippusson. hallur hallvardzson og þorleifur jonsson prestar holabiskupsdæmis godvm monnum viturligt med þessv voro opnv brefi at sub anno gracie millesimo quingentesimo septimo. favstvdagen jnfra[7]) octavas omnium sanctorum a modrvvollvm í havrgardal vorum vier i dom nefnder af godskalki med guds nad biskupi a holum at skoda. rannsaka og dæma vm þær saker er biskupinn kærdi til hoskolldar rvnolfssonar. þui at til kalladre gudz nad og nafni. dæmdum vier stefnvna logliga og hoskolld logliga fyrir kalladan̄ hier j dag. og mork j stefnvfall fyrir þat er hann kom ecki og eingi hans logligur vm-

---

1) — þyckivm 931. 2) 931; vallde, *a*. 3) b. v. 931. 4) [styrkingar og stadfesti, 931. 5) M. d. vII., 931. 6) Utan á bréfinu með hinni sömu hendi, sem optast er utan á Hólastólsbréfum, og er frá 17. öld. 7) Hér verðr „infra“ að þýða *„fyrir“ (ekki:* eptir*)*, og verðr þessi dagsetning 5. Nóv.

bodsmadur. enn vm fy̆rstv grein er ȷ stefnvnni stod og biskupinu kærdi til havskolldar rvnolfssonar vm tivndarholld a þeirra peningvm fridvm og ofridvm er havskolldr hefer og haft hefer medferdiss upp a morg ær vegna einars eyolfssonar med iordvnni mavdrofelle og avngva tivnd af giort. nu saker þess at kirkivnar log tilvisa at tivnder skulo lvkazt þar sem eignin liggr og a(t) þeim loglig heimta sem a jordv by̆r. þui dæmdvm vier havskolld runolfsson skylldvgañ at lvka tivndernar af fy̆rrskrifudvm peningvm. og þriar merkr upp æ et fyrsta ared og tvigillda tivndernar. enn sex merkr vpp æ annat og tvigillda tivndernar. enn vppa et þridia ared .ıx. merkur og tvigillda tivndernar og svo hvert ared hinna vpp þadan sem ekki hefer verit tivndat ıx merkr og tvigillda tivndernar. J annari grein er biskupinn kærdi til havskolldar at hann hefdi ecki retta tivnd giort af sialfs sins peningvm ok[1]) konv sinnar sidan hann giptizt. þar fyrir dæmdvm vier havskolld sky̆lldvgañ at vinna eid ok tveir skæliger[2]) hrepstiorar med honum eda adrer skialiger[2]) menn bvfaster ȷ hreppinvm. at hann hefdi rettillga tivndat sina peninga ok konv sinnar. fellzt hann a eidinvm. þa dæmdvm vier .iij. merkur et fy̆rsta ared a tivndarhalldinv. sex merkur vpp a annat. enn ed þridia epter þui sem kirkivnar log vt visa fyrir tivndarholldin. J þridiv grein er biskupinn kærdi til havskolldar at hann hefdi ecki reikningskap stadit ok ecki leigur ne landskyllder golldit af þeim vmbodvm sem hann hefer haft holakirkiv vegna fyrir nordan. þui dæmdvm vier hoskolld sky̆lldvgañ at giora rettan reikningskap biskupinvm af leigvm ok landsky̆lldvm vnder sinn svarinn eid. enn fyrir þriozkv ok halld a peningvnvm. þa dæmdvm vier hann sky̆lldugan at lvka med laga avexti þat sem hann hefer í malnytv tekit.[2]) en gelldfiar hvndrvth[2]) hvert med leigvbvrdi. smior ok vadmal. gialldi aptur sem hann hefer tekit ok fvllretti holakirkiv vp a hvert ared sem hann hefer halldit þessa peninga ok fallenn ȷ bann. skulo þesser peningar lvkter ath næstvm fardogvm. enn seinazt at mikaelsmessv biskupinvm eda hans vmbodsmanni. nema havskolldr geti afbatad med

1) Svo hér fullum stöfum; annars band (z). 2) Svo.

logligum vitnvm at hann hafi þessa peninga lvkta. ok þar med dæmdvm vier havskolld skylldvgan at taka skrift ok lavsn af biskupinvm. Ok til sanneñda hier vm setvm vier fýrrnefnder lærder menn vor jncigle fyrir þetta domsbref er skrifat var j glæsibæ j krælingahlíjd lavgardagen næsta epter allra heilagra messv. a sama are sem fýrr seger.

---

**142. 7. Nóvember 1507. í Ögri.**
**10. Júní 1520. í Þernuvík.**

Kaupmálabréf Bjarna Andréssonar og Guðrúnar Björnsdóttur (Guðnasonar).

AM. Fasc. LXV, 19 (áðr Fasc. XXXVIII, 15), frumrit á skinni; af 6 innsiglum eru 4 fyrir bréfinu. — Afskript af þessu bréfi er í skjalabók síra Jóns Halldórssonar í Hítardal í Landsbókasafni 115. 4to frá c. 1730 (og eptir þeirri afskript í ÍBfél Khd. 126. 4to).

kaup(m)alabref biarna andr(es)sonar og gudrunar biornsdottur.[1])

Jn nomine domini amen.

Lýstizt og stadfestizt æ brudlaupsdegi so felldur giorningr og kavpmali þessara ærligra manna j mille af einne alfv biarna andrevssonar. en annare gudrunar biornsdottur.[2]) at so vndertolvdv og fyrir skilldu at greindur biarne andrevsson talldi sieR til kaups og kvonarmundar vid greinda gvdrunv biornsdottur tuo hundrud hundrada j jordvm og kvilldvm fridvm godzum og ofridum og odrum godvm fullgilldis peningvm. Enn hier j moti af audrum parti gaf og reiknadi og fram talldi biorn bondi gudnason fýrr greindri gvdrunv dottur sinnn j motz vid adr greindan biarna. hundrad hundrada j iordvm og odrum godvm peningvm. sierdeilis til greindvm hiardardolvnum badvm envm meira og enum minna er liggia j aunvndarfirdi j hollz kirkiu sokñ og

1) Utan á bréfinu með samtíða hendi. 2) „Eptir Snóksdalsdómi 1563, d. 21. Oktobris reiknast Guðrún Björnsdóttir eldri að vera fædd 1489; var 18 vetra, þá hún giptist Bjarna Andréssyni 1507, en dáin er hún 1567, dag 14. Janúarii“. (Sira Jón í Hítardal).

þar til vatnadal er liggr j svgandafirdi j stadar kirkiv sokñ og þar til adra peninga so honum lyndi vel at taka so væri hvndrad hundrada. Kiori biorn bondi þratt greinda gvdrvnv dottur sina helm̃ingakonv j gard adr greindz biarna feingins fiar og ofeingins og at avk fiordvngsgiof vr hans helmingi ef hvn lifdi honum leingr. vard þratt greindr biarne þessvm kavpmala fvllkomliga jadza med jaÿrdi og fvllu samþÿcki sins fodur andreus bonda gvdmundzsonar er þa var hans erfingi og arftaki og þar þa vid staddur nær þessvm giorningi. So og eigi sidr samþÿckti arre bondi andrevsson er þar var þa staddur allañ fyrr skrifadan giorning. sins fodur og brodr vm giorvan og greindan kaupmala. For þessi giorningr og lagafesting fram æ brudlaupsdeige epter laganna skipan og bokarinar ordvm fÿrr greindra manna j millum biarna og gudrunaʀ j augri j isafirdi svnnvdagin næsta epter allra heilagra messo vm veturen þa er lidid var fra gvds bvrd. ꝳ. d. og vij. ďʀ. þessvm monnum hiaverondum og aheyrendvm allan fÿrskrifadan giorning og kavpmala. Hallvr Ogmvndzsson. bardr petursson. æron grimsson prestar skalhollzbiskupsdæmis. þolleifvr ornolfsson. einaʀ þolleifsson og olafur gudmundzsson leikmenn.

Og til sanninda hier vm settvm vær fÿʀ nefnder menn vor jnsigli fyrir þetta kavpmalabref. hvert er skrifad var j þernvvik j issafirdi svnnvdagin næsta fyrir festum barnabe æpostoli. ærvm efter guds bvrd. ꝳ. d. og xx æʀ.

---

**143. 7. Nóvember 1507. á Kvennabrekku.**

Vitnisburðr, að Loptr heitinn Ormsson hefði aldrei gefið Staðarhól framar til beneficium en hann ætti ekki skilgetin börn eða arfleiddi ekki þau börn, er hann ætti við Steinunni (Gunnarsdóttur).

AM. Apogr. 1471, með hendi Árna Magnússonar eptir transscripti frá 28. Júní 1519, sem datt i sundr af fúa, þegar Árni var að afskrifa það. — Apogr. 1468, með hendi Páls Hákonarsonar „Ur transscripto Mag. Bryniolfs og 4ra annara, giördu 1644. epter ödru vidimus 1547“.

Þad giore ec helgi þorgilsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe. at ec uar hia. og heyrdi eg æ at loptur heitinn ormsson lysti þui opt fyrir mier og odrum godum monnum. at hann hefdi alldre gefit stadarhol framar til beneficium. enn hann ætti ecki skilgetiñ baurn epter eda ef hann arfleiddi ecki þau baurn sem hann ætti uid steinunne. enn ef hann ætti skilgetin baurn epter eda hann arfleiddi þau baurn er hann [æ]tti vid steinunne. þa skylldi þesse hans giof og giorningur at aungu halldazt. og hier epter vil eg sveria ef þurfa þiker. og til sannenda hier um setta eg mitt inncigli fyrir þetta uitnisburdarbref er skrifat uar æ kuennabrecku j breidafiardardolum þridiudaginn næsta fyrir marteinsmessu arum epter gudz burd ꝏ. d. og siau ár.

---

**144. 10. Nóvember 1507. á Eyri í Álptafirði.**

Vitnisburðr tveggja manna, að Hrafn lögmaðr Brandsson hafi á Leiðarhólmi úrskurðað löglega ættleiðing Stephåns Loptssonar, en ónýt skjöl Jóns Sigmundssonar.

AM. Fasc. XXXVIII, 12, frumrit á skinni, og er annað innsiglið dottið frá. Gömul afskript af þessu bréfi er í Öxnafellsbók Bókmentafélagsins Khd. 309. 8vo bls. 162—163 með hendi Ara Magnússonar í Ögri c. 1620.

Vitnissburdur ij manna at þeir hafi uerit med hrafni logmanni j leidarholm.[1])

Þath giorvm vid sniolfur hrafnson og sygurdur dadason godum̃ monnum kvnnegt med þessv ockrv opnv brefe ad vid vorvm þar j hia j leidarholm̃e j dolvm þa hrafn branzson lavgmadur nordan og vestan a jslande þingade þar og vrskvrdade loglega ættleiding stefans lopzsonar. kom jon bonde sigmunzson þar og birte sin bref vm̃ kavpskap og giafer og giorninga þeirra solveigar modur hans. leizt þa hrafne logmanni og godvm dandimonnvm þeim þar vorv nær honum allr þeirra giorningur og kavpskapur onytur og

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

ongua magt hafa fyrir þa grein ath oss leizt hvert hans bref tala j mot avdrv utan þat eina sem̃ solveig hafde gefed jone og bergliotv og j var skiled biarg og melrackadalur og adrer peningar sem þat bref inne helldur sem þar uar þa um giört. Og til saninda her vm settvm̃ vid fyr skrifader menn ockur jncigle fyrir þetta bref er skrifad var a eyre j alftafirde fimtvdagenn næsta fyrir marteinsmesso arum epter guds bvrd þushvndrvd v^c og vii ar.

---

**145. 12. Nóvember 1507. á Möðruvöllum.**

Einar Hálfdánarson fær Gottskalk biskupi á Hólum til fullrar eignar alla þá peninga, sem honum höfðu til erfðar fallið og eptir stæði óluktir hjá Eiríki bónda Þorsteinssyni.

AM. Fasc. XXXVIII, 20, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum er nú að eins eitt fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 3414.

Brief um peninga Eirijks feingna Biskup Gottskalk af Einare Haldanarsyne.[1])

Þat giorum vier brodur nikulas med gudz nad prior a modrvuollum i haurgardal. sigmundur gudmundzson. hallur halluardzson. þorleifur ionsson prestar hola biskupsdæmis. magnus arnason. ion sigurdzson og solue sigurdzson leikmen godum monnum viturligt med þessu vorv opnu brefi at vier vorum þar i hia saum ok heyrdum a ord ok handaband þessara manna godskalkz med gudz nad biskups a holum af einne halfw en einars halfdanarsonar af annarre at suo fyrir skilldu at nefndur einar feck biskupinum til fullrar eignar alla þa peninga sem honum hafdi til erfdar fallit og epter stædi oluckter hia eiriki bonda þorsteinssyni. skylldi greindur eirikur bonde þar med kuittur sem hann luckti biskupinum en ef eirikur villde ecke þessa peninga giallda þa skilldi biskupin eiga atgang ad einare aptur at alagalausum peningum. Og til sannenda hier vm

1) Utan á bréfinu með hinni venjulegu 17. aldar hönd, sem utan á er Hólastólsbréfum.

heinguni vier fyrnefnder men vor incigle fyrir þetta bref er skrifuat var a modrvuollum i haurgærdal faustudaginn næstan epter marteinsmessu anno domini ꝏ d septimo.

---

**146. 22. Nóvember 1507. í Ósló.**

Dómr Kristjáns konungs hins annars og ríkisráðsins um erfðamál Finnboga lögmanns Jónssonar og síra Eiríks Sumarliðasonar út af arfi eptir Suein Sumarliðason (Grundareignir í Eyjafirði), og dæmist síra Eiríki arfrinn eptir réttarbót Hákonar konungs háleggs frá 2. Maí 1313 (Dipl. Isl. II, Nr. 212).

AM. 238. 4to bl. 53b—55a, Bessastaðabók, skr. c. 1570. — Landsbókasafn 115. 4to I, 107—109 með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730, og stafar sú afskript frá Bessastaðabók. — Prentaðr í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 94—101 (með danskri þýðingu; útgáfan ekki góð og fjær dönskunni). Sbr. Safn II, 97—98.

Bref Sira Eireks svmarlidasonar vm kong Hakonar R(iettar)bot.

Vier kristiern med gvds nad. rettvr arfinge til norigis rike. vtvalld konvng til danma(r)k og sviarike. hertvg j Slesvik. holstenn. Stormarin og j ditmersken. greife j olldenborg og délmenhorst. Giore alle vitvrligtt at arvm epter gvdz byrd ꝏ. d. vij. manvdagenn næst epter vor frv dag presentationis. vpp æ profastzgardenn j osloo stad. nærverandis oss elskvlige herra jon palsson profast þess sama stadar og noregs rikes kanceler. ꝏester elreck vallkeñdorp profast j Roskielld vor Canceler. herra Steffverin[1]) cantor vt j marivkirkiv j osloo. Erek eireksson logman þar þess sama stadar. henning kock[2]) og benth hakonarson borgmeistere j osloo. arñe þoresson[3]). hans rýianer[4]) oc [nikels lafransson[5]) Radmenn j fýrskrifne osloo med morgvm fleirvm godvm monnvm sem þa þar nærre vorv. var skickadur firir oss þenna[6]) brefvis-

1) Svo 238, 115; Stephane MKet.; rétt mundi: Seffverin; 2) Henwig Lock (!) 115; 3) Þoreksson 115; 4) 238; Vianer MKet.; Kijrner 115; 5) [Mickel Lafransson 115; Niels Lafrenz MKet. 6) þesse 115, MKet.

aræ oss elskvlige her Eirik svmarlidason soknarherra[1]) j[2]) sancte cecilie kirkiv j savrbæ vt j vort og krvnens land jsland. og kiærde og klagade vpp á finboga jonsson logman nordañ og vestan vpp á fyrnef(n)tt jsland firir nockvt godz sem kallazt Grvndh og avll þav godz sem þar vnder liggia. sem fyrrnefndvm[3]) herra Eiriks broder Sv(e)in Svmarlidason til heyrde og fornefnde hera eirek til fiell med lavgvm epter sina brodurdottur gvdrvñ Sveinsdotter og sagde for oss hvorleide[4]) hann hafde [optt talad forskrifne finboga til[5]) epter lavgvm þar vt j jsland og þesslikes[6]) framlagde[7]) eitt bref oss elskvlige verdvgezste[8]) fader erkebiskopsens af nidarose. biskopsens af biorgvin. profastens þar þess sama stadar. Og herra Nies[9]) hinrekssonar noregs rikis radz bref. sem þeir þar hafdv vt gefit j vor kiere herra faders og vor fraverelse lydendes. at þeir bvdo og bifolto beggia þeirra domara og rettara j jsland at [skillia þeim at vm þan sak[10]) og hialpa þeim vp æ beggia sidvr svo mikit sem norigs lavg og [riett er et cetera[11]). [berette og fornemendis[12]) oss elskvlig herra Erik framdeilis for oss ad sidan hann kom þar aptur til jsland met forne bref þa stefnde oss elskvlige verdvge fader herra Stefan j skalholte. herra godskalk j holvm biskopa. og þorvard ellendzson logman svnnañ og avstan vpp á jsland þeim firir sig vp á badar sidvr j fleire gode menz nærverelse og framlagde for oss þeirra bref þar vm hlydande at þeir þar inskiota[13]) fyrnefnda sak fur oss. in ad koma jnnañ sancte mikels dag næst forlideñ. elligar og ad sancte mikelsdag næst komande at alle seinaste. med beggia þeirra bref og bevisningar. ellvr og þeirra fvllmyndige vmbodzmenn et cetera epter som forne bref ỳtarmeir inne helldur. og vottar. þesslikes framlagde hann eitt xxiiij lavgrettvmanna bref af Jsland. lydende bland andre artikvle sem þar vt j stod hvorleidis fornefnd finboge jonson appellerade og

1) — prestur MKet. 2) til MKet., 115; 3) fyrrnefnds MKet.; fyrrnefnde 115; 4) hvornen MKet. 5) [þar um optnefndann Finnboga áklagad MKet. 6) þar med MKet. 7) hann b. v. MKet. 8) verdvge b. v. hér 238; hin sl. verdugezste. 9) 238; Niels MKet. 115. 10) [ad skicka um þad Mál MKet. 11) [Rettr er til MKet. 12) [bereltedo og fornemmede 115; Tiáde og kunngiørde MKet. 13) inne skióta MKet.

skavt sig fra alles þeirres dom af jsland og in for oss. og þar vt yfer eij hafer meytt firir oss og eige helldur hans fvllmyndugur vmbodzmann. meñ blifur heima sitiande og helldur fyrnefndur herra eirekurs godz fur honum vtan lavg og riett. tha[1]) epter svodan bref og bevising sem forne oss elskvlige herra eirik Svmarlidason for oss j rette lagde og epter þañ riettarbot sem vor forfader helig konvng hakon vt gaf vm arfatal lydende. at þa moder erfer barñ sitt þat sem adur hefur arf tekit epter fodur siñn skall moder eige leingur en j hennes lifstid þad fastagodz fylgia. vtañ þad skal epter hennis daga falla aptur til barnzens rietta erfingia og adalsmenn til þess godz. Og somvleidis skal fara ꝺ̃a fôdvrs vegna. vm hann erfer barñ sitt et cetera. Hvilkeñ forne rettarbot aller vorer forfedvr framfarne konvngar j norrige þesslikes vij hafvm samþyckt oc fvllbordet vid fvlla magtt at blifa yfer allt noregs rike og jafnfvllt j jslande. færeẏ og hiatland sem hier j norige. þar firir var þar svo vpp ꝺ̃a dæmtt ad fornefnde oss elskelige herra Eirick svmmarlidason ber igien ad hafa j rett arf. allt þad fasta godz sem hans broder fornefnde Sveinn svmarlidason til heyrde og liet epter sig fra fornefnda finboga jonson innañ xiiij daga epter þad hann hefer hejrt þetta vortt bref vnder obotamal. og þesslikes forne Eirek tolf manna dom for kost og tæring. kosthalld landskylld oc annañ deil sem hann hefur vpp bored sidañ forne herra Eireks brodurdotter gvdrvn Sveinsdotter deydde. Meñ hafer fyrne finboge jonson þar nockvd ytarmeir j ad seigia. þa tale sig fyrskrifut herra Erik sidañ þar vm til med riettv.

Gefit vpp æ vortt slot akvrshvs ar og dag sem forskrifat star. vnder vortt secret.

---

**147.** **24. Nóvember 1507.** **á Akrhúsi.**

Bréf Kristjáns konungs hins II. þar sem hann staðfestir og samþykkir, að allar réttarbætr þær, er Hákon konungr hinn

1) Þa tha 238.

heilagi (= Hákon háleggr) gaf út, skuli ganga sem lög um alt Noregsveldi og í löndum, sem undir Noregsveldi liggja, jafnt Ísland, Hjaltland og Færeyjar (**Möðruvallaréttarbót, Réttarspillir**).

### A.

*Frumtextinn.*

AM. Fasc. XXXVIII, 10, frumritið á skinni, með heilu innsigli konungs. Sbr. Lagasafn Magnúsar Ketilssonar I, 94—95; Safn til sögu Íslands II, 96—99; Dipl. Isl. I, 712—713; II, 379—380. — Réttarbót þessi var numin úr lögum með konungsbréfi (Friðriks IV.) 15. Maí 1711 (Lagasafn Magnúsar Ketilssonar III, 359—360, sbr. bls. 331 og 333).

Bref kong kristians.[1])

[Vppa riettarbætur Hakonar kongz 1507.[2])

Wij Christiernn met gudz Nade Rett arffuing tiil Norigis riige Vduald Konning tiil Danmarck oc Swerige hertug i Sleszuig holstenn Stormarnn oc i Ditmersken Greffue i Oldenborg oc Delmenhorst Gøre alle witterligt at effter thi at alle wore forfædre framfarne konninger vti Norige som haffue wæreth sidhen hellige konningh Hakon dødhe haffue stadfest oc Samtycht alle the rettebøter som hellige konning hakon gaff for lagh oc rett at holles effther then dagh offuer alt Norigis riige oc krone. Thi haffue wij oc Samtycht oc fuldbordet forscriffne rettebøther widh fulde macht at bliffue oc vbrigdelige at holdes offuer alth Norigis riige oc lande som liggie Vnder Noriges krone Jamwæl Jslandh hiæltland oc ffærøø som anderstedz her i Norige. Thi forbiwde wij alle ehwo the hælst ære eller wære kwnne oc serdelis wore fogede oc embedzmend vti Jsland som nw ær oc her effther kommendis worde. wore kære vndersatte paa forne Jsland her emod at hindre eller i nogher made forffang at gøre Vnder wor furstelige heffnd oc wrede. Giffuet paa wort slott Agershuss Sancte katarine affthen Aarom effther gudz byrd[3]) M d septimo. Vnder wort Secretum.

Dominus Rex per se.

1) Utan á bréfinu með samtíða hendi. 2) [með hendi frá 17. öld. 3) hefir óvart gleymzt úr frumritinu.

B.

*Íslenzk þýðing eptir transscripti Þorvarðs lögmanns Erlendssonar.*

Stockhólms safn 9. 8vo (áðr C 8) bl. 237—238, meðal skinnbóka, og er þessi bók skrifuð um 1608. — AM. 345. Fol. bls. 160—161, og er það lögbók Einars Ísleifssonar á Reykjum í Mosfellssveit, á skinni, skrifuð um 1570, með raungu ártali 1441 (!). En til er réttarbót þessi ennfremr í íslenzkri þýðingu í mörgum handritum gömlum, svo sem AM. 45. 8vo bls. 23—25, skinnbók c. 1570; AM. 147. 4to bls. 205, skinnbók, og þetta skrifað um 1600; AM. 238. 4to bl. 53, Bessastaðabók á pappír frá c. 1570; MSteph. 12. 4to á pappír frá c. 1580; Thotts safn 2101. 4to á pappír frá c. 1600; Stockholmssafn 25. 4to (áðr C 2) meðal skinnhandrita, skr. c. 1580; Gl. kgl. saml. í konungsbókhlöðu í Khöfn 3274.A 4to á pappír frá c. 1614, — og í fjölda af handritum frá 17. og 18. öld. Er ártal bréfs þessa í afskriptunum margvíða mjög brjálað (1441, 1541 og 1551 og enn á fleiri vegu). Við afskript bréfsins í AM. 238. 4to bl. 53 stendr þetta: „Var þessi sami heilag kong Hakon broder Eirikvr Magnvsson. syner Magnvs lagabætis er norska logbok oc vora hefir giort. Hakonvs tertivs“.

Stadfestingar Bref Kong Christians annars med þui nafni vppa Konga Riettarbætur sem verid hafa j Noregi sijdann Hakon kongur var þar.

Uier Christian med Gudz næd riettur erfingi til Noregis Rijkis[1]). vtualinn kongur til Dannmerckur og Suijarijkis. [hertug j slesuik.[2]) Holsten. Stormarenn og Dytmarskinn. [Greifi j Oldenborg og Delmenhorst.[3]) Giorum aullum viturlegtt. Ad eptter þui. ad aller vorer forfedur framfarner kongar vti Noregi. sem vered hafa. sijdann heilagi kong Hakon deydi hafa stadfest [og samþikt[2]) allar þær riettarbætur [sem heilagi kong hakon[4]) vtgaf.[5]) fyrir laug og riett ad halldazt. eptter þennann dag. yfer allt Noregs Rijke og kongs[6]) krunu. Þui haufum vier og stadfest og fullkomlega samþycktt allar[7]) fyrskrifadar riettarbætur vid fulla macktt ad blijfa. og obrigdulega ad halldazt. yfir allt Noregs kongs[8]) rijki og laund. sem liggia vnder Noregs krunu. jafnuel Jsland. Hiatland og færeyiar sem annarstadar hier j Noregi.

1) sl. 345. 2) [b. v. 345. 3) [sl. 345. 4) [hann, Stockh. 9. 5) gaf og baud 345. 6) sl. 345. 7) b. v. eptir 345, sem hefir „ad (!) allar“, 8) sl. 345.

Þui fyrirbiodum vier aullum. huerier helst þeir eru edur vera[1]) kunna. suo og sierlega vorum fouitum og vmbodzmonnum vti Jsland. sem nu eru [og hier eptir[2]) komandis[3]) verda. vora kiæra vndersæta[4]). vpp æ fyr nefntt land Jsland. hier j mot ad hindra elligar j nockurnn mæta forfang ad giora. vnder vora konunglega hefnd og reidi.

Gefid vpp a vort slot akurshus. sancte Katrinar aptann. Aarum eftter Gudz burd 1507.[5])

Vnder vortt signiet.[6])

Skrifad eptter mijns herra kongsins briefi med hans hangandi og oskauddu Jncigle. Huertt eg sæ [og optt las.[7]) Þoruardur Ellendzson laugmann æ Jslandi med fleirum godum monnum. Hliodandi[8]) ord epter ord sem hier fyrir stendur skrifad.

## C.

## *Íslenzk þýðing eptir transscripti Arna lögmanns Oddssonar.*

Eptir ágætri settletrs afskript í Landsskjalasafni frá c. 1720—1730, sem er blað úr réttarbótabók (bls. 71—72), og stendr að fyrirsögn „Konungs Christiani Secundi Rettarbætur". Eptir þessari afskript er bréfið prentað með danskri þýðingu (sira Egils Þórhallasonar, Jonsbogen Kh. 1763 bls. 403) í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 138—140.

Confirmation uppa Hakonar konungs ʀettarbætur epter membrana.

Vier kristiern med gudz nad ʀettur Erfinge til Noregs ʀike. vtwalen konung til danmarck ok Suiarike. hertug j slesuik holsten. stormarin ok j Ditmersken. greife j olldenborg ok delmenhorst Giore aullum viturlegth ad epter þui ad aller vorer forfedur framfarne konungar vt í norege sem hafa verit. sidan heilage kong hakon deýde hafa stadfest ok samþýckt allar þær ʀettarbætur sem heilage kong hakon gaf fyrir laug ok ʀett ad halldezt epter þenna dag ýfer allt noriges ʀike ok krwno. Þui haufum vier og samþýckt ok fuld-

---

1) verda 345. 2) [345; edur 9. 3) komandi 345. 4) undersatur 345. 5) m. iiij xl og j (!) 345. 6) secretum 345. 7) [opt og ifer las 345. 8) sl. 345.

bordet fẏrskrifnar ʀettarbætur vid fulla mackth ad blifua. ok obrigdulega ad halldazt ẏfer allt noregs rike ok laund sem liggia vnder Noriges krwno. jafnwel jsland. hiattland ok færeẏiar. sem annarstadar hier ȷ norege. Þui forbiodum vií aullum huerer hellzt þeir ero edr vera kunna. Og serliga vora foweta ok vmbodzmenn vt ȷ ísland. sem nw ero og hier epter komande verda. vortt kæra vndersat vpp æ fẏrnefnt ȷsland hier æ mot ad hindra. ellegar ȷ nauckurn mata forfang ad giora. vnder wora konvngliga hefnd ok ʀeide. Gefet vpp æ wortt slot akurshus sancte katerine aptan. arum epter gudz burd ₥° d° septimo. vnder vortt secretum.

Nedan ä spassiunne steudur med þeckianlegre hende Arna lögmanns Oddzsonar:

Anno 1637. ä almenneligu Auxararþinge var samanlesid Kong Kristierns bref vid þetta hier fyrer ofan skrifad. var þad þvi sambliodande med underþrycktu Secreti Kong Kristierns. Halldor Olafsson Lögmann bar þad framm. Fovetinn Jens Söffrinsson og jeg Arne Oddz(son) Lögmann läsum þad saman Pross Mund hofudzmanni aheyrandi.

---

**148. 25. Nóvember 1507. í Akrhúsi.**

Verndarbréf Kristjáns konungs hins annars handa síra Eiríki Sumarliðasyni.

AM. Apogr. 1755 með hendi Arna Magnássonar — AM. 238. 4to bl. 55, Bessastaðabók, skr. c. 1570. — Landsbókasafn 115. 4to I, 110—111 með hendi síra Jóns Haldórssonar i Hítardal c. 1730. — Prentað i F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 256—257 og Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 136—137.

Forsvarsbref Sira Eiriks Sumarlidasonar.

Vii Kristian med gudz nade riett arfinge til Noregs Rige. utvalld konung til Dañmark og Sviarike. Hertug i Slesvik. Holsteñ. Stormaren og i Ditmarksken. greife i Olldenborg og Delmenhorst. giore alle viturligtt. at vii utaf vor synderlige gunst og nade hafa anamat og undfeingit. og med thetta vort opne bref aname og untfanga þenna brefvisara.

oss Elskulige. Her Erik Sumarlidason. hans hion tienara. og allt hans godz. laust og fast. ehvad þad hellst er eller vera kann. ut i vor forstelige hegñ. verñ. frid og beskermellse. at forsvara og fordagtingia til alle rette mal. Samaleidis ville vii. at eingenn skal vera hans rettare eller domere i verallige saker. utan vii selfue. eller hvem vii thet med vortt opne bref besyndurlige befalendis vorde. Thi forbiode vii alle. ehvo the helltzt ero eller vera. kunna. og sierliga fogeder og umdodzmenn. forne oss Elskuliga Her Erik Sumarlidason hier i mot pa persone. hion. tienara eller godz. ad hindra edur hindra lata. dele. platze. møde og omaka. eller i nockurn mata ad oforrette. under vor fo[r]stelige hefnd og vreide. gefit paa vortt Slott Akurshus. Sancte Katerine dag arum epter gudz byrd M. D. vii. Under vort Secretum.

---

**149. 25. Nóvember 1507. í Hvammi.**

Sveinn Þorfinnsson fær Gottskalk biskup á Hólum til fullrar eignar jörðina Yztagil í Langadal með þeim ítökum, er bréfið greinir, en biskup lofar að kenna Jóni syni Sveins til prests, og fær honum til halds staðinn í Vestrhópshólum þar til Jón sonr hans vígist þangað, og skal Sveinn ekki annað af staðnum gjalda en biskupsgisting og útlausn, þegar biskup fer í yfirreið sína.

AM. Fasc. XXXVIII, 21, frumrit á skinni. Annað innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3415.

bref um Jordena ystagil i langadal.[1])

Þath giorum vid jon prestur jonsson radzman holastadar. jon þorgeirsson leikman godum monnum uiturligt med þessu ockru opnu brefi at uid uorum þar j hia saum ok heyrdum æ ord ok hañdaband þessara manna biskups godskalks af einne halfu ok sueins þorfinzsonar af annari at suo fyrir skildu at sueinn þorfinnzson feck biskupinum til fullrar eignar jordina yztagil j langadal er liggur j hollta-

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

stada kirkiusokn med ollum þeim gognum ok gædum sem greindri jordu fylger ok fylgt hefer at fornu ok nýo ok hann uard fremst eigandi at. lysti ok adr greindr sueinn at gil ætti torfskurd attfedming j breidauads jord j underhaganum. hier j mot feck biskupinn sueine þorfinnzsyni stadenn uesturhopshola til halldz ok medferdar uegna jons sonar síns er hafa skal adr greindan stad til æuinligrar eignar þegar hann uigizt prestur. Enn biskupinn skal lata kenna pilltinum til prestz. skal hann hafa af stadarins eign hempuefni og brokaefni upp æ huert ær. þar til hann uígizt prestur. skal ok adr nefndr sueinn hafa ok hallda alla stadarens peninga kuika ok dauda fasta ok lausa til medferdar ok abyrgdar þar til hann afhender stadenn. skal hann ok ecki giallda af stadnum edur stadarens peningum nema biskupsgisting edur utlausn þa hann rídr. Ok til sanninnda hier um settum uid ockr jnnsigli fyrr greinder menn fyrir þetta bref er giort uar j huammi j uazdal jpso die sancte katerine uirginis. anno domini M⁰ quingentesimo septimo.

---

**150. 1. December 1507. í Ósló.**

Bréf kanzlara Eiríks Walchendorphs um ómakslaun sín af sira Eiríki Sumarliðasyni og þeim systkinum Þorvarði Erlendssyni, Vigfúsi og Hólmfríði, fyrir fyrirhöfn hans í Grundar og Möðruvalla málum.

AM. 238. 4to bl. 52b, Bessastaðabók skr c. 1570. — Landsbókasafn 115. 4to I, 111 með hendi séra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730. — Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 250.

Bref Meister Erek kong kristiern̄ kanceler.

Jeg Erik valkendorp profast[1]) j roskelld. giore vitvrligt alle med þetta mitt opna bref og eigen̄ handskrift at heidarlig mann herra erik Svmmarlidason soknarherra vt j jsland j savrbæ. er svo vorden̄ med mic ofvreins vp ǿa heidarligs og fornvmstige mens vegna. vigfvs ellendzson vor kieraste

1) tvískrifað í 238.

nade herra konvngs hofvdzman vp ꝺ͠a jsland. hans broder þorvardur ellendzson og þeirra syster hvstrv holmfrid. [þorvard biarnason og hans broder erlendur biarnason og þeirra syster hvsfrv ingebiorg og hvsfrv raugnhilld. teijtvr þolleifsson og biorn gvdnason og vppꝺ͠a andre fleire[1]) vegna af jsland. Svo at hann skall gefa og forneÿgia mig firir min riettigheit og omak sem mig af riettv ber at hafa for fri eñ previlegia vor kærasta nadig herra konvng kristiern et cetera hafer gefit þeim og meinige jslandz inbyggiara firasindis tivo lxxx rinsk gylleñ af fvlla vikt. og þar til attatige, refskinn. sem kallazt svort skollaskinn og betale og skikka þeim til hambo(r)g in j danckwort smitz hvs innañ sancte mikels dag næst komande. ellvr og skikka mic somo privilegia bref igen aptur til hamborg innan fyrnefnda tid. Og hefur hann fornögtt mic for sinn part for fornefnda bref x rinsk gylldene. Menn hvoss kost og tæring sem hann ÿtarmer hefur giort oc haft fÿre hann fieck fornefnd privilegia bref hann var stor. þad er mier vell vitvrligtt. þad skvlv þeir þess fyrir vtan bitala og forneygia honum og vera þar firir j hans neÿgio.

Til ytar meir vitnisbvrd trycker ieg mitt signet nedañ firir þetta mitt opit bref. som gefit og skrifat er j osloo od-

1) [Allr þessi kafli hefir npphaflega gleymzt úr í afskriptinni í 238, en er ritaðr strax á eptir bréfinu í bókinni, og eru þar tekin upp fjögur seinustu orðin, sem líka standa í textanum, til þess að sýna hvar klausan ætti inn. Afskript séra Jóns, og eptir henni Finnr biskup, sleppir þessu, af því að menn hafa ekki skilið, að það ætti hér inn. Í AM. 238. 4to bl. 120b (Bessastaðabók) stendr, aptan við skiptabréf eptir Þorvarð Loptsson frá 1446, svo látandi ættrakning:

[Ol]of stora*) syster [Þor]vardz. [d. 1446].
gudridr [han]s dotter. [d. 1494].
Þorvardr [henn]ar son. [d. 1513].
erlindr hans son. [d. 1575].
gudbiorg hans dotter. [d. 1594].
einar hennar son.**)

*) Þ. e. Ólöf ríka (d. 1479). **) Einar var sonr Gríms Þorleifssonar frá Möðruvöllum fyrra manns Guðbjargar.

ensdagenn næst epter sancti andree apostole dag arum epter gvdz byrd ꝏ d vij.

---

151. **1507.**

Afhending Valþjófsstaðarkirkju í Fljótsdal, þegar Þorvarðr prior afhenti, en Jón prestr Koðransson meðtók.

AM. Apogr. 1993 „Epter kalfskinns geira vid Valþiofsstadarkirkiu". „höndin a þessu er coæva anno 1507" (AM.)

anno domini ꝏ d vij.

Suo myckla peninga gallt prior Þorvardur[1]) med walþiofstad en ɉon prestur kodransson medtok.

Jn primis sextan kugilldi og .xx. og eru þar j seytian kyr. lagdi sira ɉon kodransson þar til ij kyr og ij asaudar kugilldi og þar til war lukt stadnum. xij. hundrata ɉord [vik ɉ faskrvdsfirde[2]) fyrir xij kugilldi brast æ ɉnstæduna. og 4 naut veturgomul og xij. saudi veturgamla og 4 hesta. 4 hross. vc ɉ wirdingargodze. ɉtem gallt hann halft annat kugilldi ɉ porcionem er fallit hafdi wpp æ þriu ár. atta ægillde ad auk er fylgia eiga arneidarstadaparte. og eitt kugilldi war gefit krossinum æ þorgerdarstôdum.

---

152. **1507.**

Skrá um landskyldir af Vestmannaeyjum bæði þá (1507) og í fyrri tíð, og á dögum Torfa Arasonar (um 1450), er hann hafði eyjarnar af Daníel, og er það tekið eptir sögn Stranda-Kols.

AM. 238. 4to bl. 48, skr. c. 1570 (Bessastaðabók). — Afskript frá 1696 eptir Bessastaðabók er í JSig. 143. 4to bls· 95—96. Sbr. Dipl. Isl. III, bls. 771. Sbr. *„að gjalda Torfa lögin"*.

---

1) Þor' Apogr. 2) [„er skrifad med annarri hendi eins gamalli nedan fyrer hinne skriftinne. enn ä ad visu hier heima" (AM.)

Anno domini m d og vij hvad landskylld (var) af vestmannaeyum.[1])

Jtem so micel landskylld af vestmannaeyum.

ȷ þollaugargerdi ijc.
af steinstodum c fiska.
Af ofannleite lest.
Af nordurgarde cc.
ȷ dolum c.
ȷ hofnn ȷ̶[2]) lest.
Af midhusum ijc.
Af giabacka iijc.
Af villborgarstodum viijc og xx fiskar.
Af vesturhusum ijc.
ȷ gierde ijc[3]) og xl fiskar.
A bofastodum iijc.[4])
Af oddastodnm iijc.
Af presthusum jc.
Af kirkiubæ ixc.

Summa v lestir iijc og lx fiskar.

Sognn Stranda kolz. at ıx lestir fiska samfeingnar voru ad gomlu[5]) ȷ vestmannaeyum. enn torfe arason er hann hafde vestmannaeyar af daniel skillde vij lestir gilldar og attu þeir eyiamennerner sialfer a sinn kostnad at færa ȷ hvornn kaupstad hann villde. enn være þar ȷ eyiunum sellder fiskarner. þa attu eyiamennerner a sinn kostnad at færa allt godzit ȷnn a land. var þetta dæmt og skilid a þa. Þat meira. flyttu þeir sinn eigin varning in a land a haustid eyamennerner þa skylldust[6]) þeir til ad sellia þeim fyrstum sem kongs umbod hafde yfer eyunum. upp a hvort c fyrer tvævett naut eda vj fiordunga smiors. skulu þeir bioda honum fyrstum. sem eyarnar hefur af kongenum eda umbod yfer þeim. at kaupa sinn varning med fyrskrifudu verde.

---

1) Huer landskylld ä Vestmannaeyum var Anno 1507, 143. 2) half 143. 3) halft annad c 143. 4) halft þridia c 143. 5) lagi, b. v. 143. 6) 238; skilldudust 143.

## 153. 1507—1523.

Tíundargerð á Skarðsströnd.

Philipps Collection i Thirlstaine House í Cheltenham á Englandi 10,442 (= 16,504). Fol. bls. 1: Skarðsbók af postulasögum, og er þetta ritað með samtíða hendi Hér er fylgt afskript frá Mag. Eiríki Magnússyni í Kambryggju frá 3. Apr. 1891.

[Anno] dominj ꝏ d vij⁰ svo micil tivndargiord a skardzstrond ȷ lausafie ch[1]) og ijc og xx.
[anno ꝏ d] viij ch[1]) og iij (c) og xx.
[anno ꝏ d] ıx ch[1]) vg ic.
[ann]o x⁰ ch[1].)
[an]no xj⁰ ch[1]) og vc.
anno xij⁰) ch[1]) og xc.
anno xiij⁰ ch[1]) og xc.
anno xiiij⁰ ch[1]) og vc.
anno xv⁰ ch[1]) og vjc.
anno decimo vj⁰ ch[1]) og xc.
anno xvii⁰ ıx·tig(er) c.
anno xviij⁰ xxc
anno xıx⁰ . . .[2]) xc.
anno xx⁰ l c.
anno xx primo xl c.
anno xxij⁰ xl c.
anno xxiij⁰ xl og c.
Þa stod eg[3]) reikningskap.

---

## 154. [fyrir 1508].

Sendibréf Jóns Erlingssonar til Björns bónda Guðnasonar, um mál þeirra frændanna Björns Þorleifssonar og Björns Guðnasonar.

AM. Fasc. LXIV, 20, frumritið á skinni. — AM Apogr. 957, ept-

1) Svo, og mun merkja eiga = hundrað hundraða. 2) klessa í handr. 3) Það mun vera Þorleifr Pálsson.

ir frumritinu. — Guðni Jónsson er dáinn fyrir 29. Janúar 1508, og er þetta bréf því eldra.

Wel borin dandi man biorn bonda gudnason
er brefit Sent.[1])

Heidrsamligañ dandi man og min kiæri mag biorn bonda gudnason ẏdr heilsar eg Joñ ellingsson kiærliga med gud og vora fru.

Er eg ydr kiærliga þackandi firir alla ydra velgiorninga til mjn badi med ord og verk.

viturligt skal ẏdr vera at ek fann biorn thorleifsson og talada ek med hann vm ẏckr mala ferli. suaradi hann aullv sem einn dandi man og vard ek under eins med hann j so dan mata at ec tok med ydr og honum feligañ dag med fullu handa bañde og med aullum yckrum mounum og yckrum radum badi vid vtlenzka og junlenzka til alþingis og sua laungum tima fram ẏfer sem huer kiæmi til sins heímjls[2]) heim j gen. enn um peninga var sua skilit sem uid haufdum adr vm talat. at þier skẏlldut hallda þat þier hafit ad ydr tecit omakslaust firir birne j þessum tuganvm. enn (biorn) skẏlldi hallda þat j nadvm sem hann hefer at sier tecit firir svnanan[2]). kiori hann og þat firir sig at stefna ẏdr firir vttan allt hugmod af beggiah hendi og þat sama lofada eg firir ẏdr. j ockru handabañdi. þui er ek[2]) ydr kiærliga um bidiañdi at þier latid þena min giorning standa sua sem vid haufum adr um talat. ok skrifit birne til þegar straks er þier fait mitt bref huortt þier uilit þetta hallda. þui þat uar suo skilit. uillda ec og giarna at min ord brygdizt ecki hier um. Enn þo þier villit[2]) ecki þetta hallda sem ek[2]) vænti ath ei sie þa skrifit honum þo til sem adr. giorit nu hier um sem eg trvi gott til yduar[2]) huad ek[2]) vil j aullu godu forþena med ẏdr og firir ydra skulld giora huad eg ma med æru. og ydr livft er.

seigit gudna jonssyne Mioc marga goda nat firir mig.
Ei meir vm sin.

---

1) Utanáskript bréfsins. Utan á bréfinu stendr og með hendi Magnúsar prúða: „Þessi Brief eru oll afgomul og onyt nema til frodleikz“. 2) Svo.

hier med bifel ýdr gudi j ualld og hans moder mariv og sancte pettri nu og alltid.

---

155. 7. Janúar 1508. [Í Viðvík.]

Dómr tólf presta útnefndr af Gottskalki biskupi á Hólum um ákærur biskups til Jóns Sigmundssonar um kirknafé á Urðum og í Víðidalstungu og aðrar fleiri sakir.

AM. Apogr. 692 „Ex lacera charta veteri" (AM.).

Þad giorum uier broder Einar ábote á Munkaþuerá. broder Nichulas Prior á Modruvöllum. Jon Jonsson Rádzmadur Holakyrkiu. finnboge Einarsson. Jon Þorgilsson. Jon finnbogason. gudmundur Jonsson. Helge Jonsson. Olafur Klængsson. Jon Jonsson. Þorleifur Jonsson og Örnolfur Einarsson prestar Holabiskupsdæmis godum monnum uiturligt med þessu voru opnu briefe. ad þa er lidid var frá hingadburd vors Herra Jesu Christi M. D. og viij. ar á fostodagenn næstann epter þrettanda dag Jola i Vidvijkursueit[1]) vorum vier i dom nefnder af uorum virduligum Herra og anda ligum fódur Godskalk med guds nád biskup á Holum. ad dæma um̄ þá ákæro er biskupenn kærdi til Jons Sigmundssonar. og i stefnunne stod.

J fyrsto dæmdum vær stefnuna lôgliga og Jon Sigmundsson riettliga firerkalladann. enn i þeirre fyrsto sauk er i stefnunne stod og biskupenu kærdi til Jons Sigmundssonar. ad hann hefde osuarliga fared med kyrkiunnar goz á urdum i suarfadardal fausto og lauso og under sig dreiged. án biskupsens vilia. og leyfis enn kyrkiann komenn ad nidurfalle og kyrckiunnar ornamenta i burt bored. og vidurenn i burt borenn. sá sem til kyrkiunnar var ætladur medan Jon Sigmundsson atte ad hallda.

Nu saker þess at þá reikningur Urda kyrkiu var seinast reiknadur. reiknadest i lausagoze x. tiger hundrada og

---

1) Þannig.

xij aurar betur. enn oreiknad uppá viij ar og xx. þui ad guds nád til kalladre dæmdum vier fyrrgreinda peninga fallna uppi Jördena á Urdum til eignar firir fornann og nyann reikningskap. og biskupenn mega taka ad sier frialslega fyrr greinda Jörd ad næstum fardögum. kyrkiunnar uegna á Urdum. og oll hennar goz föst og laus. frid og ofrid hafa og hallda greinda Jörd Urder. þar til er þeir leisa aptur sem med lögum eiga ad leisa. enn huort þad ornamentum kyrkiunnar sem hann hefur i burtu haft og ad sönnu profast.. og uiliad undan draga kyrkiunnar eign. skal hann aptur færa fyrer næstu fardaga ospillt og iafngott og fullriette urda kyrkiu og Holakyrkiu xv. merkur i sinn riett. og Jon skylldugann ad taka lausn og skript epter biskupsens ráde.

J annare sok er biskupenn kærdi til Jons Sigmundssonar. ad hann hefde rænt og teked med gripdeilld kyrkiuna i Uidedalstungu og hennar goz fast og laust. lyste biskupenn þar firer oss ad hann hafde bannad Jone öll kyrkiunnar umbod þeirra er hann hafde ad hallda. báru þeir sira Jon Gislason [og] Magnus Arnason þad sama ad þeir hefde þad heyrt. þui [dæmdum uier . . . . . . . . . . . . . . . . . . .] biskupsens bode og giallda kyrkiunne i Uidedalstungu tuefa[lld]ann sinn riett fullann enn Hola kyrkiu og biskupenum .lx. merkur i sinn riett. og biskupenn mega ad sier taka friálslega fyrrnefnda Jörd Uidedalstungu. kyrkiunnar uegna. og öll hennar gædi. föst og laus. frid og ofrid. nær sem hann vill. hafa og hallda þá tuo hlute Jardarennar sem Jone Sigmundssyne hefur tilheyrt edur ödrum þar til ad hun er med lögum leyst af þeim sem hana á med lögum ad leysa. og kyrkiañ hefur sinn riettann reikningskap. og biskupenn sinn allann sakeyre. sem Jon á ad giallda. enn um̄ marstade og Nup dæmdum uær biskupenn mega ad sier taka þesse goz fost og laus. sem maldagenn og reikingskapurinn utuijsar. og standa under sömu lausn sem hin fyrre. Enn saker þess ad Jon Sigmundsson hefur rofed þann sáttmála sem giordur hefur uerid i millum̄ kyrkiunnar og kongdomsens og alls almugans i voru biskupsdæme. firer hrörnan kyrknanna og nidurfall. þar med orded eidrofa og

skriptrofa. sáttrofa og domrofa. Þui littzt oss Jon Sigmundsson ðngra kyrkna umbod hafa mega. huðrke þessara ne annara. dæmdum uær firir [eidrof og skriptrof iij merkur firir huort. enn firer domrof iiij merkur. enn um samuister þeirra Jons Sigmundssonar (og) Biargar Þorualldzdottur sæke biskupenn huort þeirra sem honum þiker likara til sanninda. enn um þá sðk ad Jon Sigmundsson hefde teked edur lated taka peninga ur Sualbardskyrkiu. dæmdum uær biskupenn skylldugann ad leida ij lðglig vitne ad Jon Sigmundsson uæri sannur ad þeirre sðk. þui dæmdum uier Jon Sigmundsson fallenn i bann af sialfu verkenu og fære aptur þad er hann tok edur taka liet. og giallde kyrkiunne á Sualbarde tuefalldann riett og Hola domkyrkiu .lx. marka i sinn riett. skylldann ad taka skript og lausn epter þui sem biskup leggur á. enn firer tiundarhalld giallde hann so sem tilreiknast og kristiñ riettur utuisar. af sinum̃ gozum og omaga [eyre]. enn um utlausner sem gamall landsens uane er til. skal þesse allur sakeyrer firrskrifadur gialldast ad næstum fardðgum. biskupenum edur hans umbodzmanne heima á holum edur þar sem biskupenn giðrer rád firer. kann Jon Sigmundsson ad fá nockur lauglig vitne sier til bata i greindu máále skal hann þau leidt [hafa inn]ann mánadar ad heyrdum domenum edur lesnum [. . . . . . . . . . ] kon[gs . . .] riettarbot ȷnnsiglud utuisar firer biskupenum heima á Holum edur þeim sem hann skipar. og ad ollu so profudu dæmdum vier þennann dom stðdugann upp á heilagrar kyrkiu vegna. ef ei spyrst annad logligra enn sem firer oss hefur komed

Og til sannenda hier um̃ settum uær aller fyrrnefnder prestar uor Jnnsigle firer þetta brief skrifad a Holum̃ i Hialtadal sunnudagenn næsta epter þrettanda dag[1]) á sama áre sem fyrr seiger.

---

1) Þ. e. 9. Jan.

**156. 10. Janúar 1508. í Helsingjaborg.**

Bréf Hans Dana og Norðmanna konungs til Henriks VII. Einglakonungs um óskunda Einglendinga á Íslandi.

Aarsberetninger fra det kongelige Geheimearkiv, udg. af C. F. Wegener, I, Khavn 1865 bls. 17, eptir bréfabók Hans konungs í Ríkisskjalasafni Dana (Nr. 26).

Ad regem anglie.

Exellentissimo etc. Johannes etc. Salutem plurimam cum nostri fraterni amoris affectu.

Exellentissime illustrissime ac potentissime princeps frater et confederate charissime. frequenti admodum relacione didicimus subditos nostros de terra islandie grauibus Iniuriis affectos ac sepissime vestris a subditis molestari, Iura preterea nostra regia in dicta terra islandie solui solita a vestris subditis sepius recusari, quidque de opportuno remedio prouidere velimus, indies exoramur. Nos igitur vestra de benignitate confidentes has ad vos litteras damus, predicta iura nostra regia solui, prefatas Iniurias vestris a subditis emendari instantius postulantes subditis que nostris ne de cetero molestentur fauorabiliter prouideri. Ceterum mercator quidam vestro subiectus dominio per presentium latorem iohannem gotskalck nominandus emptionis causa certo nobis debito obligatur, lapso que solucionis termino, quas nobis merces promiserat, hec ad nos minime peruenere. huic querele nostre prouide consultum iri atque hunc fidelem nostrum iohannem goschalck quamcitius remitti instanter exoramus, quam rem, cum nobis gratissima sit, promta vicissitudine curabimus promereri. In hiis celsitudinem vestram Regiam altissimo facimus commendatam.

Ex arce nostra helsingborgh x Januarii Anno m d viij°.

---

**157. 29. Janúar 1508. á Mosvöllum.**

Dómr sex manna útnefndr af Birni Guðnasyni um löggjafir Guðna Jónssonar föður hans, „hvers sál guð náði“.

Dómabók Jóns skrifstofustjóra Magnússonar í Fol., bl. 237b, skr. c. 1604 (= *a*). — Landsbókasafn 65. 4to II, 37—39, með hendi Jóns dans Magnússonar c. 1640. — Landsbókasafn 115. 4to I, 166, ágrip með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730.

Domur wm giafer gudna[1]).

Aullum maunnum þeim sem þetta Brief sia edur heyra. senda Þorleifur Aurnolfsson. Tumas Jonsson. Þorgautur Olafsson. Aurnolfur grijmsson. Þorgijls pietursson og gudmundur helgason kuediu gudz og sijna kunnigt giorandi med þessu woru opnu brefi ad æ laugardaginn næsta fyrir purificationem Sancte Mariæ þa lidit war fra gudz burd ꝏ d og viij ár æ mosuollum j Aunundarfijrdi æ þijngstad riettum worum wier til dőms[2]) nefnder af ærligum manni birni B(onda)[2]) gudnasyni er þa hafdi mijns herra kongsins sýslu og vmbod j millum geirholms og langaness. saman ad telia. [sundur ad greina. og rettan Reijkningskap a ad giora. huor hæd med sønnu vera skyllde a þui gőtze og peningum[3]) er gudni Bőnde[2]) jonsson hafdi att. [huers sal gud[4]) nadi. [huort helldur þad kann fyrir ad finnast[5]) ad giof. [kaupe edur[5]) erfdum edur [audrum løgligum fiar[5]) afla [frá þui[6]) fyrsta [adur greindur Gudne Jonsson[7]) kuæntist[8]) sinni Eiginn[2]) kuinnu [husfru Þőru Biørnsdottur[5]) og til þess [sama tijma[5]). er honum fiellu peningar [og arfur[9]) epter sira sigurd [Jonsson[9]) brodur sinn[10]). [huers sal ad gud hafi.[11])

[J firstu[12]) kom [þar fram[11]) fyrir oss [greinda menn. birtur. bőkadur. framborinn[9]) reikningskapur[13]) greindz gudna heitins a adurgreindum peningum[14]). skyrliga skrifadur. [sæmiliga og sannliga[15]) samsettur [med aneffndum heimtum[16]) og fridleika [garda og[11]) jarda og [annara lausagotza[17]). [so og

1) Dömur huor hæd med sønnu vera skyllde ä þeim peningum er Gudne Bonde haffde ätt 65, sem styttir upphaf dómsins og víkr því við, sleppir dagsetningu, en heldr þó nöfnum dómsmanna, og er að öðru leyti gagnleg afskript. 2) b. v 65. 3) [65; hæd gotza og peninga þeirra *a*. 4) [sem gud hans säl 65. 5) [b. v. 65. 6) [65; med þad *a* 7) [65; hann *a*. 8) kuongadist 65. 9) [b. v. 65. 10) 65; hans *a*. 11) [sl. 65. 12) [65; Jtem *a*. 13) Reijkningur 65. 14) þijngum 65. 15) [65; wissiliga *a*. 16) [65; med heiti *a*. 17) [65; lausafiar *a*.

skŷring a gior[1]) huersu hann hefdi hueria ȷord feingit. ad erfdum edur [audrum logligum heimilldum[2]). huern [greindañ ʀeijkning[3]). wier optliga yferlasum og ȷ[3]) margar reisur samanreiknudum [og oss ad samþycke med vorum skilninge riettz Reijkningskapar vorrar fiartølu firrgreindra manna þa̋ ʀeı,knudust oss firrgreinder peningar Gudna h(eitins) vered haffa[3]) dc hundrada ad oluktum [aullum[3]) skulldum. og þar til[4]) vt af þessum[5]) fimm c hundrada [sem firr skilur þa̋ taldest þar ȷ vera[3]) xvj. hundrud og xxc[6]) annars hundradz hundrada aflagotz [ȷ vera ad vorre tølu.[3]) [So og[7]) eij sıȷdur medkiendust wær aller[4]) fyrrskrifader [vtneffnder[3]) menn [effter þennan vorn saman talenn og samsettan Rettan Reijkning og Registuriñ sem firr greiner. þa̋ neffnde greindur Biorn Gudnason oss og til kraffde ȷnnvirdugliga ad Rannsaka. þar med alyktardoms atkuæde a̋ ad leggia. effter løgum og vorre sannligre samuisku. huert afl edur fullkomna mact ad haffa skylldu þær giaffer sem[8]) gudne heitinn ȷonsson hefde matt gefa med logum. Nu saker þess [ad[3]) wor landzlaga bok so utuijsar ad huer madur ma gefa fiordungsgiof ur aullu þui gotzi.[9]) er honum[10]) hefur aflast. so ad [meira er[11]) enn hann hefur ad erfdum tekid bædi ȷ landi og lausum eyri. huerium er hann will. [so[12]) bornum sijnum skilgetnum[13]) [sem audrum[12]) ef hann will. enn tiuñdargiof [aff so miclu[14]) sem hann hefur ad erfdum tekid[15]) bædi ȷ landi og [lausum eyri[16]) þo [hann spyrie eij erfingia[17]) ad. ef hann[18]) mæler af witi. [Enn saker þess so talar texte logbőkarinnar. ȷ almenneligu Erffdatale. ad hinn Ellste son skal Eignast høffud Ből. siña og løgieñ ȷ audrum stad ad syner snuest til høffudbőla. Enn dætur til vtȷarda og lausafia̋r. Kunngiørest og ȷ Kuennagifftingum ad þő mad-

1) [65; afla *a*. 2) [65; afla *a*. 3) [b. v. 65. 4) sl. 65. 5) 65; þeim *a*. 5) 65; þeim *a*. 6) 65; xx *a*. 7) [Jtem 65. 8) [65; ad wier worum til nefnder af optskrifudum manni birne gudnasyni. kongs vmbodzmanni þar þa samstundis ȷ greindu takmarki aa ad lijta og med skynsemd fullnadardom a ad leggia epter þui sem wier wissum riettast og san nast fyrir gudi huersu myklar giafer ad þrattnefndur *a*. 9) fie 65. 10) þeim 65. 11) [heffur meira 65. 12) [b. v. 65. 13) sl. 65. 14) [65; so mikit *a*. 15) Eignast 65. 16) [lausafie 65. 17) [ei spyrie hann Erffingia samþyckis 65. 18) madur 65.

ur kaupe jørd med gripum konu sinnar. edur lausafie. þá skal hun þad eitt haffa vr jørdum sem hun haffde heimañ. þad Eina meira sem Erffinge loffar. Bijrter og Breff Magnusar kongs j Bők vorre sem hana Byri(ar) j fyrsta. þar sem vijkur ad vm̃ jardabrigde og aunnur lagamál. vnder huorium løgum sem þa(u) giordust. þá skal Effter þui dæmast. sem þá voru løg j lande. er þaug mál giørdust. Og ad slijkre auijsun og styrking laganna. sem hier fyrer hermer. ad j flestum stødum vijkur helldur frá Enn til vm vm kuenna Eigner ad odulum ad vorum skilninge. þő ad Erffdamál sie sie ad jordum. þő Ei sie giøff gődra høffud Bőla.[1]) og þui kunnum vier[2]) þad ei frekara[3]) ad taka [vnder vorn dom[4]) [eda leingra þar fram um fara[5]) enn so. [vær dæmum Effter þui sem nu Eru løg j lande med fullu dőms atkuæde. ad Gudne h(eitinu). gődrar minningar[6]) hafi matt med laugum gefa so miklar giafer sem [bok giorer rad fyrir.[7]) [Tijundargiøff vr Erffdagőtze. fimta huort hundrad sem teked er dæme til aff helgra daga veidum. Enn fiordung vr afflagőtze.[8]) og þær ad logum [fyrst halldast skulu sem hann fyrst gaff. sem var husfru Þőra kuinna hans. vtan so finnest fyrer med rettu. ad greindur Gudne h(eitinn) haffe geffed jmesligar giaffer. sem løg giøra Ráđ fyrer. þá jaffnest þær vid løggiaffer. Reijkudust giaffer Gudne Bőnda fyrer xxxıx^c aff Erffdagőtze. Enn 40^c og halfft ed fimta aff afflagőtze. Reijknum vier allar løggiaffer Gudna h(eitins) iiij^c og 80^c.[9]) huad finnast kann ad Gudne Bőnde haffe gefid meira Enn løgbőkiñ skýrer. þad lijst oss Ecke affl haffa Eiga. og med aullu őnýtt vera skulu[10])

1) [65; vantar með öllu í *a*. 2) 65; wid *a*. 3) 65; frekar *a*. 4) [b. v. 65. 5) [sl. 65. 6) [65; ad hann *a*. 7) [Løgbök äkuedur 65. 8) [b. v. 65. 9) leiðrétt; 65 hefir „viij^c og 70^c.“ 10) [65; halldast eiga. þær fyrst sem hann gaf fyst sem war hans kuinnu. þa huerium sem hann gaf þar epter til þess þær teliast so myklar sem laug giora rad fyrir. sem j einum stad stendur j worum logum. Ef madur gefur jmsum monnum giafer þa skulu þær halldast til þess þær werda jafnhaar wid lauggiafer. ad reiknast nitian cog xx af aflagotzi. enn half(t) ed v^c og xl^c ur erfdagotzi. og hans lauggiafer samanreiknadar halft ed fiorda c og attatiger. Enn þær hann hefur meiri gefid. lijtast oss moti logum gefnar og ecki afl hafa *a*.

og [eij ad logum halldast[1]) eiga. [Og til meire audsyningar og sannz vitnisburdar hier vm samþykte Biorn G(udna)s(on).[2])

[Og til sanninda hier vm̄ settum wier fyrnefnder menn wor jncigli fyrir þetta domsbref huert ed skrifad war j Ogri j Jsafirdi[3]) fyrir festum gregorij pafa æ sama ari sem fyrr seiger[4]).

---

158. 7. Febrúar 1508. á Svínavatni.

Tylftardómr útnefndr af Einari bónda Oddssyni, kongs umboðsmanni í Húnavatnsþingi, um dómrof í máli þeirra Guðmundar Indriðasonar og Ásgríms Þorbjarnarsonar.

Landsskjalasafn 94. 4to bl. 4b með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — ÍBfél. 67. 4to bl. 66a—67 „Iclis" með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745).

Fimte Domur wm sama Efne.[5])

Aullum Godum Monnum sem þetta Bref sia Edur heyra senda Grimur Jonsson. Einar Einarsson. Brandur Olafsson. Jon Einarsson. Hallgrimur Skulason. Arngrimur Liotsson. Eyulfur Augmundsson. Besse Arason. Þordur Arason. Are Sigvatsson. Haflidi Juarsson og Jon Olafsson Quediu Guds og sijna kunnugtt giorande ad Aarum epter Guds burd[6]) M d viij Aar Manudaginn næstan̄ epter Blasiusmesso vm̄ veturinn æ Suinavatni æ asum æ þingstad Riettum vorum vier til doms nefnder af ærligum manne Einare bonda[7]) Oddssyni er þa hafde mijns herra kongsins syslu og[8]) vmbod j hunavatnsþinge til ad dæma [j millum[9]) þeirra Gudmundar Jndridasonar og Asgrims Þorbiarnarsonar eptir þui sem stefnuskra su jnne hiellt er fyrrnefndur valldsmadur las þar vpp og Asgrimur medkendist stefnuna[10]) þessa hier[11]) fyrir oss. J fyrstu grein dæmdum vier stefnuna logliga og Asgrim hier[11]) Rietteliga fyrir kalladan̄. Enn[12]) þann xij[13]) manna

---

1) [halldast fyrer løg 65. 2) [þ. v. 65. 3) Svo. 4) [vantar í 65. 5) Sjá Alþingisdóm 5. Júlí 1507. „(Utskript) af domi Einar Oddssonar sislomans i Hunavatnsþingi" 67. 6) burdi 67. 7) þ. v. 67. 8) þ. v. 67. 9) [milli 67. 10) stefnu 67. 11) þar 67. 12) og 67. 13) 67; 12, 94.

dom sem Gudmundur kiærde lil Asgrims ad hann hefde Rofit og eckie halldit. sem þeir haufdu[1]) sialfir vnder lægit[2]) vottum nærverande[3]). Og vier vissum ad þad var satt. Þui[4]) dæmdum vier Asgrim sekañ vm[5]) domrof mork vid Gudmund. Enn iiij morkum vid kong og hallde þo dom sem adur. og syslumann skyllldugañ ad sækia huorutueggiu[6]) til handa. Enn Gudmundur Jndridasou[7]) takie fyrst skulld syna epter þui sem Bok[8]) vottar. Enn segtir huortueggiu[9]) skiptist epter fiarmagni sydañ. Suo og eij sydur dæmdum vier Asgrim Þorbiarnarson skyllldugañ ad giallda peninga med ollum[10]) laga awegste sem logmannsins domur og Riett lagaskipañ þar vm̃ gior vtvijsar og jnne helldur med ollum synum greijnum og Articulis. þui vier siaum Eingin log honum j moti. Enn oss virdist jnnstædann vera. xl. ca epter Beggia þeirra medkienningu Gudmundar og Asgrims. Skillde Asgrimur Þorbiarnarson[11]) giallda j fyrstu saul þridiung af jnnstædune jnnañ mañadar ad heyrdum dominum. Annañ þridiung ad næstum fardogum. Enn allt ad Auxararþinge næsta epter og færa heim til Gudmundar alla þessa peninga. Enn vm̃[12]) vpphæd æ laga ævegstinum kunnum vier eij ad dæma. þuj vier vissum eij fridleika æ peningunum huorier hellst voru. Enn su appellerañ sem Asgrimur las [hier vp[13]) leist oss ollum ologlig vėra og ecki afl hafa mega[13]) fyrir þa grein ad hann hafde sialfur vnder lagt þann dom sem hann hafde ʀofit og þetta mal ʀeis þar allt af. Hins [og annars[14]) ad laugmadurinn hafde adur giortt lagaskipañ þeirra [æ millum[15]) vpa þann dom sem ʀofinn var. Will Asgrimur enneij dom hallda þa dæmdum vier kongs vmbodsmann Einar Oddsson skyllldugañ at stefna Asgrime þing og giora hann vtlægañ epter þui sem [Logbok[16]) vtvijsar. nema[17]) hann giallde sem dæmtt er.

Og til sanninda [hier vm̃ setium vier vor jnncigle hier fyrir nedan[18]) et cetera.

---

1) hafa 67. 2) lagt 67. 3) nærverondum 67. 4) þa 67. 5) fyrir 67. 6) hvortveggia 67. 7) b. v. 67 8) logbok 67. 9) hverstueggia 67. 10) so ordnum 67. 11) b. v. 67. 12) sl. 67. 13) [þar 67. 14) [annars vegna 67. 15) [i midli 67. 16) [vor laandslagabok 67. 17) utan 67. 18) sl. 67.

**159. 25. Febrúar 1508. á Espihóli.**

Jón Ásgrímsson selr Sæmundi Símonarsyni jörðina Tungu í Fljótum fyrir jarðirnar Vígastaði og Meyjarhól á Svalbarðsströnd og Syðri-Kálfborgará í Bárðardal.

AM. Apogr. 5628 „Ex originali“ á kálfskinnni, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. — Skjalabók í Landsskjalasafni 94 með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600 (= *b*).

Kaup Brief fyrer Tungu j flotum.[1])

Þat giorum uier halldor jonsson og þorgeir jonsson. þorleifur hromundzson og sigmundur jonsson godum monnum uiturligt med þessu woru opnu brefe þa er lidit var fra gudz burd þusund fim hundrud og atta ar a mattiusmessudag[2]) æ eytra[3]) e(s)pihole j eyiafirde worum wær j hia saum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna jons asgrimssonar af einne alfu en sæmundar simunarsonar[4]) af annarri at suo fyrir skildu at fyr nefndur jon sellde adur greindum sæmundi jordina tungu er liggur i fliottum i hnapstada kirkiu sokn med aullum þeim gognvm og gædum greindri jordu fylger og fylgt hefer at fornu og nyiu. hier j motte gaf þratt nefndr sæmvndr opt nefndum jone jarder er suo heitta vigastader[5]) og meyarhol[6]) er liggia æ saulbardzstrond[7]) i sualbardz kirkiu sokn og sydre kalborgaræ[8]) er liggur i bardardal i eyiardals(ar)kirkiusokn medur[9]) aullum þeim gognum og gædum sem greindum jordum fylger og fylgt hefer ath fornu og nyiu og tittnefndur sæmundur hefur fremst eigandi at ordit at laugum. hier til lagde hann allan dælisskog og þing þat er þeim kemur[10]) til samans. skyllde huor þessar(a) manna fyrgreindra hallda þeim jordwm til laga er keypte en suara laga riptingum huor æ þeim jordum er sellde. Og til sannenda hier vm settum vær fyrnefnder menn vor jnsigle fyrer þetta kaupbref er[11]) skrifat var j sama stad deige og ære sem fyr seiger.

---

1) *b*. 2) Mahttiasmessudag *b*. 3) ytra *b*. 4) Sijmonarsonar *b*. 5) veigastader *b*. 6) Meyarholl *b*. 7) Svo *a*. Sualbardzstrond *b*. 8) Kalfborgara *b*. 9) med *b*. 10) kiæme *b*. 11) b. v. *b*.

**160.** **11. Marts 1508.** **undir Felli.**

Transskriptarbréf af fimm bréfum um Fell í Kollafirði:

1, Vitnisburði Hermundar prests Oddssonar 2. Jan. 1500, DI, VII, Nr. 482.

2, Vitnisburði Orms Magnússonar 13. Marts 1494. DI, VII, Nr. 270.

3, Bréfi Sveinbjarnar Aronssonar o fl. 24. Nóv. 1471. DI, V, Nr. 578.

4, Löggjafabréfi Andrésar Guðmundssonar og Þorbjargar Ólafsdóttur [3. okt. 1500—] 16. Febr. 1501. DI, VII, Nr. 516.

5, Kvittunarbréf Andrésar Guðmundssonar til Guðmundarsonar sínss 31. Maí 1495. DI, VII, Nr. 312.

AM. Fasc. LXVII, frumtransskriptið á skinni, komið til Arna „frá Monsieur Orme Dadasyne, til eignar 1726. Eg hefe accuratum apographum þessa brefs, enn bihelld þvi þo. uegna handarennar“ (AM.).

transkriptarbref wm fiordung(s)giof (loggiafer) fadur mins og um fell.[1])

Medkennunzth Vær jon Palsson. Bergr Thomas Son. Biarne Þorbiarnar Son ok Þorbiorn Jon Son. ath Vær haufum heyrtt ok Sed ok yfuer lesit opin bref huertt um Sig med heilum ok oskauddum hangandi Jnnciglum Suo latandda ord epter ord Sem hier fyr stendur skrifad. Ok til sanninndda hier vm festum vær vor jnnciglli fyrir þetta transkrip(t)ar bref. Skrifad var under fellj j kollæfirdj. Laugardaginn næstæ fyrir Gregorius Messo. arum epter guds burd þusund fimm Hundrud ok atta ar.

---

**161.** **17. Marts 1508.** **á Eyri í Arnarfirði.**

Vitnisburðarbréf um tvö gömul landamerkjaskjöl Hvamms í Dýrafirði **(Falsbréf).**

Að bréfi þessi eru þessar heimildir: *a*, frumrit á skinni frá Steini bónda Kristjánssyni í Hvammi í Dýrafirði, sem er með þeim hætti, að það er límt (skáskeytt) saman úr tveim skinnsneplum, og síðan sett þrjú höpt með hörþræði í gegnum samskeytin til að styrkja þau; er síðari snepill bréfsins tæpr þriðjungr þess. Fyrir bréfinu hafa verið þrjú innsigli. Af miðinnsiglinu er ekkert eptir, nema

1) Utan á bréfinu með hendi Guðmundar Andréssonar.

þveingrinn einn; þriðja (síðasta) innsiglið er heilt að öðru leyti en því, að nafnið er úr því brostið, svo að ekki sést, hvað á því hefir staðið. Fyrsta innsiglið er enn heilt og stendr á því með venjulegu innsiglaletri frá 16. öld: *s. hialmi. sueni. f.* Aptan á bréfinu stendr frumritað: „Þetta var vpp lesid vid Sandakirckiu ad guds þionustu giord Endadre a þann 13 maii 1743 til stadfestu vor nofn.

Jon Þorleifs Son. Greipur Jonsson. Olafur Jonsson.
Jon sumarlyjdason. Olafur magnusson. Jon petursson".

*b*, Afskript á skinni, einnig frá Steini bónda Kristjánssyni í Hvammi, sem átt hefir að staðfesta, en aldrei orðið af, að skrifað væri undir: „Ad þetta sie riett coperad epter orginälnum (!) votta under skrifader huamme 1743 d. 17 Julius" (eingin undirskript). Höndin á þessari afskript svarar því alveg, að hún sé frá miðbiki 18. aldar. Fyrir laungu hafði orðið fyrir mér afskript af þessu bréfi með heudi Jóns Sigurðssonar í drögum hans til Fornbréfasafnsins, sem hann segir að sé gerð „eptir originali í Hvammi í Dýrafirði 1845", er sé á kálfskinni, og lýsir hann bréfinu og eins innsiglunum, sem þá voru alveg í sama ástandi og þau eru nú, en getr að öðru leyti ekki um, að neitt sé grunsamlegt við frumritið. En mér þótti bréfið, strax og eg sá það, tortryggilegt um stafsetning nokkuð svo, og einkum um sjálf niðrlagsorðin: „sem syner vor nofn", því að það líkist eingu, er tíðkast í hrekklausum bréfum, og kemr hér auk þess eins og skollinn úr sauðarleggnum sem óskiljanleg lokleysa. Mér var því mikil forvitni á að fá að vita meira um frumrit þessa bréfs, og fór því þess á leit hér um árið gegnum Sighvat Grímsson Borgfirðing sagnfræðing í Höfða í Dýrafirði — sem opt hefir reynzt mér manna beztr að útvega forna fræði, — að eigandinn léði mér bréfið um hríð, en það var fast fyrir, en með góðu leyfi hans fékk Sighvatr að taka afskript af því, er hann svo sendi mér. Bar afskript Sighvats nákvæmlega saman við afskript Jons Sigurðssonar. En grunr minn á bréfinu minkaði ekki fyrir það, og áðr en það yrði prentað freistaði eg enn fyrir aðstoð Sighvats að fá bréfið í hendr, og heppnaðist það loks fyrir atfylgi hans og góða aðstoð Jóhannesar alþingismanns Ólafssonar og Magnúsar bæjarfógeta Torfasonar, og barst það til mín 30. Marts þ. á. (1906).

Eptir að frumrit bréfsins er nú komið til skoðunar, þarf ekkert af því að draga að bréf þetta er *ócækt falsbréf.* Eptir litarfari skinnsins, bleki, stafsetning og letrgerð á bréfinu mun láta nærri, að það sé frá öndverðri 18. öld, eða svo sem 200 árum yngra en það segist vera. Að skeyta jafnáríðandi bréf og þetta saman úr tveim sneplum á þann hátt sem gert er, hofðu þeir heldr ekki gert um 1500; hefðu þeir verið í skinnahraki mundu þeir hafa gagnstungið það eptir endilaungum samskeytunum spor eptir spor með skinnþveing, og að lyktum mundu þeir hafa dregið síðasta innsiglisþveinginn í gegnum sam-

skeytin og læst á þann veg báða parta bréfsins saman með síðasta innsiglinu — líkt og menn gegnumdraga nú áríðandi bækur, — svo að aldrei skyldu þessir partar bréfsins týnast hvor frá öðrum meðan innsiglið og þveingrinn héldi. En ekkert af þessu hefir verið gert, og er síðasti innsiglisþveingrinn dreginn í gegnum bréfið rétt utan við samskeytin; límingin er nú og biluð, og heldr bréfinu ekkert saman, nema hörspottarnir. En nú er bréfið ekki uppskafningr, ekki skafið upp gamalt bréf og svo skrifað þetta bréf aptr á skinnið, þar sem gamalt letr hafi staðið —, og svo er fyrsta innsiglið ósvikið innsigli Hjálms Sveinssonar frá 16. öld; þar með er og innsiglisþveingrinn hvergi samsettr, heldr hefir hann verið heill frá öndverðu. Eina ráðið til þess að geta komið gamla innsiglinu Hjálms Sveinssonar — sem þeir hafa náð í frá einhverju gömlu bréfi — fyrir þetta bréf var því það, ef hægt hefði verið að kljúfa bakið af innsiglinu, leggja svo þveinginn í það mitt og bræða síðan nýtt bak yfir alt saman. Til þess að koma þessu á veg þurfti mikla varúð og handlægni, að ekki brotnaði sá gamli framhelmingr innsiglisins, letrið eyðilegðist og alt væri ónýtt, og svo að ganga svo frá nývirkinu, að ekki sæist verks um merki. En á þetta hafa smiðir þessa bréfs hætt, og má, þegar vel er að gætt, í annari hlið innsiglisins sjá glögga rák fyrir samskeytum í vaxinu, og hefir þó verið vel og höndulega frá yfirbræðslunni geingið.

Það er að öðru leyti auðséð að þetta bréf muni vera samsett eptir fyrirmynd þess bréfs frá sama degi og ári, sem prentað er hér að framan sem Nr. 8, en það bréf er að vitni Árna Magnússonar og þriggja annara góðra manna „óskafið, óskorið og í allan máta falslaust“ svo mikið sem þeir máttu sjá. Hefir það bréf enn verið vestr í Dýrafirði — fylgt Núpi — fram á þá daga, sem þetta falsbréf var gert, þótt frumrit þess sé nú undir lok liðið.

Vitnisburdur vm hvam(s) landamerke[1]).

Þat giorum vier epterskrifadir menn Hialmur Sueinsson. Sigurdur Þormodsson og grijmur olafsson godum monnum kunnugt med þessu uoru opnu briefe a fôstudagenn næsta epter gudmundardag þa lidid war fra hingadburde vors herra jeshu christi ꝺ. d. og atta aʀ æ Eýri j arnarfyrde worum vier til kallader af welbornum manne Jone bonda biôrnsyne samañ ad lesa[2]) tuo kaupbref firir jordunne Hvamme i dyrafyrde j sanda kirkiu sokn liggande med heylum oskiertum hangande Jnnsiglum fromra manna. var annad brefed lxxxviij ara gamallt enn annad l og vj ara. stod i hvoriu firer

1) Utan á bréfinu. 2) Hér er eyða svo sem fyrir einu orði.

sig so latande ord medal annara orda. Hwammur a land inn i suartabacka og þad gagnvart a fiall vpp enn ad vtan i gard þann sem geingur vr fioru og gagnvart upp a sandafell firir vtan gras enn innañ þingeyre. til sanninda hier um setium vier vor jnnsigli firir nedan þetta bref skrifad i sama stad og æ deige sem syner vor nofn.

---

**162. 19. Marts 1508. í Holti.**

Vitnisburarbréf Grims prests Þrsteinssonar og tveggja annara um lýsing Bergljótar Haldórsdóttur um ætt og afspreingi Grundar-Helgu.

*Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta, Hólum 1592 og Reykjavík 1902 bls. 57—58.*

Þat giðrum vier Grimur Prestur Þorsteins(son) Officialis heilagrar Skalholltz Kyrkiu. a milli Geirholms[1]) og Langaness. Biðrn Gudnason og Sumarlide Halldorsson Leikmeñ. sama Byskupsdæmis. godum mönnum viturlegt med þessu voru opnu Briefe. ad vier vorum þar i hia. saum og heyrdum. ad Bergliot Halldorsd(otter) fullrar skynsemdar. og heil ad öllum vitzmunum. lxxx. Vetra at Alldurtölu. bar sofelldañ vitnisburd Jone Sigm(unds)s(yne). so sem hier eptir stendur. ad frasögn sinna Forelldra Gudrunar Sigm(unds)d(ottur) Födurmodur Bergliotar, hueria hun reiknade haft hafa tuo. Vetur ens tiunda Tugar þa hun andadest. og fleire siña Forelldra añara. þo þeir sie hier ei med nafni iñter. ad suo höfdu taled og reiknad. ad Jungherra Einar i Vatzfirde. var sonur Herra Eiriks. eñ Eirikr var sonur Sueinbiarnar. eñ Biörn var sonur Einars. og Fader Kristinar. og Biörn hafde vered sonur Grundar Helgu. sem Smid liet taka af. Og alldrei ætte Grundar Helga Börn vid Jungherra Einare. nema Biörn. eñ huörke son nie dottur. so eg hafe heyrt geted eda taled. Og var Fader miñ Halldor. Sueinn hia Þolleife Arnasyne og hia Hustru Kristinu i Vatzfirde. Visse eg ad Frasögn. Biörn Einarss(on) do sudur i Hualfirde. en liggur i Skalholti.

1) Grimholms, Hólaútg. (!)

Og til Sañenda hier vm̃. settum vier fyrr greinder Meñ vor jngsigle fyrer þetta Vitnisburdar Brief greindrar Bergliotar. huert ed giǒrt var i Hollte i AunǒndarFirde. Midvikudageñ næstan fyrer Passionem Dom(ini) a langafǒstu vm̃ Vetureñ. Anno Dom(ini) M. D. viij.

---

**163. 26. Marts 1508. á Hrafnseyri.**

Gjafabréf Jóns (dans) Björnssonar, þar sem hann gefr Bjarna Andréssyni allar löggjafir sínar og tilgreinir þar í Brjánslæk á Barðaströnd með þeim jörðum, er þar með fylgja.

Kriegers safn 2. 4to, bls. 234—239 með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700 eptir transkripti frá 12. April 1508. — Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar í Ríkisskjalasafni Dana, Barðastrandarsýsla Nr. 2, afskript eptir frumriti staðfest á Geirrauðareyri 17. Apr. 1704 af Guðmundi Þorleifssyni, J(oni) Jónssyni og Birni Jónssyni (= b).

Gjafabref Jons Dans Biǒrnssonar. er hann gaf
Biarna Andressyni allar sijnar lǒggiafir
ad tilgreindri jǒrdinni Briämslæk
med ǒdrum þar undir liggia.

Þad giǒri eg Jon Biǒrnsson godum monnum viturligt med þessu mijnu opnu brefi. ad eg medkennist. ad eg hefi unt og bifalat. feingit og gefid Biarna Andressyni jǒrdina Briamz[1])læk er liggur ä Bardastrǒnd. og þar med allar þær jardir er þar til liggia og mier tilheyra hveriar er svo heita Fossä. Þverä. Hella. hlijd[2]). Añorstadir og[2]) Raudzdalur. er liggia i ädurgreindu[3]) takmarke [ä Bardastrǒnd[4]) j fyrgreinds stadar Briams[1])lækiar kirkiusokn. hveriar fyrgreindar jarder eg gef honum til [fullrar eignar og æfinlegs forrædis[5]) undañ mier og mijnum erfingium. en undir hann og hanz skilgietna[6]) erfingia. med ǒllum þeim gǒgnum og giædum. hlutum og hlunnindum. Rekum og Renningum. vǒtnum og veidistǒdum̃. hvǒlum[7]) og hafrekstrum. ǒkrum og tǒdum̃. eingium og skog-

1) brians *b* (alstaðar). 2) b. v. *b*. 3) — greindum(!) *b*. 4) [bardastrandar *b*. 5) friäls forrædis og æfinlegrar eignar *b*. 6) sl. *b*. 7) haulum(!) *b*.

um. holltum og hôgum og ôllum þeim fyrgreindum gôgnum og giædum. hlutum og hlunnindum. sem ôllum adurgreindum jôrdum fylgir og fylgt hefer at fornu og nyu til ystra[1]) um̃erkja er adrir menn eiga i [motz vid ockur Kristijnu mijna. og vid[2]) hôfum fremst eigandi ad ordit. ad[3]) ôllu tilteknu. enn ongvo frã. epter þeim dandimanna domum[4]) sem ockur hafa þessar jardir verid tildæmdar og [bref og[5]) skilrijki tilliggia. skal hverki hanz fadir nie brædur eda nockur annar hier nockur kil edur [kiæru. tilklôgun[6]). Bulldur eda omak uppã meiga[7]) giora. helldur honum og hans kvinnu [og hennar bôrnum[5]) og þeirra lôglegum[8]) erfingium til æfiñlegra nãda og nytka[9]) Lysir[10]) eg þvi. ad eg gef honum þessa[11]) peninga i allar þær lôggiafir. sem[12]) hann mã hellst niotandi verda. eptir lôgbok Kristin Riett.[13]) lysir eg [þetta i Testamentumgiôf mijna[14]) hier uti. sem meira er enn landzlôg bioda ad gefa skuli. Svo og[15]) medkennunst eg ãdurgreindur Jon Biôrnsson. ad eg er nu heill ad ôllu viti. Enn krãnkur i lijkama[16]) [giôri eg[17]) þennañ giôrning eptir sialfz mijns vilia. og fyrir utañ [nockurs mannz[18]) tillögur.

Og til sanninda hér um. setta eg mitt Innsigli fyrir þetta opid bref. hvert ad[19]) skrifad var ã Hrafns-Eyri i Arnarfyrdi, Sunnudaginn næstan fyrir Midfôstu um veturinn ãrum eptir gudz burd M. D. og viij. ãr.

---

**164** **27. Marts 1508.** **á Staðarhóli.**

Vitnisburðr Þorláks Auðunarsonar um skóginn í Botnsdal í Tungulandi í Skutilsfirði, sem er eign Kirkjubólskirkju.

AM. Fasc. XXXIX, 23, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 862. — AM. Fasc. XXXIX, 24, afskript á skinni vidimeruð $^{12}/_{9}$ 1597. — AM. Fasc. XXXIX, 25, transskr. á skinni frá 17. Sept. 1603. — ÍBfél. Kh. 79. 4to. bl. 211—218 (tvær afskr.)

---

1) idstu *b*. 2) [mote. og vid Krijstijn kona mijn *b*. 3) sl. *b*. 4) dome *b*. 5). [sl. *b*. 6) [kiærslu eda klögun *b*. 7) b. v. *b*. 8) b. v. *b*. 9) nytta *b*. 10) Lysum *b*. 11) *b*; þa, *a*. 12) sl. *b*. 13) riette *b*. 14) [þad mijna testamentum giöf *b*. 15) sl. *b*. 16) Jón Björnsson mun hafa dáið á útmánnðum þetta ár. 17) [eg giöre *b*. 18) [*b*; sialfz mijns(!) *a*. 19) ed *b*.

Þorlakur audunarson.[1])

Suo felldan uitnisburd ber eg þollakur audunarson at skogr sǫ́ sem ligr ȷ bozdal ȷ tungu ȷord sem liggr ȷ skutulsfirde ȷ eýrar kirkiu sokn uar halldinn fullkomlig eign kirkiubols millum goto þeirrar sem fram ligr med þeirre ǫ́ sem framan rennr epter bozdal og svo fyrir framan sialfa kringlumýre. stodo þar þa merkebiarker. og suo a lagan hialla up under hlidinne. la þǫ́[2]) gata framarliga vm þann hialla heim med hlidinne fyrir ofan huita riodr og suo heim ȷ petursriodr og þar þuert ofan huita riodr og suo heim ȷ petursriodur og þar þuert ofan at tungusele. sagdi mer moder min ualgerdr sigmundardotter at audun grimsson fader minn hefdi ridit ǫ́ þenna skog og sagt sera ȷngimunde borgarsyne og ȷone sigmundssyni brodr sinum og ser þessi ornefni og skogareign kirkiubols og bad hana seigia sonum sinvm at þenna skog ætte[3]) kirkubolsmenn ȷ tungu ȷord. atte fyrr sagdur audun þǫ́ tungu. atta ec ȷordina tungu xl uetr og heyrda ec alldre þar tuimæle ǫ́ og alldre annat en kirkiubol ætte þenna skog og her epter uil eg sueria fullañ bokareid nær sem sa uill taka sem hann æ med logom at taka edur hans umbodsmadur. Og til sanninda her um setta ec mitt ȷnsigle fyrir þetta bref sem skrifat uar a stadarholi ȷ saurbæ manudagin næsta epter annuñciacionem[4]) sancte marie uirginis arum epter[5]) guds burd ꟿ. d. og viij ar.

---

**165. 28. Marts 1508. í Kálfanesi**

Vitnisburðr síra Jóns Haldórssonar um að jörðin Ós í Strandasýslu eigi hálfan Vatnadal.

AM. Fasc. XXXIX 22, frumrit á skinni frá Staðarhóli. Af 3 innsiglum er nú 1 dottið frá. — AM. Apogr. 1455.

Ossbref fyrir landamerckium æ watnadal.[6])

Þat giorum vid þorarinn ȷonsson ok Brandr ȷonsson

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 2) þar. XXXIX, 24. 3) ætti, XXXIX, 24. 4) Assumptionem, XXXIX, 25(!) 5) tvískr. í frbr. 6) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

godum monnum viturligt med þessu ockru opnu brefi at ꝺ́a þridiudagin næstañ fyrir midfaustu[1]) um ueturin ꝺ́a grunduñum fyrir nedan skeliꝺ́avik Vorum vid j hiꝺ́a saum ok heyrdum ꝺ́a ord ok handaband jons prestz halldorsssonar af einne alfu ok þorbiarnar jonssonar af anare at svo fyrir skildv at greindur serꝺ́a jon leysti[2]) fyrir ockur ok medkendizt at hann hefdi til vitad upp ꝺ́a fioretiger vetur edur leingur at þeir sem buit hafa ꝺ́a ose hefdi haft ok halldit allan halfan vatnꝺ́adal ok allt æ fiall fram sem leingst dregur votñ at ok allt ofan j ed nedra uatñ ok hefdi eingin at fundit ok aldri tuimæli ꝺ́a leikit at nockur ætti allañ halfañ vatñædal nemꝺ́a os. Ok þvi leysti[2]) Seræ jon fyrir ockur at hann heyrdi sin faudur halldor jonsson leysꝺ́a þui fyrir sier at hann hefdi alldri tuimæli ꝺ́a heyrtt upp æ allañ þan timæ ok langæ æfi sem halldor fader seræ jons bio æ videuollum j liotꝺ́ardal ok alldri annat en os ætti allan halfañ vatñædal ok allt ofan j ed nedra uatñ ok allt ꝺ́a fiall fram sem leingst dregur votñ at. Suo og leysti[2]) tittgreindur serꝺ́a jon fyrir ockur at sinn fader halldor hefdi haft til lañs af þeim sem ꝺ́a ose biovggu[3]) vatñædalsfit þꝺ́a er hann bio æ videuollvm. Ok til meire audsyningar og sanzt vitñesssburdar hier um þꝺ́a set ec jon prestur halldorsson mitt jnncigli med þessara manna jnnsigllum fyrir þetta vitnesburdarbref er giortt var j kalfꝺ́anesi j steingrimsfirde j stadar kirkiv sokñ ꝺ́a samꝺ́a dag ok ari sem fyrr seiger. arvm epter guds burd. ꝏ. dc ok attꝺ́a ar.

---

**166. 3. Apríl 1508. á Reykjum.**

Vitnisburðr Guðmundar prests Ólafssonar um Kirkjubólsskóg i Skululsfirði.

AM. Fasc. XXXIX, 24, vidimus á skinni frá 12. Sept. 1597. — AM Fasc. XXXIX, 25, transkr. á skinni frá 17. Sept. 1603, gert eptir frumritinu. — AM Apogr. 863. — IBfél. Kh. 79. 4to bls. 219—220.

1) Þ. e. 28. Marts. 1508. 2) Svo = lýsti. 3) Svo.

Suo feldañ vitnisburd ber ec sera gudmundur prestur olafsson ad þollakur aűdűnarson selldi mier iordina Tungű er liggur j skűtűlsfirdi j Eyrarkirkiusokn til fullrar eignar med þessum jtaűkum at kirkiubol ætte skog þann er liggur fram med þeirre æ sem framan rennur epter bozdal og so fyrir framan kringlumyri og so ấ hialla þann er liggur, vpp med hlijdinne og j gőtur þær er liggia med hlijdinne fyrir ofan huijtariodur og suo heim j peturzriodur og þar þűert ofan ad tungűseli. og so sellda ec fyrr nefndur gudmundr olafsson iordina Tungu j Skutulsfirdi Tűmasi Jonssyni ad fra skildum skogarpartti kirkiubols og so hielltt og fyrr nefndur Tőmas Jonsson þenna skog fullkomliga eign kirkiubols þa hann bio ad kirkiuboli enn ec j Tungű og alldri heyrda ec fyrr nefndur sera gűdmundur olafsson vppa xx vetur edur leingur þad tuijmælis orka annat en þessi skogur væri fullkomlig eign kirkiubols. Og hier epter vil ec sueria fullañ bokareid nær sem ec fæ ordlof a minum herra fyrir þeim sem þann eijd a ad taca med logum. Og til sanninda hier vm set ec sera gudmundur olafsson mitt innsigli fyrir þetta bref er giort var a Reykium j skagafirdi j Tűngűsueit manűdaginn næsta fyrir ambrosij episcopi vm vorid arum epter guds bűrd [M. D og viij/) ar.

---

**167. 3. Apríl 1508. á Helgafelli.**

Vitnisburðarbréf um það, að Ingvildr Helgadóttir hafi skilið sér aðra jörð jafngóða eða þá peninga, sem henni líkaði að taka, móti jörðuuni Hvítárbakka í Borgarfirði, er hún fékk Einari Björnssyni (28. Aug. 1487).

AM. Fasc. XXXIX, 10, frumrit á skinni frá Staðarhóli, og eru öll (3) innsiglin fyrir, — AM. Apogr. 1498.

Vitnisb(urdur).[2])

Þad giorum wid nikulas kærsson ok arni brandzson god-

1) XXXIX, 25 og IBfél. 79. 4to; 158 (!), XXXIX, 24. 2) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

um monnum witurligt med þessu ockru opnu brefi. ad wid worum þar ȷ hia saum ok heyrdum æ. manudagin næsta fyrir gregorivsmesso.[1]) æ helgafelli ȷ helgafellzsueit. þa er lidit war fra hingadburd wors herra ȷhesv christi þushund fimm hundrvt og atta ær. ord ok handaband þeirra Sigurdar dadasonar ok Jngvǫlldar helgadottur suo fyrir skildu ad greindr sigurdur handlagdi adr nefndri ȷngvǫlldi. suo vordinn witnisburd ad hann hefdi heyrt ok sied æ skardi þa fundr þeirra war þar einars heitins biornssonar ok biskups magnus heitins eyiolfssonar. sem gud nade þeirra salir. þridivdaginn næsta efter bartholomeus messo ad fyrr nefnd ȷnguðlldur feck adr greindum einari heitnum ȷordina alla huitærbacka er liggur ȷ borgarfirde ȷ bæiar kirkiu sokn til fullrar eignar ȷ suo mata. ad hun skildi sier adra ȷord ȷ moti ȷafngoda eda adra goda peninga þa sem henni wel likade ad taka. Ok hier epter megum wid sueria þa þurfa þikir. Enn til sanninda hier wm settum wid fyrr nefnder menn ockur ȷnsigli fyrir þetta uitnisburdarbref er giort war æ helgafelli. med sialfs hans ȷnsigli. Manudaginn næsta fyrir ambrosiusmessu æ enu sama are sem fyrr seiger.

---

**168. 3. April 1508. á Hólum.**

Vitnisburðarbréf, að Þorbjörg Þorleifsdóttir upplagði Þorsteini Jónssyni að selja sinn eignarhluta í jörðunni Brúnastöðum, og slíkt hið sama gerði Hallbera systir hennar.

AM. Fasc. XXXIX, 9, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir. — AM, Apogr. 3417.

bru(n)astadi 1508.[2])

Þath giorer eg gvdmundr þorleifsson godvm monnum kvnnigt med þessv minv brefi at ec var þar hia sa egh og heyrda eg æ at Þorbiorg Þorleifsdotter. lofadi og samþyckti og vpplagdi med handabandi vid þorstein ȷonsson bonda sinn at hann skylldi frialsliga mega selia edr rad fyrir giora þeim

1) þ. e. 6. Marts. 2) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1600.

Jardar parti er hvn atti j brvnastodum. Sua og ei sidr gaf vpp svster[1]) hennar hallbera þann part sem hvn matti eiga ] adr greindri jordu. Og til sanninda hier vm setta eg mitt Jnnsigli fyrir þetta bref giort æ hoolvm j hialltadal manadaginn næsta fyrir festvm ambrosíj episcopi. anno domini ᴍ° d viij.

---

169. 12. Apríl 1508. í Ögri.

Transskriptarbréf.

Kriegers safn 2. 4to bls. 234—235, 239, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700.

Þad giörum vier Þorleifur Örnolfsson. Gijsli Jonsson. Sumarlide Halldorsson og Jon Sigmundsson godum mönnum viturligt med þessu voru opnu brefi ad vier medkennunst. ad vier höfum sied og yfirlesid opid bref Jons bonda Biornssonar med hanz heilu hångandi Jnsigli. svo låtandi ord eptir ord sem hier eptir skrifad stendur. [Hér kemr bréf Jóns Björnssonar, gert á Eyri í Arnarfirði 26, Marts 1508, Nr. 163].

Og til sanninda hier um̄ settum vier fyrnefndir menn vor Jnsigli fyrir þetta Transkriptarbref er giört var i Ögri í Jsafijrdi å midvikudaginn sijdastan i vetri. næstañ fyrir Dominica Palmarum å sama åri sem fyr seigir.

---

170. 16. Apríl 1508. í Hamborg.

Bréf borgarstjóra og ráðsmanna í Hamborg til Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar um borgun fyrir 12 lestir íslenzkrar skreiðar, hverja lest á 20 rínskra gyllina, sem ganga áttu til Kristjáns konungs, og hann hafði krafið, en kaupsamningrinn um skreiðina hafði gerzt milli Vigfúsar og þeirra Dankquard Smíjd, Clawes Schomaker, Hermen Moysan og

1) Svo.

Jacob Prütze, og átti að afhenda þeim hana á Íslandi. Lofa Hamborgarar að greiða andvirði skreiðarinnar, þegar þeir fái fulla vissu frá Vigfúsi um, hvað mikil skreið verði í té látin.

AM. Fasc. XXXIX, 1, frumritið á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Hamborgar herra brief til Wichfusa Ærlendssonar hirdstiora 1508.[1])

Juw Erbarnn fusen Elendessen voghede vnnd Houethmann jn Jsland vnnszem b(e)sundernn gunstigen guden frunde dhon wij Burgmeister vnnd Rathmann der stad hamburgh neghst erbedinghe vnnszes frundlichen grutz mijt vormoge alles guden witlick apembar betugen. Jn vnnd mit dussem vnnsem openn breue. dat vns durch de vnnsze isz tokennende gegeuen. wo dat de vorsichtigen dangkquard smíjd. clawes schomaker. hermen moysan vnnd Jacob prutze. mit Juw. nach etlichen schrifften darup gemaket. scholen gehandelt hebben. en Twolff last Jslandessches vysches jn Jsland toleuernde. darvor sze darsuluest vor Jsliche last solden geuen Twjntich Rinnsche gulden. welck geld denne vortan auer seh vnnd sand solde werden tageschigket dem durchluchtigsten hochgebornn fursten Hernn Christigern koninghe tho dennemergken. et cetera. so jsset dat desulue Her koningh. an de erscreuen. dangkquard. clawes. hermen vnnd Jacob syner koninghlichen Maiestat schriffte hefft gelanget Jnholden. dat nicht nutthe sy noch geraden sollich geld auer seh vnnd szand vnnd wedderauer. twie taeuenturende vnnd will. wanner wij werden vorshekert wovele vijsches aldar by Juw durch de erscreuen entfangen soliche betalinghe hijr tor stede toentfangen. So gij vth densuluen schrifften wol werden vornhemende worvmme isz vnnsze frundliche bede. den erscreuen solliche last vijschs auerantwarden. wanner wij darvon durch Juw vorszekert werden. sal de. der koninghliken m(a)iestat werden uorgulden vnnd betalt. darvon wij Juw szo vorszekernn jn krafft dusses breues wente wij nogastige borgetucht derhaluen weddervm̄e hebben entfangenn.

1) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

Tho Orkunde mit vnnszer stadt ȷnhangendem secret vorszegelt gegeuen nach Cristi gebord vnnszes hernn voffteynhundert jnı achten Jar ȷm̄ Palmesondaghe.

---

**171.** **17. Apríl 1507. á Stað í Grunnavík.**

Loptr Magnússon fær Ólafi Eiríkssyni jörðina Nes í Grunnavík til fullrar eignar fyrir þá peninga, er Lopti „bihagaði" sjálfum að taka, og svo skyldi Ólafr taka af honum son hans og „kenna honum nokkuð á bók".

AM. Apogr. 983 „Ex originali Sæmundar Magnussonar ä Hole i Bolungarvík". Árni lýsir innsiglunum.

Þat giorum vid þorkell prestur palsson og landbiartur bardarson godum monnum kunigt med þessv ockrv opnv brefi. ad vid vorum hia stadder ȷ badstofuni æ stad ȷ grvnnavik savm vid og heyrdum at loptur magnusson fieck olafi eireckssyni balfa jordina nes er þar liggur ȷ greindrar grvnnavikur kirkiv sokn med fullv handabandi til efinligrar eignar. skyldi skrifadur loptur peninga vpp bera fyrir greinda ȷord þa honum bihagadi sialfum at taka. beiddizt opt nefndur loptur at fyrrsagdur olafur skylldi taka af honum son hans og þvi lofadi titt ritadur olafur og kenna honum nockvt ꜵ bok. og til sanninda hier vm settum vid ockur ȷnsigli fyrir þetta vitnisbvrdarbref er skrifad var ꜵ savgdvm stad manvdagin ȷ efztv vikv anno domini. ꝏ. d. vııı.[1])

---

**172.** **20. Apríl 1508.** **í Holti.**

Grímr prestr Þorsteinsson, prófastr milli Geirhólms og Langaness, afleysir Jón murta Narfason og Dýrunni Þórðardóttur af fyrstu barneign þeirra í fjórmenningsfrændsemi.

AM. Fasc. XXXIX, 19, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá. — AM. Apogr. 864.

1) „*viii.* extat: non vero *vii.* idquod hic annotare placuit, ne dubitationem postea pariat" (AM.)

Þath giori ek Grimur prestur Þorsteinsson profastur J millum geirhols[1]) ok langaness Godum monnum kunnigt med þessu minu opňu brefi. at ek medkenumzt at ek hefi afleyst Jon murta narfason vk dyruñi þordardottur af þeirri fyrstu barneign er þau hafa nu nyliga opinber at ordit sin J millum in quarto gradu affinitatis. ok sett þeim penitencias competentes. Suo hefi ek feseckt upp borit heilagrar kirkiu uegna ok minna sem mier uel æ nægir. Þui gef ec fyrr skrifadur grimur prestur (ok) profastur J saugdu takmarki adr greinda menn Jon ok dyruñi aullungiss kuitt ok ækærulaus fyrir mier ok minum efterkomendum heilagrar skalhollzkirkiu formonnum. Ok til sanninda hier um heingda ec mitt insigli fyrir þetta kuittunarbref skrifat J hollti J auñundarfirdi in cena domini. anno domini ꝳ⁰ d octauo.

---

**173. 17. Maí 1508. Í Vatnsfirði.**

Björn Þorleifsson lýsir því, að hann hafi afhent síra Petri Pálssyni og goldið síns herra biskups Gottskálks vegna þá skuld, er hann var skyldugr Hans Krwko og hans dandikvinnu hústrú Sunnifu, með jörðum þeim, er bréfið greinir.

AM. Fasc. XXXIX, 15, frumrit á skinni fúið og götugt. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3418 eptir frumritinu. — Landsbókasafn 115. 4to, 398—399 með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730.

medkienning Biorns Þorleifssonar ad hann hafe afhent Sira Petre Palssyne þad hann var skilldugur hustru Sunefu.[2])

Þat giorer ek biorn þorleifsson godum monnum viturligt med þessv minv opnv brefi at ek hefi afhent sira petri palssýni og golldit mins herra biskups gottskalks vegna þa skulld er[3]) eg var skylldugur hans krvko og hans dandikvinnv hustru svnnifv. er þar til fyrst greindur stadur J

---

1) Svo. 2) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1700. 3) hér stendr „var" í frbr.; er ofskrifað.

adalvik fyrir iiij. c. og. xx. þverdalur. xvj. c. efre midvik [xviijc[1]). nedre midvik viijc. stakadalr. viij. c. rekavik. vj. c. flioten. xx. c. bolvngavik[2]) xij. c. hęlarvik iiij c. reykiarfiord ijc. og þar til xij kvíildi j abata og iij.c þar til j fridum peningum fyrir þau ij ar er ek afenti ecki innstæduna fyrir saker mina forfalla. skal adur greindr biskup gottskalk fyr greindar iarder hafa og hallda uegna hans krvkv til evenligrar eignar fyrir mier og avllvm minvm lavgligvm efterkomindvm og hallda titt nefndvm iordvm til retra laga en oft nefndr biorn þorleifsson svara laga riftingvm a iordvnvm. Og til sanninda hier vm setur ek biorn þorleifsson mitt secretvm fyrir þetta iardar savlv bref og peningagialz er skrifat var j vatzfirdi j isafirdi midvikvdagin nęsta fyrir dvnstani archiepiscopi þa lidit var fra[3]) gvdz bvrd. ꝏ. u. c og viij ær.

---

## 174. 20. Maí 1508. á Torfastöðum.

Björn Árnason selr vegna Margrétar Jónsdóttur konu sinnar Þorvarði lögmanni Erlendssyni jörðina Bæ í Kjós fyrir átta hundruð í lausafé.

AM. 238. 4to bl. 48b skr. c. 1570 (Bessastaðabók eptir bréfab. Þorvarðs lögmanns).

Kavpbref fyrir Bæ j Kios.

Þat giorvm vier Havardvr Tvmasson. Kolbein Ofeigsson. . . .[4]) Alfsson ok Þordvr Sigvrdzson godvm monnvm vitvrligtt med þessv vorv opnv brefi at þar vorvm vier j hia savm ok heyrdvm æ ord ok handaband þessara manna Þorvardz Ellendzsonar logmans svnnan ok avstan æ Jslande af einne alfv en af annare Biarna(r) Arnasonar vegna konv sinnar Margrietar Jonsdottvr at svo fyrir skilldv at fyrnefndvr Biorn sellde ok fiek logmannenvm Þorvarde jordena Bæ alla xvjc at dyrleika er liggvr j Savrbæiar kirkiv soknu med

1) [3418; fyrer xijc. 115. 2) 3418; bardsvik 115. 3) b. v. 115.
4) eyða í hdr.

ollvm þeim gognvm ok giædvm sem greindre jordv fyllger ok fylgtt hefir at fornv ok nyiv ok hvn vard fremst eigandi at jtolvlavsa til ytztv vtmerkia sem adrer eiga til motz vid hana vndan sier ok sinvm erfingivm en vnder Þorvard ok hans erfingia æfinliga. Hier j mot gaf Þorvardvr logmadvr viij[c] med svodan fridleika. iij malnytv kvigillde at vore. hvndrad j havst j slatrvm. avnnvr iiij[c] at odrv vore j þvi ockvr semvr. fvllvirde. Skyllde allt lvct innan tvenna xij manada. Samþycte þetta sama kavp advr nefnd Margriet Jonsdotter med handabande jayrde ok fvllv vpplage ok samþyckti at þat skillde obrigdanlegana standa fyrir sier ok sinvm erfingivm.

Og til sanninda hier vm settvm vier vor insiglle fyrir þetta kavpbref skrifat æ Torfastodvm j midfirde j stadarbacka kirkiv soknn lavgardeigenn næstan epter sancte Hallvardz messo vm vorit arvm epter gvdz byrd m d viij ar.

---

**175. 30. Maí 1508. í Hjarðardal.**

Ketill Þorsteinsson selr Sturlu bónda Magnússyni jörðina Syðragarð í Dýrafirði fyrir tólf hundruð í lausafé.

AM. Fasc. XXXI, 20, frumrit á skinni. Af 6 innsiglum eru 3 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 883.

kaupbref fyrir gardi.[1])

Þat giorum uær Jon sigmundzson. Sigurdr Magnusson. halldor sigmundz(son). Jon þorleifsson ok halfdan ionsson godum monnum kunigt med þessu voru opnu brefi. ath uær uorum þar j hia saum ok heyrdum æ. æ mýrum j dyrafirdi laugardaginn j fardogum[2]). þa lidit uar fra hingatburd uorss herra jhesu christi þusund fimm hundrvt ok atta ær ord ok handaband þessara manna af einne alfu stulla Bonda Magnussonar. enn annari ketils þosteinssonar at suo fyrir skilldu at adr greindur ketill þorsteinsson sellde fýrr skrif-

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) þ. e. 27. Maí.

udum stulla Bonda Magnussyni jordina sydra gard j dyrafirdi er liggur j myra kirkiu sokñ til fullrar eignar ok frials forredis. med aullum þeim gaugnum ok gædum sem greindri jordu fylger ok fylgt hefer at fornu ok nyiu ok hann uard fremst eigandi at. hier j mot gaf þratt nefndr stulli Magnusson sex malnytu kugilldi hest fyrir hundrat. þriar uætter smiors fyrir ij hundrut. saudul ok briostgiord fyrir ij hundrut ok þar til fritt hundrat edur friduirt. skylldi lukazt æ tueim ærum. skylldi opptnefndr ketill suara lagariptingum æ adr greindri jordu sydra gardi. enn tittnefndr stulli hallda til laga.

Ok til sanninda hier um settum uær fyrnefndir menn vor innsigli fyrir þetta jardarkaups bref skrifat j hiardardal. þridiudaginn j gagndaga uiku æ sama ari sem fyr segir

---

**176. 4. Júní 1508. á Hólum.**

Gottskálk biskup á Hólum selr Pétri presti Pálssyni í umboði Þórólfs Ögmundssonar jörðina Brúarreyki í Stafholtstungum fyrir jarðirnar Ósland í Óslandshlíð, hálf kotin Hól og Brekku og hálfa Illugastaði í Fljótum.

Skjalabók í 4to, bl. 53, í Landsskjalasafni 94 með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600 (= *a*). — ÍBfél. 67. 4to bl. 72a—b og MSteph. 60. 4to bls. 23 með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745) án ártals og dagsetningar. Sbr. A. M. Apogr. 5040, sem er afskript af bréfi frá 26. Jan. 1591.

Hier Byriast Oslandsmál. Biskup Gottskalk kauper Osland af Pietre Palssýne.

(Þ)ad giorum vier Biorñ Einarsson. Gunnlaugur Helgason. Þoruardur Jonsson og Hiallte Arñkielsson godum monnum viturlegt med þessu voru opnn brefi. ad wier worum hia[1]) j kirkiustoplinum a holum j hialltadal saum og heýrdum á ord og handaband þessara manna gottskalks med gudz nad biskups a holum j hialltadal af einne alfu [en af ari hælfu[2]) Pieturz prestz palssonar. ad suo fyrir skildu. at

1) 60, 67; hier *a*. 2) [67, 60; og *a*.

biskup gottskalk selldi sijra Pietre Palssyni vegna Þorolfs Augmundssonar iordina bruarreyke er liggur j hiardarholltzkirkiusokn til fullrar eignar sem hann vard fremst eigande ad. hier i mote selldi sijra Pietur palsson j fullo og logligu vm̄bode þorolfz augmundssonar halfa iordena osland er liggur j myklabæiar kyrkiusokn og half kotin hol og brecku og halfa Jllugastadi j fliotum Biskup gottskalk til fullrar Eignar til þess omagienn være vr omegd. skillde þa halldast kaupit ef hann [samþyckte.[1]) atti þorolfur ad eignast med iordunne vj kugilldi og [tuiærda[2]) landskylld. skylldi apttur renna oftalt.[3]) enn fram̄ vantalt.[4]) til þess [ad huorutueggie[5]) hefdi fullar[6]) tolur. skylldi sa suara lagariptingum er selldi. enn hinn hallda til laga er keyptte.

Og til sannenda[7]) hier vm̄ setium vier vor jnnsigli fyrir þetta iardarkaupsbref skrifat a holum j hialltadal sunnodaginn næstañ fyrir huitasunno arum epter gudz burd 1508 aãr.

---

**177. 6. Júní 1508. á Skriðuklaustri.**

Þorvarðr príor á Skriðuklaustri lýsir því, að Jón prestr Koðransson hafi feingið sér til fullrar eignar jörðina Vík í Fáskrúðsfirði, en príor lykur í móti vegna Valþjófsstaðar kirkjujarðirnar Heseyri og Skóga í Mjóafirði, en sira Jón lofar skipum príors frjálsa vervist á sínum jörðum.

AM. Apogr. 4298 „Ex originali Petrs Asmundzsonar á Ketilsstöðum i Austfiördum accurate, etiam qvantum ad apices".

Vier broder þorvard helgason prior a skridvklaustre giorvm ollum viturligt ad med radi og samþygt virdvligs[8]) herra stefanar biskups j skalholte hofvm giort handsalat kavp med sera ion kodranson j svo mata þad hann hefur feingit oss til fvllrar eignar iordina vik j faskrvdsfirde

---

1) [villdi samþykkia 67, 60. 2) [ıv ara 67, 60. 3) oftalit 67, 60. 4) vantalit 67, 60. 5) [hvorir tveggiu 67, 60. 6) rettar 67, 60. 7) Hér hættir 67 og 60. 8) „ita in originali, ne postea dubitem" (AM.)

fyrir. xij.e hier a mot hofvm vier vegna valþiofstadar kirkiv lvkt nefndvm sera jone þessar jarder j mioafirde heseyre og skoga badar xije. þar med hefur sera jon lofad vorum skipvm og monnum frialsa vervist hvar þeir villdv a hans jordvm til merkis hofvm vier sett vortt jnsigle og eg sera jon mitt jnsigle fyrir þetta bref giort og skrifat a skridvklaustre þridivdagin epter vppstigningardag anno domini ϻ⁰. D⁰. atta[2])

---

178. **14. Júní 1508.** **á Munkaþverá.**

Magnús Hallsson gefr Bessa Þorláksson kvittan um allar vígsbætr eptir Hall heitinn Magnússon.

AM. Fasc. XXXIX, 7, frumrit á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá.

Þat giorvm vier sigmvndur jonsson arne sigvalldaſſon godvm monnum viturligt med þessv ockrv opnv brefi at vit vorvm j hia sævm ok heyrdvm æ ord ok handaband þeirra sæmundar simonasonar ok magnvsar hallssonar at suo fyrir skildv at magnus hallsson gaf bessa þorlagsſſon aulldvngis kvittan ok ækiærvlausan fyrir sier ok ollvm sinvm epterkomendum vm þær vigsbætur er fyr nefndur bessi atti at giallda epter hall heitinn ϻagnusson. suo ok medkendizt adr nefndr magnus hallsson at hann hefdi medtekit alla þa penninga er þorlakur þorsteinsson hafdi j lofan lagt vm greindar vigsbætur. Ok til saninda hier vm setur ec sæmundur simonarſſon mitt jnsigli med þessara fyrskrifadra manna jnsiglvm fyrir þetta vittnisburdar(bref) skrifat æ mvnkaþveræ j eyiafirdi midvikudagin næstan fyrir bothvlfsmesso. anno ϻ⁰ qvingentissimo octauo.

---

1) „Nota. Þetta bref er daterat 1508. hvad eg annotera. ad þad mig eigi sidan ville. þvi þa var eigi Skriduklaustr enn þä vigt. Þorvardr hefr verit þar prior adur enn þad fyllilega vigt var. Engar distinctiones eru i brefinu". (AM.)

**179. 15. Júní 1508. á Reykjahólum.**

Lýsing Jóns Gamlasonar um greiðslur Björns Þorleifssonar til Guðna Jónssonar í „hugmót“ og sakeyri fyrir það, að Björn var með Eiríki Haldórssyni í flokk og fylgi, þá er Páll heitinn Jónsson var ófyrirsynju í hel sleginn.

AM. Fasc. XXXIX, 13, frumrit á skinni á sama blaði og XXXIX, 12, sem gert er sama dag, og hafa báðir bréfarar innsiglað. — AM. Apogr. 5718.

Þat gior eg jon gamlason godvm monnum kvnnigt med þessv minv opnv brefi ath eg hefer vpp boret af birne þorleifssyni j umbode gvdina bonda jonssonar. ij. hvndrats hesta fyrir þat hvgmot og sakeyre er biorn þorleifson atte ath giallda greindv(m) gvdna fyrir þat at hann var med eireike halldorssyne j flock og fylge þa pall heithinn jonsson sem gvd hans sal nade var oforsyniu j hel slegen. Medkennvnzt eg og greindr jon gamlason at ec hafde þessa fyrr nefnda peninga upp boret .xij. manvdvm adr enn adr greindr biorn siglde efter sinne landzvist. So og lyste fyrr nefndr gvdine fyrir mier ath (hann) hefde vppboret af opt nefndvm birne þorleifssyne. ij. kvgillde adr og þesse. ij. og nær sem hann fiengi þat fimta hvndrated hier thil þa skyllde þratt nefndr biorn vera kvittur og fry og avllvngis[1]) akærvlavs fyrir sier og avllvm sinvm erfingivm og epterkomendvm vm adr greindra peninga gialld Og thil sanninda hier vm setur ec mitt ingesigle[2]) fyrir þetta kvittvnarbref er giortt var æ reykiaholum æ reykianese fimtvdagin næstan efter hvithasvnnvdag. anno domini. millesemo quingentesimo octauo.

---

**180. 15. Júní 1508. á Reykjahólum.**

Lýsing Eyvindar Guðmundssonar um greiðslur Björns Þorleifssonar til Guðna Jónssonar fyrir atvist og fylgi að vígi Páls heitins Jónssonar.

1) gis, tvískr. í frumbr. 2) Svo.

AM. Fasc. XXXIX, 12, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 5718.

Quıȷttantȷa Eivindar Gudmundssonar til
Biornz Þ(orleifs)s(onar) 1508.[1])

Þath giorec eyvindr gvdmvndzson godvm monnum kvnnigt med þessv minv opnv brefi ath eg hefer vpp boret af birne þorleifssyne ȷ vm̄bode gvdina bonda ȷonssonar .ij. malnytv kvgillde fyrir þat hvgarmoth og sakeyre er biorn þorleifsson athe at giallda greindvm gvdina fyrir þat at hann var med eireke halldorssyne ȷ flock og fylge þa pall heithinn ȷonsson sem gvd hans sal nade var oforsyniv ȷ hel slegen. Ꝺedkennvnzt eg og greindr eyvindur gvdmvndzson at eg hafde þessa greinda peninga vpp boret tveimur arvm adr enn greindr biorn siglde efter sinne landzuist. So lyste og adr greindr gvdine fyrir mier ath nær sem opt nefndr biorn̄ hefde sier golldet iij hvndrwt hier thil at þa være hann kvittur og frij og avllvngis ækærvlavs fyrir sier og avllvm sinvm erfingivm og efterkomendvm vm̄ adr greinda savk og peninga gialld. Og til sanninda hier vm̄ setur eg mitt insigle fyrir þetta kvittvnarbref er giortt var æ reykiaholvm æ reykianese fimtv(daginn) næstan efter hvitasvn̄dag[2]). ārvm efter gvdz burd. Ꝺ. d og atta ær.

---

**181.** **15. Júní 1508.** **á Reykjahólum.**

Lýsing Markúsar prests Árnasonar um greiðslur Björns Þorleifssonar til Guðna Jónssonar fyrir atvist og fylgi að vígi Páls heitins Jónssonar.

AM. Fasc. XXXIX, 14, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá.

vm̄ hvgarmott vit gvdna þa pall heitin
war ȷ hel sleiginn.[3])

Þath giorer eg Sira marcus prestur arnason godvm monnum kvnnigt med þessv minv opnv brefi ath eg med-

---

1) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1700, nema hvað ártalið er með hendi Árna. 2) Svo. 3) Utan á bréfinu með samtíða hendi bréfinu.

kennvnnzt ath eg hefer golldit j um̃bode biarnar þorleifssonsonar gvdina bonda jonssyne sex vætter skreidar j þath fimtta hvndrated er greindr biorn sagdizth vera gvdina skylldogur fyrir þann sakareyre sem gvdina hafde veret thil dæmt æ alþingi og so fyrir hvgarmot ath fyrr greindr biorñ hafde ueret med eireike[2]) halldorsyne j flock og fylge þa hans broder pall heithinn jonsson uar oforsýniv j helsleginn. enn þessa fyrr greinda skvlld gallt eg og fornægde gvdina bonda þath sama svmar sem adr greindr biorñ siglde epter sinne landzuisth og so lyste og medkenndizt greindr gvdine þa fyrir mier ath hann hafde vpp boret af opt nefndvm birne þorleifssýne alla þa peninga sem hann var honum pligtogur ath giallda fyrir þessa adr greinda savk og hvgmod sem hann hafde vid sig giortt. og gaf þa opt nefñdr gvdine thitt nefndañ biorn kuittan og avllvngis akærulavsañ fyrir sier og avllvm sínvm erfingivm og efterkomendvm vm adr greinda savk og fesegtth og thil sanniñda hier vm̃ setur eg mitth insigle fyrir þetta kvittvnarbref er giorth var æ reykiaholvm æ reykianese fimtvdag enn efter hvitasvnv dagh þa lidit var j fra gvdz bvrd. ᴍ. d. og atta ar.

---

**182. 22. Júní 1508. á Hólum.**

Máldagi Hrafnagils kirkju í Eyjafirði gerðr eptir fornum og nýjum registrum og bréfum Hóladómkirkju.

Landsskjalasafn, frumrit á skinni meðal Hrafnagilsbréfa. Fjögur innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en nú eru tvö af þeim dottin frá. Höfð hefir verið við hendi snildarleg afskript með hendi síra Daníels prófasts Haldórssonar, og fylgja þeirri afskript skýringar við máldagann.

Anno ᴍ. d. og atta ær. þa virdvligur herra og andligur fader gottskalk med gvdz nad var biskup a holvm. var þesse maldage epter gomlvm og nýjvm hola domkirkiv registrvm og jnsiglvdvm brefvm vm land og fasta eign kirk-

1) Svo.

ivnar ens heilaga petri apostoli a hrafnagile af oss jone finnbogasyne. jone jonssyne. gvdmvnde jonssyne og sveine ionssyne prestvm hola biskvpsdæmis siedvr og yferlesinn a holvm j hialltadal in crastino sancti albani martyris so latande sem hier seiger.

kirkia hins heilaga petvrs apostoli a hrafnagile a halft heimaland. botn heimaland cc i leigv. rædur fyrer svnnan vtfra merkesteinvm lækur nidur j vallargard a stockahlodvm. sidan til ar. ranastade halt þridia c i leigv med landeign vti gard. rædur hann til fialls ofan fra j gomlv merkesteina og svd ur j rana a rædur hvn vpp epter j gard vid ana. gardur med anne allt vpp i lækiar sog. rædur þat vpp vm hagagard vns kemur j mýre og i stein þann j mýrenne stendur. sidan rettsýnis j fiall vpp. eiga stockahlod manadar rekstur malnytv a svmar j fiall vpp firir ofan ranateiga og torbskvrd ed efra til sæturs sem þarnar. en ranastader savdhofn a vetur ed nedra til iafnleingdar j stockahladna iord. allt nýlende cc i leigv. gil c. kiepsæ c. epter þvi sem giorningsbref þar vm votta. allañ bleiksmyrardal firir vestan hnioskæ fram fra skardsæ og svdur a oræfe. rekstrar skylldv vera epter þvi sem ad fornv eyrarlanda a mille firir avstañ fram ad oxnafelle. vestan fram ad skioldalsæ. ad hvors (!) tív lomb eda fleire være. afrettur heimill j sogdv takmarke firir venivligan toll er golldinn skal sidast vikv epter bartholomei apostoli. bændur skýllder rett þeirre vpp ad hallda er þorfinnur prestur liet vppstinga. Jtem torfskvrd j sigtvna jord. firir avstan eÿiafiardaræ tveir eingeteigar heiler. annar geingia. enn annar karateigur. Jtem peturs skog i lavfas skarde er nollur var firir gefinn. til minniss gaf bryniolfur magnvsson j sitt testamentvm jordina kadalstade hrafnagils kirkiv med rekvm og ollvm þeim gognvm og giædvm er greindre jordv fylger og fyllgt hefur ad fornv og nýv. er liggr i þavnglabacka kirkiv sokn.

Og til sannenda hier vm setivm vær fyrskrifader prestar vor incigle (firir þetta bref) skrifad i sama stad are og deige sem fyr seiger.

## *Athugasemdir síra Daníels prófasts Haldórssonar við máldagann.*

„ . . . *hálft heimaland.* Hinn helmingrinn er síðar keyptr, og stendr um það þannig ritað í kirkjustólnum af síra Erlendi próf. Jónssyni: „Efter Háyfervaldanna kirknanna Hrr. Inspectorum Anmodning þegar þær minne Eyafiardar Kongs Jarder voru 2 Junii 1792 burtseldar vid Auction, baud eg vegna Hrafnagils kirkju upp á Hans Kóngl. Majt tilheyrandi part i Hrafnagils Beneficio 40rd, hvört bod vid konglega Rerolution af 19. September 1798 er allranádugast appróberad". *Botn,* hjáleiga fyrir sunnan og ofan Hrafnagil, upp á brekkuuni: en *Stokkahlaðnir* standa neðan undir brekkunni litlu sunnar en Botn. *Síðan til ár,* þ. e. Eyjafjarðarár. *Ranastaði,* nú alment nefndir Hranastaðir; eru fyrir sunnan Botn upp á brekkunni upp undan Stokkahlöðum. *Alt Nýlendi;* eyðijörð fyrir utan Hrafnagil, en sunnan Grísará. *Gil* heitir nú Syðragil og er í Hrafnagils sókn. *Kiepsá.* Svo heitir nú bær í Kræklingahlíð og Lögmannshlíðarsókn; þá jörð á kirkjan nú ekki; aptr hefir hún eignast *Grisará,* og er mér ekkert kunnugt um þau skipti, eða þá hvort nafnið hefir síðar breytzt *Allan Bleiksmýrardal.* Dalr þessi liggr fram af Fnjóskadal; Munkaþverárklaustr á landið að austanverðu við Fnjóská. *Skarðsá,* þverá, sem rennr í Fnjóská,og dregr nafn af svo nefndu Gaunguskarði *Eyrarlanda á milli.* Stóraeyrarland er að vestanverðu við Eyjafjarðarbotn og yztr bær í Hrafnagilshrepp, en Litlaeyrarland að austanverðu við fjarðarbotninn, fyrrum yztr bær í Öngulstaðahrepp (fyrir nokkrum tíma síðan bættust við hreppinn tveir bæir, Ytri- og Syðri-Varðgjá, frá Svalbarðsstrandar hrepp í Þingeyjarsýslu, og eru það nú yztu bæirnir); liggr allr hrepprinn að austanverðu við Eyjafjarðará og nær fram að *Öxnafelli,* sem er yzti bær í Saurbæjarhrepp, þeim megin árinnar; en að vestanverðu aðgreinast Saurbæjar og Hrafnagils hreppar af *Skjóldalsá,* sem er þverá og rennr austr í Eyjafjarðará. Hafa þannig allir bændr í Hrafnagils og Öngulstaðahreppum verið skyldir að reka lömb sín á Bleiksmýrardal, *Sigtún,* jörð í Munkaþverárklaustrssókn og klaustrsins eign, liggr að austanverðu við Eyjafjarðará, andspænis Hrafnagili. *Tveir eingiteigar* &c. Teigar þessir eru á Eyjafjarðarárbökkum, nú geingnir undan, og vita menn ógjörla afstöðu og ummerki þeirra. *Pétrsskóg í Laufásskarði;* er nú með öllu upprættr. *Nollr,* jörð í Laufáss sókn, og nú eign kirkjunnar þar. *Kaðalstaði,* kallaðir í Fjörðum (ɔ: Ilvalvatnsfirði).

Daniel Haldórsson".

**183.** **23. Júní 1508.** **í Ögri.**

Peníngaskiptabréf þeirra Björns Guðnasonar og Kristínar Sumarliðadóttur eptir Jón (dan) Björnsson andaðan.

AM. Fasc. XXXIX. 17, frumrit á skinni með hendi Björns Guðnasonar í Ögri. Af 5 innsiglum eru nú 3 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 5701.

Giorningsbref þeirra kristinar svmarlidadottur og biarnar vm sæbol.[1])

Þadh giorum vær grímr prestur þosteinsson ȷon sigmundzson og þorolfr avgmundzson godvm monnum witrligt med þessu woru opnv brefi. ath vær medkennuntz vær worum þar ȷ hia saum og heyrdum á fyrir ofan forna kirkiugardinn a hrafnseyri ȷ añarfirdi. svnnvdaginn næsta eftir fardagaviku vm̄ worid[2]) þa lidit war fra hingadburd wors herra ȷesv christi. ᗰ. d. c. og atta ar. ord og handaband þessara manna af einne alfu hustrv kristinar sumalidadottur. en annare biarnar gvdinasonar. adh svo vndir tavlvdv og fyrir skildv adh þav lavgdv alle peninga til helmingaskiptis med sier. fasta og lavsa kvika og davda frida og ofrida þa er ȷon heitenn biornsson hafdi att og med haundum haftt. sinnar vegna og greindrar kristinar svmalidadottur kvinnv hans efter þui sem fyrr greind hion ȷon og kristin havfdv adur sitt helmingafielag til lagt. lofvdv þav bædi ad hafa og hallda þav skipte er dande menn giordi þa þar þeirra ȷ milli eda þav skipte sialf med godra manna vitordi. giordv þav þa þadh skipte med sier. ȷ sama handabandi og giorningi. ad opt greind kristin svmalidadotter skylldi hafa ȷ sinn helming hrafnseyre ȷ añarfirdi. Enn greindr biorn gvdinason skylldi eignatz sæbol a ȷngialldzsandi ȷ sinn helming med þeim skilmala ad optgreindr biorn skylldi lia greindri kristinv fram̄vegis greintt sæbol til medferdar fyst næsta ar þar epter. og þad leingr þeim kæmi þa þad til samans. villdi og gvd svo lata ske sem wor herra radi fyrir adh birni yrdi forstockottar enn svo adh kristin hefdi ecki sæbol. þa skylldi

1) Utan á bréfinu með sömu hendi og bréfið. 2) Þ. e. 28. Maí.

bavrñ biarnar eda þeirra vmbodsmenn riettiliga mega adh sier taka an klavgvnar eda novckra laga sokna opt greinda jord sæbol.

Jtem j annare grein medkennvntz ec adur greindr jon sigmundzson tristram bvason og biorn olafsson adh vær worvm j hia saum og heyrdvm a. j sama stad og tima degi sidar enn fyrr stendur skifad vidtal þeirra biarnar gvdinasonar og kristinar svmalidædottvr. hvertt er suo war. ad biorn gudinason spvrdi ad þrattgreinda kristinv svmalidadottr hvortt henni likadi og hvn villde hallda þav peningaskipte sem þar havfdv þa fram̄ fared af dandi monnum þeirra j millvm og þav sialf havfdv med sier giortt med þeirra godra manna vitordi. En tittgreind kristin svarade honum adh henni likadi þav og hvn villdi þav j allan mata hallda. og med þui toku þau havndum̄ saman med þui skilyrdi oss og mavrgvm avdrvm heyrandi ordin enn siaandi handsavllin adh þav lofvdv bædi fyrir sig og sína erfingia adh þessi skipte skẏldi ævenliga og obrigdeliga standa og halldatz fyrir riett lagaskipte svo hvorcke þeirra skyldi þav rivfa nie rivfa lata eda rofsmenn til fa. War þa avllvm peningum skipt þeirra j milli. sem bref þar vm̄ giortt vtuisar hveria peninga hvortt þeirra hlavt vtan nvpvr og alvidra skylldi standa oskipt þar til biskup være vm̄ ridinn þa vm svmared epter. og þav vissi. hverssv hans aklagan lyktadi vppa þær.

Og til sanninda hier vm̄ settum vær fẏr (nefnder) menn wor jnnsigli fyrir þetta bref hvertt er skrifad (war) j avgre j jsafirdi favstvdaginn næsta fyrir jonsmessu baptiste vm vored a sama are sem fyrr seiger.

---

**184.** **23. Júní 1508.** **í Skálholti.**

Vitnisburðr fjögurra presta, að Björn Guðnason hafi svarið Stepháni biskupi fullan bókareið að því, að hann skyldi gjalda kirkjunni í Vatnsfirði og Aðalvík alla þá peninga, er hann hefði frá þeim tekið eða hans menn, og sór Þorleifr Örnólfsson að veita fylgi sitt til að þetta yrði efnt; sór Björn og að

vera biskupinum til gagns og góða, kirkjunnar kennimönnum og staðarins mönnum í Skálholti, og lofaði bót og betrun bæði í skriptum og fjársektum.

AM. Fasc. XXXIX, 18, frumrit á skinni. Tvö innsiglaför eru á bréfinu, en ekkert innsigli er nú fyrir því, og fleiri en tvö hafa þau aldrei verið, enda er óvíst, að þetta bréf hafi nokkurn tíma orðið að fullum gjörningi.

Lofan og Eidur biarnar gudinasonar og þorleifs ornolffssonar.[1])

Þad giorvm ver broder arne med gudz nad abote ȷ videy. einar prestur ingemundzson. halldor þorsteinsson og gisle ȷonsson prestar skalhollsz biskupsdemis godum nonnum kvnigt med þesso uoro opnu brefi ad uer uorum þar ȷ hia savm og heyrdum a. ad biorn gudnason lofadi biskup stephane med fvllv handabande i skrudhusenu ȷ skalhollte ad bitala kirkivnni ȷ uaszfirdi alla hennar peninga þa sem ȷ burto hofdo farid fra henne og stadnum þar ad hans forlagi. radum eda dadum. eda nockru hans tilstille ȷ so mata ad greind kirkia ȷ vaszfirdi fienge og mette bihallda alla sína peninga þa sem hvn hefer mist af hans tiltektum og þeirra manna sem af hans parte hafe verid. Somoleidis lofadi hann og ad kirkian ȷ adalviik skylldi fa og bihallda alla sína peninga þa sem hann eda hans menn hofdo fra henne haft so ad badar greindar kirkiur skylldi hafa alt sitt ut af greindum birne og hans monnum. Jtem lofade adur nefudur biorn ad uera biskupnvm til gagns og goda og kirkiunar klerkvm og stadarens monnum ȷ skalhollte og giora hier med bot og betran bęđi ȷ skriptum og fiarsektum epter þui sem biskupen segdi honum til. og hier vpp a sor opt nefndur biorn fvllan bokareid fyr nefndvm kennemonnum nęrverondom.

Jtem med sama hętte lofadi þorleifur ornolfsson greindum biskup stephane ad styrkia til og veita hialp og adstodo epter sino megne so ad fyr skrifadar kirkiur ȷ uaszfirde ok[2]) adaluík feinge aptur alla sína peninga þa sem þęr hofdu mist af hans adstodo eda fylge med gudna ȷonssyni godrar

1) Utan á bréfinu með hendi c. 1600. 2) Svo fullum stöfum hér; annars: „z"

minningar og birne syni hans. sor og adurskifadur þorleifur hier vppá fvllan bokareid ad nęruerondo ollo stadarfolkino j skalhollte. Og til sanenda hier um festum uęr fyr nefnder kennemenn uor insigle fyrir þetta bref skrifad j skalhollte in uigilia johannis baptiste anno domini ꝏ° d° octauo.

---

**185. 1508.**

Ágrip af úrskurði Stepháns biskups í Skálholti, að Helgafellsklaustr eigi jörðina Fáskrúðarbakka í skiptum fyrir Laxárbakka og tólf hundruð í friðu.

AMagn. 252. 4to bls. 47, skr. c. 1660. — AM. 430. 4to bls. 7, séra Jón í Hítardal c. 1720.

Faskrudarbacke.[1])

Anno 1509.[2]) næde abote Halldor med dome biskups Steffhans jordunne Faskrudarbacka aff Arna Brandzsine. enn skilade honnm aptur Laxarbacka og xij^c j frijdum penijngum.

---

**186. 24. Júní 1508. á Helgafelli.**
**29. Maí 1509.**

Árni Brandsson gefr sér til sáluhjálpar og framfæris klaustrinu á Helgafelli jörðina Fáskrúðarbakka í Miklaholtshreppi og þrettán hundruð í gangandi fé, en af því að Fáskrúðsbakki var geinginn af Árna og undir klaustrið með dómi, fékk Árni klaustrinu jörðina Berserkseyri og þar til tólf hundruð.

Eptir skjalabók í Landsskjalasafni 94 4to bl. 132b_133b, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar, c. 1600.

Kaupbrief fyrir faskrwdarbacka.
Jn nomine Domini Amen.
var so felldur gierningur giordur j millum Abota Hall-

1) 430. 2) Ártalið mun hér að réttu lagi eiga að vera 1508. Sbr. næsta bréf á eptir.

dorz a Helgafelli og Arna Brandzsonar ad firskrifadur Arne gaf sier til saluhialpar og framfæriss klaustrino a Helgafelle Jordina faskrwdarbacka er liggur j michlholltshrepp j michlholltzkirkiusoku. fyrir xxxc. med ollum þeim gognum og giædum sem greindri Jordu fýlger og fýlgtt hefur ad fornu og nýiu. og hann vard fremst eigandi ad og þar ad auki ıx malnytu kugilldi. ij gielldfiar hundrut og ij hesta fyrir kugilldi huorn. Hier a mot skilur Arne Brandsson sier æfinligañ kost a klaustrinu. epter þui sem þeir dandimenn ero halldner ádur sem þangat hafa giefit sijnar profentur. og Jafnháfa peninga. skal hann hafa vod vadmálz a huoriu áre og ij klijppinga. so skal hann og hafa sæng og kistu til klaustursinz og skal klaustrid eignast huortueggia epter hann. hann skal og meiga giora sier hws vppa siálfs sijnz kost. þar sem abotinn lofar. med þui hann skal þar onguan Jnn taca nema sig vtan abotanz leyfe. Lofade firskrifadur Arne ad suara lagaripttingum a Jordunni faskrwdarbacka. enn klaustursinz formenn hallda til laga. Lýste fyrrnefndur Arne þad fyrir morgum dandimonnum ad hann hefdi þennañ kaupskap giortt vid Abota Halldor þegar J fyrra vor med handabandi og vottum nærverendum so framtt sem biskup Stephan J Skálhollti giæfi sitt samþýcke þar til. enn hanz opid brief var vpplesid ad hann gaf sitt sàmþycki til þessarar proventutekiu. skilldi og Arne brandsson setiast J profenttúna þegar hann villdi enn klaustrid eignist alla peningana hier epter. for þetta hid fyrra kaup fram á Helgafelli j Helgafellzsueit jn festo Johannis Baptiste Anno 1508.[1]) med rade og samþycke allra conventubrædra greindz klausturz.

nu saker þess ad Jordin faskrwdarbacke var dæmd vera og verid hafa klaustursinz eign adur enn Arne Brandsson fiech hana klaustrinu epter dom (er) þar vm gior vtvıjsar.

---

1) þ. e. 24. Júní. Á spássíu stendr hér með hendi Bjarna amtmanns Þorsteinssonar, sem átt hefir bókina 1828, „al. 1509“; mun það bygt á því, að ágrip af úrskurði Stepháns biskups um Fáskrúðarbakka og Laxárbakka hefir það ártal í afskriptunum. en engar þær afskriptir eru eins merkar og þessi bók, sem hér er farið eptir. Mun því hið rétta ártal dómságripsins einnig vera 1508.

en fyrrskrifadur Arne atti ad suara lagariptingum á greindum faskrwdarbacka. og þui gallt adurgreindur Arne Brandsson halfa jordina Bessisseyre er liggur j Eyrarsueit j Eyrarkirkiusochn klaustrinu a Helgafelli til æfinligrar eignar. med ollum þeim gognum og giædum sem greindri jordu fylger og fylgtt hefur ad fornu og nyiu. og hann vard fremst eigandi ad og þar til xij^c þau sem abotanum og brædrunum vel lijkadi ad taka fyrir þad ad greind Jord faskrwdarbacke gieck af. Lofad(e) Arne ad suara Lagariptingum a firskrifadri jordu. enn biskup Stephan med klaustursins formonnum hallda til laga.

for þesse giorningur fram̄ j sama stad a Helgafelle manudaginn næstan̄ epter fardagavijkū áre sijdar enn fyr seigier.

og til sanninda hier vm̄.

---

**187.** **29. Júní [1508].** **á Þingvelli.**

Dómr sex klerka útnefndr af Stepháni biskupi í Skálholti um ágreining út af reikningsskap kirkjunnar á Stað á Reykjanesi milli síra Þorleifs Eiríkssonar og síra Jóns Jónssonar.

AM. Apogr. 2308 með hendi Arna Magnússonar „Ex orginali fra Stad a Reykianese. Orginall er þad ad visu. Enn er nu so rotenn og bokstaferner so flagnader burt. ad eingin madur mun hann hier epter lesa. Stryk undir stöfum eda ordum merker. ad þetta var ölldungis burtu. enn punctar under stöfum merkia ad þeir stafer voru ei skirer. enn vard þo nogu vissulega til þeirra geted. Platsed i orginalnum passar annars just til þess sem til er getid" (AM.). Það, sem undir er strykað í afskript Arna, er hér sett í hornklofa.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra send[a bro]der narfi med gudz nad aboti [i] þy[ckvabæ]. gisle ionson. ion eirikson. ion hedinson. ion markusson. halldor tyr[fingsson prestar] sk[alho]lz biskupsdæmis k[ue]diu guds [og s]in[a]. kunnigt giorandi þa l[idit] uar fra guds burd ꝏ d og

u[iij][1]) [ar] . . . [dag]in [næstan fyrir petursmesso] og pal[s um] sum̄arit [i] skalhollti [vorum uier i dom] n[ef]nder af worum andlig[um fo]dur biskup [steph]ani wm þ[a] æ[kiær]u sem sira þorleifur [ei]rek[son kla]gad[i] til [sir]a ion[s] ion-[sonar] ad grein[dur] sira þor[leifur sa]gdi a[d sira ion] ionsson hef[di] ecki golldit kirkiunni æ stad æ reykianesi fvllan reikningsskap af sinne [in]stædu. kom þar fram [s]æ reikni(n)gskapur sem sira þorleifur tok, suo kom þar fram sæ reikni(n)gskapur sem̄ sira ion ionsson haf[di] adur giort biskupinum. virtizt oss þar brest[a ij] kugillde at grein[dur] sira ion hafdi ecki utgolldit. sagdizt sira þorleifur hafa heimt fyr greindan reikning[skap. en fe]ingit ecki. uar underlagit svarit þui at he(i)lags anda nad til kalladri at suo profudu og fyrir [oss kom]nu dęmdu uier sira ion retliga fyrir kalladan og skylldan ad giallda þessi .ij. kugillde at nęstum fard[ogum heim[a æ] sta[d][2]) med [lei]gum og le(i)gu[3]) le(i)gum i friduirtum peningum an kapla. sam[þy]kt[i] þenna vorn dom med oss vor verdugur [fader] biskup stephan [og setti] insigle med vorum in[siglum] fyrir þetta domsbref skrifad[4]) æ þ[ingu]elli fimtvdagin næsta fyrir visitacio sancte Marie æ s[a]m[a] ar[e] sem fyrr seiger.

---

188. **30. Júní 1508. á Öxarárþingi.**

Alþingisdómr útnefndr af Þorvarði lögmanni Erlendssyni um konungsbréf (Nr. 147) upp á arftökuréttarbót (frá 2. Maí 1313) og um Möðruvallaarf, að Grímr Pálsson afhendi hann.

AM. Fasc. XXXIX, 2, frumrit á skinni; af 12 innsiglum eru nú 4 fyrir; komið frá Hlíðarenda. — Apogr. 221 („ex orig. Hlidarendensi“) Afskriptir eru af dómnum í AM. 238. 4to bl. 55—56. — Landsbókasafn 115. 4to bls. 113 með hendi síra Jóns í Hítardal. — Prentaðr í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 103—106 með danskri þýðingu.

---

1) „Striken sem hafa vered epter. u. eru nu burtu. en su næsta virgula uppi yfir .i. er til baka. Arstaled hefurs annars óefad vered vj. vij eda viij“ (AM.). Ártalið mun vera 1508. Sbr, bréf frá Okt. 2) Þessi orð: heima aa stad, stóðu á spassíu í frumritinu. 3) legum stóð hér í frumritinu. 4) skirfad, stóð í frbr.

Domur upp æ riettarbotina sem dæmdur uar á alþingi [1])

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. señda. Sniolfur hrafnsson. jon magnusson. halldor bryniolfsson. gudmundr jonsson. olafur asbiarnarson. þorleifur biornsson. ʀunolfur þorsteinsson. biarne palsson. are narfuason. olafur oddzson. Nikulas þorgilsson og kolbeinn andresson[2]) svarner lǫgriettumenn kuediu guds og sina. kunnigt gioraňdi. þa lidit var fra hingadburd vors herra ihesv christi þushuňd fiñ huňdrud og atta ær. faustudaginn næstañ epter peturs messv og pals æ almenniligv auxarærþinge vorum vier j dom nefnder af ærlegum manne þorvarde ellendzsyne laugmanne fyrir sunnan og austan æ islaňde. at skoda og dæma vm þad kongsens bref sem nu er nylega inn komit j landit. er hliodar upp æ heilaga kong hakonar riettarbot. vm arftǫkur og annad fleira sem þad inne helldur. Þui dæmdum vier adur nefnder domsmenn fẏr sagt kongsens bref med aullum sinum greinum staudugt og obrigdulegt j allañ mata. J aňare grein dæmdum vier grim palsson vegna sona sinna. benediks og þorleifs. skẏlldugañ ad afeňda allt þad iarda godz sem grimur palsson hefur at sier teced med olǫgum uegna sona sinna. þorleifs. og benediks epter ingebiorgu þoruardzdottur. Vigfuse erleňdzsyne. þorvarde brodur hans. og holmfride systur þeirra. jnnan fiortan natta at heyrdv kongsens brefue og þessum vorum dome med sliku uidlagi uňder obotamal sem steňdur j kongsens brefue um grund og grundar eign-

---

1) Utan á bréfinu með samtíða hendi. 2) Á miða við Apogr. 221 ritar Árni Magnússon: „Af þessum domi hefi eg sied ounderskrifadar Copiur álika og þennan original. nema þar voru domsmenn nefnder **Arne brandsson** og **Jon Palsson** i stadinn fyrer *Gudmund Jonsson* og *Kolbein Andresson*. fleire enn eina hefi eg sied af þvi slage". Samkyns afskript hefir og Magnús Ketilsson haft, og eins sira Jón i Hítardal, og svo mun varið flestum pappírsafskriptum bréfs þessa; ætti það að stafa frá öðru frumriti, og gæti verið að allir dómsmenn hefði ekki verið á eitt sáttir, og að þar af kæmi á einhvern hátt þessi afskripta munur.

er. Enn ef hann vill eigi afgreida fyrr sagt iarda gotz. þa dæmdum uier adur nefnd syskin riettlega at sier taka mega adr fyrr greindar iarder. og eignazt epter kongsens brefue og skipan. at heyrdum domenum og kongsens brefue.

Samþyckte þenna vorn dom. þoruardur erlendzson lögmann sunnañ og austañ æ islande og fyrr skriffadur vigfus erleñdzson hirdstiore og höfudsmann yfer allt island. og settu sin innsigle med uorum fyrr nefndra doms manna innsiglum fyrer þetta domsbref. huert er skrifat uar j sama stad degi ogære sem fyrr seiger.

---

189. **1. Júlí 1508.** **á Öxarárþingi.**

Dómr sex manna útnefndr á Alþingi af Þorvarði lögmanni Erlendssyni um ákæru Þorvarðs til Einars Eyjólfssonar, vegna Hólmfríðar Erlendsdóttur systur Þorvarðs, út af peningaskakka í skiptum þeirra systkina Vigfúsar, Þorvarðs og Hólmfríðar.

AM. 238. 4to bl. 56, skr. c. 1570 (eptir bréfabók Þorvarðs lögmanns). — AM. Apogr. 1929 (eptir 238 og brot af annari afskript með hendi Franz Íbssonar).

Domvr j millvm þorvardz oc Einar(s) Eyolfssonar.

Þeim godvm monnvm sem þetta bref sia edvr heÿra senda Halldor Bryniolfsson. Olafvr Asbiarnarson. Pall Teitsson. þorleifvr Biornsson. Jon Magnvsson. Petvr Sveinsson qvediv gvdz oc sina. kvnnigtt giorande arvm epter gvdz byrd ꝳ. d. oc .viij. ar lavgardagenn næstan epter Petursmesso oc Pals æ almenniligv Avgxararþinge vorvm vier j dom nefnder af velbornvm manne Þorvarde Ellendzsyne logmanne svnnan oc avstan æ Jslande ad skoda oc dæma vm þa akærv oc penninga skacka. er Þorvardvr lavgmadvr kærde til Einars Eyolfssonar vegna Holmfridar Ellenzdottvr systvr Þorvardz.

J fyrstv dæmdvm vier stefnvna lavgliga oc Einar Eyolfsson riettiliga fyrirkalladan. þvi stefnan var svarin af tveim-

vr lavgligvm vitnvm. en sakir þess ad Einar fyrnefndvr kom ecki nie hans vmbodzmadvr en hans var beitt oc krafit at lavgvm. þvi dæmdvm vier hann sekan j stefnvfall mork at forfallalavsv. kom þar fram fyrir oss reikningsskapvr hvad hvert þeirra spstkina hafde vppborid Vigfvs. Þorvardvr oc Holmfridvr. Reiknadizt oss .xxx^c. j jordvm er Holmfridvr hafde meira vpp dreigit en Þorvardvr Ellendzson . . . . .[1]) j sylfre oc kvriele j talnabandeno .vij. avrar oc næfrena er hann reiknade fyrir .x. eda .xij. rinsk gyldende. giordvm vier oc dæmdvm advrskrifadan Einar Eyolfsson skylldvgan at giallda Þorvardi logmanni allan fyrskrifadan peninga skacka j jordvm oc sylfre vtan hann synie þat med logligvm vitnvm innan manadar ad heyrdvm domenvm. at Holmfridvr eige avngvan annann peninga skacka annadhvort med logligre giof eda skialligv kavpe. en ef vitnen leidast ecki j settan tima þa sie greiddvr allvr peninga skacke ad næstvm fardogvm.

Samþyckte þennan vorn dom Þorvardvr lavgmadvr j sama stad med oss oc sette sitt jnsigle med vorvm.

Og til sanne(n)da hier vm setivm vier vor insigle fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad og dag sem fyr seiger.

---

**190. 1508.**

Skýrslugrein um gingjald (= nefskatt) af Íslandi til Kristjáns konungs hins annars.

Add. British Museum 11,242. 4to (F. M 206) bl. 47a, Sópdyngja sira Gottskálks í Glaumbæ skrifuð á árunum 1543—1590. — MSteph. 61. 4to bls. 374, með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar (d. 1635). Sbr. dóm frá 1. Júlí 1511. Segir í einni afskript þess dóms, að dæmt hafi verið á alþingi um þetta gjald „í tíð Benedicts Horst höf. höfuðsmanns“ (1499—1502)

anno domini ɱ. d. viij. vm gingialld.

kong kristiern gaf hver bondi xx fiska eine[2]) sinne. skylldi þessi tollur lvkaz medan þessi uor[3]) kongr lifdi.

---

1) eyða í hdr. 2) eitt 61. 3) sl. 61.

191. **6. Júlí 1508. á Stað í Grunnavík.**

Bókareiðr síra Þorkels Pálssonar um það, að Loptr Magnússon hafi selt Ólafi Eiríkssyni jörðina Nes í Grunnavík.

AM. Apogr. 984 „Ex originali Sæmundar Magnússonar á Holi í Bolungarvík“ og var innsiglið fyrir.

Eg jon prestur eireksson. officialis heilagrar skalhollzkirkiu giore godum monnum kunnigth med þessu minu opnu brefi. ath eg hefi tekit so felldan bokareid af sira þorkatle palssyne sem hier epter stendur skrifadur.

Til þess legg eg haund æ helga bok og suo skyt eg mino male til guds ath ec war hia sa og heyrda æ ord og handaband þessara manna af einum parte olafs bonda eirekssonar. enn annars uegar loptz magnussonar. ath adur nefndur loptur sellde med fullu lagakaupi fyrr skrifudum olafi halfa jordina nes j grunnawikur kirkiu sokn til fullrar eignar og frials forrædis. epter þeim skildaga sem þetta witnisburdarbref utwisar. sem eg helld upp æ og ec hefi adur mitt jnsigle fyrir sett. og ath suo stofudum eide sie mier gud hollur. gramur ef eg lyg.

woru marger goder menn nær stadder þa þesse bokareidur war tekin. jon steinsson og hans skipweriar nockrer. jon hnararson. jon gunnlaugsson og marger adrer goder menn.

Og til sanniñda hier um setta eg mitt insigle fyrir þetta bref skrifath æ stad j grunnawik. jn occtaua apostolorum petri et pauli. anno domini ₥.⁰ d⁰. vij⁰. [1])

---

1) „Datum þessa brefs er skirt *M. D. vij.* en ecki M. D. viij. Enn vitnisburdur Sira Þorkels, sem hier allegerast, er dateradur 1508. so ad annadhvert árstaled verdur óriett ad vera. líkast þessa brefs eige sömuleidis ad vera 1508. og sie misskrifad i originalnum. Endilega kynni Sira Þorkell hafa utgefed tvo vitnisburde“. (AM.). Vitnburðr síra Þorkels er frá 17. Apr. 1508, og mun þetta bréf vera frá sama ári.

**192.** **23. August 1508.** **í Vatnsdal.**

Magnús Magnússson selr síra Ögmundi Pálssyni jörðina Ey í Vestrumlandeyjum fyrir tuttugu og eitt hundrað í öllum þarflegum peningum, en Magnús skyldi hafa hjá síra Ögmundi skip frí til Noregs, og aptr til Íslands, með fleira skilorði, er bréfið hermir.

AM. 238. 4to bl. 68b—69, skr. c. 1570 (Bessastaðabók). — AM. Apogr. 5828 (eptir AM. 238. 4to).

Kavpbref fyrir halfri Ey avstvr j Landeyivm.

Þad giorvm vier Jon prestvr Arnason. Nikvlas Þorgillsson. Are Narfason godvm monnvm vitvrligtt med þessv voru opnv brefe. at þa er lidit var fra hingat byrd vors herra Jesv Christi m. d. viij ar j Einarsshofnn æ Eyrarbacka. svnnvdagenn næsta epter Olafs messo ena fyrre.[1]) vorvm vier j hia savm ok heyrdvm æ ord ok handaband þessara manna. af einne alfv sira Avgmundar Palssonar en Magnvs Magnvssonar af annare. faldizt þat ok skilltz vndir þessv þeirra handabandi at nefndvr Magnvss Magnvsson selldi adr greindvm sira Avgmvnde alla halfa jordena Ey er liggvr j vestrvm Landeyvm j Breidabolstadar kirkiv sokn med ollvm þeim gognvm ok gædvm sem greindre halfre jordv fyllger ok fylgtt hefer at fornv ok nyiv ok advr greindvr Magnvs vard fremst eigandi at med logvm. Hier j mot gaf optt nefndvr sira Avgmvndvr tittskrifvdvm Magnvsse xxj^c j avllvm þarfligvm peningvm. skillde þrattnefndvr sira Avgmvndr giallda biskvpe Stefane vegna þrattskrifadz Magnvssar xviij^c af þessvm peningvm med svo vordnvm fridleika sem optt nefndvr Magnvs hafdi lofat advr greindvm herra Stefane. hier til skillde titt skrifadvr Magnvs hafa hia optt greindvm sira Avgmvndi skip fri til Noregis ok aptvr til Jslandz ok þar til mat ok dry(c)k med fri. aptvr ok fram yfir hafit. ok medan þratt nefndvr Magnvs væri j Noregi nærre sira Avgmvnde Palssyni til herbergis þa skillde ok þrattskrifadvr Magnvs hafa mat ok dry(c)k an alltz reikningskapar. nema þa Magnvs færi j sinar erindagiordar þa skillde hann sialfvr standa sier fyrir mat

1) Þ. e. 30. Júlí.

ok dry(c)k. Skyllde optt nefndvr sira Avgmvndvr hallda advrgreindre jordv Ey til laga en Magnvs Magnvsson svara lagariptingvm. Ok til sanninda hier vm settvm vier fvrnefnder menn vor innsigle fyrir þetta kavpbref hvort er skrifat var j Vatzdal j Fliotzhlid midvikvdaginn næsta fyrir Bartolomevs messo æ sama are sem fvr seiger.

---

**193. 30. August 1508. á Staðarhóli.**

Vitnisburðr Jóns prests Haldórssonar um gjöf Lopts Ormssonar á jörðunni Munaðarnesi á Ströndum til Staðarhólskirkju í Saurbæ.

AM. Fasc. XXXIX, 21, frumrit á skinni, og er innsiglið enn fyrir. — AM. Apogr. 1461. Aptan á frumritið hefir Árni látið rita „sk“ (= skilist aptr eigandanum, sem er Staðarhólskirkja). — AM. Fasc. XL, 12, afskript á skinni frá c. 1550.

Wm mvnadarnes.[1])

Þath giðre eg jon prestur halldorsson godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefi. ath j þann sama tima sem eg uar tuitugur at alldre ok einum vetri meir var eg j hollte j saurbæ hia oddi heitnvm peturssyne gestkomande. sagdi hann mier þa at hann hefdi hia verit ꜳ stadarhole j þann sama tíma sem loptur heitinn ormsson gaf kirkiunne æ stadarhole jordina Munadarnes sem liggur æ ströndum. j ꜳrnes kirkiu sokn. Sagdizt hann hafa sagt fyrir handabande þeirra biskups sueins ok fẏrr greindz loptz ormssonar j þann sama tíma sem loptur gaf kirkiunne adr greinda jord munadarnes Suo ok heẏrda eg jon heitinn þorleifsson seigia ath hann hefdi hia uerit fẏrr sogdum þessum giorninge þeirra biskups sueins ok loptz ormssonar ok hann hefdi suo fram farit sem oddur hafde adur mier fra sagt ok fleire dande menn adrer sogdu mier j þann tíma fra þessum þeirra giörningi. hier epter uil eg sueria ef þurfa þiker. Ok til sanninda hier um setta eg mitt jnsigli fyrir uitnisburdarbref sem

1) Utan á bréfinu með fornri hendi.

skrifat uar a stadarhole j saurbæ. jn festo sanctorum martirum felicis et audacti. anno domini. ꝏ.º d.º viij.º

---

194. 3. September 1508. á Hólum.
11. Júní 1512. ——„——

KAUPMÁLABRÉF Þorvarðs lögmanns Erlendssonar og Kristinar Gottskálksdóttur.

A.

AM. 238. 4to bl. 51—52 skr. c. 1570 (eptir bréfab. Þorvarðs lögmanns). — AM. Apogr. 552 (eptir 238). — Afskript er og í MSteph. 27. 4to bls. 501—503, skr. c. 1730 og Landsb. 115. 4to I, 209—210 með hendi síra Jóns í Hítardal c. 1730.

Kavpmalabref Þorvardz Ellendzsonar oc Kristinar Gottskalkssdotter.

Jn nomine domini amen

var svo felldvr kavpmale lystvr oc stadfestvr j millvm ærligx mantz Þorvardz Ellendzsonar logmans a Jslande oc ærligrar dandi kvinnv Kristinar Godskalksdotter a þeirra brvdlopsdeige svnnvdagenn næstan epter Egidivsmesso fyrir Marivmesso nativitas vm havstid. var hann a fostvdeige. a Holvm j Hialtadal. þa lidit var fra hingadbvrd vors herra Jesv Christi ꝏ. d. viij. ar. ad advr nefndvr Þorvardvr Ellendzson hafde til kavps med greinda Kristinv. xc. hvndrada .v.c. hundrada i jordvm. onnvr vc. hvndrada j kvigilldvm. silfvr oc fridvm penningvm oc ofridvm. vorv þessar jarder til greindar j þenna sama kavpmala.

Strond j Selvoge fyrir lxxxxx.c
Nes j Selvoge fyrir lxc.
Hof a Kialarnese fyrir. lxc.
Skravtholar fyrir .xxc.
Breidabolstadir fyrir. xl.c.
Hravn. xxxc.
Grimslækvr. xc.
Biarnastader xlc
Litlaland. xc.
Avxnalækvr. xc.

Hier j mot hafde greind Kristin Godskalksdotter heiman er fader Kristinar biskvp Godskalk gaf henne til motz vid fyrnefndan Þorvard Ellendzson. v^c^ hundrada. iij^c^ hvndrada j jordvm oc ij^c.^ hvndrada j kvgilldvm oc odrvm þarfligvm penningvm fvllvirdes. vorv þessar jarder hier til nefndar et cetera.

Vik j Stadarsveit oc þar med Holt xx^c.^ þar næsta vt fra fyrir .j^c.^ hvndrada oc. xx^c.^ reke j vikvm med kirkivnne.

Bessastader xl^c.^

Holl fyrir. xl^c.^ liggia þær j Semvndarhlid badar hvor vid adra.

Seyla. lx^c.^ med Grafargile .xx^c.^

Þosteinsstader j Tvngvsveit. xl^c.^

Brvnnastader halfer. xx^c.^

Gaf þrattnefndvr Þorvardvr Erlendzson tittnefnd(r)e Kristinv Godskalksdotter .lx^c.^ j tilgiof. Holm æ Akranese eda Savrbæ æ Kialarnese hvorria hvn villde kiosa fyrir sig. j beckiargiof oc morgvngiof. gaf hann henne eitt diasn med sylfvr forgyllt er voo .iiij. merkvr.

kiore biskvp Godskalk dottvr sina Kristino æ þeir(a) brvdlopsdeige helmingakonv j gard Þorvardz Erlendzsonar lavgmanz.

Vorv þessir festingarvottar oc brvdlopsvittne. Stvlle Magnvsson. Eirekvr Þosteinsson. Vigfvs Ellendzson. sira Niklas Vilhialmsson. Grimvr Jonsson oc Jon Þorgeirsson med fleirvm godvm monnvm hvorier er sin jnnsigle settv fyrir þetta kavpmala bref gior(t) j sama stad oc are þrimvr dogvm sidar enn fyr seiger.[1])

B.

ÍBfél. Khd. 248. 4to, skr. 1770.

Kaupmælabref Þorvards Erlendssonar Laugmans og Christinar Gottskålksdottur.

In nomine domini. Amen.

Var suo felldur kaupmali lÿstur og stadfestur i millum ærlegs mans Þorvards Erlendssonar Laugmans sunnañ og austañ a Jslande og ærligrar dandikuinnu Kristinar Gottskalksdottur å þeirra brudkaupsdeige sunnudagenn næstañ

1) Þ. e. 6. Sept.

epter ægidius messu um̄ hausted á Holum i hialtadal þá er lidit uar fra hingadburd vors herra Jesu Christi þusund fimm hundrud og átta ár. at adurnefndur Þorvardur Erlendsson talde sier og hafde til motz uid greinda Kristinu til kaups tiju hundrud hundrada i jordum̄ og kugijlldum̄ fridum̄ peningum̄ og ofrijdum. Hier i mote hafde fyrgreind Kristin Gottskalksdotter heiman̄ er fader hennar biskup Gottskalk gaf henne heiman̄ til motz vid Þoruard Erlendson fimm hundrud hundrada i jordum og tuo hundrud hundrada i kgylldum og audrum̄ þarflegum̄ peningum̄. frijdum̄ og ofrijdum. Hier til lagde og gaf þrattnefndur Þoruardur Erlendson tittnefndre Kristinu Gottskalksdottur lx hundrada i tilgiof. Keyre þa þegar a brudkaupsdeige nefndur biskup Gottskalk Kristinu dottur sina helmingakonu i gard Þoruards Erlendsonar Laugmands. Og gipte hana suo i helmingafielag til alls þess fiar er þa atte hann. eda eigande ad yrde med erfdum eda audrum̄ hlutum̄. huorneg sem under þau kynne ad bera svo framst[1]) sem þad mátte fremst med laugum̄ giorast.

Samþickte og jáyrde fullt tillagde Vigfus Erlendson med Þoruarde Erlendsyne brodur sinum̄. þessum festingarvottum̄ og brudkaupsvitnum nærverande Vigfus Erlendson. Stulle Magnusson. Eyrekur Þorsteinson. Einar Eyolfson. Sira Nichulaus Wilhialmsson. Sira Jon Philippuson. Jon Þorgeirson. Magnus arnason. Einar Einarsson. Jon ásgrimsson. Petur Loptzson. Sæmundur Simonarson og grimur Jonsson med fleirum̄ godum̄ monnum sem þar voru huorier sin inncigle settu fyrer þetta kaupmalabref giort i sama stad in festo Barnabæ Apostoli fiorum arum̄ sijdar enn fyrr seiger.

---

**195. 11. September 1508. á Svínavatni.**

Tylftardómr útnefndr af Einari bónda Oddssyni, kongs umboðsmanni í Húnavatnssýslu, um sakir Ásgríms Þorbjarnarsonar, er rofið hafði fjóra góðra manna dóma.

Landsskjalasafn 94. 4to bl. 5b 7a með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — ÍBfél. Kh. 309 8vo bl. 139b—141 með hendi

1) Svo.

Ara Magnússonar í Ögri c. 1620. — Dómabók úr safni Jóns Pétrssonar í 4to (bls. 311—313), þetta skr. c. 1650—1660. (= *c*) — MSteph. 62. 4to bl. 35a—36a — ÍBfél. Khd. 125A. 4to bl. 57a—158, skr. c. 1680 eða fyrri. — Í Bfél. Khd. 125 B. 4to nr. 309, skr. c. 1680 eða fyrri. — ÍBfél. Khd. 67. 4to bl. 67, „Iclis“ með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745). Dómr þessi er í afskriptum þessum sumum nokkuð afbakaðr og nöfn dómsmanna í ýmislegri röð. Bezt eru 94 og 309.

## Wtlegdardomur.[1])

Aullum þeim[2]) monnum sem þetta Bref sia Edur heyra [sendum vier[3]) Jon Einarsson. Halldor[4]) Sygurdsson. Brandur Olafsson. Ornolfur steinsson.[5]) [Hallgrimur Skulason. Þoruardur Þorsteinsson.[6]) steiñdor Sauluason. Þorgils Hakonarson. Eyulfur Augmundsson.[7]) Arngrimur[8]) Liotsson.[9]) Vlfur Jndridason og Jon Olafsson[10]) Quediu Gudz og vora[11]) kunnugtt giorande ad þa lidit var fra [Guds burd[12]) M D viij Ar æ Manudaginn næstañ fyrir krossmesso vm̄ haustid á Suinavatni æ þingstad riettum vorum vier til doms nefnder Af ærligum manne Einare Bonda Oddssyni. er þa hafde mijñs herra kongsins syslu og vmbod J[13]) Hunavatnsþingi ad dæma vm̄ þat huorra suara ad Asgrimur Þorbiarnarson yrde skylldugur kongdominum og Gudmunde Jndridasyni fyrir þær sakir ad[14]) Asgrimur hefde rofit iiij godra manna doma sem dæmder voru æ millum þeirra[15]) Asgrims og Gudmundar [Jndridasonar[16]). og[15]) Eirn af þeim er lagaskipunardomur Finnboga Jonssonar Laugmanns er ækuedur æ[15]) millum annara orda ad Asgrimur skillde giallda peninga med laga ævegste epter akiæru Gudmundar Jndridasonar vegna Jngebiargar Jllugadottur konu[17]) sinnar med

1) 94; Domur vmm mal Gudmundar Jndridasonar og Asgrijms Þorbiarnarsonar 309; venjulegast er dómr þessi í dómabókum nefndr „dómr um dómrof“. 2) þ. v. 309. 3) [94; senda 309, c ofl. 4) Hallur c 5) sl. 125B. 6) [sl. c, 125A, 125B, 67. 7) Arngrijmsson 125A, 62; Asgrijmsson 125B. 8) Asgrijmur 125B (rangt). 9) Loptsson 125A og B (rangt); á spássíu í 94 stendr með hendi Jóns Pétrssonar „al. certe minus recte Ólafsson“. 10) 125B, sem slept hefir áðr þremur dómsmönnum úr, bætir þessum nöfnum hér aptan við: „Gudmundur Jonsson. Jon Skijdason. (Grijmolfur Steinsson)“. 11) sijna 309, c, ofl. 12) [Gudz Hijngadburdi 309. 13) yfer 309. 14) er 309. 15) þ. v. 309. 16) [sl. 309. 17) kuinnu 309.

þeim fleirum[1]) greinum. ordum og atkuædum sem sa[2]) domur Jnnehelldur. og adrer domar hier vm dæmder til[3]) seigia. og þui stefnde fyrgreindur[4]) valldsmadur Einar Oddsson adur saugdum[5]) Asgrime vm[6]) þessi[7]) domrof og rangligtt halld a peningum og sydañ til vtlegdar sem bokiñ akuedur. Dæmdum vier stefnuna logliga og Asgrim rietteliga fyrir kalladañ. Enn sakir þess ad[7]) oss virtist ad[7]) Asgrimur [ey neina logliga afsaukun hafa[8]) nie helldur nauckurtt lagasuar. Enn logbokin[9]) sialf[7]) skipar valldsmanninum[10]) ad stefna honum[11]) þing og giora hann vtlægañ sem hann giorde. Þuj dæmdum vier Asgrim Þorbiarnarson[7]) vtlægañ af ollu vmdæmi finnboga Jonssonar laugmanns vr [þeim tueimur[12]) fiordungum landsins nordan og vestan. Nu seigir suo riettarbot virduligs herra Eyreks kongs Magnussonar vm̄ þa lausamenn sem oskil giora og skulld[13]) eigu ad giallda þa take syslumadur vp goss þeirra med vitund[14]) skilrikra Bænda og liukie[15]) huorium syna skulld sem[16]) til vinst Ella skierde fyrir huorium sem tala rennur til [epter fiarmagni[12]). Og[17]) fyrir þui oss leist Asgrimur ey betre enn [oskilamenn fyrir syna langa þriosku og laugleysu.[18]) [þui[19]) dæmdum vier greindañ valldsmann Einar Oddsson skylldugan ad taka wp fie Asgrims. og þeir skilrikir menn [med honum[19]). sem hann til med sier krefur og giallda [suo[20]) huorium sitt epter laugligre wirdingu. [Enn Gudmunde fullrette halffimtu mork.[20]) Enn ef Asgrimur ver peningana[21]) odde edur eggiu þa sie hann med ollu vtlægur og ohelgur[22]) og [suo[20]) allir þeir er honum lid veita. enn hiner allir fridhelgir er til sækia [epter þui sem[23]) seigir j fiarsoknum j kaupabælkie. Somuleidis skal hann og þeir [vtlægir og ohelgir[24]) ef þeir veria ferd j odrum fiordungum. Enn ef Asgrimur Edur adrer menn heitast vid edur

---

1) audrum 309. 2) þesse 309. 3) sl. 309. 4) — nefndur 309. 5) greyndum 309. 6) fyrir 309 7) b. v. 309. 8) [hefdi aungua laugliga afsaukun 309. 9) — bok 309. 10) — manni 309. 11) heym 309. 12) [sl. 309. 13) skulldir 309. 14) vitordi 309. 15) luke 309. 16) ef 309. 17) Enn 309. 18) [Þeir sem slykt giaura 309. 19) [b. v. 309. 20) [sl. 309. 21) 309: peninga 94. 22) ogilldur 309. 23) [sem hier 309. 24) [vtlægur og ogilldur 309.

hefnast æ [þeim monnum sem peningaña[1]) taka vp edur veita þar lid til Takist og jnnsetiest vnder kongs geymslu þar til [ad[2]) hann fær þa borgunarmenn ad hinn[3]) sie traustur og auruggur fyrir honum er hann heitadist vid. og honum fullrette. enn konge [iiij merkur[4]). suo sem Hakonar [kongs[5]) rettarbot vtvijsar [og[5]) stande wtlegdiñ[6]) Asgrims þar til ad[2]) fullar greidslur werda æ fianum[7]) Sieu þeir og allir sliku sekir sem hysa edur heima. kaupa edur skipta vid sagdañ[2]) Asgrim sem laugiñ [skipa æ hendur þeim[8]). sem kaupa vid [vtlæga menn.[9])

Samþyckte þennan [dom med oss greindur[10]) valldsmann. [Og til sanninda hier vm̄ et cetera.[2])

---

## 196. 11. September 1508. á Hálsi.

Vitnisburðarbréf, að Finnbogi lögmaðr Jónsson las upp og lét upp lesa bréf og skilríki um Grund í Eyjafirði og lagði lög og dóm fyrir jörðina og alla peninga fasta og lausa, sem hann reiknaði sér (til arfs) fallið hafa eptir Guðríði dóttur sína.

AM. Fasc. XXXIX. 3, frumrit á skinni. Af níu innsiglum eru nú fjögur fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 236 (eptir frumritinu).

Grundarbref finnbog(i) laugmen urskurdadi.
þat fieck eg j huarbi eckiertt annad til gagns nema ættleidingarbref þorunnar med einu insigli.[11])

Þat giorum uier magnus þorkelsson einar einarson petur tumasson oc audun sigurdzson laugrettumenn. gamle þorsteinsson biorn hakonarson þorkell magnusson ketell halldanarson eirekur jvarsson og jon magnusson godum monn-

---

1) [þaa menn er sagda peninga 309. 2) [sl. 309. 3) hann 309. 4) [fiorum morkum 309. 5) [b v 309. 6) 309; wtlegd 94. 7) 309; fienu 94. 8) [seygia þeim aa hendr 309 9) vtlægan mann 309. 10) [vorn dom fir nefndur 309. 11) Utan á bréfinu með hendi mjög svipaðri Guðbrands biskups.

um uiturligt med þessu uoro opnu brefi at finnboge jonsson laugmann hefer téd og birt oc opinberliga upp lesit oc latit upp lesa fyrir oss oc fleirum dande monnum audrum bref oc skilriki vnder heilum oc oskauddum dandemanna jnciglum med suo latande greinum oc articvlis inne halldande at ordum efne oc understandu sem hier efter skrifat stendur.

J fystu .xij. laugrettumanna dom suo latanda at þeir dæmdu oc samþygtu þann vrskurd laugligan oc fullmegtugan med avllum sinum greinvm oc articvlis sem finnbogi laugmann hafde urskurdat þa kuittun onýta oc ecke æfl hafa sem sueirn hafde gefit sumarlida faudur sinvm efter þær lavggiafer gefnar er hann hafde gefit gudride konu sinne fra teknum þeim uingiofum sem j urskurdenum standa dæmdu þeir oc alla þa peninga fasta oc lausa sem att hafde sumarlide oc gudrun kona hans gudride finnbogadottur til hallz oc eignar med þeirre grein profum oc skilrikivm sem j vrskurdenum inne standa huersu mykla peninga sumarlide hefde golldit sveine syne sínum af þeim lausagozum sem hann hafde honum skylldugur ordit oc domur hafde a fallit.

annar .xij. laugrettumanna domur suo latande at efter þeim profum og skilrikium sem fyrir þa fram kom dæmdu þeir finnboga jonssyne lavgmanni til fullrar eignar alla jordina laugmannzhlid uera skylldu hans fullkomna eign.

Þar efter fleire dandemanna doma suo latande at finnboga jonssyne laugmanni hafa dæmder verit til fullrar eignar faster peningar oc lauser þeir att hefer gudridur finnbogadotter dotter hans oc hvn vard eigande at efter suein bonda sinn suo sem þeirra kaupmale felagsgiord oc lavggiafer ut uísar suo oc þeir peningar er gudrunu dottur þeirra sueins oc gudridar hafde til arfs fallid efter suein sumarlidason faudur sinn af þeim helminge sem faudur hennar j fýstu til heyrde. birtizt oc fyrer oss at gudrun sveinsdotter deyde laungum tíma seinna enn sueinn fader hannar sem godra manna bref þar um gior til uisa.

Jtem birtizt fyrir oss þat kaupbref at gudridu(r) finnbogadotter hafde sellt finnboga jonssýne faudur sinum med handabande til fullrar eignar oc frials forræđiss alla jordena

ust merkt hafa Konglegañ Vilia. ad hans Lögmañ skyllde blijfa med fullre Magt. i Frij og Frelse bæde leikra og Lærdra. Eñ vier suðrum þar so til. vm̄ þad sem Jon snertur. Ad vor nadugaste Herra Kongureñ. mun ecke vilia giðra ockar þann Mun. ad heyra ei suo uor Sañende sem hanns. et cetera.

II.

Morðbréfabæklingr II. Hólum 1595 og Reykjavík 1903 bls. 105, eptir bréfabók Gottskalks biskups og mun vera úr sama bréfi og I.

Meige þier vita. ad vier fullkomliga seigium þennan sama Jon Sigmundzson sem þier kallid Løgmann i hæsta Pauans Banne. og voru Forbodzbanne et cetera.

---

265. 1. Júlí 1510. á Öxarárþingi.

Dómr sex lögréttumanna útnefndr á Öxarárþingi af Birni Guðnasyni eptir skipan konungs um góz þau og garða, föst og laus, er frá Jóni Sigmundssyni höfðu tekin verið utan lögréttumanna dóm og lögmanns úrskurð.

Eptir blöðum á pappír í Landsskjalasafni, sem komu 28. Júní 1901 frá Breiðabólstað í Fljótshlið, rituð um 1750. Sbr. dóm Gottskálks biskups frá 7. Jan. 1508 genginn í Viðvík. Guðbrandr biskup segir hiklaust í Morðbréfabæklinginum fyrsta 1592 (bls. 40 í útg. minni 1902), að dómr sá, er hér fer á eptir, sé dæmdr af Birni Guðnasyni samkvæmt konungsboði 1510, og á orðum hans byggja þeir Finnr biskup (Hist. Eccl. Isl. IV, 333) og Jón Sigurðsson (Safn II, 104), en ekki hafa þeir þekt þenna dóm sjálfan.

Domr um peninga Jons Sigmundssonar.

Øllum monnum þeim sem þetta Brief siæ edur heyra senda Arnor Finnsson. Sigurdur Dadason. Þorolfur[1]) Øgmundsson. Tumas Jonsson. Þolleifur Ørnolfsson.[2]) Asmundur Clemensson kved(iu) G(uds) og s(ina) k(unnigt) (giorande) ad þá lided var fra hingadburd vors herra Jesu Christi 1510[3])

1) Þolleifur (!) hdr. 2) Øgmundsson (!) hdr. 3) „1500“ stendr inni í textanum, en leiðrétt svo á spássíu „NB hier ä ad vera 1510“, og er það rétt.

mánudaginn næstan epter[1]) Peturs Messo og Pals a almenn(e-leg)u Auxarárþinge. vorum vær ï dóm nefnder af ærlegum manne Birne Gudnasyne. er minn herra kongurinn hafde til skipad med sinu opnu briefe ad nefna Logrettumanna dóm. ad dæma láta fullnadardóm um þau góts og garda faust og laus. sem frá Jóne Sigmundssyni hófdu teken vered utan lógrettumanna dóm og lógmanns úrskurd.[2]) hvórt hann þau lóglega mist hefde edur eige. med þeim fleirum greinum. sem ȷ greindu kongsins briefe standa.

J fyrstu kom þar fram xij presta dómur er biskup Gottskalk á Holum hafde dæma láted sina presta sier til hallds og trausts oll kyrkiugóts sem tilheyrde kyrkiunne ï Videdalstungu. og kyrkiunne ad Urdum og Nupe ï Nupsdal þar til og so lenge sem greindum kyrkium være sett full borgun fyrer sinne Jnnstædu af þeim sagdar kyrkiur áttu hallda med lógum epter gómlum sáttmala ï millum kongs og kyrkiu. og so var þar lesenn annar prestadomur er Biskup Stephan hafde dæma láted um sógd kyrkiu góts so hliodande sem hinn fyrre ad biskup Gottskálk voru ecki dæmd sógd kyrkiu góts lengur enn þar til honum være sett full borgun fyrer sinum Reikningskap af þeim sem þad bære med lógum ad giöra.

Nu af þvï ad sá sáttmále sem giörde virdelegur herra Eirekr Magnusson Nor(egs) k(onungur) vid Arna biskup ad Skálhollte med rade og samþycke Jórundar Erkebiskups ï Nidaróse um stade og kyrkiur á Jslande.[3]) so utvisar. ad [alla þa garda[4]) er kyrkiur eiga alla og meir enn hálfa skulu under biskups forsiá og vallde. Enn allar þær kyrkiur. sem ecke ættu meir enn halfan gardinn edur minna. skylldu leikmenn hallda. sem adrar ȷarder epter eign og erfdum med slíkre kennemanna skylldu. sem sa skıȷllde fyrer er gaf. Þess og annars ad fyrr skrifader prestadomar voru ecke frekare dæmder um sógd kirkiufie en til hallds biskupe gottskalck[5]) þar til er þeir feinge fullan Reikningskap af þeim sem þær ættu ad hallda. Þridia ad vier heyrdum bada fyrr skrifada Biskupa því lýsa þar á þinginu ad þeir villdu hallda greindan sátt-

1) leiðrétt; „fyrer“ handritið, sem ekki fær staðizt. 2) úrskurds, hdr. 3) Sjá Ögvaldsness-sættargerðina 2. Maí 1297, DI ,II, Nr. 167. 4) [Svo. 5) „Stephane“ stendr í textanum; á spássíu er sett „forté Gottskalk“, sem er hið rétta.

mala í allan máta. Þvi fyrer allar þessar greiner. ad so profudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrskrifader menn Jőn Sigmundsson þann sama mann sem hallda átte sagda garda og kyrkiugőts. hvört hann ætte þá eda Einar sonur hañs. og fyrrskrifadañ Jőn skylldugañ ad giöra fyrr skrifudum kyrkium fullan Reikning med vitorde vj skynsamra manna og yfersion af þeim peningum sem hann framleider og gelldur sögdum kyrkium. hvört þad eru qviker peningar eda dæder. hvört hann gelldur þá edur í borgun setur. þar til þær eru leystar. og ad þessu giördu dæmdum vier optnefndañ Jon Sigmundsson friálslega og löglega mega ad sier taka og retteliga hallda fyrr skrifada garda. Videdalstungu. Urder og Nup. og þau kyrkiugőts sem optgreindar kyrkiur eiga bæde faust og laus.

Jtem i þridiu grein hlyddu sagder prestadomar upp a kyrkiugőtsin. eige bonda eign. og leitst oss aller þeir og sierhvörier. sem sagda garda hafa tekit yrt edur unnit. hafa med ængre heimilld þann hluta haft sem leikmanna eign er i optskrifudum og ádur greindum gördum. og Jőn Sigmundsson þá rettelega sækia eiga med lögum fyrer ranglegt halld og medferd sagdra garda.

Samþyckte þennañ vorn dóm adurgreindur etc.

---

**266.** **1510.** **[á Hólum].**

Bréf Gottskálks biskups á Hólum til Stepháns biskups í Skálholti um mál Jóns lögmanns Sigmundssonar.

Eptir Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum fyrsta (Apologia) Hólum 1592 og Reykjavík 1902 bls. 59—60, og hefir biskup tekið það eptir bréfabók Gottskálks biskups sjálfs.

Copium af ödru Briefe b(yskups) Gotsk(alks) til B(yskups) Stephans. vr hans eigen Briefabok. þa Biörn Gudnas(on) epter Kongsins eigen briefe og skipan. hafde dæmt xij[1]) Lögriettumañа Dom. vm̄ Jardernar. Vrde. Nwp og Vijdedals Tungu Anno M. D. X.

1) Svo.

Mege þier vita. ad oss er sagt. ad Leikmeñ hafe dæmt vm Mæl ockar Jons Sigm(unds)s(onar) i Lögriettu sijdan vier vorum i burtu. þau mal sem þier med ydrum Prestum og Prelatum hafed adur vm̃ dæmt. huad vier hölldum lijted af þeirra Dome. Þui bidium vier ydur ad þier gefed oss ydar Styrktar Brief til Erkebyskups so latande. ad þier hafed dæma lated. og samþyckt vora Doma stöduga og lögliga. þa sem dæmder hafa vered a mille Jons og vor. sem er vm̃ hans Tiundargiörder. Hionaskilnad. vm̃ Alkyrkiur og þeirra Goz et cetera. Hölldum vier Jon i sama Forbode og Banne sem hann var i dæmdur. fyrer þad Sattar Rof sem hann hefur giort et cetera. *Et post pauca.* Giöred nu Briefed sem miukasta til vors A(ndaliga) Födurs Erkebysk(upsens) vppa vora vegna. Mege þier og vnderuijsa Erchebyskupe ad ydur og ydrum (prestum) hafe litest ad vier höfum haft Lagasokner vid. Kyrkiuñar vegna. eñ ei Gripdeillder eda Ofrijke. Er oss sagt ad Jon vilie sigla. Eñ ef hann sigler ecke þa vilium vier forboda hann med ydru Rade. fyrer greindar Saker. Þui þad er oss a mote. ef hañ skal ganga yfer Heilaga Kyrkiu og ockur. Og Kennedomeñ.

---

**267.** **3. Júlí 1510.** **á Öxarárþingi.**

Tylftardómr útnefndr á Öxarárþingi af Jóni Sigmundssyni lögmanni norðan og vestan á Íslandi um eignaskipti þeirra Gríms Pálssonar og Þorvarðs lögmanns Erlendszonar.

AM. 914. 4to með hendi frá frá c. 1595 (á pappír). — Afskript eptir þessu handriti er meðal Apogr. AM. 5790. Sbr. DI, VII, Nr. 559.

Domur vm skipte Grims Pálssonar og Þorvardz[1]) Erlendzsonar.

Ollum monum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda finnbogi Jonsson. Biorn Gudnason. arnor finsson. Sturli Þordarson. Þorolfur[2]) augmundzson. Sigurdur Dadason. Þolleifur aurnolfsson. audun Sigurdsson. Eyuindur Gudmundsson.

1) Þorvalldz, hdr. Fyrirsögn dómsins er með hendi Ara Magnússonar í Ögri. 2) Þorleifur, hdr.

Þorsteinn Þorlaksson. asmundur klemisson og tum̃as Jonsson kuediu gudz og sıȷna. kunnigt giorandi arum epter gudz burd ◯. d. og x ar a miduikudæginn næsta epter pieturs messo og pals a almenniligu auxararþingi vorum vier ȷ dom nefnder af ærligum dandi manni Joni Sigmundssyni laugmanni nordan og vestañ a Jslandi ad skoda og dæma vm̃ þau skilrijki og bref sem Grimur Bondi Palsson bar þar fram̃. beiddi og krafdi greindañ Jon Laugmann ad nefna dom yfer huort þau skylldu lauglig vera edur ecki. J fyrstu bar adur nefndur Grimur fram̃ bref med dandi manna Jnnsiglum suo hliodanda. ad Þoruardur erlindsson laugmann og greindur Grimur Palsson byttu og skiptu med fullu kaupe vegna Þorleifs og Benedicts þessum ȷordum er suo heita. hollum ȷ Eÿiafirdi. arnarstadi. vatzenda. Jokull. tiarner. Torfufell. vlfa. villingadaler tuenner. selldi nefndur Þoruardur allar þessar adurgreindar ȷarder fyrrsaugdum grimi enn sonum hans adurnefndum til fullrar og allrar æuenligrar eignar. so sem þad kaupbref ȷnnehelldur er þar [var þa vpplesid[1]). Enn hier ȷ moti gaf grimur saugdum Þoruardi þessar ȷarder fyrir sunnañ land er suo heita. Breida Bolstad. Eya Læk. Þufuland. Grimslækur. Hraun. Biarnarstader. Gata. Eyma. Hlid. Hof. arnarhollt. skrautholar. aufugskiellda. Galltarvijk. Liggia þessar ȷarder j auluesi. Seluoge og Kialarnesi sem brefid greiner. og hier til skylldi Grimur fa Þoruardi atta. c. og .xl. ȷ kugilldum og peningum þarfligum fyrir þann peningaskacka sem Þoruardur ʀeiknadi og kiærdi vppa arf Jngiʙiargar Þoruardzdottur og optnefndur Grimur vard ȷatza at bitala honum sem bref þar vm̃ giord vtuisa. og ad þessu golldnu og luktu sem lofad var. þa skylldi Grimur og syner hans aulldungis kuitter og akiærulauser vm̃ alla klagan og akiæru Þoruardz vpp a þad goss fast og laust sem att hafdi Jngiʙiorg Þoruardsdotter. ȷordina fÿst maudruvollu og alla peninga adra huort þad hefdi af honum kiært verid epter ʀiettar ʙot edur audrum fiarskacka. Var og lesid kuittunarbref vnder godra manna Jnsiglum. Nu med þui ad oss leist þessi giorningur laugliga gior vera ȷ allañ mata sagdra

1) leiðr.; [var þa vpplesin, hdr.

manna æ millum sem fyrsagt bref ȷtar meir ȷnnehelldur og vtuisar. Þui ad suo profudu mali dæmdum vier med fullu doms atkuædi þenna giorning. kuittañ og kaup. laugligañ og stodugañ ȷ allañ mata enn Grim og sonu hans riettiliga halda meiga og suo eiga og att hafa allar fyrsagdar ȷarder sem Þoruardur selldi greindum Brædrum til eignar þar til þær væri med riettum lagasoknum sottar af þeim. so og vm̄ þann giorning sem þat bref vtuisar er Grimur let þar vpp lesa og hann hafdi giort vid biskup godskalck ȷ mẏklagardi J eẏiafirdi. þa hann lofadi ad ganga af maudruvollum og audrum gossum sem þar nalæg[1]) være. Leizt oss þad engin lagaskylldu giorningur vera nie verid hafa fyrir Grim̄ og sonu hans. og hann og þa fullkomliga fyrir þessa lofan at sier taka mega alla fyrsagda peninga nær þeir villdu.

Og til sanninda hier vm̄ setti laugmadurinn Jon Sigmundzson sitt Jnsigli med vorum Jnsiglum fyrir þetta domsbref sem skrifad var ȷ sama stad. deige og are sem fẏr seiger.

---

268. 3. Júlí 1510. á Öxarárþingi.

Tylftardómr útnefndr á Öxarárþingi af Jóni Sigmundssyni lögmanni norðan og vestan á Íslandi um kaupmála og helmingafélag Sveins Sumarliðasonar og Guðriðar Finnbogadóttur.

AM. Fasc. XL, 10, frumrit á skinni. Af 13 innsiglum eru nú tvö fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 237. Í bréfabókum frá síðari öldum eru margar afskriptir af þessum dómi. Sbr. úrskurð Sveins Þorleifssonar 28. Aug. 1510, Nr. 271, og DI, VI, Nr. 489.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heẏra senda arnor finnzson. salomon einarsson. brandur einarsson. vigfus þordarson. avdvn sigurdzson. ȷuar brandzson. gvdmundur ȷndridason. sigurdur ȷuarsson. brandur olafsson. þorleifur aurnolfsson. thomas ȷonsson oc eyuindur gudmundzson. Q. G. oc sina kunnigt giorandi ad subb anno gracie. ꝏ. d. decimo þridiudaginn næsta efter petursmessu og pals[2]) um sumarid a almenniligu auxararþingi. worum uier ȷ dom nefnder af ærligum dandi manni ȷoni sigmundzsyni laug-

1) nalæger, hdr. 2) Þ. e. 2. Júlí.

manni fyrir nordan oc uestan æ jslandi. at skoda oc rannsaka og fullnadar doms atkuædi a at leggia um þau bref oc skilriki er finnbogi jonsson þar fram lagdi vnder vorn dom sem (hlioda) appæ gipting oc kaupmala og helmingafelag sem giordizt millum þeirra sueirns sumarlidasonar og gvdridar finbogadottur. kom fyrir oss kaupmalabref greindra hiona. suo latanda at þeir finnbogi og sumarlide giftu sín born̄ saman med laugum og huoratueggiu jæ̇ýrdi og samþýcki. og suo uornum skildaga og fekaupi at sueirn hafdi til kaups og eigenordz uit fýrnef(n)da gudride alla sina peninga fasta og lausa at tilskilinne grund j eýiafirdi. hier j moti hafdi gudridur til kaups vit sueiñ halft annat hundrad hundrada fasta peninga og lausa. Gaf sueinn geidridi. lx. hvndrada j tilgiof og aunnur lx. hundrada fyrir morgungiof og beckiargiof. þar efter med vilia radi og samþycki allra fýrgreindra manna skilldu þeir finbogi og sumarlidi at uera skýlldi helmingafelag millum nefndra hiona sueins og gudridar med aullum peningum til greindum faustum oc lausum sem þa attu þau og eigandi kynni at ad uerda med þeim skilmala sem rettarbot hakonar kongs ut uisar oc hier j landi hefer leingi halldit uerit j laugum. kom þar fram annat bref under dandi manna jnciglum huert er giordizt æ þeirra festingardeigi suo latandi at aller fýrrgreinder menn endurnýudu og fullgiordu þennan sama giorning og þar med gaf sueirn þa med handabandi og samþycki faudur síns allar sinar lauggiafer gvdridi finnbogadottur konu sinni ef hun lifdi honum leingur af þeim helminge er efter hann felle at æ greindum fimta hlut ur jardagozi en fiordung af aflagozi. Nu fyrir þann skulld at suo ut uísar rettarbot uirduligs herra hakonar kongs sem hier j landi hefer æuenliga fyrir laug geingit. at þar sem menn gipta saman baurn sín þa standi sa skilmali er menn giora millum barna sinna huort sem þat er felag edur tilgiof. Og þui dæmdum uier allañ þenna fýrgreindan kaupmala og skildaga oc lauggiafer fastañ staudugan og obrigduligañ og fullkomliga eign finnboga jonssonar allar þær halfar jarder smar og storar sem gudridi fellu j sitt helmingsfelag efter suein bonda sinn at

rettu helmingaskipte af þeim jordum sem sueirn atti og þar til fimta hlut vr þeim helmingi jarda sem sueine hafdi til heÿrt þui at þesser peningar felag og lauggiafer fellu alldri gudrunu til erfda. er hier j tilskilin̄ jordin half grund j eÿiafirdi og fimti hlutur upp j annan̄ helming suo sem adur greiner um felag og lauggiafer. þui at uier dæmdum med fullu doms atkuædi alla þessa greinda peninga æuenliga eign finnboga uera og uerit hafa sidan gudridur deÿdi og hann rettiliga j hafa setit greindum peningum og sitia mega þar til hann er laugliga sottur til rettz lagaskiptis sem laugbok ut uisar.

Samþÿgti þenna uorn dom greindur jon sigmundzson laugmann oc þui setti hann sitt jncigli med uorum jnciglum fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad og ari. deigi sidar enn fyr seiger.

---

## 269. 5. August 1510. í Ögri.

Transskiptarbréf.

AM. Apogr. 470, tvær afskriptir, önnur gerð „Ex transscripto monasterii Thingeyrensis. accuraté" og staðfest í Skálholti 6. Aug. 1712 af Árna Magnússyni og Páli Hákonarsyni, en hin gerð „Ex transsumto facto 1562". — Í Landsskjalasafni eru tvær nýlegar afskriptir, önnur staðfest að Hólum í Vesturhópi 30. Mai 1828 af síra Gísla Gíslasyni, Jóni Bergsteð, Árna Skúlasyni og Helga Bessasyni, en hin staðfest af Birni sýslumanni Blöndal og lesin upp á Stóruborgar manntalsþingi 1. Júní 1829.

Ollum godum monnum þeim sem̄ ath þetta Bref siaa edr heyra senda Biorn gudnason. an̄or fin̄zson. þorgautur olafsson og þorolfur augmundzson Quediu guds og sina. kunigt giorandi at wer medkenunz. at fyrir oss war birt og wpp borit suo hlydanda oppit Bref med heilum og skoddum. hangandi jnciglum. og wer þar yferlasum og heyrdum yfer lesit suo latanda ord epter ord sem hier stendr skrifat.

[Hér kemr bréf frá 10. Aug. 1504, DI, VII, Nr. 661].

Ok til sanind a (hier) wm settum wer fyr nefnder men wor jncigli fyrir þetta transkriptarbref er giort war j augri j

isafirdi a manudaginn næstan epter Olafsmessu enu fyri um sumarit arum epter gudz Burd ꝏ d og x ar.

---

**270. 14. August 1510. á Melum.**

Vígslumáldagi og aflátsbréf Hafnarkirkju í Melasveit útgefið af Stepháni biskupi í Skálholti.

AM. 269. Fol. bréfabók Brynjólfs biskups VIII, 244—245, skr. 1656.

Wïgslubref Hafnar kyrkiu ȷ Melasveit.

Vær Stephan med Gudz nād Biskup ȷ Skālhollte Heilsum ôllum godum mônnum þeim sem þetta vort Bref siā edur heyra kiærlega med Guds kvediu og vorre kunnugt giôrande ad i heidur vid allsvalldanda Gud. ȷumfrū Sanctam Mariam Guds mődur og hinn Heilaga Olaf konung. hôfum̄ ver vigt kyrkiu i Hôfn i Melasveit med þessum māldaga ad hun ā. xc. ȷ heimalande og iiij kugillde og fimm hundrada einge er liggur ȷ Andakïl fyrer nedan ena ytre Skeliabrecku er heiter landvarnarnes. Hier med hôfum vier gefed i Guds trauste. ȷumfru Sanctæ Mariæ og med røgsemd Blessadra postula Petri og Pauli og mődur vorrar heilagrar kyrkiu ôllum rettskrifftudum monnum og idrandest synda sinna. xl. daga aflāt ollum þeim sem vitia greindrar kirkiu med Gudhrædslu edur gődfyse fyrer bæna saker edur pilagrims ferda. heyrande þar messur eda nockud Gudlegt Embætte. Jtem þeim sem retta[1]) sinar hiālpar hendur til gagns edur gőda um̄ upphellde edur efling. smïd edur bygging greindrar kyrkiu um̄ messuklæde. skruda edur ônnur ornamenta. lysing. vax. reykelse. vid edur adra nytsamlega hlute. Jtem þeim sem lesa pater noster og Ave Maria vid þritekna hringing ā morna og ā kvôld. Jtem þeim sem liősta ā sitt briőst þā er presturenn seiger ȷ messunne nobis qvoqve peccatoribus. So og þeim sem fylgia Guds likama þā hann er borenn ȷ processione eda til siukra manna. Jtem þeim

1) leiðr.; votta, hdr.

sem standa ad predikun. og hvort þad sinn er þeir giðra eilthvort af fyrrnefndum hlutum̄ eda ǒdrum þuilikum. þǻ seigium vier þeim til ǻdur greint. xl. daga aflǻt. So og þeim sem gǻnga j kyrkiugardenn og lesa pater noster eda Ave Maria fyrer christnum sǻlum. Jtem þeim sem sækia liǒs edur vatn til messu edur þiǒna til Guds Embættis. Skipum̄ vær ad kirkiudagurenn sie halldenn sunnudagenn næsta effter Asums(i)onem Beatæ Mariæ. Og til sannenda hier um̄ festum vier vort jnnsigle fyrer þetta brief. Skrifad ǻ Melum j Melasveit in virgilia assumsionis beatæ Mariæ Anno Domini 1510.

Er þetta vtskrifad effter Permetz Brefe gǒmlu. til merkis ockar nǒfn sem samanlǻsum. Skǻlhollte 11 dag Aprilis Anno 1656.
Þorleifur Arnason. Oddur Eyolfsson.

---

**271. 28. Agúst 1510. á Þverá.**

Sveinn Þorleifsson staðfestir, í umboði Hans Ranzau hirstjóra yfir alt Ísland, alþingisdóm frá 3. Júlí 1510.

AM. Fasc. XL, 11, frumrit á skinni læst saman við dóminn (XL, 10), og er þó innsigli hirðstjóra dottið frá. — AM. Apogr. 237. Sjá alþingisdóm Jóns Sigmundssonar 3. Júlí 1510, Nr. 268.

Medkennvn̄zt ec sueinn þorleifsson j fullu og laugligu umbodi hans ranzaau hirdstiora yfer allt jsland med þetta mitt opna brefi at eg hefi stadfest og fullburdig þat domsbref sem þetta mitt bref er vit heingt vt j alle sine ord þungt og articulis huort sem þat jnne halld og ut uisar. til ẏtar meir bivising heingi eg mitt jncigli fyrir þetta samþẏcktarbref giort a þuera j laxardal miduikudagin næsta fyrir decollacio jhohannis baptistę anno domini millesimo. d. decimo.

---

**272. 13. September 1510. í Presthólum.**

Jón Jónsson geldr og fær Gottskalki biskupi til fullrar eignar jarðirnar Vindheima og Ás í Hörgárdal og Bakka í Öxnadal í sakfelli og brot sín og Rögnu Finnbogadóttur, en þau voru að öðrum og þriðja manni, og gerir biskup Jón kvittan og ákærulausan.

AM. Fasc. XL, 7, frumrit á skinni. Af 5 innsiglum eru 2 dottin frá. — AM. Apogr. 3420.

Vm uiñdheima og hol og ꝍs ȷ auxnadal.[1])

Þat giorum vier ion andresson og ion ionsson prestar holabiskupsdæmis. magnus arnason og haűskolldur sigurdzson leikmenn godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi at arum epter gudz hurd þusund fimm hundrut ok tiv ær faustudaginn næstan fyrir krossmessu a haustit i prestholum i nűpasueit vorum vier ȷ hia saum ok heyrdum a ord ok handaband virduligz herra godskalkz med gudz nad biskups a holum i hialtadal af einne halfw en ions ionssonar af annare at suo fyrir skilldű at nefndur ion ionsson galt og feck greindum biskup godskalki til fullrar eignar og friallss forrædis iordina alla vindheima og æss er badar liggia i haurgardal[2]) i bægisar kirkiu sokn og iordina hola i auxnadal i backa kirkiu sokn med aullum þeim gognum og gædum hlutum og hlunendum sem þessum greindum iordum fylger og fylgt hefuer at forñű og nyu vndan sier og sinum erfingium en vnder biskup godskalk. galt han þessar iarder biskupinum fyrir sig og raűgnű finbogadottur fyrir þau brott og sakfelle sem hann hafde brottligur ordit med greindre raugnű huer er reiknadizt vid hann at audrum og þridia manne en hier a mote gaf biskupinn fyrrnefndan ion ionsson aullungis kuittan og akærulausan vm fyrr nefnd brot og sakfelle epter þui sem hans kűittunarbref þar vm giortt vt uisar fyrir sier og aullum sinum logligum epterkomendum heilagrar holakirkiu formonnum og þar til galt biskupinn opt nefndum ione ionssyni sex kyr og sex asaudar kugillde. atte adur greindur ion ionsson at sűara laga ripting-

1) Utan á brèfinu með gamalli hendi. 2) dal, tvískrifað í frbr.

um a aullum þessum fyrrgreindum iordum en biskupinn hallde til laga. Og til sannenda hier vm sette adurnefndur ion ionsson sitt jncigle med vorum inciglum fyrir þetta iardabref er skrifat var a sama are stad og deige sem fyrr seigir.

---

**273. 20. September [1510]. á prestastefnu.**

Dómr klerka útnefndr á prestastefnu af Gottskalki biskupi á Hólum um barsmíð Jóns Sigmundssonar á Ólafi presti Guðmundssyni (Beggu-Láfa), og dæma þeir Jón í bann og kunnan og sannan að mörgum falsbréfum.

AM. Fasc. LXIV, 30, frumrit á skinni. Bréfið hefir verið skorið á ská yfir þvert, án efa viljandi til þess að eyða dóminum, svo að nú er týndr allr síðari helmingr bréfsins, og vantar af hverri línu; hefir þetta verið gert endr fyrir laungu, því að Guðbrandr biskup og Jón lögmaðr þekkja ekki annað en þetta brot af dóminum 1592. Þrettán innsiglaþveingir eru við þetta brot af bréfinu. — AM. 240. 4to með hendi Jóns lögmanns Jónssonar c. 1592. — MSteph. 56. 4to bls. 275—276 með hendi Snæbjarnar Torfasonar á Kirkjubóli 1646. Sbr. Morðbréfabæklinginn fyrsta Rvík. 1902 bls. 39—40.

Domur vm Jon Sigmundsson ad hann hafi sleigid sira Olaf gudmundsson og vm hanz brefagiorder. Sæ domur er onýtur.[1])

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda broder einar med gudz nad aboti a munkaþuera. broder . . . . . . . . . . . . . . . . . kirkiu. finnbogi einarsson. ion þorgilsson. ion finnbogason. gudmundr ionsson. ion finnbogason. gi . . . . . . . . . . . . . . . einar hallzson. þorbiorn ionsson. tumas einarsson. þorbiorn ionsson. ion marteinsson ok ion magn[usson kuediu gudz ok sina kunnigt giorande. at ærum epter hingat burd vors herra iesu christi . . . . . . ] faustu[2]) daginn næstann epter krossmesso a almenneligri prestastefnu vor-

1) Utan á bréfinu með hendi Guðbrands biskups. — Þridie domr vm Jon Sigmundssn 240. 2) þannig 240; . . . tu LXIV, 30;

um vier i dom nefnder af uirdu[ligum herra[1]) ok andaligum faudur gottskalk med gudz næd biskupi ǘ holum til at skoda og rannsaka ok fullnadardoms atkuædi ǘ at leggia vm þǘ ǘkiæru er biskupinn hafdi til ȷons sigmundz]sonar. at hann hefdi slegit olaf prest gudmundzson tuau steinshögg med heiptugri hendi. nu med þui [ad greindur ȷon[1]) . . . . . . . . . . . ok med ollu oþolanligt at firir þa grein afsakizt hann eda undan dragizt lögligri hegningu af kirk[iunnar valldi firir[1]) . . . . . . . . . . . . . . . . at hann hafdi hia uerit þa ion sigmundzson slo fyrr greindann prest. so og sor olafur prestur gudmundzson at hann [hefdi langan tijma[1]) . . . . . . . . . . . . . . . . . . tadi hefdi komit a handbokina er sira olafur hafdi a briostinu ok gudz likame uar i geymdr. [vissum vier[1]) . . . . . . . . . . . . . . . at suo prof]udu. ᴅæmdum vier adur greindann jon sigmundzson fallinn i fullkomit bann af sialfu verkinu epter þui sem [login til uijsa[1]) . . . . . . . . . . . . . . . upp ǘ ion sigmundzson. ꝧins annars at uier uissum hann kunnann ok sannann at morgum falsbrefum. þui dæmdum [vier opt nefndan jon sigmundzson[1]) . . . . . . . . . . . . . . . . . .] lögin ut uisa firir þratt nefnda sauk. Og til sanninda hier nm setium uier fyrr skrifuader prelatar ok prestar [firir[1]) . . . . . . . . . . . . . . . . . fyrr seigeʀ.

Á eptir dómi þessum í handriti Jóns lögmanns (AM. 240. 4^to^) kemr svo látandi klausa:

Er handskrift biskupz olafz hialltasonar ǘ þessu epterskrifudu.

verdur vr þessum domi ecki meira lesid nie skrifad.

er þar og annar til med ȷnciglum skiemdur.

j badum domunum (er) ȷon sigmundsson dæmdur ærulaus og omyndugur firir falzbrefagiorder.

hinn þridie domurin er horfinn med ȷnciglum sem biskup stephan liet dæma ǘ alþingi j millum bisknp gottskalkz og ȷonz epter skipan kong kristianz gamla og erkibiskupz gauta j huerium hann var dæmdur falzbrefagiordarmadur

1) [240; rifið af LXIV, 30.

og rogzmadur og omyndugur med ollu og hanz peningar aller fallner vnder domkirkiuna oc biskupinn.

---

**274. 9. Oktober 1510. í Snóksdal.**

Vitnisburðr Sveins prests Oddssonar um lýsing til hjónabands með Ólafi Guðmundssyni og Þorbjörgu Guðmundardóttur.

AM. Fasc. XL, 14, frumrit á skinni, og er innsiglið enn fyrir bréfinu.

Þat gior eg sueinn prestvr oddzson godvm monnum vitvrligt at ec medkennvnzt med þessv minv opnv brefi at ec hefi lyst j heilagri kirkiv vppp a þria svnnudaga huern æ bak odrvm. at olafur gudmundzson villdi fæ þorbiargar gudmundardottvr sier til logligrar eiginkonv so framt sem eingin mein[1]) edur sifskapur væri æ med þeim. og bad ec þæ til seia ef nockvr vissi þat. enn sæ kom einginn fram̄ at þar segdizt nein mein æ vita. Og til sanninda hier vm setta ec mitt jnsigle fyrir þetta mitt medkenningarbref skrifat j snoksdal j middaulvm midvikvdaginu næsta fyrir vetur ārvm epter gudz burd ꝏ d og x ær.

---

**275. 2. Nóvember 1510. á Melum.**

Vitnisburðr Höskulds prests Hallsteinssonar um Hesteingi í Andakil, að það hafi átölulaust verið eign Hests, en ekki Hvanneyrar.

AM. 238. 4to bl. 14, skr. c. 1570. (Bessastaðabók).

Bref vm Hestz eingi.

Þat giorer ek Hoskolldr prestr Hallsteinson godvm monnvm kvnnigtt med þessv minv opnv brefi. at eg medkienn-

1) tveir síðustu stafirnir eitthvað misskrifaðir.

vnst at ek er barnfæddr a Hesti j Borgarfirdi ok minn fader atti þa somv jord ok bio þar meir en xl vetvr ok er ek nv mikit til attrædr madr. man ek ok at Vermvndr ok hans fadir Kolbeinn bivggv æ Hvanneyri ok attv hana svo ok Jon Ketilsson eptir þa ok svo nv hans sonr kietill eptir. heyrda ek alldri æ ollvm þessvm tima nockvd tvimæli edvr tilkall af þeim sem æ Hvanneyri bivggv ok hana attv vp æ einge þat sem Hesteinge er kallat ok Hestr hefir haftt ok halldit svo leinge sem menn vita. svo ok var eigi helldr ækall veitt æ kongs oddann edr þav tvo onnvr einge sem þar med liggia svo ek mætti þat skynia edr skilia af nockrvm manne ok hier epter vill ek sveria ef þvrfa þyckir. ok til sanninda hier vm setta ek mitt innsigle fyrir þetta vitnis bvrdar bref er giortt var æ Melvm j Melasveit næsta dag epter allra heilagra messv þa er lidit var fra gvdz byrd m. d x ar.

---

**276. 13. Nóvember 1510. í Ogri.**

Bókareiðr Björns Jónssonar, tekinn af Birni Guðnasyni, um aðfarir Einars Oddssonar og Pétrs Loptssonar, þegar Jón Sigmundsson var rýmdur út af eignum sínum um haustið (1508) i Víðidalstungu, og er talið upp bú Jóns.

AM. Apogr. 3968 með hendi Páls Hákonarsonar eptir transskripti á skinni frá 11. Aug. 1592.

Þad giorum vid Þorleifur Aurnolfsson og Tristram buason godum monnum viturligt med þessu ockru opnu brefi ad vier vorum þar j hia saum og heyrdum ä j augre j Jsafirdi um vetrurenn þa lidit var fra gudz burd ꝏ D og niu är: ad Biorn Jonsson sor suo felldañ bokareid fyrer Birni Gudinasyne. sem hier epter skrifadur stendur.

Til þess legg eg haund a helga bok. og suo skyt eg minu mäli til gudz ad eg var j vıȷdidalztungu um haustid þä Einar Oddzson og Petur Loptzson kom þar. og Jon Sigmundsson var utrymdur af sinu gotze. kuiku og daudu þar saman standandi. kom petur fyrst um morgunenn og hañs

menn. en Einar Oddsson kom epter middag. og hañs medfylgiarar. og þar epter voru gripner peningar Jons Sygmundssonar aller bædi uti og inni. æter og oæter. kviker og dauder. frijder og ofrijder. var Einar Oddsson hans menn og fylgiarar hier j fullan styrk. rad. hylle og samþycke ad þetta Bu Jons var upp tekit. ħann borinn ofrijki sialfur. suo hann matte huorke vera sialfrádur fyrer sig nie sie (!) sinum peningum: hier med hañs eiginn mann sleiginn og Beinbrotinn ad hans saugn. Suo og heyrdi eg Jon Sygmundsson lysa þvi optsinness fyrer mier ad alla þá peninga sem hann lagdi af vid Biskup Goskalk þa legde og liete (hann) ute naudigur.

Jtem voru þesser peningar j Vydedalztungu þá Joni var giord greind heimsokn og bus upptaka. af greindum monuum sem hier seiger j þessum reikning sem hier fyrer nedan stendur.

Jtem j fyrstu atta vætter skreidar.
tiutiger blauta skreid.
vij. vætter smiors.
vij sauder uppskorner.
vj. tunnukier med hvitu.
v. sængur.
xl. fiar annarz hundradz ungt og gamallt.
xl. lamba.
viij. kyr.
xij. uxar gamler.

Og til sanninda hier um settum vid fyrrnefnder menn ockar Jnnsigli fyrer þetta vitnisburdar bref hvert er skrifad var j sama stad midvikudaginn næsta epter festum Martini episcopi áre sidar enn fyrr seiger.

---

277. **30. Nóvember 1510.** **í Ögri.**

Vitnisburðr sex manna, að Björn Guðnason hafi boðið sín bréf og skilríki undir dóm Finnboga lögmanns Jónsssonar eða hans umboðsmanns á alþingi 30. Júní 1509, og síðan

undir dóm Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar, því að Finnbogi var þá ekki á þingi, en Vigfús hafi sagt þar nei til, en um haustið eptir (1509) hafi Jón lögmaðr Sigmundsson riðið í Vestfjörðu og dæmt um þetta efni, og þann dóm hafi Björn birt á alþingi 1510.

AM. Fasc. XL, 5, frumrit á skinni með hendi Björns Guðnasonar sjálfs, og eru öll (6) innsiglin fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 5702. Sbr. dóm frá c. 1. Nóv. 1509. Nr. 244.

Wm̄ lagabod biarnar gvdinasonar a alþingi.[1])

Þadh giorvm wær olafur gudmundzson þollefur[2]) avn̄olfsson eyvindur gvdmundzson lavgreittvmenn.[2]) ȷon eireksson ȷon siguazson og ȷon biornson godvm monnum witurligt med þessv worv opnu brefi adh wær medkennvntz. adh vær worum a͛ avgxararþingi vm svmarid lavgardaginn næsta epter petursmessv og pals[3]) þa lidit war fra gvds bvrd. ᴍ. d. og ɪx ᴀʀ. saum wær og heyrdvm a. ad biorn gvdinason las birtte og fram̄ bar. þa þar ȷ lavgriettvnni sin bref og skilrice er hann hafdi fyrir þeim odavlvm gavrdvm og gozvm og lavsa peningvm er hann hafdi erftt efter sinn favdr gvdina heitin ȷonsson og sinn modrbrodr ȷon biornsson hverra sal adh gvd nadi. Bavd greindr biorn̄ sig þa vnder lavg og dom vid hvern̄ mann sem til hans þættetz navckvd hafa (adh) tala og sin bref og skilrice vnder ransak og skodan lavgmannzins finnboga ȷonssonar eda hans vmbodsmannz og þeirra lavgriettvmanna dom nordan og vestan er hann til nefndi. Nv saker þess adh greindr finnbogi lavgmadur war þar þa ecki eda navckvr sa sem þar ætte lavgdoma ad nefna hans vegna. þa bavd opt greindur biorn sig og sin greind bref og skilrice vnder vthnefning vigfvss ellendzsonar. er þa war wors nadvg herra kongsins fovite ȷ ȷslandi og þeirra lavgriettvmanna dom er hann til nefndi vr lavgsavgn optgreinz finnboga lavgmannz þvi svo seiger riettarbot ꝁ[4]) kongs adh lavgmadur skvli nefna menn til doma ef hann er nærr. enn kongs vmbodsmadur ef hann er ecki

1) Utan á bréfinu með svipaðri hendi og bréfið. 2) Svo. 3) þ. e. 30. Júní. 4) Svo.

nærr. Enn greindr vigfvs sagde nei til adh nefna þar navckvrn dom yfer. et cetera.

J annari grein vm havsted epter ꝺ sama are vissu vær adh jon sigmundzson er þa war ordin lavgmann fyrir nordan og vestan reid j vestfiordv adh skipa malvm manna. kom tittgreindr biorn þa fyrir hann. birtte og fram bar sin optt greind bref og skilrice fyrir honum beidde hann og krafdi (ad) skoda þav og ransaka og svo dom yfer nefna hveria makt eda fvllkomed afl þav skylldv hafa. Nefndi þa greindr jon lavgmann xii dande menn til doms hverir ad dæmdv fyrr greind goz eign biarnar vera og vered hafa efter hans brefum og skilricium sem dandi manna domur þar vm gior uth visar. hvern ad opt greindr jon lavgmann efter sidan vrsk(v)rdadi lavgligan og obrigdiligan med avllvm sinvm greinvm og articvlis.

J þridiv grein vissv wær adh biorn gvdinason kom med þenna sama dom og vrsk(v)rd næsta ar epter til alþingis. birtte hann og vpp las þar j lavgriettvnni og lyste honum vnder goda menn og bad dandi menn ad minnatz hann bade jnnan vebanda og vtan. heyrdv wær þa avngan navckra klagan edr ꝺsakan giora adr greindvm birni. enn vær vissvm þo ad þeir menn worv þa þar a þinginv sem veitt havfdv honum adr klagan og asakan vm þessi goz heima j hieradi.

Og til sanninda hier vm settvm wær fyrr nefnder menn wor jnnsigli fyrir þetta vitnisb(v)rdarbref hvertt er skrifatwar J avgre j jsafirde festvm andre apostole anno domini ꝏ. d. x.

---

278. 9. December 1510. í Osló.

Dómr Kristjáns konungs hins annars um jarðabýti þeirra Þorvarðs lögmanns Erlendssonar og Gríms Pálssonar.

AM. Apogr. 717 með hendi Jóns Magnússonar bróður Arna „ex originali". Var samstungið við jarðakaupabr. 18/9. 1501. (DI, VII, Nr. 559). — Lagasafn Magnúsar Ketilssonar I, 141—145 á ísl. (með danskri þýðingu); þar er dómr þessi ártalslaus, en Magnús getr upp á, að hann muni vera frá 1512, og eptir því fer Jón Sigurðsson í Safni II, 99, og segir hann

dóminn dagsettan 13. Dec., og væri það rétt, ef ártalið væri 1512, en svo er ekki. Í afskript frá c. 1595 í AM. 914. 4to er dómr þessi, sem þar er á íslenzku, ranglega árfærðr til 1500.

Wij Christiernn mett gvdz nade rett arffing till Norigis riige vdvald konig till Da(n)marck och Sverige Hertug j Slezuig holstenn Stormarnn och j Ditmerskenn greffue j Oldenborig och Delmenhorstt gõr(e) alle vitterligtt att aar effter gudz byrdh millesimo qvingentesimo decimo mandaghen neste effter wor frue dag conceptionis j prouestegaarden j Oslo neruærendis oss Elskelige Herrar Jon̄n pouelsson prouest j Oslo. Erich Erichsson vor Lagmandh the sam̄estedz. Jon̄n Jonsson vor Lagmand j tonsberig och atter[1]) kræmer vor borgmester i Oslo. wor skickede for oss Toruard Ærlendsson Lagmand j jsland och benedictus griimsson boendi och j jsland om trætte deele och vuilie them emellom var om Jordgotz Eege[2]) deele peninge och Jordeskiffte som toruard och griim Benedictus hanss fadher hafde gio(r)th thennom emellom nogre aar forledne. Thedhe[3]) tha forne benedictus oss breff som ther om giordt var och mynderlige jndeholde mett alle articulis och beuising som giorde war om kiøøb jorde byutæ och peninge breff om ther om grandlige offuer lææsenn och randsachett gaffue tha forne thoruardh och Benedictus segh j Rætte for oss till rætt doom att sigess them emellom om forne maallempnæ och ath the ville holle och haffue j alle made huess doom[4]) som them kunne aff sighess for ræth doom. Waar tha thette wor fuld doom och samdrechtelige samtycht meth forne wort elskelige Raadh och gode mendh som næær oss wor Saa ath forne Benedictus hanss breff som for oss kom och thette wort domsbreff viidher hængt ær skall bliffue viidh fuld macht effter som thet jndholler och vdh wiiser j alle grææne och articulis om forne jorde byuthæ Eegedeele och peninge som giordh ær emellom Toruardh och forne grim j saa made att kunne thet findiss j noghenn made ath forne benedictus war forne thoruard noghen peuinge ytte(r) mer skyldugh for

1) Otta, MKet. 2) Eoge, Apogr. 3) Thnda (!) Apogr. 4) decu decu eða deom, Apogr. Jón mun ekki hafa getað lesið hér frumritið.

forne gotz tha skulle handh them bethale hannom. giffuitt aar dagh och stedh som for stoer scriffuit vndher vortt signet.
Relator dominus Rex per se.

---

279. **1510 [og síðar].**

Skrá um ítök kirkjunnar í Miklaholti í Miklaholtshreppi, rekamarkaskrá hennar og landamerkjaskrá staðarins.

Eptir kirkjustól Miklaholtskirkju í Landsskjalasafninu, með hendi síra Petrs Einarssonar c. 1740. — Skrá þessi er nokkuð misgömul. Elzti hluti hennar (frá 1510) sýnist vera landamerkin. Það, sem þar er fyrir framan, er yngra (frá 16.—18. öld).

Jtôk kirkiunnar i ôdrum lôndum.

hun a Eitt skips uppsatur og Bud i Sidra Skogarnes veidestodu. nefnd Holmur. Akurgierde þar vita menn ei af ad seigia. Skogartak i Langadal. Er olldungis foreitt fyrir longu.

Miklahollts kirkiu Reke.

Hun a skiffte Reka vid Sidra Skogarnes. hann biriast ad sunnañ. þegar fyrst siest Sidra Skogarnes Bær koma fram undañ þui sidsta siőarhollte þa menn standa i fiöru. Enn Endast til vesturs vid Grastoppaskier. þa biriast adal Rekapartur kirkiunnar og Endar þegar ȷtra Skogarnes Badstofa er siőnhending i stallinn a Vegghamrahlȷd þar sem hana hæckar.

Jtem a hun skiffte Reka i Kieflavȷk a mots vid kongspartinn.

Miklaholtts stadar Landamerke.

A mille Miklahollts og Hausthusa rædur kiellda su sem geingur utañ ad Holslæk fyrer sunnañ Saudabolshollt og mest er. sionhending ur henne fyrir nedañ Saudabolsholltt og Riupnahollt i kielldu þa sem geingur ut i Deildarlæk. fyrer nedañ Eingiagardsbrot.

Þa rædur Deildarlækur. ȷ mille Miklahollts og Sidra Skogarness upp til kielldu þeirrar sem geingur utañ ur deildarminne. sionhending ur kielldunne ut i Hrossabeinshollt.

Enn i millum ȷtra Skogarness og Miklahollts sionhending ur Hrossabeinshollte ut i Hrȳsholl t. sionhending ur Hrȳshollte og ut i Brattholl t.

J millum Laxárbacka og Miklahollts sionhending ur Bratthollte og upp i Þufnalækiarős.

i millum litluþufu og Miklahollts rædur Þufulækur.

Enn a millum Holslands og Miklahollts rædur kiellda su sem geingur ur Bláfene og sudur i Holslæk fyrer utan nonbrecku.

Anno Domini 1510.

[NB klofar a Þufulæk giora agreining um̄ landamerke mille Miklahollts og Litluþufu.[1])

---

280. [um 1510].

Skrá um það, hvernig Ögur í Ísafirði og Kirkjuból í Valþjófsdal er komið undir Björn Guðnason.

Landsbókasafn 787. 4to, bls 69—71, með hendi Odds Jónssonar digra c. 1680—1690. Skýrsla þessi er gerð eptir lát Guðna Jónssonar (1507), en hins vegar meðan Björn Guðnason er enn á lifi („og *nú er* Ögur komið undir greindan Björn"); er hún því frá árabilinu 1507—1517. Sbr. Nr. 277.

Øgur ȷ Jsafyrde þad Erfde fyrst Sigurdur[2]) effter fodur sinn Þord.[3]) þá Þőrdȳs[4]) effter födur sinn Sigurd. þá Gudnȷ Oddsson effter mődur sijna Þordȳse. þá Christȳn effter födur sinn Gudna. þá þeir Brædur Ormur Jőnsson og Páll Jőnsson effter mődur sȳna Christijnu halfft huorer. Keiffte þá Páll ad brődur sijnum Orme halfft Ögur og halfar ȷard-

1) [þetta er án efa athugaklausa síra Pétrs (c. 1740) við gömlu skrána. 2) Sigurðr Þórðarson (Kollsson) í Ögri og á Mýrum í Dýrafirði (1366—1394). 3) Þórðr kall (kollr) í Ögri (1363). 4) Þórdís kona Odds lepps.

iñar sem þar fylgdu med. er so heijta Kalfavıjk. Borg og Kleıjfar. og Gaf hann wid Aas ȷ Holltamannahrepp. er Solueig Biornsdotter atte. Enn effter þad þa er þau voru a Einu Råde Påll og Solueig. þå kom suo ad hun giorde sitt Testamentum. ad henni heijlbrigdri til vitsmuna og ȷ lijkama. og gaf sonum sıȷnum er hun atti vid greindum Påle. Jőne og Þorleıjfe. þessa sömu halfua ȷörd Øgur. Skard a skardströnd og Holl ȷ Bolungarvıȷk. huoriar fyrrgreindar (ȷarder) þeim voru tildæmdar ȷ prestastefnu. af þrimur heıȷdarlegum kennemonnum. og iij Erlegum leıȷkmonnum. med vors nåduga og velburduga Biskups Stephañs samþicke. og þar til adrar ȷarder og lausagots. so voru xijc. þeirra vm̃bodzmonnum til frials fiårsforrædes. Enn þeim brædrum Jone og Þorleijfe. sem fyr greıȷner. til æfeñlegrar Eignaʀ. þå kom so ad afftur vnder Pål fiell Øgur effter son[1]) hañs Jőn. þå Erfdu þeir brædur Gudne og Ormur brodur sinn Pål. þå Biorn Gudnason og hañs systur födur sinn Gudna. og nu er Øgur komid vnder greindañ Biörn. ad rettum lagaskifftum wid hañs systur et cetera.

Kirkiubol ȷ Valþiőfsdal er so thil komed ad þad atte fyrst Are Gudmundsson[2]) og gaf þad halfft Oddfrıȷde dottur sinne til kaups wid Halldőr Jonsson Bonda hennar. enn halfft sellde hann honum med samþicke sonar sijns Gudmundar Arasonar. og tok vid xxjc. ȷ Alfadal og ȷördena Vıȷfelsmýre. xviijc. xj Qugillde og iiij hesta. þå kom so ad greindur Halldőr gallt greindre Oddfrijde konu sinne halfft kirkiubool. fyrir xijc ȷ Þorfinnastödum. og xijc ȷ Grafargile og Tungu er fader hennar hafde henne aadur heiman gefed. med halfu kirkiuböle. og þå atti greind Oddfrıȷdur allt kirkiuből. þar effter gaf þesse Oddfrijdur þad syne sijnum Halldőre Hakonarsyne. med vpplæge og samþicke. Barna sinna Jőns Hakonarsonar. Gudrunar Håkonardottur. Jngebiargar Halldorsdottur og Bergliotar Halldőrsdotter. og suo þeirra Bænda Þordar[3]) og Þorsteins med þeim skilmala ad greindur Halldőr sonur hennar skillde Eignast xvjc ȷ greindu

1) Brodur, handr. 2) Ari Guðmundsson á Reykhólum (d. 1423). 3) Þ. e. Þórðr Sigurðarson í Haga (enn á lífi 1473).

Kirkiuboole ȷ hennar lǫggiafer. þa̋ Ɛrfde þad Vigdíȷ́s effter fǫdur sinn Halldőr. þa̋ Christijn Gudnadotter. effter dotturdottur síȷ́na Vigdijse. þa̋ gaf Christıȷn þad syne sıȷnum Pa̋le. þa̋ Ɛrfdu þeir brædur Gudne og Ormur þad. effter Brődur sinn Pa̋l halfft huǫr. þaa keiffte þad halfft Gudne ad Broodur síȷ́num Orme. og gaf hann vid Bæ a Snæfiallastrǫnd. og Ɛrfde þad Biǫrn effter fǫdur sinn Gudina.

---

## 281. 8. Marts 1511.

Vitnisburðarbréf um landamerki Þóristaða í Ólafsfirði.

AM. Fasc. XLI, 1 frumrit á skinni, og eru bæði innsiglin fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 277 (eptir þessu frumriti).

Þorustader j olafsfirdi.[1])

Suo feldan uitnisbyrd berum vid ȷon gunlaugson oc gvdmv(n)dr einarsson ad ion gvnlaugson sagdiz hafa bvid þriatie uettr a þorisstodvm. oc finboge bonde ionsson bygdi mier ut ı vasshorn oc rettsyñe upp ȷ fial(l) suo lengge sem hann lifde til en ion finnbogason sonur hans sidan. en gvdmvndr einarson sagdiz hafa bvitt ȷ garde ȷ olafsfirde vpp æ tolf tolf manade[2]) oc sagde arnfinnr bonde ionsson hefde by(g)tt sier svdr í vashorn. þa frette eg hann ad huort hann villde ecke byggia mier svdr ȷ syrstein en arnfinnr sagde þar nei fyrer þvi vid finboge brodir mín hofum giort skipte æ med ockr ad huǫr iordin skilde jtavllvlavs hvor vid adra ad gardvr skilde eigga selfavrina fra þórizstodvm fram a dalin en þorirstadir vt i vasshorn oc rettsyñe vpp ȷ fial(l). suo og sagde ion gvnlavgson ad fyrnef(n)dir brędr hefde [lyst þessum skiptum[3]) æ[4]). med iordvm sínnvm fyrer[5]) sier. oc til sanenda hier vnı settvm vid fyr nef(n)dir men ockr insigle fyrer þetta vitnisbvrdarbref er skrifat var æ lavgar-

---

1) Utan á bréfinu með allgamalli hendi. 2) þ. e. Arnfinns. 2) = 12 ár. 3) [upphaflega skrifað: „giort þesse skipte", en svo leiðrétt. 4) Svo ǫleiðrétt; er ofaukið? 5) Svo fullum stöfum.

dagin næsta fyrir[1]) gregorivs ɱesso arvm epter gvds ɱ ccccc oc ellefu ar.

---

282. 12. Marts 1511. í Vatnsfirði.

Loptr Magnússon selr Ólafi Eiríkssyni átta hundruð í jörðunni Nesi í Grunnavík, og greiði Ólafr andvirðið í þarflegum peningum Guðrúnu systur Lopts, en Loptr og Ólafr kvitta hvor annan.

AM. Apogr. 985 „Ex originali Sæmundar Magnussonar a Hole i Bolungarvik". Innsiglið var fyrir bréfinu.

Þad giore eg loptur magnusson godum monnum kunnegt med þessu mínu opnu brefi ad eg medkennunzt ad eg hefi sellt nelkeñdum dandimanne olafi eirekssyni atta hundrud ȷ iordunne nesi sem liggur ȷ grunauikur kirkiu sokn med fullu upplagi og uilianligu samþycki kattrinar þorleifsdottur modur minnar med ollum þeim gognum og giædum sem greindum ȷardarparti æ ad fylgia ad fornu og nyu ad ollu til tecknu enn ongu fra skildu honum til fullrar eignar og frials forrædis med suo felldum skilmala ad fyr skrifadur olafur skal greida gudrunu systur minni suo mÿkla þarfliga peninga ad upphæd. sem hann ber upp minna uegna ȷ greiñdri ȷordu og ad þessu holldnu gef eg adurnefndur loptur opt skrifadan olaf ollungis kuittañ og ækiærulausan fyrir mier og ollum minum epterkomendum um þessarar ȷardar uerd. Somuleidis gaf titt nefndur olafur mig ollungis kuittan um peninga skrifadrar gudrunar systur minnar suo framarliga sem þessi ockar skilmali hielldizt ad logum.

For þessi ockar skilmali fram ȷ uatzfirdi miduikudaginn ȷ ymbruuiku æ langafostu ad hia ueranda sira ȷoni eirekssyni og moɪgum odrum godum monñum.

Og til sanninda hier um setta eg mitt ȷnsigli fyrir þetta bref. Skrifad ȷ sama stad. deigi sidar enn fyrr seiger. arum epter gudz burd ɱ. d. og xɪ ar.

---

1) Svo fullum stöfum.

283. 12. Marts 1511. í Skálholti.

Stephán biskup í Skálholti leggr bæina Ánastaði og Hamrenda á Mýrum til sóknar og gjalda til Hjörseyjarkirkju, og leyfir Helgu húsfreyju Guðnadóttur að gera kór og kirkju í Hjörsey undir einu þaki, og sé aukið grjót í veggi.

AM. Apogr. 4186 „Epter originalbref(e) á kalfskinne fra Halldoru Erlendzdottur i Bolstadahlid", og er afskriptin staðfest í Skálholti 11. Mai 1711 af Árna Magnússyni, Þórði Þórðarsyni og Magnúsi Einarssyni.

Vier Stephan med Gudz nad biskup i skalhollte giðrum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. at hustru helga guenadotter[1]) hefer sagt oss ad þeir tueir bæir er suo heita anastader og hamreñdar liggia laṅgt ȷ burtu fra soknarkirkiunne alltanesi. Enn erv ȷ nalægd uid hesseẏar kirkiu og þat hier med at aunr ȷorden af þessvm tueimr er eign greindrar hesseẏiar kirkiu. Suo og er oss og sagt at aller frafalizt[2]) ad bua a þessum ȷordum fyrir saker leidarleingdar þa er þeir skulv sækia sinar skẏlldur. þui hofum [ui]er med g[od]ra manna rade skipat fẏr nefndar ȷarder til kirkiunar ȷ hersseẏ med þeim hætte at þeir sem æ þeim bua skulu sækia þangat tider og allar sinar skẏlldur. Somuleidis giallda þañgat sinar tiuñder og adra tolla hier epter. ȷtem hofum uier og gefit fyrnefndre hustru helgu gott orlof til at lata giora vnder einu þake kirkiuna og korenn ȷ adur skrifadre hersseẏ og auke steinenum ȷ kirkiuueggena meir enn adur er. Og til sannenda hier um festum uier uort ȷnnsigle fyrir þetta bref skrifat ȷ skalhollte. festum gregori pape anno domini. ᗰ°. d°. xi.

---

284. 27. Apríl 1511. á Þingeyrum.

Vitnisurðr Jóns (Þorvaldssonar) ábóta á þingeyrum um reka og rekamáldaga klaustrsins á Stað í Reynisnesi.

---

1) „So stendr hier skirt *guena*. enn ecke *gudna*". (AM). 2) Svo.

AM. Fasc. XLI, 2, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 2978.

bref. firir rekum j gaugstadabæse.[1])

Vier broder jon med Guds nădd ăboti ă Þingeyrum giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ath j þann tima sem uær uorum radsmadr ʀeynisness stadar klausturs saum uier optsinnis og yfer lasum þess sama klausturs bref og skilʀiki imillum annara greina .orda og atkuæda so latandi ath kirkian ă Stad j ʀeynenesi ă fiordung j land ʀeka j millum gaukstadaær og forsær. enn allan uidʀeka j litlabasi firir utan gaukstadaă. Enn gaukstader eiga j skefelsstada jord hus stodu og fiarbeit uestan fram j asinn. Jtem ă ʀeynenes stadr halfan uidʀeka um oll hop. Enn fiordung j hualʀeka bædi um hop og keflabacka. En hier til ath auk gaf jon med hrafni syni sinum halfan hualʀeka og vidʀeka frå klett ut ur midri sanduik og ut til mikla steins. Enn attung j hualʀeka um allaʀ keflabacka. Efranes æ allan uidʀeka j bási þeim sem firir jnnan er holknă En nedra nes ă eingia teig upp med nesæ. War þetta haft og balldit firir sannindi þav fimtan ær sem uier uorum heimilisfaster. æ adr sogdu klaustri. Og so uar oss sagt af oss ellri monnum bædi lærdum og leikum at halldit hefdi uerid um þeirra minne. Og til sanninda hier um settum uier uort jnnsigli firir þetta bref er skrifat uar ă þingeyrum j hunavazþingi. Dominica jn octaua pasche anno domini ɱ⁰ d⁰ decimo primo.

---

285. **8. Maí eða 18. September 1511. á Eyri í Bitru.**

Dómʀ útnefndr af Jóni lögmanni Sigmundssyni um, að Arnór Finnsson kongs umboðsmaðr í Þórsnessþingi sé skyldugr að taka Jón Halldórsson, er ræmdr var af því, að kona hans hefði látizt af hans völdum, og flytja hann bundinn að Staðarfelli, heimili Sturlu Þórðarsonar kongs umboðsmanns í Strandasýslu, sem þá var norðr á Ströndum.

[1]) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

Dómabók Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni í 4to bls. 81—82, skr. c. 1608.

Domur vm kongsfanga fyrir vont rykte.

Þad giorum vier Sigurdur Juarsson. Haflidi Juarsson. Brandur Jonsson. Biarni Jonsson. Sueirn hrafnsson og Helgi Helgason. Godum monnum viturligt. at þa ed lidit var (fra) hingadburd vors herra Jhesu christi m. d. xi ar fimtudægginn næstañ eptir Crossmesso ꝗ Eyre j Bitru vorum vier i dom nefndir af ærligum dandimanni Jone Bonda Sigmundzsyne laugmanni nordan og vestan ꝗ Jslandi ad skoda og dæma. huorsu fara skylldi vm þann mann sem Jon heiter og var halldorsson og greindur Jon Sigmundzson hafdi tekid og lyst kongsins fañga. Eptir þui vondu ordi og Bygdar rýmt. sem ꝗ honum liek. ad Herdis Jonsdotter kona hans mvndi hafa latist af hans vaulldum og audrum fleirum vondum lijkindum sem þar fram̃ komu hier til. Jtem j annari grein vissum vær at Stulli Boñdi Þordarson hafdi kongs vmbod J millum Geirholms og hrutafiardarar. Enn hann var nu nordur ꝗ Straundum og huorgi nær til þing at setia og dæma lata vm þetta mal. Þess annars ad vær vijssum ecki og Enginn annar sa þar var. ad greindur Stulli hefdi ecki lyst edur ætti nockur laugheimili j sagdri syslu. sem til bar. Þess þridia ad greindur Jon laugmadur var vegfarandi. og matti ecki suo leingi (dvelia) sem laug geingi ꝗ þetta hans mal. Þui fyrir allar þessar greiner. dæmdum vier fyrrnefndir domsmenn Arnor finnzson kongz vmbodzmann j þornesþingi skylldugan ad taka þennañ mann Jon Halldorsson þar þa og flytia heim til Stadarfellz ꝗ Medalfellzstraund a heimili Stulla Bonda Þordarsonar og setia hann þar nidur bundinn og seigi af sijna Abyrgd. og vera þa vid skildur ad saklausu huat af honum verdur sijdar. Enn vær dæmdum optnefndan Stulla Þordarson þar skylldugañ vid honum ad taka edur taka lꝗta og alla abyrgd ꝗ honum eiga sem laug votta. og hann skylldugañ ad hallda honum j fullu fangelsi þar til og suo leingi sem lauglegur domur fellur ꝗ þetta hans mal. huort hann er þess valldur edur eigi þar sem greindur laugmadsetur þing til. Hier med dæmdum vier adur skrifadir menn Jon

halldors son ʀiett fangadañ fyrir adur sagt vondt ʀyckti og ʀiett sakalaust ad ʙinda hann og fiotra sem adra kongs fanga vnder laug og dom. Og til sanninda hier vm setium vier fyrnefndir menn vor ȷnnsigli fyrir þetta domsbref skrifad ȷ saugdum stad. deigi og ari sem fyrr seigir.

---

286. **14. Maí 1511.** **á Hólum.**

Ólafr Filippusson selr með samþykki Einars sonar síns Gottskalki biskupi á Hólum jörðina Auðkúlu í Svínadal fyrir jarðirnar Ytri- og Syðri-Borg í Vestrhópi, með þeim atriðum, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XLI, 3, frumrit á skinni. Öll (8) innsiglin, nema brot af einu, eru dottin frá. — AM. Apogr. 3421.

Kaupbref vm audkulu og borger tuajr j vesturhopi.[1])

Þath giorum uęr ȷoñ prestur þorgilssoñ Ɛinar oddzsoñ ȷoñ Ɛinarssoñ ȷoñ þorgeirssoñ grímur ȷoñssoñ gudmundur ȷndridasoñ halldor sigurdzsoñ og halldor ȷonssoñ leikmenn godum monnum uitanligt med þessu uoru opnu brefi þa er lidit uar fraa gudz burd þusund. fimm hundruth og ellefu aar. aa holum j hialltadal manudaginn nesta fyrir halluardzMesso[2]). worum ueer j hiaa saaum og heyrdum aa ord og handaband þessara manna. wors uerduga herra og andaligx fodur gothskalks med guds nad biskup(s) ath holum af einne alfu Ɛnn olafs filiphussonar og einars olafssonar. sonar hans. af annare. aller j einu handabande. ath suo firir skildu. ath nefndur olafur sellde med samþycke uplagi og ȷayrde einars sonar sins fyrr greindum herra biskup Godskalk ȷordina alla audkulu er liggur ȷ suinadal. med aullum þeim gognum og giædum sem þessare greindre jordu fylgir og fylgt hefer ath fornu og nyiu og fyrr nefndur Ɛinarr sonur hans uar fremst eigande ath ordinn. j erfd epter solueigu biornsdottur modr modur sina. epter þui sem godra manna domur og logmanz urskurdur þar um giorr ut uisar til fvllrar eignar og ęfin-

1) Utan á bréfinu með allgamalli hendi. 2) þ. e. 12. Maí.

ligrar. og frials forredis undan sier og sinum erfingium. enn uńder biskup Godskalk og heilagæ kirkiu. Hier æ motj sellde optnefndur biskup godskalk olafe filippussyne tuęr jarder er suo heita ytri borg og enu sydre er badar liggia j uestra hope j uidedal i breidabolsstadar kirkiusokń. med aullum þeim gognum og gięđum sem þessum fyrr greindum jordum fylgir og fylgt hefur ath fornu og nyiu. og biskup Gothskalk uar fremst eigande ath ordinn og eigi er adr med logum fra komith. undań sier og heilaga.[1]) kirkiu. Enn under einar olafssoń og hans erfingia til ęfinligrar eignar og frials forrędis. Skylldu og huorer firir sigh suara lagariptingum æ þeim jordum er selldu. Enn þeir hallda til laga er keÿptu. skylldu huorer afenda audrum fyrr greindar jardir ath næstum fardogum. hier til lukte olafur philippussoń biskup Godskalk j ʀeikningsskapp og jnstędu kirkiunnar æ audkulu. tuęr jardir er suo heita grund og hollt er badar liggia j suinadal j audkulu sokń og þar til. x. malnytu kugillde. enn allań þann ʀeikningsskap og kirkiugodz sem meire uar enn þetta. þǿ gaf biskupin kuittań og akięrulausań einar olafsson og hans erfingia þar um enn vndirbatt sigh sialfań ath suara kirkiunne þar fyrir suo framt sem jordin audkula gengi ecki af honum med laugum. eń allur ʀeikningskapur okuittur sem ath fornu hefir uerit. ef hun kynne af ath ganga. kynne og suo at uerda ath biskup gothskalk gieti ecki halldith jordunne audkulu fyrir ofrikis sakir. þǿ skilde hann sier aptur sinar jardir borgirnar badar og hann skyllde ʀiettiliga mega at sier taka domlaust. vęri og þęr jarder teknar med ofʀiki[2]) af olafi er biskupin sellde honum þæ skyllde biskupin fǿ honum adra peninga jafńgoda. enn eiga þar sialfur sokń æ jordunum. Ogh til sannińda. hier um. settum uier fyrr greinder menn uor jnsigli fyrir þetta jardakaups bref. er skrifath war j sama stad og are. tueimur dogum sidar enn fyrr segir.

---

1) Svo. 2) hér stendr „teknar" aptr í frbr., og er því ofaukið.

287. **25. Maí 1511. á Öndórsstöðum.**

Dómr útnefndr af Grími Pálssyni, kongs umboðsmanni í Þingeyjarþingi, um réttaryrði Kolbeins Haldórssonar við Pétr Tumason.

AM. Fasc. XLI, 4, frumrit á skinni. Fyrir bréfið hafa aldrei komið fleiri en 4 innsigli, og er nú tvö af þeim dottin frá. — Gömul afskript af þessum dómi er í ÍBfél. Khd. 125.A 4to bl. 97, skr. c. 1680 eða fyrri.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heÿra senda ꝋagnus þorkelsson ȷon þorsteinsson ȷon þorlaksson ȷon magnusson þorkell augmundzson og magnus ionson Q. G. og sina kunnigt giorandi at þa er lidid uar fra guds burd ꝋ. d. og .xj. ar a manudagin nęsta efter halluards ꝋesso[1]) um uorid a helgastodum j reykiadal a þingstad rettum uorum uier j dom nefnder aff ęrligum manni grime palsÿne er þa hafde kongsins syslu og umbod j þingeÿiarþingi at dęma um þa akęru er petur thumasson kęrde til kolbeins halldorssonar um þau rettarÿrde og sakargipter sem kolbein halldorson hafde talad uid petur thumasson. uar þar stefnan upp lesin med suo latande sokum. xu. fullrettisordum og. uj. halfrettisordum. kom fram firir oss bref med tueggia manna inciglum at suarin hefde uerid oll þessi ord. þui dęmdum uier kolbein skÿlldugan at giallda petre halfa fimtu ꝋork j fullrette a hueriu fullrettisorde en konginum. iiij. ꝋerkr. en. ij. merkr a halfrettisordum en petre halfan rett. en um þa sauk sem kolbein kerde til petrs at hann hefde gripid firir sier hest upp fra krossꝋesso um uorid og til olafsꝋesso en petur uęndizt lane at. eda giof en ongum uitnum. þui dęmdum vier kolbein skÿlldugan at sueria eid þar firir sÿslumaninum ad hann hefde huorke gefid ne led ne leingre heimilld a giort en atta daga a hestinum en at eidnum unnvm dęmdum uęr kolbeine slikan rett sem login ut uisa um uinnumisse en þau sakferle og ordbragd ssem[2]) kolbeinn kęrde til peturss dęmdum uęr kolbein skylldugan at leida tuo loglig uitne hier a þinginu eda ȷnnan halfsman-

1) þ e. 19. Maí. 2) Svo.

adar at petur thumasson hefde slikum ordum uid hann talad en at þessum uitnum leiddum og eidum suordum dęmdum uęr slikan rett kolbeine af petre thumassyne og kongdomenum a hueriu fullrettisorde sem logbok ut skýrer en um saul sie gollden j fardogum hin fýrstu en at mikels-messo j haust aunnur þridiu at audrum fardogum fiordu at audru hauste. Og til sanninda hier um settum uier fýrr nefnder domsmenn uor incigli firir þetta domsbref giort a aundorstodum j reýkiadal jn festo urbani paua martiris a sama are ssem ffýr sseger.

---

288. 25. Maí 1511. á Þverá.

Vitnisburðr, að Guðrún og Helga Helgadætr gefa Narfa Ingimundarsyni umboð til að selja Brandi Pálssyni jörðina Gautastaði í Fljótum, og að Narfi hafi svo gert, fyrir tíu málnytu kúgildi og tíu hundruð í þarflegum peningum.

Skjalabók Landsskjalasafnsins 94. 4to bl. 24—25 með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600.

Hier Epter fylgia Gautastada Bref.

Þad giorum uier Arnbiorn Þoruardsson. Bauduar Magnusson. Hallur Jonsson og Bæringur Jonsson Godum monnum kunnugtt med þessu voru opnu Brefe ad æ Þueræ j Skagafirde. vorum vier j hia saum og heyrdum æ ord og handsaul þessara manna Gudrunar Helgadottur og Helgu systur hennar af eirni halfu. Enn Narfa Jngemundssonar af annarj ad suo fyrir skildu ad þessar greindar systur Gudrun og Helga feingu adur nefndum Narfa Ingemundarsyne fullt og laugligt vmbod med handabande til að selia Brande Palssynj jordina Gautastade j fliotum er liggur j huappstada kyrkiusokn er þær hielldu sier til arfs og eignar fallit hafa epter sinn faudur helga heitinn vigfusson. suo og þar þa samstundis saum vier adur nefndir menn og hia vorum ad fyrnefndur Narfe sellde med handabande adur nefndum Brande palssyni til fullrar eignar og frials forrædis þessa

somu jord Gautastade med ollum þeim gognum og giædum sem þessare greindre jordu fylgir og fylgtt hefur ad fornu og nyiu og þær og þeirra fader hafde fremst eigande ad ordit. hier j mot skillde Brandur giefa x malnytu kugillde og leigia onnur .v. og þar til xc j odrum þarfligum peningum sem Narfa lijkade ad taka.

Samþyckti þennañ giorning vmbod og kaupskap orný asgrimsdotter kuinna opt nefnds Narfa en moder þeirra Gudrunar og helgu adur nefndra. skildu þær sier aptur suo vordna peninga af Narfa Jngemundssyni sem fyrir jordina kom edur sijnum vmbodsmanne ef verda kynni. Skillde þær edur þeirra vmbodsmadur suara lagaaiptingum æ þessari jordu gautastodum enn Brandur hallda til laga og ad sier taka ad þeim fardogum er þa voru. for þesse giorningur og kaupskapur frañ æ sunnudaginn næstañ epter vppstigningardag vm vorit þa lidit var fra Guds Burd ꝏ d xj ar.

Og til sanninda hier vm̃ setium vier vor Jnnsigle hier fyrir þetta jardakaupsbref.

---

**289.** **7. Júní 1511.** **í Snóksdal.**

Áreiðardómr Arnórs Finnssonar, kongs umboðsmanns (í Þórsnessþingi), um landamerki Hólmlátrs á Skógarströnd og Gunnarsstaða.

Eptir frumriti á skinni í Frumbréfasafni Jóns Sigurðssonar Nr. 8, og er skinnbréfið skorið sundr yfir um þvert á tveim stöðum, og þar hefir verið kliptr þveingr úr bréfinu, svo að nokkra stafi vantar í í hverja línu. Þetta má þó fylla eptir gamalli afskript bréfsins á pappír, gerðri á Drangaþingi á Skógarströnd 15. Maí 1694 og staðfestri af Thomasi Pétrssyni, Rögnvaldi Ásmundssyni, Þórði Þorleikssyni, Grími Jónssyni og Vigfúsi Árnasyni. Á þá afskript er ritað: „Þessi Dómur var upplesinn fyrir Manntalsþings Réttinum á Dröngum þann 31. Julii 1819.

J. J. Bonnesen“.

Ennfremr: „Upplesid fyrir abúandanum Eiriki Eirikssyni á Gunnarsstodum þann 19 Augusti 1819 af ockur Biarna Jonssyni, Gudbrandi Magnussyni og Joh. Sigurdssyni“.

holmlaturs bref.

Þat giorum uær [Gudmundur f]innsson. ormur illugason. jon suarthofdason. egill jonsson. þordr dadason og a[rne] jonsson godum monnum uiturligt med þessu uoru o[pnu brefi. a]t þæ er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi. ꝏ d og ellifu ær. fôstu[dag]in næsta fyrir huitasunnv[1]) uorum uær til[krafdir] af sigurdi bonda dadasyni ok helga jonssyni. suo og af arnori finzsyni kong[z vm]bodzmanni. at rida æ landamerke j millum [holmlat]urs æ skogarstrond[2]) er sigurdr dadason atti og gunnarsstada er helgi jonsson ætti. u[ar] helgi jonsson þar stefndur af sigurdi dadasyni [á sagdan d]ag æ fyrr greind landamerki til logligs andsuars vm sagdt mæl. fyrir greindan arnor kongs umbodzmann vndir þann dom sem þ[eir dandizmenn] dæmdi sem hann til nefndi huad rett og saunn landamerki skylldu uera æ millum sagdra iarda. nef(n)di greindur arnor oss j dom [hier um og kr]afdi oss fullnadardom æ at leggia huad gliufuræ skylldi uera at rettu og landamerkia æ uar kôllut millum opt greindra ja[rda. J fyrst]v kom þar fram opit bref med godra manna jnsiglum. huort sigurdur bondi fram bar [ad] gliufuræ uæri riett landamerki millvm [optgrein]dra jarda. huert giort uar fyrir. viij. uetrvm og lxxx.[3]) þess annass at uær æ [rid]um bædi hit nedra og efra wt og austur a[llt á fiøl]l fram. og leizt oss ollum þat gliufuræ riett uera sem fellur wr arnard[al og] allt til siofar. enn eingin ônnur. þess þ[ridia ad h]elgi hafdi eingin bref edr bíjvising hier æ mote. þui dæmdvm uær [fýr] nefnder domsmenn med fullu doms at[kuæde þ]a saumu æ sem fellur wr arnardal og allt til siofar riett landamerki [ve]ra og uerit hafa millum sagdra iarda holmsl[æturz og G]unnarsstada. allt fra sio nedan og j uotn fram æ fioll. enn ong[ua l]æki edr kuislir adrar.

samþyckti [med oss þe]nna uorn dom arnor finzson kongs vmbodzmann og setti sitt jnnsigle med u[orum] jnsiglvm fyrir þetta domsbref skrifat j snokxdal [j middø]llum æ sama ære degi sidar enn fyrr seigir.

1) þ. e. 6. Júní. 2) skodarstrond, frbr. 3) þ. e. 1423.

290. **20. Júní 1511.** **á Hraunum.**

Gottskalk biskup á Hólum kvittar Jón Oddsson eldra og Jón Oddsson yngra, annan af fimm, en annan af fjórum barneignum með meinalausum konum.

Bisk. 3. Fol. bls. 517, með hendi Hákonar sýslumanns Gislasonar 1641—1642.

Kvittantia tueggia Jona Oddzsona fyrer Barneigner aff Biskup Gottskalcki.

Wier Godskalck med Gudz nǻd Byskup a Holum giorum þad godum monnum kunnugt med þessu woru Opnu Briefe. ad wier hofum giort og giefid. Jon Oddsson hinn elldra og Jon Oddsson hinn ẏngra. aullungis kuitta og ǻkiærulausa fyrer oss og worum Epterkomendum kyrkiunnar formonnum. vm þær Barneijgner er þeir medkiendust fyrer oss. ad þeir hefdi ǻtt vid meịnalausum kvinnum. Jon Elldri vm fimm Born enn Jon ịngri vm fiogur. oc so þeirra Barna mædur gieffum wier kuittar vm þessar fyrrgreindar Barna eigner fyrer oss og worum Epterkomendum. og til fullrar audsyningar og sanninda hier vm. setium wier wortt secretum fyrer þetta kuittunar Brief. giort ǻ Hraunum ị fliotum hinn næsta dag epter festum corporis Christi anno Domini ꝏ°. D°. xı°.

---

291. **23. Júní 1511.** **í Árnesi.**

Dómr útnefndr af Sturlu Þórðarsyni, kongs umboðsmanni milli Geirhólms og Hrútafjarðarár, um ákæru Sturlu til Jóns Jónssonar um ásetu og yrking á jörðu konu sinnar, Guðlaugar Finnbogadóttur, þriðjunginum í Krossnesi.

Dómabók í 4to bls. 107—109, úr safni Jóns háyfirdómara Pétrssonar, skr. um 1630—1640 (= a). — MSteph. 62. 4to bl. 26b—28a skr. um 1650 með hendi Hákonar sýslumanns Gislasonar (dómrinn hér heill, en afbakaðr á stöku stað). — ÍBfél. 125B. 4to nr. 107 (fúið) skr. c. 1680 (styttr). Ágrip, alls ónýt, af dómi þessum eru víða í dómabókum, stundum með brjáluðn ártali (1533 eða 1599).

Domur ef madur situr ä jordu otekinni.

Ollum̄ monnum sem þetta Bref sia edur heÿra sendum vier Asmundur Clemensson.[1]) Heming[2]) Þordarson. Jon Þordarson. Jon Salamonsson. Jon Biarnarson og Jon Jonsson q(uediu) g(uds) og v(ora) k(unnigt) g(iorandi) ad þa lided var frä hingadburdi vorz herra Jesv Christi 1511 ár manud(aginn) næstañ fyrer [Johannis Baptiste[3]) j arnesi j trekyllisvijk[4]) á þijngstad riettum vorum vier j dom nefnder af velbornum manni Stullu Þordarsÿne. er þá hafdi herra kongsinz sÿslu millum geirholmz og hrutafiardarár. ad skoda huoria magt. [edur afl[5]) hafa skilldi su ákiæra er Stulli Þordarson klagadi til Jonz Jonssonar. ad hann hefdi haft og halldid yrkt og vnned þann þridiung j jordunni Crossnesi. er Stulli Þordarson hiellt eign kuinno[6]) sinnar. gudlaugar fim̄bogadotter. eptir þeim brefum sem hann liet þar vpp lesa. huor þad jnni hielldu. ad fim̄bogi Jonsson gallt gudlaugu dottur sinni þridiung j krossnese. og suo þridiunginn j melum̄ j nordurfirdi. og selianese og þridiunginn af þeim xij kugilldum er þar stodu med fyrr greindum jordum eptir þui sem giorningzBref Narfa Sigurdssonar og Sigurdar Narfasonar þar vm̄ giort vtuijsar. Þui j firstu grein dæmdum̄ vier stefnuna logliga og manninn[7]) rietteliga[8]) fyrerkalladañ og Beiddum[9]) vier fyrrnefnder dómzmenn adurnefndan Jon Jonzson þar[10]) þá fram̄ ad[11]) leggia fyrir oss. ef hann hefde nockud skial edur beuijsing. þad honum mætti til bata koma fyrir adur greindar sakargipter Stulla Þordarsonar edur vænast [þeim nockrum vitnum[12]). er honum mætti til bata koma. enn hann sagdest þar aungu fyrir vænast kunna[13]). vtan Teitur B(ondi) Þorleifzson hefdi bÿgt sier[13]) jordina krossnez og kugilldiñ er þar med stodu.

---

1) Svo öll, — sem og er rétt, — nema 62, sem hefir: „Philemonsson“ (!) 2) 62; Hening *a*; Hemingur, hin. 3) [Johannis Baptiste (þ. e. 23. Júní) 62. Episcopi Johannis (sem þó er 21. Apr. og annar í páskum!) *a*; 4) leiðrétt; *a* hefir „kietistlisvijk“; 125B hefir: „Reykiaholltzvijk“ 5) [oc valld 62; 6) konu 62; 7) Jon 125B; 8) logliga 62; 9) bádum 62. 10) 62; þau *a*. 11) b. v. 62. 12) [þui nockru 62. 13) b. v. 62.

Nu sokum þess ad þar kom fram Bref og Biiuiising[1]) vnder gődra manna Jnsiglum. huor suo jnnehielldu ad Narfi Sigurdsson vegna sona sinna og Sigurdur Narfason sinna vegna gulldu fimboga Jonssyne og Teiti Þorleifssýne þessar adur skrifadar jarder og kugilldi j þann fieskada og mismun er þeir vrdu þeim vm[2]) skillduger. en fimbogi Jonsson gaf og gallt gudlaugu dottur sinni ut af sier adurnefndan þridiung[3]) j jordunum og kugilldunum og fyrrnefndur Stulli Þ(ordar)s(on) hafdi adur ad sier tekid. hennar vegna. bygdi og bældi þridiunginn j þrattnefndum jordum og kugilldum uppa iiij ăr edur leingur suo ad[4]) einginn ătaldi. þess og annarz ad þar kom fram vitnisburdur[5]) ad Stulli Þordarson hafdi ridit heijm til Teitz Þorleifssonar og bodit honum til riettz lagaskiptiz ă tijttnefndum jordum og peningum. en hann sagdist alldrj skillldi[6]) med þeim giora. og þar mætti huer hafa og hallda sem villdi fyrir sier. og þar skilldi hann alldrj vpp ă tala[7]). vissum vier og fyrir full sannendi. ad þesser adurskrifader peningar hafa alldrj sokter vered af optskrifudum Stulla Þordarsýne med logum. Þui dæmdum vier þridiunginn j ollum tijttnefndum jordum og kugilldum gudlaugu fimbogadottur til fullrar eignar vera og vered hafa sijdan fader hennar gaf henni þad[8]). Medkendest og þar fyrir oss adurskrifadur Jon Jonsson ad fyrr nefndur Stulli hefdi fyrirboded sier ad hafa og hallda þad sier til heyrdi j jordum og kugilldum upp ă ij ăr. En hid iij ăred hefdi hann sent sinn vmbodzmann ad logfesta og kirsetia og forbijoda bædi halld ă jordum og penijngum og fyrir þann[9]) skulld ad suo greiner vor Landz L(aga) Bok ad þar sem madur situr ă jordu otekinni. þă ă landzdrottinn lőd alla. þui dæmdum vier optskrifader L(ogriettu)m(enn) tijttnefndan Jon skilldugan ad giallda þrătt[10]) nefndum Stulla Þordarsýne tuo falldar lanskyllder vppa þessi iij ăr og tuofallt landnăm og ij falldar leigur vppa ij ăr. en þad iija ared. sem hann liet beidast og krefia kugilldanna. þă dæmdum vier ad þau skilldi giallast med fullum laga avexte. Skillde tijttnefndur Stulli Þordarson eignast þridiung j aullum daud-

1) — ar 62. 2) b. v. 62. 3) fiordung (!) 62. 4) 62. 5) — ar Bref 62. 6) sl. 62. 7) telia 62. 8) þær 62. 9) þá 62. 10) 62; tijtt *a*.

um peningum á optskrifudum jordum og þær[1]) riettiliga mega ad sier taka. enn landskilldernar og landnam þar med leigur og laga auoxt skilldi Jon Jonsson giallda ad næstum fardaugum Stulla Þ(ordar)s(yne) eda hanz um̄bodzmanni.

Samþ[yckti þennan̄ vorn dom[2]).

---

**292.** **27. Júní 1511.** **í Rifi.**
**8. September 1512.** **á Reykhólum.**

Vitnisburðr, að Einar Þórólfsson játaði, að hann hefði í umboði Diðriks Pínings tekið við tveim lestum skreiðar af Þorleifi Björnssyni í skuldir Solveigar Þorleifsdóttur til konungs, og fyrir þá skreið hefði Solveig feingið Þorleifi hálfar Akreyjar til fullrar eignar.

AM. Fasc. XLI, 5, frumrit á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 5720.

vm ackureyar.[3])

Þat giorvm vid brandr einarsson og þordr arnbiarnarson godvm monnum kvnnigt med þessv ockrv opnv brefe at arvm efter gvdz bvrd þvsvnt fim hvndrvth og xj ær favstvdagin næstan fyrir visithacionis marie vorum vid stadder j rife æ snefellsnese j hols kirkiv sokn̄ hia vidthale þessara manna er so heitha einars þorolfssonar og biarnar þorleifssonar. var þeirra thale so hattad at biorn þorleifsson̄ frette einar efter hvort at hann hefde ecki nockura skreid borid vpp af favdr sinvm þorleife biornssyn̄e vegna pinings heithins og bad hann vel giora og bera þar vott vm̄. en greindr einar sagdizt þat vil(ia) giora og medkendizt þæ fyrir ockur og morgvm avdrvm er þar vorv i bvdine bæde jnlendzker og vtlendzker at þorleifr heithin hefde lathed afgreida sier thvær lester skreidar vegna direk piningħs. j þat gialld og skvllder sem solveigh þorleifsdotter hafde lofad honum kongsins vegna. og firir þa savmv skreidina hefde

1) þá 62. 2) [b. v. 62. 3) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

og greind solveigh feingit nefndvm þorleife biornssyñe thil fvllrar eignar halfar akvreyiar er ligia ȷ stadarhols kirkiv sokñ og hier vm̄ sagdizt hann vilia fvllnadar vithne bera opthnefndum birne nær sem hann villde sier til seigia. hier efter vilivm (vid) sveria ef þess vinnvr þavrf thil. Og thil sanniñda hier vm sethivm vid ockur jnnsigle fyrir þetta vithnisbvrdarbref er giortt var æ reykholvm æ reykianese midvikvdagin næstan fyrir krossmessv vm̄ havstid are sıȷdar enn fyr seiger.

---

**293. 1. Júlí 1511. á Öxarárþingi.**

Dómr útnefndr á Öxarárþingi um þann toll, „sem mínum herra konginum var jataðr á Alþingi hið fyrsta sumarið af biskupunum, lögmönnunum, lögréttumönnum og öllum almúganum, hvort hann skyldi gjaldast eðr eigi af þeim, sem heima voru, jafnvel sem þeim, á þinginu voru og játuðu“, en toll þennan, sem Kristján konungr hinn annar hefir beiðzt, kölluðu landsmenn „gingjald“.

Dómr þessi þekkist nú ekki, nema í tveim afskriptum einum frá 17. öld, og er þó hvorug vel góð. Að efni til er þó dómrinn heill í texta þeim, sem hér er nefndr **A**, og enda að nokkru leyti í **B**, þótt afbakað sé. Um ártalið ber báðum afskriptunum saman, að dómrinn sé frá 1511, og svo bætir **B** því við, að þetta hafi verið „í tíð Benedikts Horst höfuðsmanns og Vigfúsar Erlendssonar lögmanns“. En ekkert af þessu getr á neinn hátt farið saman, og er þetta því með öllu marklaust. Benedikt Horst (Histen) var ekki hirðstjóri hér á landi 1511, heldr 1499—1502. Vigfús Erlendsson var og hvorki lögmaðr 1511 né um þau ár, sem Benedikt Histen var hér hirðstjóri, heldr var hann lögmaðr 1513—1520. Hinsvegar var Þorvarðr Erlendsson, bróðir Vigfúsar, lögmaðr sunnan og austan á árunum 1499—1502, samtíða Benedikt Histen, og yrði þá nafn Vigfúsar að vera hér misskrifað fyrir nafn Þorvarðs bróður hans, hvort sem dómrinn ætti að vera frá hirðstjórnarárum Histens eða frá 1511, því að þá voru þeir lögmenn Þorvarðr og Jón Sigmundsson. Þar á móti var Vigfús Erlendsson hirðstjóri hér á landi 1508, einmitt það ár, sem vér nú höfum fyrstu skýrslu um, að Kristjáni II. hafi verið borgað „gingjald“ (Nr. 190), og kynni hér af því að hafa orðið einhver málablöndun.

Það er og auðsætt að þref um „gingjaldið" hefir staðið yfir í nokkur ár. Konungr mun hafa hugsað sér að koma því á sem árlegu gjaldi, en það hafa landsmenn viljað varast. Það er ekkert, sem rekur það, að ártal dómsins 1511 sé rétt; tvímælin um ártalið hefðu tekizt alveg af, ef betri afskriptin (A) hefði sagt skilmerkilega til dómnefnendanna — sem hún sleppir alveg — og talið dómsmenn mann fyrir mann, en þar telr hún af 24 að eins fjóra, sem að vísu voru allir uppi um þetta leyti. Því til stuðnings, að ekki þurfi að ugga ártal dómsins (1511), er það, að Jón lögmaðr Sigmundsson skipar í sýslubréfum þeim, er hann gefr út 1509, að fullgera gingjalds útboð konungs (Nr. 229 og 246).

## A.

Dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, skr. c. 1608.

### Domur vm Gingialld.

Þad Giorum vier Þorsteinn Fim̄bogason. Halldor BrinioIfsson. Brandur Einarsson og Arnor Finsson. Godum monnum vitanligt med þessu voru opnu brefi. ad þa er lidit var fra hingad Burd vors herra Jhesu christi ꝺ. d. xi Ar. manudæginn næsta eptir pietursmesso og pals[1]) ǻ almenniligu auxararþingi. vorum vær til nefndir med audrum dandimonnum ad dæma vm þann Toll. sem minum herra konginum var jatadur ǻ alþingi hid fyrsta sumarid. af biskupunvm. Laugmaunnum. Laugriettismaunnvm og aullum almuganum. huort hann skylldi gialldast edur eigi. Af þeim sem heima voru. jafnvel sem þeim ǻ þinginu voru og jatudu.

Nu af þui vær vissvm ad þad uoru laug hier j landi og suo annarstadar. at þad skulu allir fyrir laug hallda. sem enu bestu menn samþyckia ǻ alþingi edur audrum storfundum leikir og lærdir. Þess annars ad oss leijst þad ecki skynsamligt ad þeir fauijser menn sem heima sitia skulu þad Briota og bakferla sem syslumenn og laugriettismenn samþyckia ǻ alþingi sem laugum eiga ad rada. Þui dæmdum vier Laugriettumenn xxiiij alla skattmenn og sierhuorn skylldugañ ad giallda minum herra konginum Christiern med Gudz nad. nu einu sinne suoddan gialld sem hier eptir skrifad stendur.

1) þ. e. 30. Júní.

Þeir menn sem skatt eiga ad giallda sem eiga v^c gialldi eyri. Enn þeir sem eiga x^c gefi x alnir. enn þeir sem eiga xu^c edur minna enn xx^c gefi xu alnir. enn þeir sem eiga xx^c edur meira gefi xx alnir. og gefi j godum peningum. smiore edur vadmali og audrum godum peningum. Skal þetta fie taka huor syslumadur j sinni syslu. Enn huor Bondi sem þetta vill eigi giallda þegar heimt verdur. sekur vj aurum. skal þetta gialld ecki gialldast optar enn nu.

Og til sanninda hier vm setium vier fyrrnefndir menn vor Jnnsigli fyrir þetta domsbref skrifat j sama stad og Ari deigi sijdar enn fyrr seigir.

## B.

Landsbókasafn 790. 4to bls. 194, skr. c. 1690.

Domur vm nyan skatt.

Anno 1511 var dæmt a Alþyngi j tyd Benidicts Horst Hofudzmanz og Wichfusar Ellindssonar logmans vm þann toll sem konginum var jatad a alþynge hid firra sumarid af ollum Bestu monnum vtan vebanda oc jnnan. En dæmdist af 24 huortt hann skylldi gialldast Edur Ey af þeim sem heima satu[1]) Edur Ecki nema af þeim sem a alþyngi voru og jatudu. Nu af þuj vier vissum ad þad voru Log hier j landi og suo annarstadar ad þad skuli allir fyrir log hallda sem hiner bestu menn a alþyngi samþickia. þess og annars ad oss leist þad Ei skinsamligtt ad þeir fauysir menn sem heyma sitia skule þad briota og bakfella sem syslumenn og Logriettumenn samþickia þa dæmum vier alla skattbændur og alla adra Eyrn og sierhuorn skillduga ad giallda H(erra) konginum Christian 3 (!) m(ed) G(uds) n(ad) nu Einu sinni suoddan skatt. ad sa sem a v^c gialldi v alnir. x^c gialldi x alnir. sa Er a xv^c gialldi xv alnir. xx^c madur gialldi xx alnir og giefi þad j godum og gilldum peningum. vadmali. skreid. smiori og flitiandi Eyrir og taki huor syslumadur j sinne syslu. Enn huor sem þetta vill Ei giallda fyrir annad alþyng

1) voru, yfir línunni í hdr.

sekur 6 ørum og 4um̄ morkum ȷ domrof. skal þetta gialld Ei gialldast offtar En Eitt sinn.

Og til sanninda hier vm̄.

---

294. 9. August 1511. í Tungu.

Vígslu og aflátsbréf Fellskirkju í Kollafirði útgefið af Stepháni biskupi í Skálholti.

AM. Apogr. 2363 með hendi Árna Magnússonar „Ex originali Einars Einarssonar Syslumanns. Þetta bref er riett skrifad og bokstafat epter originalnum. Jtem rité ur þeim böndunum skrifad sem þar inne eru. so þar uppa er ad byggia". (AM).

Ver Stefan med guds nad biskup i Skalhollti giorum godum monnum kunnigt med [þessu] voru opnu brefi ad i heidur vid gud sæla guds modur mariam og einkanlega hinn heilaga Olaf konung haufum vær vigt kirkiuna under felli i kollafirdi med þeim maldaga sem hun hefer ath fornu haft. gefandi i guds trausti og allra heilagra. einkanlega med rauksemd blezadra postola petri et pauli. og modur vorrar heilagrar kirkiu. xl. daga aflat aullum og sierhverium rett[skrip]tudum monnum þeim sem med godfysi vitia heilagrar kirkiu i greindum stad [til b]ænahalz sid eda snemma eda heyra þar gudlegt embætti. Jtem og þeim sem nauckra goda hluti giora kirkiunni til gagns og upphelldis. i hverium hellzt hlutum [sem] þat kann ath vera i peninga tillaugum eda arbeidi. eda nauckrum aulmausugiordum. skipum vær kirkiudagenn a olafsmessu sidari. Og til sanninda hier um festum vær vort insigli fyrir þetta kirkiuvigslubref. Skrifat i Tungu i Steingrimsfirdi in vigilia Sancti Laurentii martiris. anno Domini. M° qvingentesimo. xj.

---

295. 26. Agúst 1511. á Hóli í Bolungarvík.

Skipan og skipti Stepháns biskups í Skálholti á testamentumgerð Solveigar Björnsdóttur.

AM. Fasc. LXV, 16, viddisse á skinni gert í Skálholti 21. Oktober 1512, sem aldrei hefir verið innsiglað. AM. Apogr. 787 með hendi Árna Magnússonar eptir LXV, 16. — AM. Fasc. LXXIII, 14, transskript á skinni frá 27. Aug. 1517. Sjá biskupsdóm frá 29. Júní 1512.

Vær Stephan med gudz náád biskup i skalhollti Giorum godum monnum kunnigt[1]) med þessu woru opnu brefi. ad sub anno gracie ɱ⁰ d⁰ xı⁰. æ holi i bolungarvíjk. þridiudagin næsta[2]) efter festum sancti Bartholomei apostoli. hofum uer giort þessa skipan ok skipti áá testamentum giord solueigar biornsdottur. Godrar minningar. Einkanliga á þeim peningum sem hun gaf baurnum sinum. þeim er hun nefndi laungetin.

[Jn primis[3]) ȷone ȷonssyne ȷiordina alla eẏri j seydisfirdi fyrir xx. c. ok iiij. c. [betur[3]).

Jtem hol j aunundarfirdi fyrir xviij. c.

Jtem óss ok gil fyrir xvj. c ok xx.

Jtem hanhol fyrir xij c.

Jtem geirastadi fyrir iij. c.

Jtem skipum ver þeim brædrum. Birni [Jonssyne[4]) og einari. Hol j bolungarvıȷk fyrir lx. c.

Jtem breidadal [enn nedra[4]) j aunundarfirdi fyrir. xx. c. ok .iiij. [betur.[3])

Jtem Gault ok keflavıȷk fyrir xx. c.

Jtem meire hlid fyrir xx. c. ok iiij c. [betur.[3])

Jtem backa fyrir xij. c.

Jtem mydal fyrir xij. c.

Jtem tunga[5]) fyrir xij. c.

Jtem minne hlíjd fyrir viij. c.

Jtem meira hraun[6]) fyrir vj. c.

Jtem minna hraun fyrir iij. c.

Jtem kroppstadi fyrir iij. c.

Jtem skipum uer med sama hætti Brigidu[7]) ȷonsdottur arnardali fyrir xxx. c.

---

1) viturligt lxxiii. 2) næstan lxxiii. 3) [sl. lxxiii. 4) [b. v. xxiii. 5) tvngv lxxiii 6) lxxiii; hrun lxv, 16. 7) Birgittu lxxiii.

Jtem Breidabol ok backa fyrir. xxx. c.

Jtem kristinu jonsdottur. kirkiubol [j aunundarfirde[1]) fyrir xxx. c.

Jtem efstabol ok kroppstadi fyrer xxx. c.

Biodum ver ok skipum undir skyllda hlydni. bædi lærdum ok[2]) leikum at hallda obrigduliga[3]) þenna vorn giorning ok skipan efter worum domi ok vrskurd.[4]) suo framt sem þeir uilia fordaz forbod ok bann af heilagri kirkiu ok oss. Ok til sanninda hier wm festum ver vort insigli fyrir þetta peningaskiptisbref skrifat ä sama ari ok degi sem fyrr segir.

---

**296. 3. September 1511. á Hrafnseyri.**

Stephán biskup í Skálholti úrskurðar Jóni, Birni, Einari, Brigitu og Kristínu, börnum Solveigar Björsdóttur, þá peninga til eignar, sem skiptabréf biskups frá 26. Aug. 1511 (Nr. 295) segir til.

AM. Fasc. LXV, 16, vidisse á skinni gert í Skálholti 21. Okt. 1512 og hefir aldrei verið innsiglað. — AM. Apogr. frá 787 með hendi Árna Magnússonar eptir LXV, 16. Sjá biskupsdóm 29. Júní 1512.

Vær stefan med gudz näd biskup i Skalhollti Giorum godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi. Saker þess at langur time er lidinn sidan ver vorum beiddir ok krafdir i almenniligri prestastefnu. at giora skiluisliga grein ä testamentum giord solueigar biornzdottur godrar minningar. huersu þat skylldi skiptazt eda skikazt med einu ok audru. Ok ver kaulludum til med oss ærliga prelata ok presta. suo ok skiluisa leikmenn ok giordum þa þar til suo sem oss uar moguligt. Enn af þui at þat sem ecki greiddizt þä. þa hefer nu hier til undandregizt. þui ottumzt ver at oss meigi þar nockur äbyrgdarhlutr af reiknazt. ef þat dregdzt suo undan leingur. þui at heilags anda nad til kalladri. at suo profuodu ok fyrir oss komnu. sem suarin uitni hafa borit.

1) [þ. v. lxxiii. 2) lxxiii; sl. lxv, 16. 3) sl. lxxiii. 4) vrskurde lxxiii.

Seigum vær med fullu doms atkuædi og laga vrskurdi. baurnum greindrar solueigar. jone. Birne. Einare. Brigitu. Kristinu. Suo vordna peninga til fullrar eignar ok frials forrædis vpp á fyrrnefnt testamento. sem adur erv tinder med æ kuednum nofnum j þui brefi sem hier er med fest þessum vorum um domi ok urskurdi. fÿrirbiodande aullum ok sierhuerium under fullt fordod ok bannz pinu. þenna worn dom ok urskurd at hindra eda hindra lata. Skulu þessi fyrrnefnd baurn eda þeirra umbodzmenn frialsliga at sier taka alla adur greinda peninga þar sem þeir liggia med moguligri afgreizlu. wpp á þeirra vegna sem á bua. at lesnum ok heyrdum þessum vorum domi ok urskurdi. Ok til sanninda hier um. festum wer vort insigli fyrir þetta domsbref. ok urskurdar. skrifat á hrafnseyri j arnarfirdi. Midvikudaginn næsta fyrir natiuitatem beate Mariæ virginis. Anno domini M° d xj.

---

**297. 3. September 1511. á Hrafnseyri.**

Stephán biskup í Skálholti kvittar Guðmund bónda Andrésson um reikningskap kirkjunnar undir Felli í Kollafirði.

AM. Apogr. 2364 „Ex originali Einars Einarssonar Syslumanns". „3. Septembris 1511 var Stefan biskup staddr á Hrafn(s)eyri i Arnarfirdi. og um þad leite verdr þetta bref utgefid ad vera. festum cuthberti er annars 20. Martii. Enn sa dagur eda hinn 19de geta ecki hier vid komid. Translatio Cuthberti er 4. Sept. Er so brefit utgefid 3. Sept." (AM.)

Vier Stephan med guds nad biskup j Skalhollti giorum godum monnum kunnigt med þessu woro opnu brefi. ad gudmundur bondi andresson hefer giort oss fullan og allan reikningskap. sem oss vel æ næger. wegna kirkiunnar under felli j kollafirde. wt af hennar porcione og mortuaríjs. sem fallit hefur sidan andres bondi godrar minningar gudmundzson stod reikningskap. af adur greindre kirkiu. worum foruerara næsta biskup magnusi godrar minningar til þess sem nu er komit. Þui giorum uær adur nefndan gudmund bonda

aulldungiss kuittan og ækærulausañ wm allañ adurnefndan reikningskap fyrir oss og ollum uorum epterkomendum: kirkiunnar formonnum j skalhollti. Og til sanninda hier um festum uær wort jncigle fyrir þetta kvittunarbref skrifad æ hrafnseyre j arnarfirde in profesto sancti cutberti. anno domini. ꝏ⁰ d.⁰ xı.⁰

---

**298. 18. Nóvember 1511. í Skálholti.**

Dómr útnefndr af Stepháni biskupi í Skálhollti um fulla skipleigu sekt Einars Þórðarsonar, landseta Skálholtsstaðar, fyrir það að hafa ekki róið á staðarskipinu, svo sem ráðsmaðr hafi lagt fyrir landbúa stólsins í landastefnu að róa fyrr á staðarins skipum en annara manna.

Bisk. Skalh. Fasc. II, 13, frumrit á skinni, og hafa verið fyrir því fimm innsigli — AM. Apogr. 2519 með hendi Árna Magnússonar. Prentað í F. Joh. Hist. Eccl. Isl. II, 507—508. Transskript af þessum dómi frá 22. Febr. 1544 er og í Bisk. Skalh. Fasc. II, 14—15.

Afskript af dómi þessum, gerð eptir frumritinu og staðfest í Langholti í Flóa 22. Febr. 1719 af Grími Magnússyni og Þorgils Sigurðssyni, er og í Landsbókasafni 62. 8vo. Aptan við þá afskript stendr í frumriti:

„Framan skrifadur domur var opinberlega upplesinn á Grafar, Nups, Husatoffta, Wælugerdis, Bæjar og Stoxeyrar Manntalsþingnm̄ á þessu vore þingsöfnudenum áheyrande. til merkes ockar underskrifud nöfn, ad Langholte i floa d. 1. Junij 1719.
Grimur Magnusson. Sigurdur Ketelsson“.

Ollum monnum sem þetta bref sia edr heyra senda asbiorn sygurdson. jon hédinsson. þoraren skeggiason prestar. einar eyulfson. jon gudmundzson og þoraren sigmundzson leikmenn kvediu guds ok sina kunegt giorunde ad sub anno gratie ꝏ⁰. qvingentesimo undecimo i skalhollte i biskupstungum þridiudagin næsta epter marteinsmesso, worum vær til nefnder af erligum herra sthepane[1]) med gudz nad biskup up i skalhollti at skoda og ransaka hveriu einar þordarson

1) Svo.

væri skylldugur heilagri kirkiu og biskupenum fyrir þad er hann hafde ecki roit a stadarskipino svo sem skilit var uppa hann. War greindur einar þar þa laugliga stefndur af razmannenum. Kom og þar sanliga firir oss at razmaduren hefde svo firirskilit a landastefnu þa er hañ bygde kirkiunnar iarder. at stadarens landbuar. þeir sem reri edur leti roa skyllde roa fyr a stadarens skipum enn annara manna i aullum þeim verstaudum sem þeir fengi þar ecki tion ut af edur skada. og þvi at heilax anda nad til kalladri dæmdum ver sagdan einar þordarson og hvern añan þañ sem sliks dirfizt skylldugan at giallda stadnum fulla skipleigo. suo sem fellr a þvi skipi sem honum er til sagt at roa æ. og sekan fullretti kirkiunar ad auki. Og til sanenda hier um settum uer fyrnefnder menn uor jnsigli firir þetta domsbref skrifat i sama stad dag og ari sem fyr seger.

---

**299. 1511. í Svignaskarði.**

Vitnisburðr Oddgeirs Grímssonar, að Haldór Guðmundsson hafi goldið Þorleifi Björnssyni fyrir 30 ára eða meir jörðina Svignaskarð í prófentu sína.

Bisk. Skalh. XVIII, 42, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 2385 „accuratissimé“ eptir Skálholtsfrumritinu.

Um suignaskard.

Þat giori eg oddgeir grimsson godum monnum viturligt med þessu minv opnu brefi. at. eg uar hia þorleifi biornssyni. á reykholum og hans man. war þar þá halldor gudmundzson j profentu ath þui ath eg heyrdi þar þá wintal weitt. og þessi hans profenta ætti at koma j uerd fyrer suigaskard j borgarfirde. Og suo heyrdi eg þar wm talat og wíjdar añars stadar. ath greindr haldor hefdi selltt adr nefndum þorleifi fyrr nefnda jord suignaskard. Og alldri hefi eg heyrt kuittad ath eigi hafi fullir peningar fyrer komit greinda jord edr nockr hana ákiærtt edr þá peninga sem fyrer hana skylldi koma. Man eg suo stad(id) hafa wppá þria-

tigi wetur eda leingur. huorki greindr halldor nie nockur annar fyrr en nu j uetur. Og til sanninda hier wm sette eg mitt insigle fyrer þetta witnisburdarbref skrifat j suignaskarde j borgarfirde ærum eptter guds burd fimtan hundrud ára og ellefu ár.

---

**300. 14. Janúar 1512. í Vallanesi.**

Jón Oddsson „á Hörgslandi“ gefr Erlendi bónda Bjarnasyni til eignar og sóknar fé nokkurt, er Jón mætti réttilega eignast.

AM. Apogr. 4299 „Ex originali Peturs Asmundzsonar a Ketilsstödum“.

Þat giorvm vier snore arnason. þosteinn arnason. og þorvardvr arnason godum monnum kvnnict med þessv vorv opnv brefe at vier vorvm þar i hia savm og heyrdvm a ord handaband þessara manna ellendz bonda biarnasonar og jons oddsonar a havrgzlande at hann gaf honum til fvllrar eignar og allrar soknar þa peninga sem þorsteinn haralldzson hafde haft fra klippstavdvm af þeim arfe sem honum fiell at lavgvm og hann hafde avngvan reikningzskap af stadet eda af hans forsomvn hafde farest en greindur jon matte riettelega eignast. Og til sanninda hier vm festv vær advr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta vitnisburdarbref er skrifuad var i vallanese a vǫllvm næsta dag efter geisladagen arvm efter gudz bvrd. ꝏ. d. og xij ær.

---

**301. 26. Janúar 1512. í Kalmanstungu undir Jöklum.**

Haldór Þorgeirsson gefr Þorgerði dóttur sinni alla jörðina Jörfa í Krossholtskirkjusókn fyrir þau tuttugu hundruð, sem hann gaf henni til kaups við Jó[n Bjarna]son.

Eptir afskript síra Helga Sigurðssonar á Melum (d. 1888), gerðri 20. Febr. 1872, af Jörfabréfum eptir transskripti frá 1619, sem orðið var skemt.

Þad gere eg Halldor Þorgeirsson godum monnum vitanligt. ad eg [gere kunn]ugt med[1]) þessu mijnu opnu Briefi at ec hefe lukt Þorgerde dottur minne jørdina alla Jørfa er liggur i [Kross]holtz kyrkiu sokn til fullrar eignar og frials[2]) forrædis fyrer þau xxcd sem eg gaf henni til kaups med Jo[n Biarna]son med øllum gøgnum og giædum er greindum Jørfa fylger oc fylgt hefur at fornu og nyiu og eg vard fremzt eigandi at itakalausa. Og til sanninda hier [um setta] eg [mitt] insigle fyrer þetta brief er skrifat var i Kalmanstungu undir Jøklum mæanudaginn næstan eptir conuersio[3]) sancti Pauli arum eptir guds burd fimtan cd vetra og xij vetur.

---

**302. 28. Janúar 1512. undir Núpi.**

Vitnisburðr Kristínar Sumarliðadóttur um skipti þeirra Jóns Björnssonar bónda síns, „guð hans sál náði“, og Magnúsar Eyjólfssonar á jörðunum Tungu í Hörðadal og Þorsteinsstöðum í Dölum, með öðru fleira, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XLI, 19, frumrit á skinni með einu innsigli. Höndin á bréfinu er lík hendi Björns Guðnasonar.

vm̅ tungu J haurdudal og þorsteinstadi.[4])

Þad giorec kristin suma(r)lidadotter godvm monnum viturligt med þessv minv opnv brefi. ad ec medkennvntz ad ec vissa Jon heiten biornson minn hvsbondi sem gvd hans sal nade giorde magnuse eyolfssyne jardaskipte ad bon og beizlv greindz magnus sialfs. hver svo woru ad greindr Jon biornsson fieck honum tvngv J havrdadal J snoksdals kirkiv sokn. enn magnus lagdi og fieck honum aptur Jgen þosteinsstade J davlvm. er opt greindur Jon hafde honum og hans konu sigride adr feinged. Medkennvntz eg og adr greind kristin ad adh ec gaf alldri samþycke ordlof nie navckvd vpplag æ tungu til þess adh Jon heiten fiengi magnvsi hana framar

1) leiðr.; *i*, afskript sira Helga. 2) leiðr.; *sialfs*, afskr. sira Helga. 3) Conuent . . ., afskript sira Helga. 4) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

enn svo ad optgreindr magnus og hans kona legde ockur aptur greinda jord þosteinstade sem dandi menn vita hann hefur giortt þui hann hafde þar epter vmbod yfer henni ockara vegna og býgdi hana vnder ockra havnd og giorde svo reikningskap bondanum af landskýlld þar af sem avdrvm ȷordum han hafde vmbod yfer hans vegna. svo og adrer dande menn sem þar hafa nv vmbod haft sidan hafa svo bygt þessa ȷord þosteinsstade bondans vegna sem adrar. J þridi(u) grein medkennvntz ec opt greind kristin ad ec gaf þar fvllt samþycke ordlof og vpplag til adh optgreindur ȷon heitin biornsson selldi narfa ȷonssyne þessa optgreinda jord þosteinstadi. og til sanninda hier vm setta ec mitt ȷnsigli firir þetta bref skrifad vnder nvpi j dyrafirde miduicudagin næsta firir purificacio sancte marie vm vetrin. anno domini ꝏ d xii.

---

## 303. 12. Febrúar 1512. á Stað á Reykjanesi.

Vitnisburðr um peningaskipti Magnúsar Þormóðssonar millum barna sinna og Katerínar konu sinnnar.

AM. Fasc. XLI, 21, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Skiptabref epter Magnus Þormodsson.[1])

Þat giore eg eireckur biarnason godvm monnum kvnigt med þessv minv opnv brefi at eg var vid staddur ȷ mula ȷ isafirdi þa er magnus heiten þormodzson la sivkur nockrv adur en hann andadizt at hann giordi peningaskipti millvm barna sinna og katerinar konv sinar at minv radi og allri forsavgn. skylldi steinn sonur hans hafa mvla og þat algiort bv er þar stod saman. en loptur skylldi eignazt hlid j altafirdi og at avk ii kvgilldi. keypti og þa fyrr nefndur steinn at magnvsi fedur sinum vigdisarstadi en steinn skylldi svara gvdrvnv systur sine þar j staden .x. hvndrvdvm. en gvdrvnv sem snorri helgason atti sagdizt opt greindvr magn-

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld; þar stendr ranglega „Þoroddsson“.

us hafa af garde leyst med sinn hlvt. katerinv konv sinni skipadi hann nes halft og þar til nockur kvgildi heldur en ecki j sina heimanfylgiv en katerin vnderbatzt at svara kristinv dottur sini þvi sem hana brast vid adrar sinar systur. en petre sem fyrir nockrvm arvm var sigldur af landinv sagdizt titt skrifadur magnus avngvm peningvm skipta en ef sva beri til at hann kæme aptur þa skylldi avll sysken hans leggia honum at til tavlldv. giordi þratt nefndur magnus þessi peningaskipti a sidvztvm davgvm lifs sins og alldri avnor sva eg vissi. og til sanninda hier vm setta eg mitt insigli fyrir þetta vitnisburdarbref er skrifad var æ stad ꜵ reykianesi fimtvdagen næsta fyrir simonsmessv arum epter gvds bvrd þvsund fim hvndrvt og tolf ar.

---

**304.** **18. Febrúar 1512.** **á Staðarhóli.**

Vitnisburðr um, að Guðbjörg Ljótsdóttir hefði samþykt að Gunnsteinn Arnfinnsson bóndi hennar seldi Haldóri presti Tyrfingssyni hálfa jörðina Hvammsdal í Saurbæ, og að full-ir peningar hefði fyrir hana komið.

AM. Fasc. XLI, 14, frumrit á skinni með tveim innsiglum.

Þat gervm vid Jörðndr sveinbiarnarson ok jon jonson godum monnum uiturligt med þessu ockru opno brefi at æ þridivdaginn næsta epter purificacionem sancte marie uirginis[1]) j brimnesi j uiduikr kirkiu sokn uorum uid j hia ok heyrdum ꜵ at gudbiorg liozdotter medkendizt firir ockr at hun hefdi fullt jæyrdi ok samþycki til gefit at gunstein anfinzson bondi hennar skylldi selia sira halldore tyrfingsyni jordina huamsdal sem ligr j stadarhols kirkiu sokn halfa er hvn sagdizt erft hafa epter fodr sinn ok modr med fullu handabandi. sagdizt hvn ok uita at gunsteinn bondi sinn hefdi fulla ok alla peninga upp borit firir sagda halfa jord huamsdal. her epter uil(i)vm vid sueria ef þurfa þiker. ok

1) þ. e. 3. Febr.

til sanninda her um settum uid fyrr greinder menn ockr jnsigle firir þetta bref sem skrifat uar á stadarholi j saurbæ miduikudaginn næsta firir chatedra petri arum epter guds burd. ꝏ. d. ok xij ár.

---

**305. 20. Febrúar 1512. í Fagraskógi.**

Vitnisburðr um kaup þeirra Sæmundar Jónssonar og Sigmundar Guðmundssonar um jarðirnar Brú og Sólheima í Mýrdal.

AM. Fasc. XLI, 22, frumrit á skinni frá síra Skúla Þorlákssyni. Innsiglið er fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 4415.

Vitnissburdur Vm bruar og Solheima kaup.[1])

Þath gere eg þordur íísleifsson godvm monnum viturligt med þessu minv opnv brefi ad eg var hia stad(d)vr i hoffelli i hornafirdi a manvdagin næsta efter marteinsmessv er þeir sæmvndur ionsson og sigmvndvr gvdmvndzson keÿptu iordvnvm brv og solheimvm med handabandi. svo og var eg vid stad(d)ur ad holmfridur biarnadottir samþÿkti iardakaupit sem eg trvi log til stædi. og lagakavp vt vísar med handabandi. ok til saninda hier vm set eg mitt inzcigli firir þetta bref skrifvat var i fagraskogi a galm̃astord[2]) a fostudagin næsta firir catidra petri apostuli. þa lidid var fra gudz burd. ꝏ. d. og xij ar.

---

**306. 13. Apríl 1512.
11. Janúar 1513.**

Vitnisburðr um sölu Lopts Magnússonar til Jóns Steinssonar frænda síns á fjórum hundruðum í jörðunni Nesi í Grunnavík.

---

1) Utan á bréfinu með hendi frá c. 1700. 2) Svo = Galmaströnd.

AM. Apogr. 986 „Ex originali Sæmundar Magnussonar a Hole i Bolungarvik“.

Þat giori eg Jon olafsson godvm monnvm kunnigt med þessu minv opnu brefi at um uorit æ þridia dag paska þa lidit uar fra hingatburdi vors herra Jesu christi þusund .u. hundrut og xij. ar uar ec hia sa og heyrdi ꝺ́ at loptur selldi med handabandi Joni steinssyni frænda sinum fiogur hundrut J Jordune nesi er liggur J grvnauik J stadar kirk(i)u sokn med soddan uerdi at adr greindr Jon steinsson lofadi at greida fyr skrifudum lopti magnussyni. .iiij. hundrut J þridiunga peningum J malnytu fridu og daudum peningum. skyldi þetta Jardar verd greidaz a þrenum tolf manudum en hvad er þa uæri ogreitt af þessum peningvm skyldi Jon steinsson fullu leiga huad epter sinu lagi. suo heyrda eg og Jon olafsson fyrskrifadr at tittnefndr loptur magnusson var ad frettr þa J þat sama sine huort hann mætti þetta giora med logum. en hann sagdi þat satt vera og kuezt alldri olafi eirigssyni hafa sellt ne lofatt þessum Jardar parti J nesi nema hann fylgdi honum til ʀetra laga þa snori aklagadi hann vm hlid J alftafirdi. svo og sagdi titt nefndur loptur at þrattnefndr olafr hefdi lofad at taka son sin til kenzlu og fa ser smor[1]) nockut og sagdi hier aungua ʀaun a hafa ordit. og hier epter uil ec adr greindr Jon olafsson sueria. Og til saninda hier vm setta eg mit Jnnsigli fyrir þetta uitnisbvrdarbref huert er giort uar þridiudagin næsta fyrir geisladag J sama stad ari sidar en fyr seiger.

---

307. 29. Apríl 1512. á Víðivöllum.

Dómr útnefndr á prestastefnu af Gottskalk biskupi á Hólum um arftöku Einars prests Magnússonar eptir Haldór Brandsson föðurföður sinn, en síra Einar var ættleiddr og arfleiddr.

Skjalabók Landsskjalasafnsins, 94. 4to bl. 53—54 með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600. — ÍBfél. 67. 4to bl. 72b—73 með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745).

1) Svo.

Domur vm̄ Halldor Brandsson dæmdur af Biskup Gottskalk[1]).

Þad giorum vier Abote Jon. Prior Nicholas. Jon Þorgilsson. Olafur Klængsson. Pietur Palsson. Jon Jonsson. Þorleifur Jonsson. Þorbiorn Jonsson. Steingrimur þessason. Olafur hallsson. Þorsteinn Jonsson. Jon Sugurdsson Prestar Hőlabiskupzdæmiss godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi ad sub anno gratie 1512 fimtudaginn næstan̄ fyrir tueggia postula messo Philippi et Jacobi a Vijdeuðllum j blonduhlid a almenneligre prestastefno vorum vier j dom nefnder af Gottskalk med Gudz nad biskupe ad holum. at dæma skoda rannsaka vm̄ þa akiæru. er Einar prestur Magnusson kiærdi til Jons finnbogasonar. er ʀeiknudust og toldust syskina syner sijn a mille. Kiærdi Einar prestur magnusson til Jons finnbogasonar vegna margrietar halldorsdottur modur Jons. enn faudursystur sinnar ad greind Margriet Halldorsdotter stædi sier fyrir arfi er honum[2]) hefdi fallit eptter Halldor brandsson fodur margrietar. og fodurfodur sinn. var Einar prestur ættleidingur og arfleeidingur. enn margriet skilgetin dotter halldors. kom þar fram̄ ættleidingarbref sera[3]) Einarz magnussonar j hueriu ed suo stod ad halldor brandsson jatadi sẏni sinum sira magnuse ad arfleida son sinn einar og [sẏskin hanz[4]) sem j brefino standa. til þess hlutar. er sijra magnus stod til eptter fodur sinn. halldor. stod og suo j sama brefi ad greindur sijra magnus arfleiddi son sinn Einar. og onnur hans sẏskin sem j brefino standa. eptter logbokarinnar ordum sem ættleidingarbrefit vtuijs-

---

1) Svo látandi ágrip af þessum dómi er í Landsbókasafni 63. 4to bl. 87b, skr. c. 1640, í „Nockur andsuor a mote þeim sem ættleiddum monnum vilia fra Erfdum hrinda. M(agnusar) B(iorns)s(onar)“:

Ættleidsludomur. 1512.

Jtem 1512 dæmde Biskup Gottskalk med xij kiennemanna domi og vrskurde sira Eijnari Magnussyne ættleiddum arf epter halldor Brandsson fodurfodur sinn þann sem fader hanz stod til. so hann hefde jafnan̄ hlut vid skilgetna dottur Halldors Brandssonar.

2) henni, 67; og 94. 3) b. v. 67. 4) [önnur hans systkin 67.

ar. logdu þeir vnder biskupsins[1]) vrskurd og prestadom Jon finnbogason j vm̄bodi modur sinnar og sıȷra Einar[2]) sinna vegna. ad hallda þann dom og vrskurd sem prestarner dæmdu og biskupinn vrskurdadi þeirra a millum. vm̄ sagdañ arf.

Þui ȷ(n) nomine domini amen. dæmdum vier fyrr skrifader prestar. med fullu domz atkuædi. allañ þennan halfañ arf. eptter fyrr sagdañ halldor brandsson sıȷra Einare Magnússyne til logligrar og fullrar eignar vera og verit hafa eptter þui sem logbokin og Heriolfsbref vtuijsar og frialsliga mega ad sier taca og tecid hafa þennañ halfan arfinn[3]) epter halldor brandsson. ad ollu suo profudu sem fyrir oss er komit.

Og til sannenda hier vm et cetera.

---

308. 29. Apríl 1512. á Víðivöllum.

Dómr útnefndr á prestastefnu af Gottskalk biskupi á Hólum um undanfæri Ólafs Filippussonar af kirkjugarðssaurgun (í Víðidalstungu 1483, þegar Ásgrímr Sigmundsson var veginn).

AM. Fasc. XLI, 7, frumrit á skinni. Af 22 innsiglum er nú að eins brot eptir af 4 fyrir bréfinu. — Apogr. 3423. — AM. Apogr. 397, og JSig. 66. 8vo eptir transcripto frá 20. Apr. 1515.

Domur vm undanfæri olafs philippussonar fyrir kirkiugardin i videdalstungu.[4])

Þat giorum uier broder Einar med gudz nad aboti á munkaþuera. broder jon med gudz forsia aboti á þingeyrunı. broder nicolas med gudz myskunn prior á modruuollum. finnbogi Einarsson. jon þorgilsson. gudmundr jonsson. gilsbrikt jonsson. olafur klængsson. petur palsson. nicolas uilhialmsson. jon jonsson. jon arason. þorbiorn jonsson. gvnnar þordarson. jon ionsson. þorbiorn jonsson. halluardr biarnason. bersi jonsson. gisli gudmunzson. steingrimr bersason. þorsteinn ionsson. einar magnusson ok þorleifur jonsson.

1) 67; biskups 94; 2) 67; sl. 94. 3) arf 67. 4) Utan á bréfinu með fornri hendi.

slikv seker sem savgd goz veria sem þeir menn sem standa fyrir dæmdvm arfi.

lavgsamdv og samþycktv þenna dom og vrskvrd med mier ȷ fystv arnor finnzson. ȷon ȷonsson. mins herra kongsins liensmenn. þorolfur avgmvndzson. gvdmvndr finnzson. tomas odzson. lavgreittvmenn[1]) Þordr vermvndzson. ȷon eirekson. ȷon sveinsson. arni ȷonsson. sveinn sig(v)rdzson. hallvardr þorsteinsson og bardr palsson og allur annar almvgi þar saman komin. Og til meire avdsyningar og sannz vitnisbvrdar og stadfestv hier wm̄ þa settv þessir advr greinder menn sin ȷnsigli med minv ȷnsigli fyrir þetta vrskvrdarbref hvert er giort war ȷ sama stad og ar degi sidar enn fyrr seiger.

---

## 403. 7. November 1514. í Hvammi.

**Dómr** sex manna útnefndr af Jóni lögmanni Sigmundssyni um arf eptir Ingiríði Þorsteinsdóttur.

Dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni bls. 62—64, skr. c 1608.

Domur vm arfs tilkall.

Ollum mönnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. Senda Biorn Gudinason. Ormur Jonsson. Jon Eiriksson. Þordur Vermundsson. Bergur Tumasson og Arni Jonsson quediu Gudz og sijna. kunnigt giorandi. at þa lidit var fra hingadburd vors herra ȷhesu christi ꝏ. d og xiiij ar. þridiudæginn næstañ eptir allra heilagra messo ȷ huammi ȷ huamssueit ꝺ́a þingstad ʀiettum. vorum vær i dom nefndir af ærlegum dandismanni Jone Sigmundzsyni laugmanni nordan og vestan ꝺ́a Jslandi. ad skoda og dæma vm þann arf sem fallinn var Eptir Jngiridi[2]) heitina Þorsteinsdottir. Gud hennar sal nadi. huor hann skylldi ʀiettiliga Eiga og Arnor finnsson beiddi og krafdi nefndañ laugmann ad nefna dom yfer. og hann ʀeiknadi sier til arfs og Eignar fallit hafa Eptir

1)Svo. 2) Svo alstaðar í þessum dómi; *ekki* Ingibjörgu.

greinda Jngiridi modursystur sıȷna. sagdan̄ arf og peninga til ȷafns vid adra. þa sem honum standa ȷafnfram̄(t). Enn Þordur palsson hiellt sijna Eign sagdan arf.

J fyrstu kom þar fram̄ Aunundur Þordarson. vegna faudurs sijns. med vitnisburd tueggia manna. at Aunvndur skylldi leıȷtt hafa med suornum Eıȷdum fyrir sira halldori Tyrfingssyni. Er saugdust hia hafa verid. at Pall heitinn Þorsteinsson fader Þordar skylldi fest hafa ȷ elli sinni Gudrunu heitina halldorsdottur modur Þordar. Nu af þui ad Aunundur hafdi leitt þessa votta suo at hann stefndi þeim aungum til. sem til þessa arfs kaulludu. Arnori edur þeim audrum sem ȷafnt fram̄ stodu sem honum bar. Ef hann villdi sig til arfs leıȷda. Þess annars ad þad stod ecki ȷ þeirra eıȷdi ad Gudrun halldorsdottur modur Þordar hefdi laugliga fest verit sem laugin skijpa. Þess þridia ad laugbokin̄ skipar. at hueruetna þar madur vill sig til arfs leıȷda. þa skal hann stefna þeim til. sem honum stod fyrir arfi. og leidi suo uotta sıȷna. Enn ef hann le ȷdir suo votta sıȷna til arfs. at hann stefndi hinum eigi til er honum stod fyrir arfi. þa er vitnum hans fyrirskotid. Þess fiorda ad Aunundur syndi ecki ad hann hefdi laugligt lagavmbod fyrir haft. ad leıȷda þessa votta. vegna faudurs sins. Þui fyrir allar þessar greiner og adrar fleiri dæmdu vier þau saumu vitni sem Aunundur leiddi hier vm onyt og eckirt afl hafa til vottaleidslu vm þennan̄ arf vegna Þordar palssonar. Suo voru þau ecki Epter laugum leıȷdd. Enn sakir þess ad þad syndist þar fyrir oss. at Arnor finnsson hafdi lyst sig laugarfa eptir greinda Jngiridi til ȷafns vid adra sem honum standa jafnt fram̄ og lagt laug og dom fyrer[1]) greindan̄ arf og peninga. og hier med sat hann ȷ optskrifudum arfi. og hafdi setid eptir dandi manna domi. Þui ad suo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier med fullu doms atquædi þennan̄ þrattskrifadan̄ arf allan̄ sem fallinn er epter Jngeridi heitina Þorsteinsdottir arnori finnssyni og audrum þeim sem ȷafnt fram̄ standa honum til þessa arfs til fullrar og allrar Eignar. og þa frialslega byggia mega og bæla þær ȷardir sem Jng(i)ridur Þor-

1) yfer, hdr.

steinsdottur atti. þa hun andadist og þeim þær heimylar sem þeir bygia þær. Suo og alla sauk og sokn á þeim eiga ef nockur hefur eda helldur fyrir þeim yrkir þær eda vinnur. añ þeirra lofs edur leyfis sem á þeirra Eigin peningum sialfs og audrum arfi dæmdum. þar til og suo leingi sem þessi arfur er med Riettum lagasoknvm. lauglegum vitnum suordum til leiddum af þeim sem ber. Eptir þui sem logbokin skipar. og Riettir afgreidzlumenn allra skvllda. sem (ad) laugum eiga ad lukast.

Medkiennunst eg Jon Sigmundzson adur greindur laugmann. ad ec hefi þennañ sama dom vtnefndt og samþyckt hann laugligan og staudugan med aullum sijnum greinum orda og atkuæda. sem hann jnnehelldur og vtuijsar. og til fullrar stadfestu og sans vitnisburdar hier vm. setta ec mitt jnsigli med adurgreindra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref skrifad æ sama ari deigi sijdar enn fyrr seigir[1].

---

## 404. 9. November 1514. á Ljósavatni.

Dómr sex manna útnefndr af Þorsteini Finnbogasyni kongs umboðsmanni í Þingeyjarþingi, er dæmir fullmektugt í allan máta kongsbréf, er kvittar Bessa Þorláksson af vígi Halls Magnússonar, svo og dagsbréf Finnboga lögmanns, og Bessa lögráðanda fjár síns.

AM. Fasc. XLII, 20, frumrit á skinni. Öll (7) innsiglin eru dottin frá.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda avdvn sigvrdzson. þorkell magnusson. helgi jsleifsson. þoraren augmvndson. thomas arnason og sigurdur finbogason Q. G. og sina kunnigt giorande þa lidit uar fra gudz burd. M. d. oc. xiiij ar æ fimtvdagen næsta fyrir marteins Messo. um ueturen a liosauatne j bardardal a þingstad Rettum worum uier j dom nefnder af ærligum manni þorsteine finnbogasyne er þa hafdi kongsins syslu oc vmbod j þing-

1) þ. e. 8. Nov.

eÿiarþinge. at dæma um þat kongsins bref er þar fram kom uegna bessa þorlakssonar og hann beiddizt doms æ hvert alf[1]) hafa skÿllde er suo inne hiellt og utuisade at uor nadig herra kong kristiern fyrir gudz saker og godra manna bænastad gaf nefndum bessa grid og landzuist oc fulla kuittan fyrir þat mannslag er hann oforsyniu at skada uard halle magnussyne. Nv fyrir þann skulld at suo stendur ȷ ȷ uorre landzlaga bok at ef sa hlutur kann til at giorazst at kongur gefi mannz bana landzuist med bænastad haufdingia edur annara godra manna edur komizst hann a kongs fund og fae grid af honum þa skal hann sig suo ȷ frid kaupa sem hans er myskun til. Suo og hins annars at þat til uisar ȷ magnus brefi at erfder þær sem til hafa fallit um ȷarda bri(g)de oc uigaferle og aull aunur lagamal vnder hverium laugum þau giordust þa skulu aull under þeim laugum uera er þa geingu ȷ lande er þau mal giorduzst ef eigi hefer adur lauglig skipun a komit. Nu fyrir þessar greiner huorar tueggiu sem hier at luta kongsins brefi. dæmdum uier þat ȷ allan mata fullmegtugt med aullum sinum greinum og articulis sem þat inne helldur oc þat sama dagsbref laugligt med sinum greinum er finnbogi ȷonson laugman hefer ut gefit um sagt sakaferle. Hier efter dæmdum vier optnefndan bessa þorlaksson laugradanda allzs sins fiar til frials forrædis uera og uerit hafa sidan næsta sumar efter er konguren honum ut gaf til landzuistar bref at laga auexste fra skilldum sem ordit hefer a þui fe sem frændur bessa hafa med laugsaumdum lagadome at sier tekit. wtan þær leigur oc adra peninga sem besse hefer lagt ȷ bu sitt eda hann hefer fyrir naudsynia saker at sier tekit.

Samþygte þorstein finnbogason þenna uorn dom med oss. Og til sannenda hier um setti hann sitt ȷncigle med uorum fyrgreindra manna ȷnciglum fyrir þetta domsbref skrifat a grund ȷ eyiafirde þ[ridiud]agen[2]) næsta fyrir presentacio sancte marie uirginis a sama are sem fyr seiger.

---

1) Svo. 2) fyrri hluti orðsins er flagnaðr úr; þó sér allan efra hlut þ-sins, en leggrinn fyrir neðan buginn er af; dagsetning þessi væri 14. Nóv.

**405. 15. Nóvember 1514. á Ökrum.**

Hannes Eggertsson kongsins höfuðsmann upp á Ísland staðfestir og samþykkir úrskurð Jóns lögmanns Sigmundssonar frá 7. Nov. (Nr. 401).

AM. Fasc XLII, 12, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. Hefir verið læst við dóminn frá 7/11 1514 og konungsbréf frá 11/2 1518.

Eg hanniss egersson míns herra kongsens umbodzmann uppa ísland giore aullum godum monnum uitvrligt med þessv mínu opnu brefi. at fyrir mig hefur komit wrskurdarbref jons sigmundzsonar laugmannz nordan og uestan æ islandi. huer gior er um þau goz faust og laus sem fallin eru. epter þorleif heitinn biornson. einar biornson og solueigu biornsdottur. huer þau skal rettiliga eiga og ætt haf(a) sidan þau fellu til arfs epter sagda menn og kuinnu. hefi ec grañliga skodad sagdañ wrskvrd. og lizt mier og þeim dandimonnum. sem þæ uoru nær mier. hann skialligr og rauksamligr. og epter rettum norigiss laugum og landzins og mins herra kongsens skipan gior uera. þui samþycki ec nefndur hans egersson þenna sama wrskurd sem hier er med festvr þessu minv brefi. vppa mins herra kongsens uegna og minna. stődugan og laugligañ og obrigduliga halldazt eiga. med ollum sinvm greinum. orda og atkuæda sem hann wtuísar og inne helldur. Og til sanninda og fullrar stadfestv hier um heingda ec mitt jnsigle fyrir þetta mitt samþýcktarbref. skrifat æ okrum i hronhrepp æ mýrum miduikudaginn næsta epter marteinsmeso. þæ lidit var fræ hingatburd vors herra ihesv christi. ϖd. og xiiij. ær.

---

**406. 6. December 1514. í Skálholti.**

Alexíus Pálsson og Þorlákr Landbjartsson prestar vidimera úrskurðarbréf Gauta erkibiskups um Vatnsfjörð 7. okt. 1507 (Nr. 140 B).

Maldagabókin gamla í Biskupsskjalasafni með hendi Bjarna Marteinssonar 1601, bl. 140a.

Þad giorum vier Alexijus pálsson oc þorlakur lanndbiarttsson prestar skalholltz biskupzdæmis godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefe ad vid hofum sied oc yfirlesid oc giolla skodad opid bref med heilu oc oskoddu hanngannde jnnsigle virduligs herra oc anndaligs fødurz herra gautonis med gudz nád Erkebiskups j nidarose suo latannda j latinu oc norænu sem hier fyrir stenndur skrifad.

Og til sannennda hier vmm festum vid ockar jnnsigle fyrir þetta trannskriptum. skrifad j skalhollte. jn festo nicholai pontificis. Anno domini millesimo qvingentesimo decimo quartto.

---

407. 1514.

Skrá um peninga kirkjunnar í Hruna eptir síra Þórð heitinn Jónsson, þegar sira Jón Héðinsson tók við.

AM. 266 Fol. bls 126 (bréfabók Gizurar biskups Einarssonar í afskript síra Haldórs Jónssonar í Reykholti 1654—1657).

Anno domini ꝏ d x qvarto.

Woru so mikler peningar afenter kyrkiune j hruna og stadnum efftir sira Þord heitinn Jonsson gud hanz sal nadi. Enn sira Jon Hiedinsson tok vid.

Jn primis xx kyr og c asaudar. viij (c) j gielldum saudum og iiij c j kauplum.

Jtem viij hundradz hesta j porcio og gielldfiar hundrad.

Jtem fiegra tunna kier og tueggia tunna kier. x kierolld og xii trog. eirn strockur.

Jtem ein sæng.

---

408. 1514.

Afhending Hjaltastaðar, þegar síra Oddr Ólafsson tók við, en síra Arnoddr Jónsson afhenti.

Máldagabókin gamla í Biskupsskjalasafni með hendi Bjarna Marteinssonar 1601, bl. 144a—b.

Hialltastadur.

Anno domini ꝏ⁰ d x iiij.

Svo micklir penijnngar vtlucktir med hialltastad þá Sijra arñoddur jons(s)on afeñte enn Sijra oddur olafsson med tok. jn primis iiij kyr gilldar et cetera. ij ásaudar kugillde. ȷtem kapla hundrad. ȷtem xxx skiolña keralld. og xx skiolña keralld. ȷtem xuiiij skiolña keralld. ȷtem xiiij skiolña keralld. ȷtem v. vppgiordarkeraulld forñ oc mathelld. ȷtem viij trog forñ oc mathelld. ȷtem vj skiolña ketill med ij gotum̃. ȷtem v tredisk(ar) voñdir. oc tinfat lasid. ȷtem xj skerdiskar oc munnlog brakud. ȷtem vj skálir oc vj spænir. ȷtem iij bedir. j nýr enn ij forñir. ȷtem ij hægiñde. j reckiu vod oc abreida. var stadurinn giordur fyrir xx huñdrud enn kirkian fyrir halft þridia huñdrad.

---

## 409. 1514.

Ágrip úr prófentubréfi, sem fylgt hefir Þingeyraklaustri.

Landsbókasafn 67. 4to bl. 42a, skr. c. 1620. — Landsbókasafn 789 4to bls. 417, með hendi Jóns Gizurarsonar á Núpi c. 1630.

[Vm profentu ein skynsamlig grein.[1])

Suo latandi [Bref eitt fylger Þingeyrum[2]). Ad sá sem profentuna tekur eignist[3]) halfa peninga eptter handabandit[4]) giörningsins. enn alla þa profentumadurinn[5]) er á profentuna komenn. Anno[6]) 1514.

---

## 410. [1514].

Stefna Björns Guðnasonar til síra Jóns Eiríkssonar í Vatnsfirði að mæta á næsta Öxárárþingi fyrir Jóni lögmanni Sigmundssyni.

---

1) [sl. 789. 2) [er eitt bref sem Þing(eyrum) fylger 789. 3) eignast 789. 4) handaband 789. 5) hann 789. 6) sl. 789.

A.

AM. Fasc. LXIV, 10, frumrit með hendi Björns Guðnasonar. — Apogr. 958, eptir þessu frumriti og segir Árni um það: „Ex pagina pergamenô frâ Odde Jonssyne i Gröf accuratissime (nunc meâ). Eckert ârstal er â þessare pagina, og alldri hefur þar innsigle under vered. Er annars hreinskrifad document, orasurad, enn ecki uppkast. Þesse pagina er ritud med sömu hendi sem Copie af Leidarholms Samþykt, su sama er eg feck af Magnuse Magnussyne, og önnur bref sem þar hia eru specificerud. Vide ibi. Er ad visu, so sem original, og hafa, oefad, stefnur so vered giördar i þâ daga enn ecki med signeti under þvi alldri siest nein med innsigle. Utan â brefed er ritad þess innehald med hendi Eggerts lögmanns Hannessonar, eda annarri allt eins. Þesse Stefna Biarnar Gudnasonar til sira Jons Eirekssonar, er skrifud i Copiubok Ara Þorkelssonar Num. 2. epter þessu sama documente Oddz Jonssonar, sem audsied er. Hirdte eg þvi eige hana ad lata ur bokinni uppskrifa· *domi sidan þu heyrder stendur þar skirt i bokinne. Jtem greindr Jon logmann*". Afskript af stefnunne er og í ÍBfél. 79. 4to bls. 268—270, skrifuð eptir þessu frumriti c 1680, en gagndrepa og sumstaðar ólesandi. Afskript af stefnunni í þessu formi er ennfremr í Kriegers safni 2. 4to bls. 135—138. Uppkast Björns Guðnasonar að þessari stefnu er Fasc. LXIV, 11. (= B).

Þa biorn gudnason stefnde sera Jone eireckssyni[1])

Eg Biorn gudinason stefni þier jon prestur eireksson lagastefnu til næsta augxararþings nu j sumar adh kemur næstan syknan soknardag epter petrs messu og pals fyrer jon sigmundzson laugmann nordann og uestan ꝺ́a jslande til settann og skipadann af minn herra konginn adh dæma laug og rett ꝺ́a millum kennemannana og leikmanana um̄ allar ueralldligar saker epter þui sem hans laugmannzbref vthuisar. stefni eg þier firir þa fystu sauk adh þu hefr griped firir mier jordina uazfiord j jsafirde og jordena furufiord og reykiarfiord. Eigi sidr jordena dyniande allar greindar jarder liggiande j grunnauik j stadar kirkiu sokn. þier til hefr þu gripid fyrer mier jordena hælaruik haft og halldeд allar sagdar jarder upp æ maurg ær yrkia lated og æuaugxtu af teked saugdum jordum̄. Eigi sidr hefr þu grip-

1) Utan á LXIV, 10; „Stefna sem Biorn Gudnason stefndi Jone Eyrekssine" 79.

ed fyrer mig fioretiger uætta huals af rekum̄ minum̄. h̨ier til hefr þu broted æ mier mins herra kongsins bref þar til rofit ꜳ mier tylftardom og laugmannz urskurd og ueitt forstaudu dæmdum̄ arfe fyrer mier. hallded og [h]yst utlæga menn konr og kalla ꜳ mot laugsaumdum domi si[dan] þu heyrder hann upp lesenn. stefni eg þier j adur greindan sta[d] og dag fyrer nefndan jon laugman edr annann þann logligan do[mar]a sem þar ꜳ med laugum laugdoma adh nefna ef greind[r] j[on] laugman er eigi til edr hefr nauckur lauglig forfaull. stefni eg þier fyrer allar fyr greindar saker og þær fleire sem eg ma þar med laugum til þin tala med aullu þinu profe og skilrike sem þier ma til gagns og bata verda fyrer greindar saker. fyrer þann mins herra (kongsins) rettara. sem doma skal nefna nordan og vestan æ jslande hver helltz hann er. wertt komin fyrer midian dag sit suo leingi stefnuna sem[1]) endiligr vegr fellvr ꜳ þitt mal. stefni eg þier adh ordfullv og laugfullu og laugmali rettu. ad vitni þinv. ꜧ ꜧ son og þinu ꜧ ꜧ son og allra[2]) er ord min heyra.

### B.

AM. Fasc. LXIV, 11, frumrit á skinni með hendi Björns Guðnasonar, og er þetta *uppkast*.

Biorn Gudnason stefndi sira Joni Eriksyni.[3])

Eg Biorn gudnason wors nadis herra kongxins Biskermelsman. stefn[i] þier Jon prestur eirikxson Lagastefnnu til næsta aoxararþingx nu er kemur næstan dag sycknan epter peturs messo og pals at sunnri næst er kemur firir jon sigmundzson logman nordan og uestan æ islandi til settan af minn herra kongin og skipadann ad dæma log og rett æ millum kennimanana og leikmanana um̄ allar weralldligar sockner epter þui sem hans logmanz Bref utt visar. stefni ek þier firir þa sok at þu hefer gripit firir mer jordina uazfiord j i[s]afirdi og jordina furufiord og reykiarfiord. eigi

1) Riettur lagavegur geingur ockar a mille og. b. v. 79. 2) þeirra, b v. 79. 3) Aptan á stefnunni með hendi Eggerts lögmanns Hannessonar.

sidr jordina dynianda allar greindar jarder liggiandi j grunavikur kirkiu sockn. hier til jordina hælauik haft og halldit adur sagdar jarder upp æ morg ár yrkia latit og æuoxtu af tekit sogdum jordum. eigi sidur hefer þu gripid firir mier fioritiger uætta huals af rekum minum. hier til hefer þu brotit æ mer mins herra kongxins Bref. rofit æ mer xii dom logmanz ur(skurd) og ueitt forstodu dæmdum arfi firir mer. halldit og hýst uttlæga menn. konur og kalla. æ moti logsomdum domi. sidan þu heyrder hann upplesin. stefni ec þier[1]) firir æ(dur) greindar (saker) j settan stad og dag firir nefnd(an) logman eda anan logligan domara. ef hann er eigi til. stefni ek þier med oll[2]) þin prof[3]) og skilriki. sem þier ma til gagns og afbaṭanar uerda firir greindar saker. og sit suo leingi stefnuna sem endiligr uegur fellur æ þitt mal. wert þu þar logliga stefndr firir þan rettara mins herra kongxins sem doma nefner uestan og nordan æ islandi j logrettune huort hann er þessi logmadur eda anar af hans nadi til settur. Stefni ek þier at ordfullu og logfu(llu) og uert logliga firir kalladur firir allar saker ek ma þar med logum til þin tala kongdomsens uegna og mina. stefni ek þier at Logmali rettu at uittni þin og þin og allra þeirra ord min heyra.

---

**411. 13. Janúar 1515. í Ögri.**

Transskiptarbréf.

AM. Apogr. 3880 með hendi Páls Hákonarssonar eptir transskripti frá 8. Júní 1592.

Þat giorum vier Jon Sigmundsson logmann nordan og vestan á Jslandi. Olafur Gudmundsson. Þolleifur Ornolfsson og Jon Siguatsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ad vier medkennunst ad vier höfum sied og yferlesit og heyrt yferlesit med heilu og oskoddu vorz

---

1) tvískr. 2) ollu, frumritið. 3) profi, frumr,

nadis herra kongsins jnnsigli suo latanda bref ord fyrer ord sem hier epter stendur skrifat

[Hér kemr bréf Kristjáns konungs II. frá 28. Okt. 1513 til verndar Birni Guðnasyni, Nr. 362 að framan].

Og til sanninda hier um settum vier fyrrnefnder menn vor innsigli fyrer þetta trañskriptarbref er giort var j augri j Jsafirdi ắ laugardaginn næstan epter þrettanda dag Jola ắrum epter Gudz burd ꝏ. D. xiiiij. ar.

---

## 412. 14. Janúar 1515. í Ögri.

Bréf Björns Guðnasonar til klerkdómsins í Skálholtsbiskupsdæmi út af málum hans og Stephåns biskups.

AM. Apogr 3880 með hendi Påls Håkonarsonar eptir transskripti frá 8. Júní 1592

Eg Biorn Gudnason vors heygbornasta mins herra kongsins biskarmelsismann og tienare giǒri ydur viturligt aullum sæmiligum personum prestum og prelatum Skalholltz Biskupsdæmis med gudz kuediu og minne huorz nafns eda nafnbotar ad þier fyrer finnist. bidiandi er eg þess gud allzmektugan ad su villa komi eigi yfer ydur og eigi yfer ydarn formann sem kom af predikun Biskupanna yfer Herodes kong af Italia og Pilatus Jall svo mælandi þier athugid meir valld og virding vors veralldligs kongs sem nu hofum vier. enn þeir somu athugudu valld ens himneska kongs og keisara vors herra Christi og þeim var þa syniligur sem þier meigit sialfer ydur skyra. enn þad er under þa grein ef þier viliet ecki hallda med mins herra brefi sem hier er sambundid og giorit hier dom nockurn a. þa appellera eg ollum þeim saukum og sakafellum sem eg hefi fyrer verid stefndur undan ydrum domi og fyrer minn heygbornasta og verdugasta ħerra konginn til Noregs upp a radstefnuna j Oslo innan xij manada dags edur auxarắrþings ef vor elskuliga nắd kongurinn vill suo vera lata og skipa. og til sann-

inda hier um þryckta eg mitt Jnnsigli og pressadi med mins herra brefi og afsakanarbrefi j gegnum spaciuna fyrer þetta appellatiubref huort er skrifat var j augri j Jsafirdi octauo epefanie Anno domini M. D. xv.

---

413. [14. Janúar 1515. í Ögri].

Afsökunarbréf Björns Guðnasonar til Stepháns biskups fyrir sakir þær, er biskup hafði stefnt honum fyrir.

AM. Apogr. 3880 með hendi Páls Hákonarsonar eptir transskripti frá 8. Júní 1592.

Þat er upphaf mals mins ad eg gef mig under valld og vernd og vardueislu fylgi formæli sem forsuar allzuallanda Gudz hans milldustu modur meý mariu fru Sancta Aunnu og hinum dyrdliga siguruegara sancti Olafi kongi sem sigradi alla villu og nidrun nordurlanda med sinum haleitum og helgum stormerkium christiligrar truar. hann þad veiti ad eg fae vidsied og af mic stadit allann omoguligan agang og bodskap vorra kennimanna yferboda. enn eg mætti j stadinn setia þeirra osonnum sakargiptum logliga afsakan med svarligre syniun logligrar afsakanar et cetera.

Byriast suo bigering herra Stephans Biskups j Skalhollti vid mig Biornn Gudnason ad eg var stefndur j Skállhollt j vetur manudaginn næstann epter Petursmessu nu er kemur[1]) fyrer suo felldar sakargipter.

J fyrstu ad eg hefdi ecki halldid þa lofan sem eg hefda giort vid greindan Biskup Stephan med sial(f)s mins sannindum og heilagrar kirkiu vegna. Er þad min afsakan hier fyrer ad eg veit mig ongua þa lofun hafa giört vid Biskup Stephan j nockrum stad einum eda audrum ad eg hafi eigi halldid sem eg hefi lofat ef riett virding er á logd og meir enn skyllda eda verdleiki hafi þar til verid af Biskup Stephan til. saker þess su sætt og lofun eg giorda med

1) þ. e. 26. Febr.

hann under mula á skalmanesi. þess lijkis j annann tijd j skrudhusinu j Skalhollti[1]). þa giorda eg þær badar j allan mata þuingadur og naudigur sem goder menn vissu ad þier herra Stephan hofdut adur þrugat mig og þuingat mitt folk menn og kuinnur med forbodi utsetning heilagrar kirkiu og allz kristiligs embættis og samneyti kristins folks allz og þar matt med blifa ef eg hefda þa ecki jatad þvi þier villdut sem var ad ganga frá minum[2]) eiginn gardi og godzi vatzfijrdi og helld þa sem nu vera og verit hafa mina eign epter vorum obrotnum landzins logum Laugbokar og kristins Rietz og nu þar upp a mins elskuliga verduga herra nadis kongsins samþycki og skipan. viti þier og vel kiæri herra Biskup Stephan huoria lofun ydar nád hafdi med mig i skrudhusinu j Skalhollti. þvi herra ef eg skal j Gudz trausti og ydru ordlofi seigia sem var ad þier lofudud sem einn verdugur herra yfer ydart herradæmi ad giora mig alldrei neina þuingan þar epter. enn þier hafid þad halldid sem þier vitid vel sialfer enn bædi þiki mier margar og storar af ydrum parti sidan til hafa komit vid mig og þvi veit eg ecki betur enn suo ad med gudz forsia. ef min ord eru riett færd ad eg sie herra i allan mata vitalaus af ydari nád til fyrer min ord eda lofun med ydur.

J einum parti gaf herra Stephan mig þa sak ad eg hafi ecki giort kirkiunne j greindum vatzfirdi riettan Reikningzskap og eg hiellda hennar skilrijkium. er su min afsakan hier j moti ad eg giorda sera grime þosteinssyni sem þa hiellt sig officialis heilagrar Skalholltz kirkiu fyrer mig og mina forelldra reikning upp a xx vetur og hundrat epter þann sama dom sem ydar nad sialfs dæma liet j Skalhollti um sumarit og þetta greint Registrum og maldaga lagda eg i ydar hond Biskup Stephan j godri tru enn eg fieck hann alldri aptur. J vatzfirdi um sumarit j þann sama tid sem þier forbodud mig ut af gardinum epter sidann þess likes gef eg þad svar um bref greindrar vatzfiardar kirkiu ad eg lagda þau j ydar eigin hand j skrudhusinu j Skalhollti et cetera.

1) Sjá bréf 23. Júní 1508 (Nr. 184). 2) minne, Apogr.

Jtem stod og i greindri stefnu ad eg hefda ecki giort glogguann reikning af minum Biskupstiundum giori eg þa afsokun fyrer mig þar um ad suo seigia kirkiunnar log ad þeim sie riett heimt tiund sem á jordu byr enn eg hefi aukid yfer laugiñ j þvi ad eg skil. og skilia læt alla mina Radzmenn a alla þa sem a minum jördum bua ad þeir skule aller giallda biskupstiunder. enn a bui minu edur buum giori eg þa afsakan ad radzmenn giora mic þann reikning ad þeir hafi golldid tiunder af þeim jordum og lausafiam þar med fylgia. enn eg veit eigi log til nockur madur eigi abyrgiast vitni um skullder lengur enn [v. ar[1]) þar sem leingst tekur um skuldalukningar.

Jtem stod og j greindri stefnu ad eg hafi latid nidurfalla bænhus á þeim jordum sem mier bæri med skylldu uppi ad hallda og þar fyrer meigi ecki flytiast á þeim Gudz embætti. þyke mier þesse sakargipt sem fleyri adrar eigi sannar þui eg veit þau eingiñ falliñ sem eg hefi maldaga til sied eda nockur skialligheit aunnur at þau hafi att ad vera. Enn kann þad suo ad finnast fyrer at þad sie satt og beri mier þar svari fyrer at hallda þa skal eg giarnan lata þau uppgiora nær eg er logliga ámintur.

Eigi sidur hiellt greind stefna inne at eg hefdi ecki aptur lagt þa kirkiupeninga er Pall heitinn Jonsson faudurbroder minn hefdi haft fra Reykholum og brædratungu. enn su sakagipt (er) med slikum lagasetningi til min laugd sem fleiri adrar þvi þad mun godum monnum kunnigt ad ecki var eg erfingi pals og ongum lagasuðrum bar mig hallda fyrer honum huat eg hirdi ecki ad sinne allar afbataner þær fram ad leggia sem þar til heyra med logum. þvi godum monnum er þat kunnigt hvorninn hans efnum var komit þess goda mannz.

Jtem lagdi herra stephan þar eina sak til min j sinne stefnu ad eg hefdi giort a mot sig nockra motstadning suo hann hefdi ecki matt giora sina biskupliga skylldu og eg hefdi haft harneski upp á og verid med tijad folk. gef eg þa afsakan og suar þar upp a fyrer mig ad eg seigi þar

1) Sbr Kaup 8; [var (!) Apogr.

nei til ad eg hafi þann verduga herra nockra motstadning giort eda giora latid. helldur mun þad finnast med sónnu. ad eg baud mig til ad giora honum gisting med xiij. menn sem samþýckt er. og eigi ad eins med xiij. menn helldur suo morgum sem þeir voru og greindur Biskup Stephan sialfur villdi med þvi moti ad eg væri omakzlaus fyrer utañ allt hindur og mitt folk sem er forbod og stefnur og þar upp a baud eg sialfur ad ganga i borgun um ad þann godi herra og allt hañs folk skylldi vera fyrer utañ allt hindur og omak af mig til og minu folki suo þat skylldi ongum hlydaz annars af minum parti til og eg villda og skyllda herra Stephan allt liuflega veita ef hann villdi suo þyggia allt þad sem mig bar honum heilagrar kirkiu vegna ad veita. enn under nockurs manz lagasokner edur akiæru þa veit eg mig ecki skylldugañ ad ganga. þui eg lyser minn herra konginn minn forsuarsmann til allra riettra mala huat huor hefur til min ad tala. og allz mins folkz epter þvi sem hans nadis Biskarmelses Bref innehelldur. Enn um þad hardneski og tyi sem eg hafda upp a og mitt folk þad dro eg eij nie draga liet fyrer ydra skulld og eij ydar ærligra presta nie prelata og eigi helldur ydar dandisveina helldur þeirra manna annara sem med ydur voru og umsagt[1]) hafa mitt lif suo eg hefi sialfur upp a heýrt og af einum parti hefi eg þar og vitni til og fyrer slikum monnum villda eg forsvara mig meir enn fyrer þvi eg mundi þad þeinckia ad þier mundud nockurn skada vilia lata giora mig.

Enn þann eina sak ydar nad lagdi mig til ad eg hefda haft j bland med mig forbodada menn eda bannsetta þa gef eg þad suar þar til ad eg veit þa ongua j minn gard verid hafa utan þad sie þeir sem þier vikut nockud til j sumar sem var af einni deilld vors naduga herra kongsins logmann og hans nad hefur sialfur sett og tilskipad ad dæma laug og landzins riett. eigi sidur hefur og hañs nader ydur tilskipat ad dæma lata hañs saker[2]). veit eg hann nu ecki hafa brotid sidan ydar nåd liet dæma honum sin godz jgen.

1) þannig; *rétt* ; unnsagt. 2) säler, Apogr.; leiðrétt á spássíu.

Enn upp a deilld murta bonda gefur eg þad suar ad þo hann skipti ecki hval suo miklum sem til var kallat. þá veit eg þad eigi bannsauk þvi laugmalit skipar (þeim) æ stefnu og tuigilldi sá hval er ʙangara hefur.

Enn þo kirkiunnar valld þuingi þessa menn suo mig og huorn annann þann minn herra konginum tilheyrer og þier kunnid ydur hafa þar mackt til ad formincka kongsins umbodzmenn þa ma eg huorcki nie vil eg formincka mins herra kongsins folk og almuga helldur vil eg þad styrkia j allann mata til allra riettra mala. Og nu fyrer allar ydrar saker mier til lagdar. þá skyt eg mig og aull min mál fra ydur Biskup Stephan og ydrnm domendum og fyrer vorn heygbornasta nadis herra konginn upp a hans mact frid og forsuar og fordagþingun[1]) sem hans nadis biskermelsisbref utuisar þad hier er med fest. fyrerbyd eg huorium manni lærdum og leikum under full(t) brefabrot og sierdeilis ydur Biskup Stephan og ydrum prestum og prelatum ad dæma eda dæma lata nockut um þessi min mál og sierdeilis þau minn herra konginn tilheyrer og hans nadis a halfa sektina á ef saunn væri þar til sem ydrar sakargipter til min koma fyrer mins herra nader og hans nader giorer þar veg upp a fyrer mina deilld med sinu fridsamligu forsuari. vilie þier eigi herra Stephan þennan minn bodskap lida þa giore eg suoddan appellaciu sem hier er medfest ad gudz vitni og godra manna et cetera.

---

**414. 24. Janúar 1515. Í Efradal.**

Ögmundr prestr Pálsson og prófastr undir Eyjafjöllum selr í umboði Stepháns biskups erlegri dandikvinnu Hólmfríði Erlendsdóttur þrjátigi hundraða í góðum peningum, sem Stephán biskup átti í garði Einars heitins Eyjólfssonar, fyrir alla jörðina Auðsholt í Ölvesi, fjörutíu hundruð að dýrleika, en það sem jörðin reiknaðist dýrri en hæð peninganna, skyldi koma fyrir margfalda velgjörninga biskups við Hólm-

1) fordagþingum, Apogr.

friði og hennar húsbónda; skyldu og börn Einars kvitt um allar þær fjársektir, er Einar faðir þeirra hafði verið skyldugr biskupinum.

Bisk. Skalh. Fasc. VI, 21, frumrit á skinni. Af 3 innsiglum er nú 1 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2576.

Avdzholltzbref.[1])

Þat giori ec augmundur prestur palson profastur vnder eygiafiollum godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ad á miduikudagin næsta fyrir conversio pauli um veturen. anno domini. ꝏ. d. xv. giorda eg suodan kaup og skilmala vid Erliga dandi kuinu holmfridi Erlendzdottur j vmbodi virduligs herra Steffans med guds nad biskups j skalholtti ad ec selda fyr skrifadri kuinu holmfridi til fullrar eignar þau. xxx. hundrata j godum peningum sem greindur herra stefan atti j gardi Einars heitins eyiolfssonar sem gud hans sal nadi. Hier j motti gaf opt skrifut holmfridur fyr skrifudum herra stefan jordena alla audsholt j oluesse j arnarbælis kirkiu sokn til æuenligrar eignar og frials for(r)ædis huoria hun reiknadi. xl.c. ad dyrleika. lysti hon þui þa þar fyrir mier ad þad jorden reiknadizt dyri en hæd penpeninganna hefdi titt skrifadur herra stefan veitt sier og sinum husbonda margfallda velgiorninga þar j gen. gaf ec þa j sama handabandi born einars heittins aulldungis kuitt og akærulaus vm allar þær fiarsegter sem þeirra fader Einar heittin hafdi biskupinum skylldugur ordit vpp á heilagrar kirkiu vegna.

for þesse giorningur fram j efradal vnder eyiafiollum þessum giorningsuottvm til kaulludum þorsteini torfasyne og joni hallzsyni.

ok til sanenda hier vm festa ec mitt jnsigli med fyrskrifadra manna jnsiglum fyrir þetta kaupbref skrifad j sama stad deigi og ari sem fyr seiger.

---

1) Utan á bréfinu með hendi frá 16. öld. Með hendi frá 17. öld stendr þar og: „Vm audzhollt j Oluose“.

415. 28. Janúar 1515. } á Hólum.
15. Apríl 1520

Kaupmálabréf Jóns Einarssonar og Kristínar Gottskálksdóttur.

ÍBfél. Kbd. 67. 4to bl. 69b — 70. — MSteph. 60 4to bls 25 (ágrip). — Hvorttveggja er með hendi séra Eyjólfs á Völlum (d. 1745). Gottskálksannáll segir að brúðkaup Jóns og Kristínar hafi staðið 1516, en það er líklega misgáningr.

(Utskript) af kaupmalabrefi Jons Einarssonar og Christinar Gottskalksdottur Biskups Nicolæssonar.

Jn nomine domini amen.

var sofelldr kaupmali lýstr og stadfestr æ brudkaupsdegi millum Jons Einarssonar af einri hælfu. en Christinar Gottskælksdottur hustrur hans af annari. þæ lidit var fra G(uds) burdi M. D og xv ar. sunnudaginn næstan fyrir Purificationis Sanctæ Mariæ Virginis j storustofunni æ Hőlum i Hialltadal. at so fyrir skildu. at Virduligr Herra Gottskælk med G(uds) nad Biskup at Holum gipti nu i þenna tima ædur greinda Hustru Christinu dottur sina fyrrnefndum Jőne Einarssyni med so greindu fekaupi. at Jőn Einarsson skylldi hafa til kaups vid hustru Christinu .vij.ce j jordum og lausafe. hier i mőt skylldi hustru Christin hafa .iijco i jordum og .ijce j lausafe. sem fyrnefndr herra Gottskalk fadir hennar hafdi gefit henni adr.

skildi optnefndr herra Gottskalk dottur sina hustru Christinu malakonu i gard optnefnds Jons Einarssonar. og so fiordungs giöf or ollum hans peningum þeim er hann atti.

Hier med festi Jon Einarsson hustru Christinu sier til lögligrar eiginn konu med þeim bőkarinnar ordum sem þar til heyra.

Voru þessir brudkaupsvottar. Petr Pálsson. Jon Arason og Þorsteinn Jonsson. prestar Hőlabiskupsdæmis. Jőn Þorgeirsson. Gunnar Jonsson. Skuli Gudmundsson. Magnus Arnason og Jőn Olæfsson morgum odrum gődum monnum nerverőndum.

Og til meiri stadfestu og audsyningar hier um setium

vier Gottskalk med G(uds) næd Biskup æ Holum vort innsigli og Einar Oddsson. med ædr nefndra manna innsiglum fyrir þetta ka'pmalabref. er skrifat var in octava paschæ i sama stad v ærum seinna en fýʀ segir.

---

**416. 16. Febrúar 1515. á Auðkúlu.**

Vitnisburðr, að Vigdís Jónsdóttir sór að því bókareið, að Ólafr Filippusson bóndi sinn hefði að sínu viti ekki verið í neinum þeim sökum að sifjum eða mægðum né nokkurri útlegð, að það mætti hindra þeirra hjónskap.

AM. Fasc. XLI, 6. frumrit á skinni Öll (5) innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 3422. — AM. Apogr. 801 og JSig. 66 8vo, eptir transskripti frá 20. Apr. 1515.

Eíjdur vigdıjsar Jons Dotter.[1])

Þath giorum uier ȷon þorgilsson tumas eireksson prestar holabiskupsdæmis magnus arnason olafur ionsson og nichulas helgason leikmenn godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi at uier uorum þar i hia a audkulu i suinadal fimtudaginn næstañ epter kyndilsmesso[2]). saum og heyrdum a at uígdis ionsdotter sőr so latanda bokareid. at hun uisse olaf heitenn philippusson bonda sinn i aungum þeim saukum uera [eda uerit hafa[3]) at skylldskap sifium eda mægdum og eigi uisse hun hann i nockurri utlegd so at[4]) þesser hluter eda adrer mætti hindra þeirra hionskap þa hann geck til kaups og festingar vid hana med ʀadi modr sinnar solueigar biornzdottur og undertali einars biornzsonar modurbrodur síns. Og til sannenda hier um setium uier fyrr skrifader menn uor incigle fyrir þetta bref skrifat i sama stad in die juliane virginis et martiris. anno domini. ↀ.º d.º xu.º.[5])

---

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 2) þ e. 8. Febrúar. 3) [á spássíu með álíka gamalli hendi. 4) b. v. 801. 5) Bæði Hóla-

**417.** **1515.** **á Auðkúlu.**

Vitnisburðr, að Vigdís Jónsdóttir hafi unnið að því bókareið, að hún hafi af eingum manni líkamlega syndgazt, utan sínum bónda Ólafi Filippussyni.

AM Apogr. 800 „ur storu transskriptarbrefe 3ia presta og 3ia leikmanna 1515“ (AM) 20 Apr. — JSig. 66vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir sama transskripti.

Eidur Vigdijsar.[1])

Þat giorum uier teitur þorleifsson. eirekur oddason. haflidi íwarsson godum mønnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at uær uorum þar i hia saum og heyrdum ꝺ́ a suinauatni a asum sor uigdis ionsdotter so felldan bokareid firir sira petri palssyni at hun hefdi af aungum manni likamliga syndgazt utan sinum bonda olafi philippussyni og hann uæri iafnsannr fader at ollum sinum bornum sem hun moder.

sonnudu þenna eid med henne xij. dandi kuinnur.

Og til sanninda hier um setium uier uor incigle firir þetta eidsbref skrifat ꝺ́ audkulu i suinadal þa lidit uar fra gudz burd ↄ. d og xu. ar.

---

**418.** **20. Apríl 1515.** **á Hólum.**

Transskiptarbréf.

JSig. 66 8vo, með hendi Grunnavíkr-Jóns 1741 „Ex Transcripto pergameno. collatum“, sem hann fékk að gjöf í August 1735 af Markúsi sýslumanni Bergssyni í Ögri.

Þad giorum vær Jőn Arason radzman heilagrar hőlakyrckiu. Jőn Olafsson kirkiuprestur j sama stad. Olafur

menn í Hjaltadal á 17. öld. (Hólakopíubókin eldri Bisk. 3. Fol. bls. 190) og Árni Magnússon hafa lésið þetta ártal sem „1512“ og háfa ritað það utan á bréfið, og svo er því raðað í bréfaskrá Grunnavíkr-Jóns, en það er berlega rangt lesið fyrir 1515, enda má sjá af bréfi frá 11. Mai 1512, að Olafr Filippusson er þá enn á lífi.
1) 66.

hallzson prestar hőla Biskupsdæmis. Jon Þorgeirsson. Grijmur Jonsson og Einar Einarsson leikmenn. Gődum monnum kunnigtt med þessu voru opnu Brefi. ad vier hofum sied og yferlesid opin bref med heilum og oskoddum hangande ȷnnsiglum suo latande ord eptter ord sem hier eptter stendur skrifad.

[Hér koma þessi bréf um mál Ólafs Filippussonar og vígið í, Víðidalstungu 1483:

1. Bólstaðarhlíðardómr Einars Oddssonar 21. Júní 1497, DI, VII, Nr. 383.

2. Undanfærslubréf Ólafs frá 17. Júní 1495, DI, VII, Nr. 314.

3. Úrskurðarbréf Stephåns biskups frá 23. Júní 1498, DI. VII Nr. 408.

4. Úrskurðr Finnboga lögmanns frá 20. Aug. 1498, DI, VII, Nr. 418.

5. Víðivalladómr Gottskálks biskups um undanfæri Olafs frá 29. Apr. 1512, DI, VIII, Nr. 308.

6. Bólstaðarhlíðardómr Jóns Einarssonar frá 29. Apr. 1513, DI, VIII, Nr. 344.

7. Dómr Gottskálks biskups á Hólum frá 18. Aug. 1514, DI, VIII, Nr. 389.

8. Vitnisburðr Sigurðar prests Þorlákssonar frá 29. Febr. 1500, DI, VII, Nr. 486.

9. Vitnisburðr Egils Grímssonar frá 24. Sept. 1485, DI, VI, Nr. 491.[1])

10. Vitnisburðr Einars Oddssonar frá 7. Okt. 1485 DI, VI, Nr. 493[1]).

11. Vitnisburðr Bárðar Jónssonar frá 4. Nóv. 1485, DI, VI, Nr. 494.[1])

12. Vitnisburðr Sölva Þorvaldssonar og Steins Hrólfssonar frá 12. Apr. 1486, DI, VI Nr. 503.[1])

13. Vitnisburðr Teits Þorleifssonar og tveggja annara um eið Vigdísar Jónsdóttur útgefinn á Auðkúlu 1515, DI, VIII, Nr. 417.

14. Vitnisburðr Jóns Þorgilssonar og fjögurra annara um eið Vigdísar, útgefinn á Auðkúlu 16. Febr. 1515, DI, VIII, Nr. 416].

Og til sanninda hier vm setium vær fyrrskrifader menn vor ȷnsigli fyrir þetta Transkripttarbref. skrifad ắ holum ȷ

1) Dagsetning transskriptsins er við þessi bréf misprentuð 22. Júní, fyrir 20. April.

hiallttadal fostudaginn næstañ fyrer Jons messu hola Biskups vm vorid. anno domini ꝏ.⁰ d.⁰ x v.⁰

---

419. 23. Apríl 1515. á Reykjahólum.

Vidimus af alþingisdómi Finnboga lögmanns í erfðamáli eptir Þorleif Björnsson, 1. Júlí 1500 (DI. VII, Nr. 498).

AM. Fasc. XXXIV, 27, frumvidimus á skinni. — AM. Apogr. 5716.

Dom(ur) vm̃ skilgethningh biarnar og systra hans.

ꝏedkennvnst uær kodran prestur jonsson. gvttormur gvnnarson. jon helgason. snorre haflideson.[1]) og þorsteinn ketilsson leikmenn ath uær hofvm lesit ok heyrtt yferlesith opit domsbref med heilvm ok oskavddvm hangande jnsiglom so latanda ord efter ord sem hier stendr fyrr skrifat. Og til saninda hier vm̃ setivm vær fyr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta transkriftarbref er giort var a reykiaholvm æ reykianese jonsmesso dag holabiskups vm vorit þa lidit uar fra gudz burd ꝏ⁰ d⁰ xv.⁰

---

420. 12. Maí 1515. í Hvammi.

Dómr út nefndr af Ólafi Guðmundssyni kongs umboðsmanni milli Gilsfjarðar og Gljúfrár um kærur Björns Þorleifssonar til Ögmundar Tyrfingssonar út af arfi eptir Pétr Jónsson.

AM. Fasc. XLII, 21, frumrit á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá.

Domur Vm Stefnu Mál Biórnz Þorl(eifs)s(onar) til Augmundar Tirbyngssonar.[2])

Þat giorvm vær Stvlle þordarson. sygvrdr narfason. asmvndr clemensson. gvdmvndr finzson. eyuindr gvdmundzs-

1) Svo. 2) Utan á bréfinu með hendi c. 1700. 3) Svo. 4) þ. e. 11. Maí.

son og þorolfur avgmvndzson godvm monnum kunnigth med þessv uorv opnv brefi ath favsta[1]) dagin næstan efter ante portam lathinam[2]) j hvame j hvams sveith uorvm vær j dom nefnder af ærligum manne olafe gvdmundzsyne er þa hafde mins herra kongsins syslv og vmbod j mille gilsfiardar og glivfurar ath dæma og skoda vm̃ þa stefnv og saker er þar jnne stodv er biorn þorleifsson stefnde avgmvnde thyrbingssyni j umbode pals jonssonar fyrir þann arf sem fallenn uar efter petur jonsson er fyr nefndr avgmvndr hafde j settz og lagdth log og dom fyrir a sinnar qvinnv vegna sigridar jonsdottur syster[3]) fyr greindz peturs er hann hiellt logligan erfingia enn biorn þorleifsson hiellt fallet hafa pale jonssyne til arfs og eignar. Nv saker þess ath kom fram bref helga gislasonar med heilv oskavddv hanganda jnsigle. annat opit bref jons gvdmundzsonar med oskavddv jnsigle hverer hia savgdvzt hafa verit a stadarstad a reykianese þridivdag[3]) jola þa sira jon heitin jonsson arfleidde bavrñ sin sigride og avnnvr fleire þar. So j anuara[3]) grein lavgdv þesser menn biorn þorleifsson og avgmvndr tyrbingsson sinar hendur saman fyrir oss adr nefndvm domsmonnum ath hafa og hallda þat þeir dæmdv obrigdanliga a badar sidr. Nv fyrir þessar greiner dæmdvm vær skylldogan optnefndañ avgmvnd ath latha þesse vithne sveria fvllan bokareid efter sinvm brefvm eda avnnr jafn ha þessum so hliodanda sem brefin og bokiñ vth skyrer og hafit sveria lathed vithnin ath micelsmesso þat seinazth(a) nv j haust fyrir birne eda hans logligvm vmbodzmanne og ath svavrdvm vithninvm[4]) dæmdr[3]) vær med fvllv doms athkvæde æfinlig eign vera sigridar jonsdottur qviñv avgmvndar og hennar systra arf peturs jonssonar brodr þeirra en ef vitnin svære ecki sem dæmt var. þa skyllde avgmvndr þo j sithia med frialsv thil þess ath hann være sogthr vr med logum. Og til saninda hier vm setivm vær opt nefnder domsmenn (vor jnncigle) fyrir þetta domsbref er giortt var j hvame j hvamssveith

1) Svo. 2) þ. e. 11. Mai. 3) Svo. 4) Svo (vithninvm).

lavgardagen næstan fyrir hallvardzmesso anno domini millesimo quingentesimo quindecimo.

---

421. 12. Maí 1515. á Þingeyrum.

Dómr klerka út nefndr af Gottskalk biskupi á Hólum, þar sem jörðin Kallaðarnes í Bjarnarfirði er dæmd óbrigðanlega eign klaustrsins á Þingeyrum, en Jón ábóti Þorvaldsson hafði lukt jörðina Gottskalk biskupi upp í skuld, þegar Jón ábóti var prestr og officialis Hólakirkju.

AM. Apogr. 471 „Ex originali monasterii Thingeyrensis accuratissimé". Árni lýsir innsiglinu. — Afskript af þessu bréfi er og í klaustraskjalabók Landsskjalasafnsins (og í AM 280. 4to bls. 203—205) með hendi Hákonar Ormssonar. Þar er þessi fyrirsögn: „Dómur fyrer Kalldadarnese. Huor jörd nu er frä Þingeyraklaustre og fylger vmbodsjordum". Sbr. Dipl. Isl V, Nr. 608.

Þat giorum vær broder einar med gudz nad aboti a munkaþuerá. broder nichulas med samri nad prior á modruuollum. finnbogi einarsson. ion þorgilsson. gudmundr ionsson. ion finnbogason. petur palsson. ion finnbogason. þorsteinn ionsson. þorbiorn ionsson. gunnar þordarson og olafur gudmundzson prestar holabiskupsdæmis godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. at þa lidit uar fra gudz burd ɱ d og xu ær. faustudaginn næstañ epter krossmesso um uorit[1]) á videuöllum i blaunduhlid i skagafirde a almenniligri prestastefnu vorum uier i dom nefnder af uirduligum herra og uorum andaligum faudur godskall med gudz nad biskup a holum. ad skoda álita innuirduliga at rannsaka og fullnadardoms atkuædi á at leggia um þann askilnad er uar a millum uerdugs herra biskups godskallz og brodur eirekz abota at þingeyrum um iordina kalladarnes i biarnarfirde. hueria er fyrr skrifadur herra biskup godskall sagdi sier lukt hafua abota ion godrar minningar er næstur uar aboti at þingeyrum fyrir fyrrnefndañ abota eirek i þann

1) þ. e. 4. Mai.

reikningskap er hann uard biskupinum skylldugur. þa hann uar prestur og officialis heilagrar holakirkiu. sem bref þar um giort ut uisadi. Hier i mot birte abote eirek fyrir oss bref og skilrike under godra manna inciglum so hliodandi. at biarne þorarinsson og solueig gudmundardotter hans eigin hustru hǫfdu sellt brodur gunnari ionssyni conuentubrodur af þingeyrum og þingeyraklaustri iordina kalladarnes i biarnarfirdi til fullrar eignar og adur skrifut hion biarne og solueig medkenduzt at þau hefdi upp borit af brodur gunnari klaustursins uegna aa þingeyrum fimtige gyllene ens þridia hundrads. og aboti ion gamlason at þingeyrum hefdi endurnyat og stadfest med fullum giorninge þetta sama kaup uid optnefnd hion biarna og solueigu. Og þui sagdizt opt nefndur aboti eirek ecki hallda fyrrnefndan ion abota sinn forerara hafa matt i burt fa opt nefnda iord. nema fyrir einhueria logliga naudsyn klaustursins. eda hann hefdi sett klaustrinu adra iafngoda fastaeign i stadinn og þo med brædranna samþycki. lǫgdu þesser fyrrskrifader menn verdug herra biskup godskall og abote eirek med handsǫlum þetta mal under þann dom sem uier hier yfer dæmdum. þui in nomine domini amen. Dæmdum uier fyrrnefnder domsmenn med fullu og logligu doms atkuædi. at ollu so profudu sem þa uar fyrir oss komit. opt nefnda iord kalladarnes obrigdeliga eign klaustursins a þingeyrum uera og uerit hafa sidan fyrst hun uar klaustrinu selld epter þui sem fyrr seiger. Enn herra biskupinn skyllde eiga loglig̃ adgang at abota ions erfingium til so mikilla peninga sem hann tok iordina fyrir. Samþyckti þenna uorn dom med oss virduligur herra biskup godskall og setti sitt incigle med uorum inciglum fyrir þetta domsbref skrifuat i klaustrinu á þingeyrum in die nerei et achillei martirum a sama áare og fyrr seiger.

---

**422.** **20. Maí 1515.** **í Kaupmannahöfn.**

Kristján Danakonungr II. skipar Seffrin Norby — „embættis-

mann á Haritzborg" — lénsmann á Islandi um þrjú ár, gegn fjögurra lesta afgjaldi árlega í góðum fiski goldnum í Kaupmannahöfn og hálfu sakafalli konungs af landinu og öðrum óvísaeyri, en reisa skal hann á eigin kostnað tvö föst og góð vígvirki, annað þar sem konungsgarðrinn er (á Bessastöðum), en hitt í Vestmannaeyjum.

Ríkisskjalasafn Dana, Register over alle Landene Nr. 2A bl. 11b. — Suhms (ældre) Saml. II, 1, 131—132.

Seuerinus Norbii wor embitzmand paa haritzborgh Ffick forleningsbreff paa wort oc Norgis Kronis Leen Jsland met alle sıjne renthe oc retighedh ath haffue nyde och beholle nw uti thette aar oc sıjden framdelis vti two samfeldh aar ther nest effther følgendis efther thette breffs datum regnendis. Dogh met sodannth skell ath hand fore huerth aar skall tiil godhe redhæ giøre oc geffue oss fiere lester Jsslantzske fiscke gille oc geffue oc thennom at føræ oc leffuere hiidh tiil wort sloth Køpnnehaffn paa sind eghen kosth oc skall hand ther tiil giøre oss gode redde och reggenskab fore hues sagefaldh oc andit vwist som oss i samme aar ther paa landith tiilfaldendis vorder oc ther aff skall hand haffue halfdelen ther aff oc wij then anden halffdelen vndentagith tolden som hand besønderlighen skall selff haffue oc beholle allene. Och skall hand thette forne oss til Køpnehaffnn slot paa sin eghen kosth aarlighen skicke oc leffuere lade. Och skall hand fore thenne forne forlening ȷnden forne tree aar lade opbygge och sette ther paa Jsland paa sin eghen kosth teringh oc arbeidh two gode oc faste blockhwsse thet enne som konnings ȷorden stande skall oc thet andit paa Vespenøø oc skall hand giøre oss oc Rigith tiennisthe ther aff nar behoff gørss oc hand tiilseges och hand skicke wore kere vndersatthe ther paa Landit Norgis logh oc retth oc thennom ey vfforretthe eller vfforretthe ladhe i noger made.

Tii forbiwde wii alle. et cetera.

Giffuit paa wort slot Køpnehaffn søndaghen jnfra octavam ascensionis Domini Aar. et cetera. mdxv.

Signatum.

423. 24. Maí 1515. á Ánabrekku.

Tylftardómr út nefndr af Hans Eggertssyni, „kongs umboðsmanni yfir Ísland“, um skyldu Arnórs sýslumanns Finnssonar til að afhenda þá peninga, sem mínum herra konginum voru dæmdir eptir Þorstein Þorláksson.

Frumrit á skinni í Frumbréfasafni Jóns Sigurðssonar Nr. 9, í Landsbókasafni. Öll innsiglin eru dottin frá.

Domr j mille Hannes eggertssonar og Arnors finssonar um̄ sakamann og sekttafiār afhending.

Ollvm monnum þeim sem þetta brief sia edur heyra sender uigfus þordarson. Karfi Ellendzson. jon jonsson. salamon einarsson. jon halsson. svarner logriettvmenn. Runollfor an̄ason. Vermvndvr jonsson. magnus Olafsson. Þorbiorn gudbransson. magnus hialltason. jon jonsson. Olafvr Codranzson kuediv gvds og sina kunnigt giorandi. þa lidit var fra hingadbvrd vors herra jesv christi þvshvndrud fim hvndrud. ok xiiiij ar midkudagen næstan fyrer huitasvnnv[1]) j eskehollte. á þingstad riettvm. Vorum vier j dom nef(n)der. af ærlegvm dandisveine. hans egerzsyni kongs vmbodsmanne yfer island at skoda og dæma. hvort an̄or finsson skyllde afenda sier þa peninga sem minum herra kongenvm voro til dæmder Epter þostein þollaksson. sem dan̄di manna domvr þar vm skrifadur er. ok dæmdur af kirkiunar ualldi. synde arnor þar sitt syzlvbrief. suo latan̄da at hann ætte at eignazst avll vi marka mal. ok þar fyrer inan̄. Enn ef stære mal kynne til at falla, sem gud lieti fære enn fleire. þa skyllde hann somoleides sækia vnder kongdomen. hafdi adur skrifadur hannes adur skipad og bifalat fyr greindum an̄ore at bivara alla þessa peninga. Þui dæmdum uier fyr skrifader domsmenn. advr nefndan an̄or finsson skylldugan̄ at afenda þostein þollaksson. ok alla þa peninga sem minum herra kongenvm voro dæmder hans eggerzsyne i hond eda hans vmbodsmanne. [giallda jnan sioundar. allt j havst[2]). og suo fyr greindan þostein þollaksson fyr(er) þing.

1) þ. e. 23. Maí. 2) [á spássíu og hvergi vísað inn.

haufdu nær uerit. þa biorn þorleifsson afhenti hannes[1]) krwko laugligum vmbodzmanne sira petre palssyni biskups gothskalks sendiboda þessa saumu skulld. Suo og kuittanarbref af þeim hinum sama sem peningana upp bar. huer oss sẏnduzt ȷ allan mata skialliga og laugliga wt gefin. efter sancte olafs laugum. Jtem ȷ þridiu grein. Vitum uier fyrir full sanninde ath biorn gudnason hefer þessa saumu peninga rangliga ath sier tekit og halldit sidan med mackt og ofrike. Þui ath heilags anda nad til kalladri. ath suo profudu og fyrir oss komnu. Seigium uid biskup Stephan og vigfws ellendzson laugmann. ȷ gudz nafni amen. med fullum domi og laga wrskurdi. og samþẏcki þeirra godra manna lærdra ok leikra. sem fyrr skrifader standa. sagdañ biörn þorleifsson. riettliga golldit hafa þessa saumu skulld af sinu eigin erfdagozi. sem honum hafdi til fallit epter sinn fodr sem vors helgazta faudr pauans dispenseranarbref wtuisar. og konganna bref inne hallda. kong kristierns og kong hans. godra minninga. hier med bref erkibiskupsins Gauta. og skalholltz biskupa. med domum bædi lærdra og leikra. enn hannes[1]) krwko fẏrr greint goz til æfinligrar eignar. og biorn þorleifsson uidskildañ vid sagda skulld. ȷ suo mata ath hann suare laga riftingum epter riettum landz laugum þeim sem med riett kann upp á ath klaga. ádr skrifat goz. ath honum sialfum fẏrir kaulludum. Enn fyrir rangligt halld og grip á peningunum af hendi biarnar gudnasonar þa gialldi hann aptur peningana med fullum laga auexte. nær sem heimt uerdr af hannes[1]) krwko vmbodzmanne. hier med dæmdum uier biorn gudnason skẏlldugan ath giallda domkirkiunne ȷ skalhollti fyrir þann allañ kostnat halfaukinn sem biskup stephan hefer borit fyrir þessum malafellum. og sekañ maurk ȷ stefnufall.

Og til sanninda hier vm. settu. biskupinn. og laugmadrinn sin ȷnsigle med uorum fẏr greindra manna ȷnsiglum fyrir þetta domsbref og wrskurdar. skrifat ȷ sama stad. deigi og áre sem fyrr seiger.

---

1) hans 15, 16.

464. **20. Febrúar 1517.** **Í Skálholti.**

Dómr sex klerka útnefndr af Stepháni biskupi í Skálholti um sekt þeirra Lýtings Einarssonar, Guðmundar Erlendssonar og Sumarliða Einarssonar fyrir viðreign þá, sem þeir höfðu í kirkjugarðinum í Reykholti.

AM. Apogr. 1738, eptir kopíu með hendi Páls lögþingisskrifara Gíslasonar; höfðu þá verið 4 innsigli fyrir frumritinu, þegar Páll afskrifaði það. Þessa afskript hefir Árni síðan borið saman við frumritið og leiðrétt eptir því: „Þetta fyrrskrifad bref er Anno 1709 i Octobri confererad vid sialft originalbrefed sem Sira Þordur Jonsson ä Stadarstad nu ä. og eru nu fra þvi öll innsiglen. sem i fyrstu hafa 7 vered“.

1517. um fullrette biskups og kyrkiu
i fyrre tid.[1])

Øllum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda broder Augmundur med guds nad aboti j videy. Helgi Jonsson. Þordr gudmundsson. Jon Eireksson. Jon Þorsteinsson. Þorleifur Eireksson. kiennemenn skalhollz biskupsdæmis. kvediu gudz og sina. kunnigt giorandi ad sub anno gratie M. d. xvij[2]) fostudaginn næsta fyrir cathedram Sancti Petri Apostoli j domkirkiunne j Skälhollti vorum vier j dom nefndir af ærligum herra og andaligum faudr herra Steffane med gudz nad biskup j Skälhollti ad skoda ransaka og dæma hversu häfar saker heilaug kirkia skal eiga uppa þessa menn Lýting Einarsson. Gudmund Elleñzson og Sumarlida Einarsson fyrir þä vidreign sem þeir hôfdu j kirkiugardinum j Reýkhollti og þeir hôfdu ädr medkeñzt og lausnt[3]) fyrir tekid af biskupenum. gudmundr Ellenzson flydi j gardenn og stod þar med vopne. kom þä Lýtingr med annad vopn og geck gudmundur j motti honum tvô spor eda þriu og stunguzt þeir ä og gripuzt sidan. vard lýtingr þa undir gudmundi. enn Sumarlidi kom þa ad og hio gudmund averka j hôfudid og ä halsinn. Þvi ad heilax anda näd til kalladre ad svo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vær

1) Þetta stóð utan á frumritinu með hendi Páls Gíslasonar, og svo „Num. 7.“ 2) Í afskript Páls Gíslasonar hafði hér staðið 1514, sem Árni hefir leiðrétt í 1517 eptir frumritinu, og segir: „Arstaled og skirt i brefenu 1517“. 3) Svo.

fyrgreindir kennemenn med fullu doms adkvæde greindañ Sumarlida sekan xv mörkum vid biskupenn og kirkiuna. Enn Lýting sekan ix. mörkum fyrer þá blodz uthelling sem hann giordi. Enn gudmund sekan vj mörkum fyrer þad rausk og tilhlaup sem hann giördi j kirkiugardinum.

Samþyckti þenna vorn dom fyr greindr herra Stefhan og setti sitt jnnsigli med vorum fyrnefndra kennemanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref skrifad j sama stad deigi og áre sem fyr seiger.

---

**465. 10. April 1517. í Viðey.**

Ögmundr ábóti í Viðey fær Hannesi Eggertssyni til fullrar eignar jarðirnar Kirkjuból í Selárdal, Suðreyri og Tungu í Tálknafirði fyrir jarðirnar Býjasker og Þórisstaði á Rosmhvalanesi.

AM. 238. 4to bl. 1., skr. c. 1570. (Bessastaðabók). Borið saman við dómasyrpu Jóns Hákonarssonar á Vatnshorni frá c. 1608.

Biaskers Bref og Þorisstada Bref.[1])

Þat giorvm vid Gissvr Þorleifssvn oc Solmvndvr Nikvlasson godvm monnvm kvnnigt med þessv vorv opnv brefi at uid[2]) vorvm þar j hia savm oc heyrdvm æ fostvdagin j hellgv vikv arvm epter gudz byrd m. D. oc xvij ar at þessir menn tokv hondvm saman herra Oggmvndvr med gvdz nad aboti j Videy af einne alfv en Hannes[3]) Eggerson af annare at svo fyrir skildv oc vnder tolvdv at herra Oggmvndvr fieck fyrrskrifvdvm Hannes[4]) þessar jarder j Vestfiordvm. Kirkivbol. xxx.c j Selardals kirkivsokñ. Sydvreyre oc halfa Tvngv j Lavgardals kirkivsokñ. xxxv.c at dyrleika til fvllrar eignar oc frials forrædis.

Hier j mot gaf fyrrskrifadvr Hannes abotanvm þessar jarder [halfa Biaskier[5]) oc Þoristadi er liggia æ Hrosshvalanesi[6]) oc þar til .x. æring med avllvm þeim gognvm oc giæd-

1) JHák. 2) JHák; vier 238. 3) Hans, JHák. 4) Hannesi, JHák. 5) [halft Biaskerit, JHák. 6) Rosshvalanesi JHák.

vm sem greindvm jordvm fyllger oc fylgtt hefvr at fornv oc nyiv oc hann vard fremst eigandi at. skyllde hvor hallda sinv kavpi til laga oc svara lagariptingvm fyrir sinar jarder.
Oc til sanninda her vm festvm vid ockvr insigli fyrir þetta jardakaups bref skrifad i Videy æ sama ari sem fyrr seigir.

---

**466. 24. Apríl 1517. í Kaupmannahöfn.**
**31. December 1526. í Skálholti.**

Griðabréf Kristjáns konungs hins II. handa Jakobi Brandssyni fyrir víg.

Bisk. Skalh. XVIII, 45, frumritað transskript á skinni. — AM Apogr. 2388 „accuratissimé". — Landsbókasafn 72. 4to bls. 349—350 með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1720 (með raungu ártali 1514).

Christiani secundi Liifs Bref utgiefed Jacob Brandssyne. Anno 1514.[1])

Wij christiern met guds naade Danmarckis norgis Wendis och gottis koning wdvold koning till Suerige ħartug[2]) i Slesuig ħollsten Stormarreñ och ditmersken greffe i oldenborg och delmenhorst. Giore alle witterligt at thenne breffuiser jacob brandsonn haffuer werret for os ath han kom for skade och sloo eeñ karll i hiell paa ÿsland tha haffue wij nw aff wor sønderlige gunst och naade wndt och giffwit och met thette wort obne breff undhe och giffue. sam̄e Jacob brandsøñ wor frijdt j geñ thog swo ath hañ sielff skall fordrage sig met theñ dødes weñer. Thij forbiwde wij alle wor(e) foghetther och embitzmeñ och alle andre forne jacob brandsonn her offuer at hindre hindre lade møde platze eller i nogher maade forfang at giore vnder wor konunglige heffnñ och wredhe. Giffuet paa wort Slott kiøbnehaffn fredagenn nest effther sanct jorgiens dag. aar et cetera m d xuij.[3])

wnder wort Signeth.

1) 72. — Síra Jón hefir mislesið ártalið svo fyrir 1517. Copia landsvistarbrefs jakobs brandzsonar, XVIII, 45. 2) Svo. 3) 1514, 72, því að síra Jón hefir mislesið ártalið md xiiij fyrir m dxuij.

Þat giaurum uit gisle ualldason og helgi magnvsson godum monnum kunigt med þessu ockru opnu brefi at uid hofum sed og heyrt yferlesit kongsbref med heilu og o-skauddu jnsigli so latanda ord epter ord sem hier fyrir skrifat steñdur. Og til sanninda hier um heingdum uit ockur jnsigle fyrir þetta bref skrifat j skalhollti siaunda dag jola. anno domini ꝏ d xxuj.

---

**467. 26. Apríl 1517. í Hofteigi.**

Vitnisburðarbréf, að Grímsstaðir á Fjalli lægi undir Möðrudalskirkju að öllum skyldum.

Landsb. 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefabok Biskups Ögmundar“. — AM. Apogr. 2776 með hendi Árna Magnússonar, og er afskript sú staðfest í Skálholti 9. Okt. 1711, af Árna sjálfum, Ormi Daðasyni, Þórði Þórðarsyni og Páli Hákonarsyni. Báðar afskriptir orðrétt samhljóða.

Um Maudrudal.

Þat giôre eg Eirekur Ormsson godum monnum kunnugt med þessu minu opnu brefi. ad eg heyrda fôdur minn Sera Orm Eireksson þvi lŷsa. ad Grimstader á fialli lægi under Maudrudalskirkiu ad ollum skŷldum. ok til sanninda hier um sette eg mitt Jnnsigli fyrer þetta vitnisburdarbref. skrifad i Hofteige. sunnudagin næstan epter Marci Evangelistæ um vorid þá lided var fra guds burd. M. D. xvij ár.

---

**468. 1. Maí 1517. í Kaupmannahöfn.**

Söffren „embættismaðr á Haridzborg“ fær kvittan um þau 800 Rínargyllini, sem konungr fékk honum í þann tíma, sem Söffren fór með skip hans „Engilinn“ út til Íslands.

Rikisskjalasafn Dana, Register over alle Landene Nr. 2 A. bl. 20.

Söffrenn norby wor embetzmand paa Haridzborg ffick qwiitancie paa the .viij. hwndrede rynske gilden mijn hers

nade anthworde Hanwm then tiid Hand lôb med mijn Hers nadis skiib engelend vdh till Jsland. Clausulis assuetis.

Datum Kopenhaffn sanctorum philipi et Jacobi dag Aar. et cetera. mdxvij.

magister Andreas glob.

---

**469.** **6. Maí 1517.** **á Hólum.**

TRANSSKRIPTARBRÉF.

Bisk. 3. Fol. bls. 1 og 18, skr. 1640 með hendi Hákonar sýslumanns Gíslasonar. — Landsskjalasafn 94. 4to bl. 44a—46b með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600 (hér hafa bréfin nokkuð farið úr reipunum).

Vm Olaf Philippusson oc Einar son hans.[1])

Þath Giorum vier Olafur Jonsson og Olafur Hialtason prestar Hőla Byskupzdæmis. Magnus Arnason. Narffe Jngemundarson. Magnus Biorns(son). og Gunnlaugur Helgason Godum monnum kunnigt[2]) med þessu voru Brefe. ad vier hofum sied og yferlesed opin Bref. med heijlum og oskoddum hangandi Jnsiglum. suo latandi ord epter ord. sem hier epter skrifad stendur.

[Hér koma þessi bréf um mál Ólafs Filippussonar:

1. Bréf síra Jóns Þorvaldssonar um undanfæri Ólafs Filippussonar 17. Júní 1495, DI, VII, Nr. 314.
2. Úrskurðr Stepháns biskups 23. Júní 1498, DI, VII, Nr. 408.
3. Bólstaðarhlíðardómr 21. Júní 1497, DI, VII, Nr. 383.
4. Úrskurðr Finnboga lögmanns 20. Aug. 1498. DI, VII, Nr. 418.
5. Kaupmálabréf Ólafs og Vigdísar Jónsdóttur 30. Sept. 1492 — 8. Apr. 1496, DI, VII, Nr. 209.
6. Dómr Gottskálks biskups um undanfæri Ólafs 29. April 1512; Nr. 308 að framan.
7. Bólstaðarhlíðardómr Jóns Einarssonar 29. April 1513. Nr. 344 að framan.
8. Dómr Gottskálks biskups um kirkjugarðssaurgun Ólafs 18. August 1514, Nr. 389 að framan.
9. Bréf klerka og leikmanna nyrðra um þessi mál til ríkisráðsins 8. Maí 1517, en er hér ódagsett og óárfært, og mun því hér vera

1) Þetta stóð utan á transskriptarbréfinu. 2) 94; vantar í 3. Fol.

tekið eptir uppkasti bréfsins, sem síðan hefir verið innsiglað og hreinskrifað tveim dögum síðar en transskript þetta; Nr. 470 hér á eptir.

10. Kvittunarbréf síra Jóns Þorvaldssonar til Ólafs um kirkjugarðssaurgan og leyfi til giptingar 11. okt. 1496; DI, VII, Nr. 353.

11. Kvittunarbréf síra Sigmundar Steindórssonar um sama 6. Febrúar 1500, DI, VII, Nr. 483].

Og til sanninda hier vm settum vær fyrst skrifader menn vor ȷnsigli fyrir þessi Transschriptar Breff skrifud a Holum ȷ Hialltadal midvikudæginn næstan eptter krossmessu vm vorid Anno Domini. M. qvingentesimo decimo[1]) septimo.

---

## 470. 8. Maí 1517. á Hólum.

Bréf nokkurra klerka og leikmanna fyrir norðan land til konungs, erkibiskups og ríkisráðsins í Noregi um arftöku Einars Ólafssonar eptir Ólaf heitinn Filippusson föður sinn.

Bisk. 3. Fol. bls. 19—22 (= *a*) og bls. 14—17 (= *b*); eru báðar afskriptirnar gerðar á Hólum í Hjaltadal og staðfestar 2. Nóv. 1640 af Hákoni sýslumanni Gíslasyni, Sigfúsi Egilssyni skólameistara og síra Sveini Jónssyni á Barði; er afskript sú, sem hér er kölluð *a*, gerð beint eptir frumritinu, en hin eptir transskripti frá $^{8}/_{5}$ 1517; í þá afskript vantar niðrlag bréfsins og ártal. — JSig. 66. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns eptir transskr. frá 9.—17. Júní 1555 (= c). — AM. Apogr. 803 eptir transskr. 1555 hinu sama. — Skjalabók Landsskjalasafnsins með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600 (= *d*). Munr afskriptanna er í heild sinni mjög lítill, nema að *b* (uppkastið) er nokkuð frábrugðið að lyktum.

Brief Til Rȷȷkessins Raads ȷ Norege.

Worum heybornasta Herra og Nädugasta konungi konungi Christierne med Guds Nad Noregs[2]) og Danmerckur konunge et Cetera eller[3]) hans Nädar Logligum Vmbodsmanne fyrer nordan Dofrafiall[4]) ȷ Norege. vorum virduligustum[5]) Herra og andaligum[6]) faudur Herra Eȷrȷke med

1) Þetta orð vantar af ógáti í afskriptirnar. 2) Noregis *c*. 3) Ellur *c*; Ellegar *d*. 4) Dofrafioll *b*. 5) virduligasta *d*. 6) andligum *d*.

samre[1]) Nád Erche Byskupe j Nidarosi Wirdugligum Herrum og andaligum̄[2]) fedrum̄. [Worum Byskupum̄[3]) og aullum þeim Erligustum og welburdugum Herrum bædi Lærdum og leijkum. Rikissins rádi j Noregi j sama Takmarcki senda ẏdrer truer þegnar. og hinir minstu þienarar. Þorbiorn Jonsson. Rádsmann Heilagrar Holakyrkiu. Jon Þorgilsson. Jon Arason. Gilbricktt Jonsson. Nichulas Wilhialmsson. Þorsteirn Jonsson prestar Hóla Byskupsdæmis. Jon Þorgeirsson, Grijmur Jonsson. Einar Eijnarsson. Narfi Jngemundarson. [Halldor Jonsson. Gudmundur Þorleijfsson[4]) Leijkmenn wora audmiuka þionustu med allri Trw og lijtelæti. ydur kunnugt giorandi ad wier hofum sied og[5]) yferlesid doma og morg aunnur Bref. med heilum og oskoddum Jnsiglum vm skilgietning og arftoku Einars Olafssonar og vndanfære fyrer [kongs valldi[6]) og kyrkiu. ad[7]) Olafur heitinn Philippusson hefur Logliga giort j móte allrj áklagan annara manna er arfinn effter Hvstru Solveigu Biornsdottur vilia hefda vnder sig med ymisligri Laganna breẏtne. huad vier autlum[8]) ecki riett vera. [og j[9]) mote vorum Logum. þo ad nockrer vilie so giora sem vær hofum heyrtt fra sagt. þui ad vær vitum ad Einar Olafsson er Logligur Erfingie sagdrar Hvstrvr Solveigar. ef hann skal oræntur vera. þui ad hann er dotturson Solveigar skilgietinn aff Laungietinne dottur kominn. hefur hann og alldrej. eda hans fader. edur nockur þeirra vmbodsmadur verid fyrer kallader þa þeir adrer hafa hier nockra giorninga edur doma vm giort. huad oss þyker berliga þuert j mote Lǫgum landsins. Enn ef þessi Einar være ecki arftækur sem þeir wilia þa ber þo fyrri arfinn vnder Biorn Þorleijffsson. helldur enn vnder adra suo frampt sem wors Helgasta[10]) fodurs Pavans j Róm leyfis Brief. edur Edalbornasta[11]) Herra. konganna Erchi Byskupsins og Byskupanna[12]) samþycktar Brief skulu myndvg og mecktug[13]) wera. Enn þo vier tolum̄ nockud vm

1) gudz *d.* 2) andligum *d.* 3) [biskupum vorum *d.* 4) [Gudmundur Þorleifsson og Halldor Jonsson *bc.* 5) b. v. *bcd* 6) [kongi *b c.* 7) er *bc.* 8) ætlum *cd.* 9) [sl. *b.* 10) heilagasta *b.* 11) Edlabornazta *c.* 12) biskupa *c.* 13) wycktug *b* (!)

Biorn Þorleijfsson. ydur kunngiorandi vnderstödu mâlsinz. þa lÿka vel efum vier oss ecki vm greindañ Einar. þui ad hann er riettur og sannur Erfingie Solveigar. ad worri sannri samvisku. Enn ef wor heygbornasti Herra og Nadugasti konung.[1]) konung Christiern hefur nockud Bref wtgiefid. mote þessum Einare. þa er hans Nâd þad milldiliga giorandi fyrer Guds skÿlld. og[2]) fyrer riettwijse og laganna skipan ad kalla þad aptur. þui ad vier vitum fullkomliga ad þetta mal hefur ecki verid riettiliga vnder flutt fyrer hans heygbornasta Nâd. þui er ydur þad mykid myskunar werk goder herrar. bædi fyrir Gudi og monnum og haskalaust j aullum grejnum ad leggia yduarn alyckttardöm â þetta mâl og dæma Einare Olafzsyne arfinn allann epter fyrrsagda Solveigu er hun erffdi epter Brodur sinn skilgietinn Einar Biornsson. þui ad þui vite og skilningi er Gud hefur oss giefid og laganna skyringu þa witum vier ecki riettara fyrer gudi og monnum. ad sagdur Einar eigi riettiliga fyrr sagdañ arf allañ. Enn ef þier verdid honum eigi[3]) hialpliger med riettum Logum. þa bÿhelldur hann ecke eitt hid minsta þar wt af. enn þad er þo[4]) haskasamligt fyrer Gudi. ad ef þeir niota eigi[5]) sem med riettu eiga þo ad þeir sie ecki so menter eda mannader sem hiner eru[6]). er thil kalla. Er hier og liost Logmâl vmschrifad j vorri Landslaga Bok. j riettu Erfdatali. þui ad Einar Olafsson er skilgietinn dotturson Solveigar Biornsdottur. epter huôria Solveigu þessi arfur er fallinn. og er hann j hinne[6]) þridiu Erfd. enn Biorn Þorleijfsson Brodurson Solveigar j hinne fiordu Erfd. Enn hiner adrer systra syner optnefndrar Solveigar Biornsdottur af Laungietnum systrum komner. eru j hinni fimtu erfd. var þessi arfur reÿknadur xij. hundrud hundrada. eda meir epter adurgreinda Hvstrv Solveigu.[7]) Enn þeir fedgar Olafur og Einar feingu[8]) þar af alldrej mejr vtan ein þriu hundrud hundrada. Enn sÿdan þeir mâttu þau eigi[9]) b.jhallda med nadum. þa skiptti Bÿskupinn â Holum vid þa fedga fyrer Bæn og Râd godra manna. thil sÿn takandi þetta Gods og

1) konungur *b.* 2) sl. *b.* 3) ecki *b*; ei *c.* 4) sl. *c.* 5) ei *c*; ecki *c.* 6) sl. *c.* 7) Soluegu *c.* 8) fiengu *c.* 9) ecki *b.*

fieck þeim domkyrkiunnar fasta gods aunnur á mote. Suo og wissum vier fyrer full sannindi. og hofum heýrtt marga goda menn seigia ad þeir Olafur Philippusson og Jon Sigmundsson hafi haftt sijn á millum kaup og skiptti og marga adra peninga skickan og hafi Jon halldid þa Olaf osekan og myndugan j sijnum giorningum. hefur og þessi same Jon Sigmundsson fyrstur og fremstur dæmdt fyrr sogdum Einare allan þennan arf. þo ad hann hafi nu sijdan þar adra giorninga vm giort.

[Og til sanninda hier vm setium vær fyrr skrifader menn lærderog leijker vor Jnsigli fyrer þetta Brief skrifad á Holum j Hialltadal. faustudæginn næstan fyrer Hallvardsmessu. aarum epter Guds burd þusund. fimm hundrud og seýtian aar.[1])

---

**471. 12. Maí 1517. á Víðivöllum.**

Tylftardómr klerka út nefndr af Gottskalk biskupi á Hólum, um ákærur biskups til Jóns Sigmundssonar, meðal annars fyrir það, „að hann hefði talið rangan átrúnað fyrir mönnum og framið, og svo uppbyrjað nýja villu móti guðs lögum með sinni trakteringu og trúarinnar afgöngu“.

AM. Apogr. 3885 með hendi Páls Hákonarsonar „Ex membrana. accuratè collatum“. „Fyrer þessu brefe hafa alldrei Jnnsigle vered“. (Páll Hákonarson). — AM 240. 4to bls. 33—36 með hendi Jóns lögmanns Jónssonar c. 1592. — MSteph. 56. 4to bls. 277—280 með hendi Snæbjarnar Torfasonar 1646. Sbr. Nr. 228.

Hvert þesse domur hefur nockurn tima innsigladur
vered eda ecke veit eingenn. þvi ad j þessum
brefum hefur alldrei annar siest enn
þesse. hverke fyrr nie seinna. sidann
herra Olafur heitenn hialltason
tok vid holum.[2])

1) *a;* vantar í *b*. 2) „Hinumeigenn efst ä bladenu er þetta skrifad med gamalle hende (kynne vel vera Herra Gudbrandz)“ [Páll Hákonarson].

Þath giorum wier broder nikulæs med gudz myskunn prjur a maudruvaullum. Þorbiorn Jonsson rádzman heijlagrar holakirkiu. finnbogie Einarsson. Pietur Pálsson. Gudmundur Jonsson. Jon finnbogason j laufási. nikulás vilhialmsson. Eigill hallsson. Jon Jonsson á Skinnastaudum. Jon Jonsson á Myklabæ. Steinn Markusson og Olafur hiallta-[son] prestar holabiskupsdæmis godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ath árum efter Gudz burd m. d. xvij ár á Vijdivollum j blaunduhlijd i Skagafirdi a almeniligri prestastefnu þridiudaginn næstann fyrer halluardzmessu vorum vier j dom nefnder af vorum virduligum herra og andligum faudur Gottskall med gudz nád biskup á holum á ath lijta. skoda og rannsaka og fullt og allt doms atkuædi á ath leggia um þá ákiæru er biskupinn kiærdi thil Jons Sigmnndssonar og i stefnunne stod. Enn sakier þess ath stefnan var svarin af sira Joni Sueinssyni þui dæmdum vier hana laugliga og mork j stefnufall nema jon Sigmundsson syni laugleg forfaull ath hann mátti ecki koma.

j fyrstu grein dæmdum vier þessar iiij sakier er i stefnunni stodu sem er[1]) skriftrof og suo ath hann hefdi eigi thil hola komid auskudag og skyrdag þo biskupinn hafui hann oftar bodad þangad og suo fyrer þá grein ath hann hefur ej thil hlydni geingid vid gud og heilaga kirkiu og biskupinn upp á næstu vj. ár og suo halldit samneyti og sidblendi vid adra menn sem osakadur madur j aullum þessum fyrrsaugdum tima suo og ath hann hefdi j kirkiu geingid og tálmad þar med gudlegu embætti og margur madur hefur mist sinnar þionustu þar fyrer þessa hans ohlydni og fyrer þá grein ath hann hefdi talid rangann átrunad fyrer monnum og framid og svo uppbyriad nyia villu moti Gudz laugum med sinni traktieringu og truarinnar afgongu. Hier med ath hann hefdi halldit sitt underfolk j sannri ohlydni sem sialfann sig. bannad þeim[2]) messur ath sækia. þionustunar ath vitia og fyrerbodit almuganum ath giallda prestunum sinar skullder sem þeir eiga med laug-

1) firir, b. v. 240. 2) þui 240.

um ath hafa. og lagt þar vid storar fisekter. Suo og ath hann hefdi sett sig j veralldligt valld og fiarforrædi og fleira annad giort þad sem laugin banna bannsettum manni ath giora sem domar dándi manna þar um giorder utuijsa[1]) þui dæmum vier alla þina[2]) doma og urskurdi ologlega og omynduga og ecki halldandi epter þui sem dandimanna domar þar um dæmder utuijsa og innihallda og Jon Sigmundsson sannreindann villumann og ath suara slijkri segt og likamlegum plagum fyrer sierhueria grein þessa sem laugmalid utuisar. J fimtu grein er biskupinn kiærdi til adurgreindz Jons Sigmundssonar ath hann hefdi rægt sig og i rygt borid vid vorn heyghornasta herra og nádugasta konung Kristián. heyrdum uier þar upplesid bref vors verdugasta faudur godrar minningar Erckibiskups Gauta hvers sál Gud nádi suo látanda ath Jon Sigmundsson hefdi klagad fyrer vorum edlabornasta herra konginum ath hann[3]) hefdi kugad af honum mikid gotz med orietti og skilid sig vid sina kuinnu og þessar saumu sakir kiærdi hann[4]) fyrer erkibiskupinum sem hans Bref utvisar. vissum vier ath allur þessi rogur reyndist osannur svo sem dandimannna domar þar um giorder utuisa. þui dæmdum vier Jon Sigmundsson sannann Rogsmann og fyrerfarid hafua aullum sinum peningum kvikum og daudum fridum og ofridum faustum og lausum og biskupin meiga riettlega ath sier taka nær hann villdi og Jon Sigmundzson fallinn j bann fyrer þessa sina thilverkan og skylldugann ath taka lausn og skrift af biskupinum edur hans laugligum umbodzmanni þui ath laugin seigia suo ath huer sem rægier annann fyrer valldi suari slikri sekt sem hinn ef hann reyndist sannur ath. Suo skipadi og skylldadi fyrrnefndur Erkibiskupinn sagdann biskup gottskalk ut af aullum sacramentum heilagrar kirkiu og biskuplegu valldi utan hann stædi under domi biskups Steffáns og hans lærdra manna um allar hans áklaganer á[5]) Jon[6]) Sigmundzson þessar fyrr skrifadar án allrar appellerunar. J siettu grein er biskupinn kiærdi thil Jons Sigmundz-

1) 240; utuijsar, 3885. 2) hans 240. 3) 240; sl. 3885. 4) og b. v, 240. 5) og 240. 6) Jons, 3885.

sonar ath hann hefdi sagt ath biskupin hefdi rænt gripid og tekid og hans fylgiarar hañs gotz og garda algiord bu huad med aullu ʀeyndist osannindi utan suo sem domar dandi manna þar um dæmder biskupinn thilskylldad hafua ath taka ath sier þessa garda þar thil kirkian hefdi sinn fullann Reikning af þeim sem þá á med laugum ath leysa. Enn þessi thilskipadur timi er fyrer laungu umlidinn. þvi dæmdum vier herra Gottskall og hans fylgiara frialsa liduga kuitta og ákiærulausa fyrer Joni Siamundzsyni og aullum audrum af allri sinni athtekt. J sioundu grein kiærdi biskupinn ath Jon Sigmundsson hefdi halldit j ofrelsi fyrir kirkiunni og Biskupinum xiij. kugilldi og xx med aullum lagaávexti upp a ixi ár sem bref[1]) med dandimanna jnnsiglum þar um giort utuijsar. þui dæmdum vier Jon Sigmundzson skyllduganu ath giallda og greida fyrr saugd kugilldi med aullum ábata og laga avexti á allann fyrr sagdann tima og holadomkirkiu xxx[2]) marka j sitt fullrietti. J attu grein kiærdi biskupinn thil Jons Sigmundzsonar ath hann hefdi átt barn j frillulifi j fyrrgreindum saukum. dæmdum vier hann þar fyrer sekann sliku sem lögmálid utuisar. J niundu grein er biskupin kiærdi til Jons Sigmundzsonar ath hann hefdi smád. minkad og suivirdt heilagrar kirkiu laugmál og skeytti huorki forbodi nie banne. vitum vier fyrrnefnder kiennimenn ath þessi sauk er saunn og ath suo profudu sem nu er fram komid[3]) med domum vitnum brefum og biuisingum dandimanna[4]) ath vier vitum fyrer full sannindi ath satt er þvi dæmdum vier Jon Sigmundzson einskis kirkiunnar laugmáls niotandi verda þar thil hann geingur thil sannrar hlydni vid Gud og heijlaga kirkiu og hennar formann.

Samþykti med oss þennann vorn dom andligur fader herra gottskall og tuennar tylfter presta med honum er þá voru þar á prestastefnunni.

Og thil sanninda hier um setium vier fyrrnefnder

---

1) bp(!) 3885; brefid 240. 2) xiij 240. 3) 240; kom 3885. 4) og b. v. 240.

kennimenn vor insigli fyrer þetta domsbref skrifad á holum j hialltadal jn dije bonifæscij Episcopi og Martijris á sama ári og fyrr seigier.[1]).

---

472 12. Maí 1517, á Víðivöllum.

Tylftardómr klerka útnefndr af Gottskalk biskupi á Hólum um hjónaband Ingilbrikts Jónssonar og Höllu Vilhjálmsdóttur.

AM. Fasc. XLIII, 7, frumrit á skinni. Af 12 innsiglum er eitt fyrir bréfinu. — Apogr. 3431.

Þat giorum uier þorbiorn ionsson radzmadur heilagrar holakirkiu. ion þorgilsson. finnboge einarsson. ion finbogason ȷ mula. gudmundur ionsson. ion finbogason ȷ laufase. nikolas uilhialmsson. ion ionsson æ skinnastodum. ion ionsson æ micklabæ. þorgils gudmundzson. steinn markusson. ok ȷon marteinsson prestar holabiskupsdæmis godum monnum uiturlikt med þessu uoru optnu brefe at arum epter gudz burd ꝺ. d. ok xvii. ar æ videuollum ȷ blaunduhlid ȷ skagafirde æ almenneligre prestastefnu æ þridiudaginn næstañ fyrir halluardzmessu uorum vier ȷ dom nefnder af uorum uirdelegum herra ok andaligum fodvr gottskall med gudz nad biskup æ holum æ at lita skoda ok rannsaka ok fullañ dom æ at leggia huort ȷngilbrikt ionsson skyllde uera logliga eigingiptur. uar stefnan loglig dæmd þui at hvn uar suarin ok mork ȷ stefñvfall. leidde biskupinn þesse uitni þar fyrir oss herra priorin nikulas æ modrvuollum er þui lysti þar fyrir oss at þesse same ingilbrikt hefde bætt margar hordoms saker ok tekit skript ok lausn ok hann hefde sin kuittunarbref. suo ok bar sira gudmundur ionsson at hann hefde sied ok yfer lesit eid ok uitnisburd sira ȷons heitins peturssonar suo latanda at ȷngilbrikt ionsson hefde bæde keypt ok fest haullu uilhialmsdottur epter kirkiunnar logum. baru þetta sama marger adrer goder menn bæde lærder ok

1) þ. e. 5. Júní.

lciker. þui in nomine domini amen. dæmdvm vier fyr nefnder kennemenn med fullu doms atkuæde ȷngilbrikt ionsson logliga giptañ uera ok verit hafua sidan fyrst hann giorde þenna laga giorning uid sagda haullu uilhialmsdottur ok hann skylldugañ at bæta allar þær hordoms saker sem hann syner ecke logligar kuittuner[1]) fyrir kirkiunnar vmbodzmonnum ok skylldugan at taka skript ok lausn a auskudeige ok skirdeige ok hallda hrudlaup sitt innañ .xii. manada ok skylldugañ at suara suo morgum brudlaupsektum sem log seigia honum a hendur. Ok til sannenda hier um setium vær fyrnefnder kennemenn uor incigle fyrir þetta domsbref skrifat a holum ȷ hialltadal laugardaginn næsta fyrir Medardi et gilldardi episcoporum et confessorum.[2]) a sama are sem fyr seiger.

---

473. 13. Maí 1517. á Víðivöllum.

TYLFTARDÓMR klerka útnefndr af Gottskalk biskupi á Hólum um kúgildahald Sæmundar Jónssonar í 23 ár fyrir Hóladómkirkju.

AM. Fasc. XLIII, 8, frumrit á skinni. Af 12 innsiglum eru nú 2 fyrir bréfinu — Apogr. 3432.

Domur Herra Olafs Hialltasonar.[3])

Þat giorum uer broder einar med gudz nad abote a munkaþuera. broder uikulas med samre nad prior a modrvvollum. ion arason. nikolas uilhialmsson. gunnar þordarson. haldan narfuason. ketill ionsson. magnus gudmundzson. hallur asgrimsson. steinn markusson. þorgils gudmundzson. ok [hallvardur b(iarnarson)[4]) prestar holabiskupsdæmis godvm monnum uiturlikt med þessu uoru opnu brefe at arum eptir gudz bvrd. M. d. xuij ar a uideuollum ȷ blaundvhlid. ȷ skagafirde a almenneligri prestastefñu a miduikudaginn næstan fyrir halluardzmessu uorum uær ȷ dom nefnder af

1) Svo. 2) þ. e. 6. Júní. 3) Svo (!) utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 4) [með öðru bleki, en samtíða hendi.

uorum uirdelegvm herra ok andaligum fodur gottskall med gvdz nad biskup æ holum æ at lita skoda ok ransaka ok fullt doms atkuæde æ ad leggia um þa ækæru er sira petur kærde til sæmundar ionssonar ȷ vmbode biskup(s)ins at hann hefde ok hiellde tuau kugillde er þorkell sigurdzson hefvr fyrir morgvm arum golldit heilagre holakirkiu ok biskupinum ȷ sinar skullder. hefvr biskupinn ok greindur þorkell optabeizt[1]) ok latit beidazt þessara kugillda ok feingit ecke. hafa þesse kugillde hia honum uerit upp æ. iij. ar ok. xx. Er þesse skulld ok suariñ af tueimur logligum uottum ȷ þeirra gard. þui dæmdvm vier heilagre holakirkiu ok biskupinum þesse tuau kugillde med aullvm laga æuexte um allañ tima[2]) at iafnfullu sem þorkele sigurdzsyni sialfum ber at hafa at logum ok sagdañ sæmund skyllduguñ at giallda greinda peninga innan. xiiii. natta at heyrdum dominum. biskupinum eda hans umbodsmanne.

Samþyckti þenna uorn dom uor andaligur fader biskup gottskall.

Ok til sannenda hier vm setium uær fyr nefnder kennemenn uor incigle fyrir þetta domsbref skrifat a holvm ȷ hialltadal ȷn die Medardi et gilldardi episcoporum et confessorum[3]). æ sama are sem fyr seiger.

---

**474. 13. Maí 1517. á Víðivöllum.**

Tylftardómr klerka útnefndr af Gottskalk biskupi um kaup Gottskalks biskups hins fyrra af síra Sigmundi Steindórssyni um jörðina Synstahvamm á Vatnsnesi (Sbr. V. Nr. 28).

AM. Fasc. XLIII, 9. frumritið á skinni. Öll (12) innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 3433.

Domur um kaup Gottskalks biskup(s) vid Sira Sigmund Steindorsson.[4])

Þat giorum uer broder einar med gudz nad abote æ

1) Svo = optla (optlega) beizt. 2) Svo. 3) þ. e. 8. Júní. 4) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

munkaþuera. broder nikolas med samre nad prior a modrvuollum. finboge einarsson. ion arason. ion finbogason ȷ mula. ion ionsson a skinnastodum. nikolas uilhialmsson. gudmundur ionsson. olafur ionsson. eigell hallsson. halluardur biarnarson ok tomas einarsson prestar holabiskupsdæmiss godvm monuum uiturlikt med þessu uorv optnv brefe at arvm epter gudz burd ꝏ d. xuii ar a uideuollum ȷ blaundvhlid ȷ skagafirde a almenneligre prestastefnu a miduikudagin næstañ fyrir halluardzmessu uorum uier j dom nefnder af uorum uirdeligum herra ok andaligvm fodur gottskall med gudz nad biskup a holvm a at lita skoda ok ransaka ok fullnadardom a at leggia huad oss litizt logligazt riettazt ok sannazt um þat hvert afl hafa skylldə þat kaup sem gottskall med gudz nad biskup a holvm godrar minningar gud hans sal nade hafde giort uid sira sigmund heitin steindorsson sem er um iordina synsta huam a uatznese. kom þar fram fyrir oss bref med dande manna incigle svo latanda at sira sigmundur sellde greindvm biskup gottskalke iordena synzta huam fyrir .xxx. kugillda. suo ok medkeñdizt sira sigmundur ȷ sama brefe at hann hefde fulla peninga ok alla upp borit af biskupinum ok þui gaf hann biskupinn aulldungis kuittañ ok akærulausañ um greind[1]) iardar uerd. nv af þui at logiñ seigia suo at þat sem logliga er sellt þa a þat huer sem kauper. þat ok annars at þar syndizt einginn sa giorningur at nockur biskup a holum hefde þessa iord ȷ burtv feingit eda sellt. þui dæmdum uier biskupinn riettelega mega brigda greinda iord vid þann sem hana hefur at hallda. Ok til sannenda hier um setivm uær fyr skrifader kennemenn uor incigle fyrir þetta domsbref skrifat a holvm ȷ hialltadal laugardaginn næstañ fyrir ꝏedardi et gilldardi episcoporum et confessorum[2]). a sama are sem fyr seiger.

---

1) Svo. 2) þ. e. 6. Júní.

475. **13. Maí 1517.** **á Hólum.**

Dómr tólf presta útnefndr af Gottskálk biskupi Nikulássyni um kærur hans til Einars Jónssonar, Sigmundssonar, fyrir það, að hann hefði haft svefn og samneyti við föður sinn, skipti og fjárforræði með öðru fleira.

AM. Apogr. 3965 með hendi Páls Hákonarsonar eptir transskripti á pappír frá 9. Aug. 1592. — AM. 242. 4to bl. 17b—18a (Syrpa Guðbrands biskups).

Þad giorum vier broder Einar med gudz nád áboti a Mukaþverá. Broder Nikulas prior a Maudruvollum . Finnbogi Einarsson. Jon Arason. Jon Finnbogason j Mula. Jon Jonsson á Skinnastaudum. Nicolas Vilhialmsson. Gudmundur Jonsson. Olafur Jonsson. Eigill hallsson. hallvardur Biarnarson. Thomas Einarsson. prestar hola biskupsdæmiss godum monnum viturlegt med þessu voru opnu brefi. ad árum epter gudz burd 1517. á vijduvóllum j blónduhlijd j Skagafirdi a almennelegri prestastefnu á midvikudaginn næstan fyrer hallvardzmessu[1]). vorum vier j dom nefnder af vorum verduga herra og andlegum faudur Gottskalk med gudz nád biskupi á holum a ad lita. skoda og ransaka. og doms atkvædi a ad leggia um þa akiæru er sijra Petur palsson kiærdi til einars Jonssonar og j stefnunni stod. enn saker þess ad sıjra Jon Sveinsson sor fullann bokareid þar fyrer oss ad hann hefdi þessa saumu stefnu lesed fyrer Einare Jonssyne. svo hatt ad hann matti vel heyra. ef hann villdi. þvi dæmdum vier stefnuna lauglega. og Einar riettelega fyrer kalladann. og mork j stefnufall nema hann syne laugleg forfoll ad hann matti ecki koma.

J fyrstu grein er i stefnunne stod ad sıjra petur kiærdi til Einars. ad hann hefdi haft uid faudur sinn Jon Sigmundsson svefn og samneyti. kaup og skipte. og fiarforrædi sin og konu sinnar. um aull þau ár sidan einar var ur omegd. og bonum bar sialfum sitt umbod ad hafa. enn vissi faudur sinn j forbodi. og j banne. og i fullum saukum vid gud. heilaga kirkiu og hennar formenn. þvi dæmdum vier

1) þ. e. 13. Maí.

Einar Jonsson sekann iijur. morkum fyrer hvert sinn er hann åt. drack. suaf. keypti eda skipti. eda adra peninga skickan hafdi vid Jon Sigmundsson. j fyrrskrifadan tima. reiknudust þad iiij. ar og fallinn j bann. og skylldugann ad taka skript og lausn af biskupi eda hans umbodzmanni.

J annare grein dæmdum vier ad hann svare slikre sauk fyrer alla sem hann a svar fyrer ad giefa ad laugum. og fyrer þå þridiu sauk. er sıȷra Petur kiærdi til Einars ad biskupin hefdi ei feingid sina gisting. ad hans kirkiu marstaudum upp å iiij. år. Komu þar fram ij. laugleg vitni. er Biskupinn leiddi. ad hann hefdi beidst gistingarinnar og bodid sina þionustu. og fieck ecki: þvi dæmdum vier einar skylldugann ad greida og giallda biskupinum eda hans umbodzmanni. ijc. fyrer hveria nott sem hann atti ad gista. og iij. marka sekt. med hverri nott.

J fiordu[1]) grein kiærdi sıȷra petur til Einars ad hann hefdi tekid gudz þionustu j samre ohlydni. og i kirkiu geingid sem osekur madur. dæmdum vier hann skylldugann ad suara slijkre sekt sem lôginn til visa. er þad iij marka sekt a huerri þionustutekiu. og missa suo opt heilaga þionustu. sem hann hefur ranglega tekid og sekann. xij. aurum fyrer hvert sinn er hann hefur j kirkiu geingid hinar stærstu håtider. sex aurum. å sunnudaugum og audrum helgum daugum. enn iij. aura sekt fyrer hvert sinn. å aullum rumhelgum daugum.

J fimtu[1]) grein kiærdi sıȷra petur til einars. ad hann hefdi ruskad og hragt sıȷra Jon Sveinsson. þå hann for i kirkiunnar erindi. og biskupsins. ad stefna Sijgurdi Juarssyne. enn hann reif j sundur stefnuna og tradkadi svo kirkiunnar rietti. og geingid svo oleystur sidann. bædi i kirkiu og utan kirkiu. dæmdum vier þar fyrer .xv. merkur ħeilagri ħoladomkirkiu. j fullrietti og biskupinum adrar .xv. merkur og sıȷra Joni Sveinssyne sitt fullriette. og hann fallinn j bann fyrer sierhveria þessa grein og Einar skylldugann ad taka skript og lausn af Biskupinum. eda hans lauglegum umbodzmanni. þann sem hann til skipar.

1) Svo.

Og til sanninda hier um setium vær fyrr nefnder kiennimenn vor innsigle fyrer þetta bref skrifad a ħolum j ħialltadal jn die bonifaci(j) episcopi[1]) et martiris a sama ắre sem fyrr seiger.

---

**476. 27. Maí 1517. á Helgastöðum.**

Dómr sex manna, út nefndr af Jóni Ásgrímssyni kongs umboðsmanni í Þingeyjarþingi, um það, hvort Ormr Jónsson skyldi vegna Ljótunar konu sinnar Jónsdóttur eiga löglega heimtu „upp á Einar Einarsson, er haldið hafði þeirra peninga systra Ljótunar og Oddnýjar, eða Þórarinn Steinþórsson, sem þá var eiginbóndi greindrar Oddnýjar.“

Bisk. Hol. Fasc. V, 4, frumrit á skinni. Af 6 innsiglum eru nú 3 fyrir.

Tueggia Sŷstra Brieff.

Ollvm monnum þeim sem þetta brief sia edur heyra señdv vær petur tum̃asson. avdvn sygvrdzson lavgriettvmenn. sæmvñdur símvnarson. jon magnvsson. þolleifur þolleifsson ok magnvs bryniol(f)sson kvediv gvds og vora kvnnigt giorañdi ad þa lidit var fra gvds bvrd. ꝏ. d. og xvii ær æ midvikvdagin j .vii. vickna fardavgvm vm̃ vorid æ helgastavdvm j reykiadal æ þingstad riettum voro vier j dom nefnder af ærligum manni jone asgrimssyne er þa hafdi kongsens syslv ok um̃bod j þingeyarþingi ad skoda ok rannsaka ok doms adkuædi æ ad leggia huort ormur jonsson skylldi eiga lavgliga heimtv vegna konv sinnar liotvnar jonsdottur vpp æ einar einarsson er halldit hafdi þeirra peninga systra liotvñar ok oddnyar. eda þoraren steinþorsson sem þa var eigenbonde greindrar oddnyar. kom þar fram fyrir oss adur greindur valldzmadur ok eiñ domsmadur med honum ok lystv þar fyrir oss ad aller þesser fyrr greinder menn voro dæmder af haganesþinge ok æ helgastadaþing hver med

1) þ. e. 5. Júní.

sitt svar. j anare grein lofvdv þesser menn einar einarsson og þorarenn steinþorsson orme jonssyne ad svara þar sem lavgliga stefnder. J fystv grein dæmdvm vær þessa opt nefnda menn einar ok þorarenn riettliga fyrir kallada vm sagda ækæru. lyste einar þvi þar fyrir oss ad hann hefdi vt golldit tuenn niu tigi hundrada ok yfer fram. v. malnytv kvgilldi vt j tvngv ok nyan. vi æring oc god tyge þorarne j havnd sem hann hvggde lavgligan medtavkvmann þessara peninga beggia þeirra vegna liotvnar ok oddnyar hvar ad hann sor fvllan bokareid ok tveir menn med honum þar æ þinginu epter uorvm dome. vændizt einar bondi þui fyrir oss ad oddny jonsdotter hefdi gefit sig kuittan ok akærvlavsan vm allt þat er hvn matte til hans tala vm þessa peninga ad nivtigi hvndrada henni vt goldnum. vorv þessi vitni jon þosteinsson ok jon jonsson hver er sor fullan bokareid ad þessvm gerningi. hier til dæmdv vær tittnefndan[1]) einar skylldugan ad leida vitni jons þosteinssonar þat fysta sem hann kæmitz vid ad forfallalavsv. Enn ad þui vitni leiddv dæmdv vær einar einarsson kuittan ok vid skilenn peninga oddnyar jonsdottur. Nv saker þess ad so til visar ad hvervetna skal aptur ganga oftalt enn fram vantalt þar til er menn hafazt riettar tavlur vid. þui leizt oss j allan mata olavgligt at þratt nefndur þorarenn hefdi þar tvenn niutige hundrada eda meir sem hann atte ecki meir enn ein. þvi ad guds nafne til kavl(l)vdv dæmdv vær þorarenn skylldugan fram ad leggia alla þa peninga frida ok ofrida so goda ok med þeim fridleika sem hann tok vid ꝺ́alavgvm og sveria ad fvllan bokareid ok. ii. skilriker menn med honum. þar epter dæmdv uær þorarenn skylldvgan ad lata skipta svndur j helminga ok giallda orme jonssyne annan helming vegna liotvnar konv sinar enn þat þorarenn bryste vpp æ nivtigi hundrada. þat skylldi takazt af helmingi liotunar j avllvm peningvm vnder dandimanna yfersyn þeim sem kvnnigazt væri til þessa mals enn þat liotvni brysti ꝺ́a nivtigi hvndrada skylldi einar giallda so hvn hefdi fullan sin hlut. Enn ef so reyndizt ad opt nefndur þorarenn hefdi

1) nefndan, tviskrifað í frbr.

meira tekit enn tvenn nivtigi hvndrada þat dæmdv vær hann skyldvgan aptur ad leggia halft einari. enn halft ormi. enn savl æ þessvm peningum skylldu greidazt nv strax frider peningar ok ofrider nema geldfe. þat skyldi gialdazt hvort er þorarenn villdi nv eda j havst ad mickelsmessv ad vorlagi.

samþykti þenna uorn dom med oss adurgreindur valldzmadur jon asgrimsson.

Ok til sanninda hier vm settv vier fÿrr nefnder domsmenn vor jnsigli fyrir þetta domsbref hvert skrifad var æ sama áre deie sidar enn fÿrr seiger.[1])

---

**477. 7. Júní 1517. á Söndum í Dýrafirði.**

Bréf, að sira Grímr Þorsteinsson hafi unnið eið að því, að hann hafi verið þar við staddr, að Haldór Sumarliðason gaf Sumarliða syni sínum jörðina Meiragarð í Dýrafirði til æfinlegrar eignar.

AM. Fasc. XLIII, 19, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 888.

Eidr sira grims þorsteinssonar um gard.[2])

Þat giori ek hallr prestr augmundzson godum monnum kunnigt med þessu minv opnv brefi at ec med kennumzt. at ec hefi tekit suo felldan eid af sira Grime þorsteinssyne. J vmbodi sira jons Eirikssonar officialis heilagrar skalholltzkirkiu epter leyfi ok skipan mins herra biskupsins. sem hier epter stendr skrifadr.

Til þess legg ec haund á helga bok ok (þat) segi ec gudi at ec var hia j huamme j dyrafirde sa ec ok heyrda æ suo felldan giorning. at halldor sumarlidason. er sagdr var. gaf sumarlida syne sinum jordina alla meira gard er liggr j myra kirkiu sokn med fullu handabandi. til æfinligrar eignar. forordzlaust j alla stadi. med samþycki ok jáyrdi hallgerdar hakonardotur kuinnv sinnar. at suo stofudum eidi se mier gud hollr sem ec satt segi et cetera.

Voru þessir dandimenn nær staddir er þessi eidr geck fram æ myrum j dyrafirde laugardagin næsta fyrir huita-

1) þ. e. 28. Maí. 2) Utan á bréfinu með samtíða hendi.

sunnu[1]) vm vorit þæ er lidit var fra hingadburdi vors herra jhesu christi þusund fimm hundrvt ok seytian ǽr. Biorn gudinason. jon þorsteinsson. tristram bvason. ormr jonsson ok margir adrir godir menn. Ok til sanninda hier vm setta ec fyr skrifadr hallr prestr mitt jnncigle fyrir þetta eidsbref. skrifad æ saundum j dyrafirde jn sabbato post penechosten· ǽ sama ǽri sem fyrr segir.

---

**478. 10. Júní 1517. í Vallanesi.**

Vitnisburðr Kollgríms prests Koðranssonar að eingir hafi rekið lömb né annan fénað á Öræfi enu nyrðri né syðri án síns leyfis þau tólf ár, sem hann hélt Valþjófsstað, nema lambarekstr var hafðr frá Skriðu í Maríutungur.

AM. Apogr. 1994 „Ex origin. membr. frá Valþiofsstadarkirkiu“, og lýsir Árni innsiglinu.

Þad giöre ek kollgrimur prestur kodranson godum monnum kunnekt med þessu minu opnu brefi ad sub anno gracie ꝏ.º d.º xuij ad ek hielltt ualþiofstad uppæ. xij. ær og rak eingi laumb ne annad fie fram æ auræfi huorki enu nyrdre ne sydre nema j minu leyfi og aunguan penning annan utan lambarekstur fra skridu j mariutwngur. en fra aungre iörd annare. Ok til sannenda hier um setta ek mitt jnsigle fyrir þetta uitnisburdarbref huert er skrifad uar j uallanesi æ uöllum miduikudagen næsta fyrir de corporis christi æ sama ære sem fyr seiger.

---

**479. 12. Júní 1517. í Reykjahlíð.**

Þorvarðr Guðmundsson gefr, með leyfi bræðra sinna síra Þórðar og Ívars Guðmundssona, Sigurði Finnbogasyni og Margrétu Þorvarðsdóttur konu hans jörðina Egilsstaði í Fljótsdalshéraði í prófentu sína.

1) Þ. e. 30. Maí.

AM. Fasc. XLIII. 13, frumritá skinni, og eru bæði innsiglin enn fyrir bréfinu.

Profenttugiof Þorvardz Gudmundssouar. hann gefur þorsteini (!) finnbogasini med sier til foosturs Eigelstadi j fliotzdalshieradi.[1])

Þat giorum uit þorsteirn finnbogason og þorkell sniolfzson godum monnum uiturligt med þessu ockru opnu brefi a faustudagen næsta efter dýradag um vorit j Reykiahlid uit mýuatn worum vit j hia saum og heýrdum a ord og handaband þessara manna þoruardar gudmundzsonar og sigurdar finnbogasonar at þoruardur gudmundzson sagdizt uilia eňdurnýa sinn giorning uit sigurd vm sina proventu. sagdi hann at brædur siner sira þordur gudmundzson og Juar gudmundzson hefdi leýft sier at gefa sina prouentu huerium hann uillde. Og þui med fullum giorningi og handabande gaf nefndur þoruardur gudmundzson sigurde finnbogasyni og margretv þoruardzdottur kuinnu hans jordena eigelstadi er liggur j flotszdalzheradi j uallanes kirkiu sokň sier til framfæris ok fullrar profentu og þar til .xx.c j aullum peningum j prouentu med gudlaugu thomasdottur kuinnu þoruardar. skylldu þau hafa mat. klædi og skædi. svo þau uæri uel halldin af bædi og[2]) seiger j þeirra prouentubrefi. Og til meire audsýningar og[3]) stadfestu hier um settum uit fýrnefnder menn ockur jncigle fyrir þetta prouentubref skrifat j sama stad sem fýr seiger arum efter gudz burd. ϖ. d. og seýtian ar.

---

**480. 16. Júní 1517. í Viðvík.**

Tylftardómr klerka, út nefndr af Gottskalk biskupi á Hólum, um legorðs áburð Margrétar Ólafsdóttur á Guðmund Guðmundsson, en hann hafði áðr orðið brotlegr með móður hennar.

AM. Fasc. XLIII, 10, frumrit á skinni. Af 12 innsiglum eru nú þrjú fyrir bréfinu. — Ápogr. 3434.

1) Utan á bréfinu með smárri hendi frá 17. öld. 2) Svo. 3) tvískr.

Legords Áburdur margretar olafs Dotter
a Gudmund Gudmundsson.[1])

Þat giorum uier þorbiorn ionsson radzmadur heilagrar holakirkiu. petur palsson. ion arason. gudmundur ionsson. þorsteinn ionsson. olafur hialltason. ion olafsson. marteinn sueinsson. ion magnusson. berse þorsteiosson. loptur petursson ok thomas ionsson. prestar holabiskupsdæmis. godum monnum viturligt med þessu uoru opnu brefe ath þa lidit war gudz burd ꝏ. d. ok xvii ar þridiudaginn næstañ fyrir botolfsmessu j uiduik j uiduikarsueit ȷ skagafirde uorum uier j dom nefnder af uorum uirduligum herra ok andaligum faudur gottskall med gudz nad biskup æ holum at skoda rañsaka ok fullnadardom æ at leggia huat oss litizt laugligazt riettazt ok sannazt wm þa lysing ok æburd er margret olafsdotter hafde vid gudmund gudmundzson er hun sagde at hann hefde legit sig likamliga en hann hafde adur ordit brottligur med modur hennar. enn hann sagde hier þuerligt nei fyrir. hafde ok biskupinn latid stefña honum ȷ fyr greindan stad ok dag ok hann kendizt stefnuna ok beiddizt doms æ malinu huort þeirra likligra þætti til sannenda wm þetta mal. Nv af þui at laugiñ uotta sua at sa skal synia sem fyrir sauk uerdur ef eigi eru uitni uid ok at gvdz nad til kalladre dæmdvm uier manninn riettiliga fyrir kalladañ ok skylldugan at sueria tylftareid ȷnnañ tiu uikna særra daga fyrir biskupinvm eda hans loglegum wmbodzmanni ȷ hvnauazþingi þar sem biskupinn til skipar. skulu þat wera atta nefndaruitni ok fiorer fangauottar ok allt skialleger menn ok þeir sem kunnigazt ma til wera ok at þessum eidi unnum dæmdvm wier adur greindañ gudmund kuittañ ok vid skilinn þetta adur greint mal enn ef hann fellzt æ þessum eidi þa dæmdum uier fe hans fallt[2]) vnder kong ok kirkiv at af greiddum aullum logligum skulldum sem laug skipa. syndi biskupinn oss bref at teitur bondi þorleifsson er þa hafdi kongzins syslu ȷ hunauatzþingi hefdi sett gudmundi gudmundzsyni dag j bolstadarhlid um þetta sama mæl ok þottizt hier dom yfer eiga enn laugiñ skipa at wm aull frændsemis spell skal fyr-

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 2) Svo.

ir biskupi profazt þui dæmdum wier gudmund gudmundzson þar ecki eiga sitt undanfæri at taka ok fyrir aunguu leikualldi audru wm þetta mal. Ok til sannenda hier wm setium wer fyr nefnder menn uor ȷncigle fyrir þetta domsbref skrifat a holum ȷ hialltadal ȷn vigilia apostolorum petri et pauli.[1]) a sama are sem fyr seiger.

---

**481. 23. Júní 1517. í Viðey.**

Ögmundr ábóti í Viðey tekr Erlend Jónsson, sem „nú er orðinn blindr maðr að líkamssýn", á frjálsra manna kost og klæði á klaustrinu, en Erlendr fær klaustrinu í mót til fullrar eignar jörðina Bakka á Kjalarnesi, tuttugu hundruð að dýrleika, og þar til tíu kúgildi.

AM. 238. 4to bl. 24b 25, skr. c. 1570 (Bessastaðabók).

Bref fyrir Backa a Kialarnesi.

Vier broder Avgmvndvr med gvdz nad aboti j Videy giorvm godvm monnvm kvnnigtt med þessv vorv opnv brefi at saker þess at Ellendvr Jonson sem nv epter gvdz skickañ er ordinn blindvr madvr at likams syn hefir komit til vor oc bedit med litillæti at stadfesta sig hia Videyar klavstri vm sina lifstid. Nv sæker[2]) þess at greindvr Ellendvr er vell latinn af morgvm godvm monnvm þar hann hefvr verit innbyrdis þvi med radi ok samþycki vors verdvgasta herra Steffans med samri nad biskvp(s) j Skalhollti oc vorra conventvbrædra hofvm vier giort savdan[2]) kavp oc skillmala vid Erlend Jonson fyrrskrifadañ. at hann skal leggia klavstrinv j Videy til æfinligrar eigñar oc frials forrædis jordina alla Backa xxc at dyrleika er liggvr j Savrbæar kirkiv sokn a Kialarnesi med ollv þvi henni hefir fylgtt at fornv oc nyiv oc hann vard fremst eigandi at oc þar til x kvgillde. Hier j mot skal optgreindvr Erlendvr hafa æfinligañ frialsara[2]) manna kost oc klædi a klavstrinv. vod vadmals oc skyrtv leiriptt[2]) fyrir sin klædi. tvo par svarta skoo eda annad sko-

1) 28. Júní. 2) Svo.

siglum godra manna[1]) ord efter ord sem hier efter stendr skrifad.

[Hér kemr:
1. Ættleiðslubréf Stepháns Loptssonar 31. Maí 1474; DI, V, Nr. 662.
2. Staðarhólsdómr um þessa ættleiðing frá 24. Maí 1479; DI, VI. Nr. 196.
3. Leiðarhólmsúrskurðr Hrafns lögmanns Brandssonar um þessa ættleiðing 30. April 1481; DI, VI, Nr. 331.
4. Staðarhólsdómr frá 26. Maí 1479 um arf eptir Solveigu Þorleifsdóttur; DI, VI, Nr. 198].

[Ok til meire audsyningar hier um settum uid fyrnefndir menn ockr jnsigle fyrir þetta transkriptarbref skrifad under Stadarfelle a manudaginn næsta fyrir krossmesso um vorid arum efter guds burd ꝏ. d. oc xix. ꜳr.[2])

---

**526. 4. Maí 1519. á Hrafnagili.**

Gottskalk biskup á Hólum kvittar Jón prest Arason og Helgu Sigurðardóttur af níu barneignum.

AM. Apogr. 3701 með hendi Árna Magnússonar „Epter Transscripto 2. presta og 4. leikmanna 1594".

Kvittun Biskups Jons um barneigner.

Vier godskall med gudz nad Biskup a Holum i Hialltadal. giorum godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad vier hofum leyst Jon prest Arason fyrer þær. ix. barneigner. er hann hefur brotligur ordid med Helgu Sigurdardottur. Hofum vier fiesekter uppborid sem oss anæger fyrer sagdar saker. Þvi gefum vier þessa adurnefnda menn kvitta og akiærulausa fyrer oss og vorum epterkomendum Hola kirkiu formonnum um oll adursogd brot. Og til sanninda hier um setium vier vort insigli fyrer þetta bref er skrifad var á Hrafnagili i Eyiafirdi. Midvikudaginn

---

1) [latanda domsbref undir godra manna jnsiglum heilum oc oskoddum suo latanda LXVI, 16. 2) [vantar i LXVI, 16.

næstañ epter krossmessu um vorid. arum epter gudz burd M. D. og xix ar.

---

527. 5. Maí 1519. á Hrafnagili.

Jón prestr Arason fær klaustrinu á Munkaþverá jörðina Miðhús í Höfðahverfi, sex málnytu kúgildi og sex hundruð að næstum fardögum, en Einar ábóti lofar með samþykki Gottskálks biskups og conventubræðra Elenu Magnúsdóttur, móður Jóns prests, æfinlegri prófentu og frjálsmannlegu framfæri á klaustrinu, með fleirum greinum, sem bréfið hermir.

AM. Fasc. XLIV, 7, frumrit á skinni með hendi Jóns prests Arasonar. Af 5 innsiglum eru nú 2 fyrir bréfinu, og annað þó brákað. — Apogr. 3436.

Giafabref Jons prest(s) Arasonar til munkaþverárklausturs.[1])

Þath giorum vier finboge prestr einarsson jon prestr jonsson sæmundur simonarson og hallr asgrimsson leikmenn godvm monnum kvnnigt med þessv voro opnv brefi ath vier vorum j hia savm og heyrdvm æ ord og handaband heidursamligs manz herra einars med guds nad abota æ mukaþvera ok jons prestz arasonar. at suo fyrir skildv at nefndr jon prestr gaf og selldi klavstrinv æ mukaþvera jordina midhus j havfdahverfi er liggr j grýtubakka kirkiu sokn med ollv þui er greindri jordu æ med logum ath fýlgia og nefndur jon prestr uard fremst eigandi ath og þar til .vj. malnýtu kvilldi og .iiij. hundrvt at næstvm fardogum. hier j mot lofadi fýr skrifadr herra einar abote med samþycki uirduligs herra og andaligs fodr biskup godskall med guds nad og med radi conuentvbrædra fýrnefndz klausturs at elen magnusdotter moder jons prestz arasonar skýlldi hafa æuinliga prouentv og frialsmannligt framfæri til matar og þionostv heima æ mukaþuerar klaustri suo leingi sem hon

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

lifdi. skýlldi alazt og geýmaz kýr hennar heima æ stadnvm vetur og svmar suo sem stadarins naut. en hon skýlldi hafa kalfa og nýt vndan. [Jtem skal fyrrgreind elen hafa fornv badstofv fyrir framan storv badstof(v) fyrir sitt proventtvhvs[1]) lofadi adr greindr ȷon prestur arason at leggia til klavstursins. i. hundrat arliga um næstu .x. ær suo framt sem hann og fýrnefnd elen lifdu suo leingi. suo og lofadi opt nef(n)dur ȷon prestur arason at leysa til sín greinda ȷord midhvs fyrir. x. hvndrvd inan þriggia æra ef klaustursins formenn vilia. for þessi allr fýr skrifadr giorningr fram æ mvkaþvera ȷ eyiafirdi miduikvdagen næstan fyrir ȷonsmesso apostoli ante portam latinam.[2]) arum epter guds burd. m. d. og xix. ær. og til meire stadfestv og sannenda hier vm setium uier abote einar vort kapitula insigle med þessara fýrr skrifadra dandimanna ȷnsiglum fyrir þetta bref er skrifat var æ hrafnagili ȷ eýiafirde dege sidar enn fýr seiger.

---

**528. 11. Maí 1519. Í Kaupmannahöfn.**

Söffrin Norby fær kvittunarbréf um bygging þess vígis, sem hann átti að láta gera á Íslandi, af því að hann hafði bygt mylnu handa Visborgarhöll og tvö hús þar á eynni til þess að geyma í vistir konungsins.

Rikisskjalasafn Dana, Register over alle Landene Nr. 24 bl. 63. — Suhms (ældre) Saml. II, 2, 36. Sbr. N. 422.

Søwriinn norby

ffick breff at efftherthij han haffuer ladit bygge then mølle tiill visborgh slots behoff oc thesligist ij hwss paa øen at legge mıȷn Herris Fetalie vdj tha haffuer mıȷn Herre ladit hannom qwiitt thee ploch huss som han plictig war oc opsatt skulle paa issland thij lader mıȷn herre hannom oc hans arffuinge qwiit frij et cetera. more solito.

---

1) [á spassíu og vísað inn. 2) þ. e. 4. Maí.

Datum haffnis feria quarta post dominicam misericordia domini Anno. et cetera. md xix.

---

**529.** **7. Júní 1519.** **á Víðivöllum.**

Dómr sex presta, út nefndr á prestastefnu af Gottskalki biskupi á Hólum, um fjórtán hundraða meðlag með Egli presti Hallssyni, er Teitr bóndi Þorleifsson hafði lofað, þegar Gottskalk biskup tók síra Egil ungan smádreing heim til Hóla til lærdóms.

AM. Fasc. XLIV, 8, frumrit á skinni. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. — Apogr. 3437.

Akiæra biskups Gottsha(l)chs Vppa Sira Eigel Hallsson 1519.[1])

Þat giorum vier ion þorgilsson. petur palsson. gvdmundur ionsson. gilsbrickt ionsson. halluardur biarnarson og hallur asgrimsson prestar holabiskupsdæmis godvm monnum viturligt med þessu uoru opnu brefi at þa er lidit uar fra hingatburd uors herra jhesu christi. m d. og xix ár. á þridiudaginn næstan fyrir barnabe apostoli. á videuollum j blaunduhlid j skagafirdi. a almenneligre prestastefnv vorvm vier j dom nefnder af vorum uirdvligum herra og andaligum fodur gottskall med gudz nad biskup a holvm. at dæma vm þa akæru. er biskupinn kærdi til sira eigils hallzsonar og j stefnunne stod. J fyrstu dæmdum vier stefnuna logliga. og sira eigil logliga fyrir kalladan hier j dag. enn fyrir þa sok er j stefnunne stod. at biskupinn hafde ecki feingit þau fiortan hundrut af teite bonda þorleifssyni sem hann hafdi lofat heilagri holakirkiv og biskupinum þa biskupinn tok greindan eigil ungan smadreing heim til hola til lærdoms. og a kirkiunnar kost. lysti biskupinn þui fyrir oss. at hann hefdi opt krafit og heimt þessa skulld og peninga af bondanum teite og ecki feingit. sagdi biskupinn ecki annat bondans svar enn presturinn sialfur

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17.

sira eigill skýlldi suara þessum peningum. sagdizt biskupinn þenna giorning uid bondan teit giort hafa og hann hefdi þessvm peningum lofat. þuiat eigill uar þa omagi fiars[1]) sins. þui at gudz nad tilkalladre. dæmdum uier fyr nefnder prestar sira eigill[1]) hallzson kuittan̄ og uid skilinn og biskupinn aungua laga sokn mega á honum eiga um adur greinda peninga. þuiat suo seigia login. at huar sem menn kaupazt eda skiptazt uid. þa æ huer uid sinn sala. kom þar fram medkenningarbref bondans teitz. at hann hefdi lofat biskupinum. x. c. med eigle. þui dæmdum uier bondan teit skylldugan at leida tuau loglig uitne at hann hafe þessa peninga golldit. Skulu þesse uitne leidd jnnan fiortan natta at heyrdum domenum. enn ef honum fellizt þesse uitne. þa dæmdum uier bondan skylldugan̄ at giallda biskupinum eda hans umbodzmanne greinda peninga med laga áuexti. skýlldi þessir peningar golldner. at næstum fardogvm. Og til sannenda hier vm settum uier fyr nefnder prestar uor jncigli fyrir þetta domsbref er skrifat uar æ holum j hialltadal. æ manudaginn næstan̄ fyrir jonsMesso baptiste[2]) æ sama are sem fyr seigir.

---

## 530. 7. Júní 1519. á Víðivöllum.

Tylftardómr klerka, út nefndr á prestastefnu af Gottskalk biskupi á Hólumu, um ósvarlega meðferð Jóns Sæmundssonar á kirkjufjám á Reykjum í Tungusveit og þar til 209 ára gamlan reikningskap kirkjunnar, og dæma þeir allan reikningskapinn og þessa peninga fallna upp í jörðina á Reykjum, og biskupinn mega að sér taka jörðina þegar í stað.

AM. Fasc. XLIV, 9, frumrit á skinni. Af 12 innsiglum eru nú fyrir bréfinu. — Apogr. 3438. — Transscript frá 21. Dec. 1520 á skinni í Landsskjalasafni. — AM. Apogr. 4112.

---

1) Svo. 2) þ. e. 20. Júní.

Domur (vm) reyki j tungvsveit.[1])
[Til synis huad gomul løgen eru og hafa verid
vm þa portio.[2])

Þat giorum uier brodur helgi hauskolldzson. ion ionsson. petur palsson. gilsbrikt ionsson. gudmundur ionsson. ȷon finbogason ȷ laufase. eigill hallzson. halluardur biarnason. þorleifur ionsson. steinn markusson. hallur asgrimsson og gisle gudmundzson prestar holabiskupsdæmis. godum monnum uiturligt med þessu voru opnu brefe at þa lidit uar fra hingatburd uors herra ihesu christi. ϖd. og xix ǻr. ǻ þridiudaginn næstan fyrir barnabe apostoli. ǻ uidiuollum j blaunduhlid ȷ skagafirdi ǻ almenneligre prestastefnu vorum uier ȷ dom nefnder af uorum uirdiligum herra og andaligum fodur. gottskall med gudz nad biskup ǻ holum. at dæma um þa ækæru sem biskupinn kærdi til ȷons sæmundzsonar. at hann hafdi osuarliga farit med kirkiunnar godz ǻ reykium ȷ tungusueit ȷ skagafirdi. og hans umbodzmenn fast og lavst. og under sig dregit ǻn biskupsins uilia og leẏfe. enn kirkian at aullu litt haldin. Nu sakir þess at maldagarner uisa suo til at kirkiunne hafa uerit golldin. lx.c ȷ fornaǹ reikning. er at auk jnstæda. ui kẏr og iiij asaudar kugilldi. og fim hross. og cc ȷ uoru. er nu epter oreiknat upp ǻ tuau hundrud ara. og ıx ǻr. Visa og suo maldagar til. at alldre hafe minne tiund fallit. enn hundrat ǻ hueriu ǻre. Þui at gudz nad til kalladre. dæmdum uier þessa fyr greinda peninga fallna upp ȷ iordina reyker[3]). epter þui sem hun er dyr til. enn þar til adra peninga sem hennar dyrleika uinzt ecke til kirkiunne til eignar fyrir fornan og nẏiaǹ reikningskap. og biskupin [frialsliga mega[4]) at sier taka greinda ȷord nu strax kirkiunnar uegna. æ reykium. og aull [aunnur hennar godz[5]) faust og laus frid og ofrid. hafa og hallda greinda ȷord reyker.[3]) þar til þeir leysa sem med logum eiga aptur at leysa.

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) [Utan á bréfinu með hendi Guðbrands biskups. Utan á transskriptinu stendr: „bref fyrir reykium. Þessi domur seiger Jon Sæmundsson hafe fastaeign kirkiunnar svallat“. 3) Svo bæði. 4) [mega frialsliga, transskr. 5) [hennar godz aunnur, tr.

Samþyckti þenna uorn dom uor andaligur fader gottskall med gudz nad biskup á holum. og setti sitt secretum med uorum inciglum fyrir þetta domsbref er skrifat uar á holum j hialltadal á sunnudaginn næstañ fyrir ionsmesso baptiste[1]) á sama áre sem fyr seiger.

---

531. 27. Júní 1519. á Hólum.

Dómr tólf klerka og tíu leikmanna, út nefndr af Gottskalk biskupi á Hólum, eptir umboði Eiríks Walchendorphs erkibiskups í Þrándheimi, um jörðina Staðarhól, en af því að Stephán biskup var dáinn og dómkirkjan í Skálholti formannslaus, en Stephán biskup var annar sakaraðili, geta þeir hér eingan dóm á lagt, og lítast þó bréf Pétrs bónda Loptssonar skjalleg og myndug og kæra hans lögleg.

AM. Apogr. 1471 með hendi Árna Magnússonar eptir transskripti frá 28. Júní 1519, sem datt í sundr af fúa, þegar Árni var að afskrifa það. — Apogr. 1470, með hendi Páls Hákonarsonar „Ur transskripti Mag. Bryniolfs og 4ra annara, giördu 1644. epter ödru vidimus 1547", sem líka var skemt af fúa 1644.

Þat giorum uier broder helgi hauskulldson. eclectus. jon arason. petur palsson officialis heilagrar holakirkiu. ion þorgilsson. gilbrickt[2]) ionsson. eigill hallzson. jon ionsson æ micklabæ. halluardur biarnason. hallur asgrimsson. einar magnusson. gisli gudmundzson og olafur gudmundzson. prestar holabiskupsdæmis. jon þorgeirsson. grimur ionsson a aukrum. skuli gudmundzson. jon olafsson. magnus arnason. jon ionsson. einar einarsson j sigluuik. grimur jonsson æ uatzhorne. halldor jonsson og audun sugurdzson. logriettumenn og leikmenn godum monnum uiturligt med þessu uoro opnu brefi. at þa lidit uar fra gudz burd. ꝏ d og xix ár. æ uidiuollum i blonduhlid j skagafirdi. æ almenneligri prestastefnu æ þridiudaginn næstan fyrir barnabe apostoli[3])

1) þ. e. 19. Júní. 2) Var gallað í transskr. 1519; Árni vill gera úr því: gilsbrickt, en Gilbrikt stendr í 1470. 3) þ. e. 7. Júní.

vorum uier til nefnder. af uirdiligum herra gottskall med gudz nad biskup æ holum. at skoda og rannsaka og samþycki til at leggia huersu myndug og skiallig oss lituzt þau bref. sem petur loptzon bar þar fram. um þat er hann kærdi uppæ stadarhol er liggur j skalholltz biskupsdæme. kuomu þar fram tueggia erkibiskupa bref bædi eins latandi. enn herra eirek ualkendorp med gudz nad erkibiskup j þrandheime hafdi fulla makt gefit biskup gottskalki fyrir sig at stefna uirdiligum fodur herra stefane godrar minningar fordum biskupe j skalhollte. huers sal gud nade. og dom yfer at nefna. at þui sem brefin jnne hallda um adurgreinda jord stadarhol. enn sidan sa uirdiligur herra biskup stefan uar fra fallinn. og domkirkian j skalhollti uar formanzlaus. kunnum uær þar aunguan dom ǽ[1]) at leggia. enn þo lituzt oss þau bref sem petur bondi loptzson þar fram bar skiallig og myndug og bondans ækæra loglig. þar til annat syndizt skialligra. at fyrsogd jord hefdi med logum gefin uerid heilagre skalholltz kirkiu.

Samþyckti þetta med oss biskup gottskall. og setti sitt incigli med vorum inciglum fyrir þetta samþycktarbref skrifat æ holum j hialltadal manudaginn næstañ fyrir peturs Messo og pals a sama are sem fyr seigir.

---

**532. 28. Júní 1519. á Hólum.**

TRANSSKRIPT af Staðarhólsbréfum.

AM. Apogr. 1471 með hendi Árna Magnússonar „Ex transscripto orig(inali). Original-transscriptum hefur þetta oefad vered, iafnvel þott nu være öll innsiglen þar fra, hver 4. höfdu vered, so sem siä var af gotunum nedan a brotenu. Skriftarlaged var og audsynilega þessarrar tidar. Transscriptum þetta feck eg hia Þuride Sæmundsdottur. eckiu Sira Halldors Torfasonar. var þad so morkid og fuid. ad þad forgeck ölldungis medan eg skrifade þad upp. þo var allt þad læselegt sem hier er ecki understrikad, eda punctar under stafena setter. Enn þad sem hier eru strik under sett var aldeilis burt fu-

1) at 1471; á 1470.

ed. og þad sem hier er punctad under var litt læst, þo so ad i þad vard nockurn vegenn räded. ad öllu ödru er þetta apographum accuratissimé skrifad epter nefndu transscripto, sem var ä kalfskinne".

Þat giorum uær Olafur ionsson sacrista a holum. thomas jonsson rector chori samastadar. prestar holabiskupsdæmis. magnus arnason og magnus biornsson leikmenn godum monnum uiturligt med þessu uoru opnu brefe [at u]ier hofum sied og yferlesit bref med heilum hangandum og uskoddum jnciglum suo latanda ord epter ord s[em] hier seiger. [Hěr koma átta bréf um Staðarhól:

1, brěf Gauta erkibiskups frá 27. Sept. 1481; DI, VI, Nr. 366.
2, brěf Sigurðar Daðasonar frá 4. Janúar 1482; DI, VI, Nr. 378.
3, bréf Helga Ólafssonar frá 5. Janúar 1482; DI, VI, Nr. 379.
4, bréf Brynjólfs Sigurðssonar gert í Ytra-Dal 1495; DI, VII, Nr. 328.
5, bréf Skúla Þórðarsonar frá 7. Marts 1504; DI, VII, Nr. 631.
6, bréf Helga Þorgilssonar frá 9. Nóv. 1507; Nr. 143.
7, bréf séra Jóns Kolbeinssonar frá 17. Febr. 1519; Nr. 520.
8, Dómr Gottskálks biskups frá 27. Júní 1519; Nr. 531].

Og til sannenda hier um setium uier fyrskrifader menn uor jncigli fyrir þetta transkriptarbref er skrifat uar æ holum j hialltadal. jn uigilia apostolorum petri et pauli. Anno Domini. m. d. xix.

---

533. **30. Júní 1519.** **á Alþingi.**

Bréf frá Alþingi til Kristjáns konungs annars um, að Ögmundr ábóti í Viðey hafi verið kosinn til biskups í Skálholti eptir Stephán biskup andaðan, og biðja þeir konung að samþykkja þá kosningu.

AM. Fasc. XLIV, 10, frumrit á skinni. Af 15 innsiglum eru nú 2 ein fyrir bréfinu. — Prentað í Safni til sögu Íslands II, 197—198.

framskrif almugans med abota augmundi
electo in episcopum.
Eins og avnnvr Breff.[1])

Vnsren gnedichen vnd hocghebaren forsten. Kristiern

1) Utan á bréfinu með tvennslags höndum fornum.

mijtt gades gnaden koninch jn norweghen et cetera. grøte wij faghet logmen laugrettumen vnd datt ghemeyne folch vnd almughe van jsland jn alwelldychen gade.

Doe wij jwwer gnade tho wetende datt vnser gott hefft tho sych ghenamen herra stephan mijtt gader dechtnisse.

Daer vmme hefft datt kapittel vnde datt ghemeyne rad jn skalhollt vth ghesant eynen framen vnd eyn werdich personen herr aumund abbott jn widey vmme desswijllen datt her eirek dee wol werdych artzbischop jn druntheim et cetera wylle synen gnaden vnd otmødicheijt an vns vnd en bowysen vnd wyghen denn sulwen herra aumund tho eynen ffullmachtych bischop tho skalhollt jss jdt sake datt dar nijcht rechtes jntjeghen steijtt. vorder meer wete wy gnedyghe herra vnd forste datt dusse vorbonømede abbet jn allen dynghen gøt vnd fram hijr jnt land ghewest hefft.

Dar vmme hape wij vnn meynen datt hee dett vorder meer vor vulle jnt beste jeghen jw gnade vnd datt arme folk. Datt hijr wont vnd blyfft. vmme duss sulwen wyllen hyllen wij en vnd samtyckium tho jwer gnade des sulwen warsess.

Tho meer thu̍gnysse vnd warheijt settum wij vnsze jnsegle vor dytt breff gheschrewen vpp datt aldingh. jn commemoracione pauli apostoli. Anno domini. ꝏ.⁰ quingentesimo decimo nono.

Thyle petrson.
vigfus ellendzson laugman.
grimur jonson laugman.
narfi sigurdzson. schule gudmundzson.
jon asgrimson. sigurd finbogason.
jfar narfason. syslumen.
þorleifur palson. jon magnusson.
jon arnason. brand einarson.
hrafn gudmuudz(son). jon þorvardzson.
jon þorgeirson. jon olafson laugrettumen. og allr almu̍ghen.

534. 1. Júlí 1519. á Öxarárþingi.

Tylftadómr út nefndr á Alþingi af Vigfúsi Erlendssyni lögmanni yfir alt Ísland um kærur, Björns Þorleifssonar til Ragnhildar Bjarnadóttur og barna hennar um hald góza og garða eptir Solveigu Björnsdóttur.

Kriegers safn 2. 4to bls. 75—80 með hendi Styrs Þorvaldssonar sonar c. 1700. — Landsbókasafn 6. Fol. bls. 231—232 skrifað c. 1670 fyrir Brynjólf biskup Sveinsson; samskonar afskript er í Landsb. 122. 4to frá c. 1770. — Landsbókasafn 42. Fol. bls. 138, ættartölubók svipuð síra Jóns Ólafssonar á Lambavatni, með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti 1666 (með ártali 1515); samkynja afskript er í Landsbókasafni 115. 4to I, 25—26 með hendi sira Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1720 (með ártali 1518 að ágizkan), og fleiri afskriptir dómsins eru til.

Alþingisdomur um̃ akiæru Biðrns Þorleifssonar vegna gotza og garda sem Ragnhildur[1]) Biarnadottir[2]) hafdi ad hallda og at mǻlit var dæmt fyrir konginn.

Øllum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda Fuse Þordarson. [Brandur[3]) Einarsson. Jon Magnusson. Olafur Gudmundsson. Salamon Einarsson. Asmundur Klemensson. Skuli Tum̃asson. Þorvalldur Helgason. Oddur Þorkiellzson[4]). Jon Jonsson.[5]) Einar Jmason[6]) og Jon Olafsson kvediu Guds og sijna. kunnigt giorandi þa lidid var frǻ Gudz burd ꝏ. d. og xix. ǻr. ǻ fôstudaginn næsta fyrir visitacio sancte Marię ǻ almennilegu Öxarǻrþingi vorum vier til doms nefnder af ærligum dandimanni Vigfusi[7]) bonda Ellendssyni[8]) lôgmanni yfir allt Jsland til ad skoda og ransaka og fullnadardom ǻ ad leggia um̃ þǻ ǻkiæru er Biðrn Þorleifsson kiærdi þar til Ragnhilldar Biarnadottur[9]) og hennar barna ad hun hefdi halldid oriettlega fyrir sier avexti af sijnum peningum. var þar stefnan upplesiñ. og svariñ af tveimur vitnum. dæmdum vier hana lôgliga. og þetta ǻkiærumǻl lôgliga fyrir komid. Kom þar fram̃ fyrir

1) Ragneidur, hdrr.; 2) 6; Biarnardottir Kr. 2. 3) [42, 115; Bardur, Kr. 2, 6. 4) Þorleifsson 42 115. 5) Einarsson 6. 6) Jonsson 42, 115. 7) Vigfusa 6. 8) Ellingssyni, hdrr. 9) 6; Biarnardottur Kr. 2.

oss af hendi Biarnar Þorleifssonar tvo konga bref kong Kristiens og kong Hans sonar hans. sem hlyddi uppa hanz skilgietning. og hans systkijna. Kom þar og fram pávans bref hvert er og hlyddi uppá hans skilgetning. Svo voru þar og upplesnir tveir tylftardomar med urskurdum er Bijrni Gudnasyni voru dæmdir þessir peningar. J annari grein kom i dom fyrir oss bref med dandimanna Jnsiglum svo látanda. ad Biorn Gudnason hefdi lagt lóg og dom fyrir alla þa peninga sem Solveig Biornsdotter hafdi átt. Kom þar og fram af hendi Ragnhilldar[1]) vel þriu edur fiögur kongabref uppa þessa sómu peninga. og ad óllu svo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier med fullu doms atkvædi ádur greind bref og skilrijki fram uppa kongsins naadir. og svarsmenn hvorutveggiu og vera komnir ad forfallalausu fyrir minn herra konginn fyrir Jol i vetur nu næst er kiemur. under þad skyckelsi sem minn herra vill tilseigia. hvad ad halldast skuli til obrijgdanligrar stadfestu [um] adurnefnd[2]) bref og skilrijki greindra manna i millum Biorns Þorleifzsonar og Ragnhilldar Biarnadottur og hennar barna. Enn adurgreind gotz og peningar þau sem Ragnhilldur[3]) hefur ádur halldid. skylldi frij og frials fyrir utan allt omak so leingi sem mijns herra kongsins bref og skipan kiæmi jnn aptur j landit. Og til meiri audsyningar hier um sette fyr greindur Vigfus Ellindsson[4]) lógmann sitt jnsigli med vorum fyrgreindra domsmanna jnsiglum fyrir þetta domsbref. skrifat j sama stad og dag sem fyr seiger.

Medkienunst vier Olafur Gudmundsson. Jon Narfason. Jon Biornsson og Þorleifur Örnolfsson. ad vær hofum sed og yfirlesid so latandi domsbref sem hier med stendur skrifad under þeirra godra manna Jnsiglum heilum og oskóddum sem þar eru fyrir skrifadir. Og til sanns vitnisburdar hier um settum vier fyrrgreinder menn vor Jnsigli fyrir þetta transkriptarbref skrifad j Sudavijk i álptafijrdi. laug-

1) 6; Ragneidar Kr. 2. 2) 6; adurgreind Kr. 2. 3) 6; Ragneidur Kr. 2. 4) 6; Ellingsson Kr. 2.

ardæginn næsta fyrir festum translacio(nis) sancte Thorlacij episcopi á sama ari sem fyr seigir[1]).

---

535. [1. Júlí] 1519. á Öxarárþingi.

Dómr sex manna út nefndr á Alþingi af Vigfúsi Erlendssyni lögmanni yfir alt Ísland um kæru Brands Guðmundssonar til Sigurðar Finnbogasonar um hald á jörðunni Egilsstöðum á Völlum.

AM. Apogr. 4421 „Ex originali Scalholtensi perqvam lacero. Þesse originall var fuenn til storskemda. og burt ur honum stor stycke. og er hier understrikad þad sem svarar lacunis[2]). Þad sama sem hier er nnderstrikad.[2]) er tekid ur copiu af þessu brefe skrifadre af Sira Biarna Hallgrimssyne hier um fyrir 25. arum (fra 1709. ad reikna). bar öllu. so ad seigia. saman vid originalenn þvi sem copian vard vid hann saman lesen. hvar af auddæmt er at þetta understrikada er sömuleides rett. og hefur þä brefed heillt vered er Copian skrifadest. og læselegra enn þad nu er. Þetta sama bref stendr og i brefabok Ögmundar biskups. Enn ecki er þad þadan hier vid samanborid ord fra ordi". (AM). Öll (7) innsiglin voru dottin frá.

Ollum mönnum þ[eim sem þetta bref sia eda] heyra. senda Hrafn Gudmundsson. Oddur Þorkelsson. Jon Magnusson. Gudmundur. Jnd[ridason. Þolleifur Jonsson og] Kolbeinn Andresson. kvediu guds og sina kunnigt giorande. ad þa er lidit [var fra hingadburd vors] Herra Jhesu Christi M. D. og xix[3]) ar a Þingvelle a almennilegu auxararþing[e vorum vier j dom nefnd]er af Erligum dandimanne Vigfusi Ellendzsyni. laugmanne [yfer allt Jsland. ad skoda ra]nsaka og fullnadardom æ ad leggia þat mal er bran[dur Gudmundsson klagadi til Sigur]dar Finbogasonar. at hann hiellde fyrir sier jördunne [Egilstodum er liggur] j austfiordum j valla-

1) þ: e. 16. Júlí 1519. Þessa vidissegrein vantar í öll, nema Kr. 2.
2) Það er hér í útgáfunni sett í hornklofa. 3) „M. D. og xx. hefur Sira Biarne lesed og skrifad. arstaled er og nu oskirt i originalnum. þo er ad sia bil mille x anna og ä þad öefad xix. ad vera. eins og þad finnst i brefabok Ögmundar. Vigfus var og (true eg) ecki lögmadr yfer allt Jsland 1520". (AM.)

ness kirkiu sokn. er greindum brande hafde til [erfda fallid] epter Þorvard heitinn Gudmundsson brodur sinn samfedra. Bar greindur Sigurdur [þar fram br]ef med Jnsiglum. svo latanda. at Þorvardur heitin gudmundsson hefdi gefit þ[essa] saumu jord Eigelstadi j proventu med sier fyrnefndum Sygurdi Finnbogasyni. Profadizt og þar fyrir oss at Þorvardur heitinn Gudmunsson hafdi aungva peninga att adra j þann tid er giorningurin for fram. Enn suo stendur j vorum landzlaugum at eingin ma meira gefua en fiordung ur fie sinu. Þvi at svo profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkvædi saugdum brandi Gudmundssýni til fullrar eignar xviijc j fýrgreindre jordu Eigilstodum. Enn Sýgurdur skyllde hallda vjc.[1]) sem reiknadizt fiordungur[2]) jardarinnar. Var þesse vor domur upp sagdur tittnefndum[3]) Sigurdi finbogasyni aheyranda.

Samþýckti þenna vorn dom med oss fýrrnefndur Vigfus laugmann og setti (sitt) jnnsigli med vorum fýrrnefndra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref. Skrifad j sama stad. deige sidar enn fyr seiger.[4])

---

**536. [1. Júlí] 1519. á Alþingi.**

Vigfús Erlendsson lögmaðr yfir alt Ísland úrskurðar með lögréttumanna ráði Svein Jónsson kvittan um vígsmál eptir Högna heitinn Bjarnarson.

AM. Fasc. XLIV, 12, frumrit á skinni, töluvert máð. Innsiglið er dottið frá. Skorið er aptan af bréfinu yfir um þvert.

---

1) „Þetta .vj.c er nu so ad seigia ólæst i originalnum. enn Sira Biarne hefur þad so skrifad. og mun þad þä læst vered hafa. So stendur þad og i Brefabok Ögmundar biskups“ (AM). 2) *„fiordungur* er næsta óskirt nu i originalnnum. þó synizt þad helldur ad vera *fiordungur* enn *þridiungur*. Og fiordungur hefur Sira Biarne lesed þad. Þad accorderar og vid dominn sialfañ um fiordungsgiöfena. enn ecki *þridiungur* sem stendar i brefabok Ögmundar. Eigilstader munu. vera eda vered hafa xxiiijc allz“ (AM.) 3) tittnefndur, stóð í frumritinu. 4) Svo stendr hér, en eingin dagsetning er komin áðr í bréfinu. Líklegt er þó að fyrri dagsetningin sé 30. Júní, og hér 1. Júlí.

Þad gioreg uigfus erlendzson logmann yfer alltt jsland godum monnum kunnigt [med þessu minu opnu brefe at þa lidit] uar fra gudz burd ꝺ. d og xıx ar æ almenniligu oxarærþingi fostudagin næ[stan epter petursmessu og pals . . . . . j log]rettu su sama skipun sem enn þa um haustid fyrir j holltte j fliotum um þ . . . . . heyrdi sem er um uigs[mal epter[1]) hogna heitin biarnarson epter þui sem su . . . . . . eg nu til samþycktar og skodunar med mier þessa logrettumenn narua sigurdz[son . . . . . . . . .] einarsson. erling gislason. salomon einarsson. odd þorkelsson. hrafn gudmundzson. þord . . . . . . . . . . andresson. og ad suo profudu og fyrir mic komnu (mier) j domsæti sitiandi sagda ec j gud(z) nafn[e amen med fullum lagaurskurdi] suein jonsson olldungis kuittan fri og frialsan um fyr greintt mala[ferle . . . . . . . ] einge hiedan j fra skal j nocku(r)n mata med rett hann hier um hindra mega. [Og til sannenda hier um] festi eg mitt jnnsigle med fyr[2]) greindra manna jnnsiglum fyrir þetta urskurda[rbref er skrifat var æ sama stad] deigi og ari sem fẏr seiger.

---

**537. 7. Júlí 1519. í Einarshöfn.**

Vitnisburðr fimm manna, að þeir hafi verið í dóm nefndir á Öxarárþingi 1. Júlí (1519) af Vigfúsi Erlendssyni lögmanni yfir alt Ísland um kaup Ögmundar ábóta (Pálssonar) á hálfu Býjaskeri við Hannes Eggertsson, og að kaupið hafi dæmt verið löglegt og lögmaðr samþykt dóminn.

AM. 238. 4to bl. 1, skr. c. 1570 (Bessastaðabók). — Borið saman við dómasyrpu Jóns Hákonarssonar á Vatnshorni frá c. 1608.

Þat giorvm vier Snæbiorñ Gislason. Jon Magnvsson. Olafvr Olafsson. Grimvr Karason. Jon Arñason godvm monnvm kvnnigtt med þessv vorv opnv brefi at þa ed lidit var fra gvdz byrd m. d. xjx æ allmenneligv Avgxarær

1) [mjög óljóst. 2) tvískrifað.

þinge fostvdeiginn næstañ epter Petvrs messo oc Palls[1]) vorvm vier j dom nefnder af ærligvm dandi manni Fvsa Erlendzsyni lavgmanne yfir allt Jsland at skoda oc dæma vm þat kavp sem abote Oggmvndvr hafde giortt vid Hannes[2]) Eggertsson vm jordina halftt Biasker.[3]) er liggvr æ Rosmhvalanesi. tedizt þar fyrir oss bædi bref oc bivisingar [vin fyrrsagtt kavp[4]). leist oss þat j allañ mata skialigtt oc logliga hafa fram farid.

þvi at svo profvdv oc fyrir oss komnv dæmdv vier fyrnefndir domsmenn med fvllv doms atkvædi optt nefnt kavp stodvgtt oc obrigdvligtt j allan mata.

Samþyckte þennañ vorn dom Vigfvs Erlendsson logmann oc setti sitt insigle med vorvm fyrrnefndra manna insiglvm fyrir þetta domsbref. skrifad j Einarshofn a Eyrarbacka [þridivdeiginn næsta epter translatio[5]) sancti Martini episcopi æ sama are sem fyrr seiger.

538. 20. Júlí 1519. í Ögri.

Vídimus af lofunarbréfi Björns Guðnasonar við Stefán biskup, frá 21. Aug. 1517, Nr. 483.

Kriegers safn 2. 4to bls. 87—88. með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700. Sbr. AM. Apogr. 2468.

Medkiennunst vier Olafur Gudmundsson. Jon Biörnsson. Jon Sighvatzson og Þorleifur Örnolfsson. ad vier höfum sied og yfirlesid. og heyrdt yfirlesid svo lätanda bref ord fyrir ord undir þeirra godra manna Jnsiglum sem þar eru fyrer skrifadir sem hier fyrer ofan standa skrifud. Og til sanninda hier um settum vier fyrgreindir menn vor Jnsigli fyrir þetta Trañskriftarbref skrifad j Ögri i Jsafijrdi festum Torlaci Episcopi arum eptir Guds burd ꝏ. d. og xix år.

1) þ. e. 1. Júlí. 2) Hañs, JHák. 3) Biaskerit, JHák. 4) [fyrrsagdz kaups og, JHák. 5) [Translacionem JHák.

539. 25. Júlí 1519. á Ólafsvöllum.

Ögmundr ábóti í Viðey og „postulatus (episcopus) ecclesie Scalotensis“ selr í umboði Árna ábótai Veri Snorra djákna Hjálmssyni tuttugu hundruð í jörðunni Ey (Pétrsey) í Mýrdal fyrir tuttugu hundruð í jörðunni Egilsstöðum í Flóa.

Bisk. Skalh. XIX, 50, frumrit á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 2393 með hendi Árna sjálfs.

Kaup Brief vm̄ eigilstade j fioa og Ey j Myrdal Anno 1519[1]).

Vier broder augmund under gudz þolinmædi aboti i vijdeÿ og postulatus ecclesie scalotensis giorum godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. ath vier hofum giort suodan kaupskap vid snorra diakna. hialmsson i vmbodi abota arna med gudz nad abota i vere. ath vier hofum feingit honum .xx.c i iordunne eÿ sem liggur i myrdal i solheima kirkiu sokn. med ollum þeim gögnum og giædum sem greindri iordu fÿlger og fÿlgt hefer at fornu og nÿiu. hier i mot fieck hann oss. xx.c i iordinne eigilstaudum i villingaholltz kirkiu sokn. med ollum þeim gögnum og giædum sem greindri iordu fylger og fÿlgt hefer ad fornu og nÿiu. skal hver hallda sinu kaupi til laga og svara lagariptingum a greindum iordum. skulu badar iardernar afhentar huorar fyrir sig nu strax i þessum tima.

Voru vitnismenn ad þessum giorninge jon bondi magnusson. og hrafn bondi gudmundzson.

Og til sanninda hier vm settum vier vort officialatus insigle med fyrrgreindra vitnismanna insiglum fyrer þetta iardakaupsbref skrifat a olafsvollum in festo sancti jacobi apostoli. anno domini millesimo qvingentesimo decimo nono.

---

540. [1519].

Bréf til Kristjáns konungs hins annars frá helztu mönnum á Íslandi, um að setja íslenzkan fógeta eða hirðstjóra yfir landið.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Árna Magnússonar eptir bréfabók Ögmundar biskups. — MSteph. 27. 4to bls. 3, Svartskinna, skr

1) Aptan á bréfinu með hendi frá 17. öld.

c. 1720—1730. — Prentað í Safni til sögu Íslands II, 196—197. — Um bréf þetta fer Árni svo feldum orðum: „Þetta bref um yfergang, er sine loco año et die. Mun vera skrifad i Jslande af bestu mönnum, og feinged i hendur Ögmundi abota eda biskupsefne, 1519, eda 20. þegar hañ ætlade ad sigla, til ad bera þetta framm fyrir kong eda Noregs rikis rad. J brefabokinne var þad næst epter þad bref sem Ögmundr biskupsefne skrifade konge til fra Harvik Jdibus Augusti 1520. Er þó oefad elldra, og ad visu, sem synest, skrifad í Jslande.“ — Bréf þetta sýnist öllu heldr vera frá 1519 heldr en 1520.

---

Bréfabók Ögmundar biskups, sem þetta skjal er hér eptir tekið og nú verðr um hríð tekinn mikill fjöldi bréfa eptir í þetta safn, hefir í aðalefninu náð yfir árin 1519—1540, þó að einstaka eldri skjöl hafi einnig verið færð inn í hana sér til minnis. Þykir því hlýða hér að gera nokkura grein fyrir því, hvernig bók þessi er nú til vor komin, og hverjar sé heimildir að henni. Bók þessi í frumriti hefir án efa verið rituð á pappír, og vita menn það fyrst til hennar að segja, að hennar er um 1600 getið í Skálholti (AM 234. 4to), og er þá kallað, að hún sé orðin skræða. Síðan hefir bókin legið í Skálholti fram á daga Brynjólfs biskups, og lét hann þá Jón Erlendsson prest í Villingaholti, handritaskrifarann mikla, afskrifa bókina nálægt 1650—1660 á að gizka. Hefir þá frumritið alt verið komið í blöð og rugling, eins og afskript síra Jóns bar með sér, því að í henni stóðu bréfin í eingri ákveðinni röð eptir aldri, heldr alveg af handahófi. Hefir því orðið að ætla á ártal ekki fárra af bréfum þeim, sem í bókinni hafa staðið. Afskript síra Jóns af bréfabókinni gaf Brynjólfr biskup á síðustu árum sínum Sigríði Hákonardóttur frá Bræðratungu, og frá henni fékk Árni Magnússon hana, en til frumritsins hefir ekki spurzt síðan um daga Brynjólfs biskups. Eptir þessari afskript síra Jóns í Villingaholti, sem var í arkarbroti, lét Árni svo sumpart afskrifara sína skrifa upp bókina eða gerði það sjálfr. Af fáeinum af bréfunum lét hann og að eins gera ágrip, og því, sem var fullkomnara annarstaðar, slepti hann alveg, og voru mart af því ýmiskonar skjöl, sem ekki höfðu staðið í frumbókinni, heldr hafði Brynjólfr biskup látið síra Jón auka þeim við í afskript sinni eptir ýmsum heimildnm. Þessar afskriptir Árna er nú að finna í safni hans meðal afskripta hans af fornum bréfum (Apographa) Nr. 2695—2789 og í Landsbókasafni 62. 8vo, og ganga þessar afskriptir nú í frumrita stað. En handriti Landsbókasafnsins 62, 8vo er svo varið, að í því eru bæði allmargar hinar upphaflegu afskriptir Árna Magnússonar, sem hafa án efa einhvern veginn loðað við þá feðga Finn og Hannes biskupa, sökum undirbúnings að Kirkjusögu Finns biskups, en mikið af handritinu er þó afskriptir með hendi Grunnavíkur-Jóns, gerðar fyrir þá feðga Finn og Hannes eptir hinum upprunalegu afskriptum Árna Magnússonar, sem sumar eru nú glataðar, svo að

þessar afskriptir Jóns nokkrar eru nú svo sem frumrit. Handrit Landsbókasafnsins 61—63. 8vo hafa í heild sinni inni að halda afskriptir bré a, er snerta Jón biskup Arason, afskriptir úr bréfabók Ögmundar biskups og afskriptir úr bréfabók Gizurar biskups, allar gerðar fyrir Árna Magnússon eða af honum sjálfum, nema þær afskriptir Grunnavíkur-Jóns, sem fyrr voru nefndar. Bréfasöfn þessi hafði Páll stúdent Pálsson bundið inn fyrir hér um bil 50 árum, en ruglað þeim þá svo stórlega saman, sem stokkuð væri spil sem vendilegast, að í þeim hrærigraut var óbotnandi. Eg neyddist því til fyrir nokkrum árum (1902) að leysa bindi þessi upp og raða í þeim skjal fyrir skjal, svo að nú er bréfagerðir þær, er snerta Jón biskup Arason, að finna í 61. 8vo, bréf Ögmundar biskups í 62. 8vo og bréf Gizurar biskups í 63. 8vo.

Þó að Apogr. AM. 2695—2789 og Landsbókasafn 62. 8vo sé nú aðalheimildirnar að bréfabók Ögmundar biskups, eru þó þaðan glataðar ýmsar afskriptir úr bréfabókinni, sem Árni Magnússon hefir látið gera og til voru langt fram á 18. öld. og hafa þá fylgt þeim Skálholtsbiskupum Finni og Hannesi. En af safni því úr bréfabókinni, sem þeir höfðu þá undir höndum, hefir um 1770—1780 verið gerð afskript, sem nú finst í Landsbókasafni 122. 4to, og hefir það handrit það til síns ágætis, að bæði fyllir það sumt af eldri afskriptunum, sem orðið er skemt, og svo hefir það að halda allmörg bréf, sem nú eru glötuð úr gömlu afskriptunum, og finnast því hvergi nema hér. — En um afskript síra Jóns í Villingaholti, sem Árni Magnússon átti, og undirstaða er alls þess, er nú er til úr bréfabók Ögmundar biskups, er það að segja, að hún hefir verið glötuð síðan 1728, að brann hjá Árna. En áðr en Árni fékk þá bók hafði Þorsteinn Eyjólfsson á Háeyri skrifað upp úr henni allmörg bréf. Þá afskript Þorsteins fékk Árni í hendr frá Axel Friðrik Jónssyni, en reif hana í sundr, af því að hann sá að hún var honum að eingu gagni. En áðr Árni næði þessari Háeyrarafskript og eyddi henni, hefir hún þó að nokkru leyti verið skrifuð upp, og er sú uppskript nú fremst á merkri skjalabók einni, sem kölluð hefir verið Svartskinna, í safni Magnúsar konferenzráðs Stephensens 27. 4to (bls. 1—24) á Háskólabókhlöðunni í Kaupmannahöfn. Hefir hún inni að halda alls 25 bréf Ögmundar biskups, og er þessi fyrirsögn að þeim: „*Nockud Lijted vr Brefabok Biskup Augmundar*“. Afskript þessi er ekki gagnslaus fyrir oss nú, því að hún hefir sumt af þeim bréfum í heilu líki, sem ekki finnast nema í ágripi í afskriptum Árna.

Önnur heildarsöfn en hér hafa verið talin að bréfabók Ögmundar biskups eru nú ekki til, því að afskriptir þær, sem eru í Landsbókasafni 391. 8vo eru gerðar fyrir hér um bil 20 árum eptir 62. 8vo, og hafa einga þýðingu. En allmargar bréfgerðir þessa biskups eru auk þessa bæði til í frumritum í skjalasafni biskupanna, frumbréfasafni Árna Magnússonar og í Ríkisskjalasafni Dana, — er koma

munu fram smám saman hér í Fornbréfasafninu á víð og dreif — og svo í ýmsum skjalabókum, svo sem AM. 234. 4to, Landsbókasafni 101. 4to, 107. 4to, Ny kgl. Saml. 1847. 4to og víðar.

Um bréfabók Ögmundar biskups hefir Árni Magnússon ritað langt mál og fróðlegt sér til minnis. Er það að finna í Landsbókasafni 62. 8vo, og er það á þessa leið:

[„Acta Øgmundi Episcopi Skalholtensis
er Øgmundar Biskups BrefaBok.[1])

Radzmenn i Skalhollte.
Sira Jon Hiedinsson 1523. 1524. (15)25.
Gudmundur Jonsson 1530.
Sira Þordur Olafsson 1531.
Olafur Jonsson 1535.
Gudmundur Jonsson 1538.

Alicubi annotatum vidi.

Biskup Ögmundi var dæmdur Briamslækur (Bardaströnd) til halldz vegna kirkiu nidurfalls. enn hann giördi kaup ur. selldi Erlinge fyrer Sidumula.

Hvamm og Asgard gaf Ragnhilldur Biarnadotter Marteinssonar frá Ketilsstödum kona Biarnar Gudnasonar biskupe uppá þad hann skyllde ei bannfæra Biörn mann hennar. þá daudann.

Nockur fáein document ur brefabok Ögmundar biskups hefi eg ecki láted uppskrifa. eru þad þau. sem fullkomnare og betre finnast medal Domkirkiunnar brefa in Archivo Scalholtensi. liet eg þvi þesse authentic document uppskrifa. helldur enn extracta eda Copier þar af. sem i þessare bok finnast. og þvilik eru alleinasta omitterud. Þó hefi eg saman bored þau vid originalana. og annoterad. ef nockud a mille bar merkilegt. Þar sem Originalar eru til af brefunum sem hier eru innfærd. þá ber árstolunum saman. þar af er ad ráda ad árstölen mune i hinum og riett vera.

*Brefabok Ogmundar biskups.* er eg so kalla. er i folio. öll med hendi Sira Jons. er var i Villingahollte. hver bokina skrifad hefur fyrer Mag. Bryniolf. enn hann gaf hana sijdan Sigride Hakonardottur. og fra henne er hun til mijn komin. Boken hefur inne ad hallda allra handa giörninga Ögmundar biskups:

Doma hans.
kaupbref.
skickaner.
medkenningarbref um eitt eda annad þar hann hefur vidridinn vered.

---

1) [með hendi Grunnavíkr-Jóns. Alt, sem eptir fer, er með hendi Árna. Framan við Apogr. AM. 2695—2789 stendr þetta svo með hendi Árna: „Acta Ogmundi Episcopi Scalholtensis ab anno 1519 ad annum 1540, ur brefabok hans. Allt óinnfært í árstölin“.

Sendibref hans til kongs. Radsins i Norege. godra vina þar. Jtem Jslendskra þá hann var i utsiglingu epter biskupsdæme.

Doma nockra og bref um vidskipte hans og Jons Arasonar á Holum.

Fáeina verdslega dóma giörda i tid biskups Ogmundar (puto: þá er hann hefur haft eitthvad interesse vid málen).

[Þar dóma giörda i biskups Stephans tid. eru um skips árodur og hestlan.[1])

Jtem eru i bokinne

Piningsdoms extract.

Um Sattargiörd Magnus kongs og Jons Erkibiskups excerptum.

Um Mödrudal bref. dat. 1517.

Öll þesse bref eru. qvoad literaturam óepterrettlega skrifud. A stundum eru og orden raung þar inne. Verbo: bokin er ei so accurat. ad þar sie uppá ad byggia. helldur er hun eins og adrar þvilikar Copiebækur plaga ad vera. imo eins og annad er Sira Jon skrifadi (i flyter fyrir peninga).

Um þessa bók er truanlegt. ad Mag. Bryniolfur muni einhvers stadar feinged hafa rifrillde af Copiebok (authentico) Ogmundar. og mune þad sama hafa láted uppskrifa. og bæta so vid einum og ödrum hans brefum og giörningum. Ad mikill partur bókarinnar sie hinc inde corraderadur. kann sluttast þar af. ad Documentenn standa þar inne i fleing sine ullo accurato annorum ordine. Endilega kynni þad og koma þar af ad bokin sem þesse være epter skrifud hefde vered i blödum og ruglud. hvad þar af og rádast kynni. ad optast eru fleire bref enn eitt. stundum mörg. af einu og sama áre. til samans. enn árenn eru confunderud ur sinne röd. so ad þau sidare standa opt fyrre og vice versa. Stundum er og. enn þad sialldnar. saltus fram og tilbaka milli ymissra ára. og ei nema eitt document af hveriu. Jn Summa. confuse admodum congestus est codex. ut nunc est.

Titlarner sem eru uppe yfer brefunum eru ad visu sumstadar eigi genuini. helldur af skrifaranum (þeim nyrra) tilsetter.

Histeron proteron er vida i bokinne. koma þau brefen sidar. er fyrr skylldu standa.

So er domurenn um Jndridastade 1538 miklu fyrr i bokinne enn sölubref Ogmundar biskups til Clemusar a sögdum Jndridastödum. hvad þó er elldra enn domurenn.

Domar um Sira Þord i Hitardal standa og ordine præpostero þeir sem þó eru af einu og sama áre. sá fyrst sem ecki skyllde. og eins kann ad vera um brefin um Pal fusason 1532.

Um Finnzarf er a dreif um bokina ex eodem anno.

Uppgiöf á Myradome 1532. stendur miklu fyrr i bokenne enn domurenn um Myrar 1530.

og fleira er eins forsett. Sumt er tvisvar i bokinne so sem um Eyolf Einarsson 1539.

---

1) [Utsstrykað.

um adtekter i Videy 1537.
Um Hof a Kialarnese 1526.

Aptarst i bokinne var (sem nu er burt teked)

Domur mille biskups Jons og biskups Ugmundar. geingenn i Norege 1524.

Veitingarbref biskups Jons fyrir Skagafiardar Sýslu af Johan Peturssyne. 1525.

Framburdur Dada Guðmundzssonar um vidskipte sin og þeirra fedga biskups Jons og sona hans.

Sendibref pafans til biskups Jóns. Islandice.

Petri Palladii bref til biskups Jons.

Bannsbref biskups Jons til Sira Gisla Jonssonar i Selárdal 1550.

Sakargipter Christians skrifara til þeirra fedga.

Vita biskups Jons Arasonar. samanskrifud af Magnuse Biornssyne. á 10. blödum in folio (habeo ipsissimam).

2 kongsbref um biskup Jon. i Jslendsku. dat. 1549. so sem þar stendur.

Eitt kongsbref til Dada bonda og Peturs Einarssonar um biskup Jon 1550. i Dönsku.

2 kongsbref til Dada Gudmundzsonar. 1551. 52. i Dönsku bæde.

Snoksdalsdomur um biskup Jon og hans sonu 1550.

Þetta allt hefi eg uppskrifad annarstadar i pörtum.

[1533 eitt
1531 eitt
1538 fiögur, 1527 (28) eitt, 1539 eitt } i einu vidimus
1540 tvö
1532 tvö
1534 eitt
1536 tvö
circa 1524 eitt
1539 eitt
1525 þriu
1526 nockur
1527 tvö edur þriu
1517 eitt. 1521. tvö.
1526 eitt
1519 eitt
1526 mörg
Piningsdomur
1525 eitt
1530 tvö
1538 eitt
Ur Sáttargiörd Magnus kongs.
1539 eitt
1538 tvö
1530 tvö eda þriu

1531 eitt edur tvö
1534 eitt
1528 eitt
1529 eitt
1528 eitt
1526 eitt
Um Þorolfsdal gamalt bref.
1528 eitt
1529 eitt
1524 eitt
1528 eitt
1530 eitt
1529 eitt
1537 eitt
incerti anni tvö kannske 1529 og 30.
1524 eitt.
1529 eitt
1530 eitt
1523 eitt
incerti anni eitt ante 1538.
1532 tvö edur þriu.
1531 eitt edur tvö.
1534 eitt
1531 þriu eda fiögur
1530 eitt

| | |
|---|---|
| 1531 eitt | 1535 eitt |
| Jncerti anni tvö | 1534 eitt |
| 1526 eitt | 1523 fiogur |
| 1533 eitt | 1524 mörg |
| 1530 eitt | 1525 eitt |
| 153.. eitt | 1526 tvö edur þriu. |
| 1530 eitt | circa 1538 edur 39. eitt. |
| 1532 eitt | 1538 eitt |
| 1533 eitt | 1521 eitt edur tvö |
| Jncerti anni þriu | 1520 eitt |
| 1532 eitt edur tvö | 1523 eitt |
| 1517 eitt | 1522 eitt.[1]) |
| 1535 eitt | 1523 mörg |
| 1534 tvö | 1539 tvö |
| 1537 tvö | 1520—19 nockur i fleing. |
| 1532 eitt | 1521 mörg utgefin utanlandz. |
| 1533 eitt | 1520 eitt latinskt |
| 1534 eitt | 1507 eitt latinskt. |

1522. mörg utgefin i Norege. þar i bland um Sigling Augmundar. Jtem þar aptan vid eitt. skrifad i Jslandi 1522.
incerti anni eitt. um Skriduklaustur.
1534. eitt skrifad i Noregi.
1522. tvö skrifud i Norege.
1522. eitt skrifad i Jslandi.
incerti anni eitt. daterad á sidurstu arum Ögmundar.
1520. eitt latinskt.

Ur þessare *Biskups Augmundar Brefabok* hefur *Þorsteinn Eyolfsson* (á Háeyre) uppskrifad nockur (bysnamörg) bref. Su hans Copiubok var in 4^to^. og voru brefen. sem hann uppskrifad hafde þesse:

Bref þau sem Ögmundur biskup skrifadi til ymissa utanlandz og i Jslande. 1520—21—22.
Um sigling Ugmundar biskups frá Norege til Jslandz 1522.
Ur Relatione *(Magnusar Biörnssonar)* um biskup Jon Arason. Um hans kosning og Sigling 1522.
Domur og bref i Controversia Ugmundar biskups og Jons Arasonar. i Jslande 1523.
Bref biskups Ugmundar. send ut af Jsande 1523. moti Sira Jone Arasyne.
Domur mille Ugmundar biskups og Sira Jons Arasonar i Noregi 1524.
Um utkomu biskups Jons Arasonar 1525 (ur fyrrsagdre Relation Magnusar Biörnssonar).
Sendibref til Teits lögmanns (Þorleifssonar) perperam hic locatum. nam pertinet ad ann. 1522. (er Ögmundar biskups).
Ögmundar biskups um subsidium pallii (synest og at vera rangt sett hier. og helldur ad heyra til ann. 1522 eda 1523).

1) [er með hendi Orms Daðasonar; þá tekr aptr við hönd Árna.

Aminningarbref biskups Ögmundar til þeirra i Skalholltz biskupsdæmi. sine anno. (synest og ad vera daterad laungu sidar enn so. ad þad kunne hier heima að eiga in ordine annorum).
Ögmundar biskups bref um Galmanstungu og sætt biskupanna. 1527—1528. cum vidisse 1539.
Andsvar biskups Augmundar upp á kongsbrefed um ordinantiuna.
Domur hier uppá. og um sættargiörd biskupanna. (pertinet ad ann. 1540).
Um adtekt i Videy 1539 (integrum illud documentum).
Veitingarbref Höfudsmannins fyrir Skagafiardarsyslu sem veitt var biskup Jone Arasyne Anno M. D. xx. v.
Sendibref pavans til biskups Jons 1549.
Palladii bref til Biskups Jons 1549 (uti ibi habetur).
Þriu kongsbref um Biskup Jon Arason. 2 i Jslendsku. Þad 3ia i Dönsku (dat. 1549—50).
Frammburdur Dada Gudmuodzsonar um vidskipte hans og biskups Jons (heiter hier *SaudafellzReid).*
Snocksdalsdomur 1550.
Sakargipter Christians skrifara upp á biskup Jon og hans sonu i Skalhollti 1550. ur Domabok Gisla Árnasonar.
2 kongsbref i Dönsku til Dada Gudmundzsonar dat. 1551. 52.
Um Skalhollts Domkirkiu gard i Norege (152..).
Um Vigfus Ellendzson. dat. Harvik i Einglande. laugardagiun epter Laurentii 1520.
Domur um Tyl Petursson 1523. manudaginn næsta epter Helguviku.

Ecki voru brefin fleire sem Þorsteinn hafde upp skrifad.
Ordini brefanna hafdi Þorsteinn umbreitt. fra þvi er i sialfri bokinne stendur. sem siást kann af þessu Registre. hann hefr viliad redigera brefin ad annos. pro suo captu. iafnvel (þo) þar i sie nockud misgád.
Framan á þessa brefa utskrift hafde Þorsteinn sett: *Ur brefabok biskups Ogmundar.* nefnelega hann hefur conciperad þad sama um þá elldre bokina. sem eg.
Þorsteins Copiubok feck eg af Axel Fridrik Jonssyne. enn hann hafde feinged af Verfödur sinum Biarna Arnasyne á Skumsstödum.
Eg sá sidan. ad hun var mier ad eingu gagne. og reif eg hana so i sundr.“

Þá koma ýmsar smásögur og smágreinar um Ögmund biskup með hendi Árna Magnússonar:
„Store Kroppur i Reykiaholts Reykiadal (þar hefur vered halfkirkia). Sagner eru ad biskup Ögmundur hafi eitt sinn rided þar um. og hafi einn af hans sveinum sagt. ad þetta væri falleg iörd. og biskup þar til svarad. hann mætte þá eiga hana. A næsta alþinge kom eigande iardarennar til biskups Ögmundar. og sagdest heyrt hafa ad hann þessa sina iörd burtgefed

hefde. biskup spurde hvert honum þad forþoknadest, hinn sagde nei, jördin hefdi honum velkomen vered. Þetta likade biskupe vel. og gaf honum aptur Garpsdal.

Relatio er i manna munne á Jslande. ad Ögmundur biskup hafe rided um eina iörd (kannske i Lundar Reykiadal) og hafe einn af hans sveinum sagt: Þetta er falleg iörd Herra. Biskup svarade (sem sagt er) eigdu hana þá. gaf honum so bref þar uppá. Sem biskup sidar iardareigandann þann retta fann. sagde hann honum þetta. og qvad honum munde þyckia diarflega til tekid. hann sagde iörden hefde biskupe velkomin vered. og ad þvi heyrdu betaladi biskup iördina riflega. Þetta er annars nockud oliklegt. iafnvel þott Ögmundur væri stór og óréttvis.

Sira Sæmundur[1]) s(eger) ad Øgmundur biskup Palsson hafe eitt sinn rided um Skeid á mille Olafzvalla og Brunavalla og á veige hastarlega blindur ordid i solskinsvedre. og strax hafe hann sagt fardu vel Verölld. sidan hafe hans þienare ordid strax hans hest efftir sier ad leida.

Biskup Ögmundur reid fra Hialla i Ölvese um húsumar. og sem hann kom á Grafningsháls. spurdi hann þá med honum voru. hvert röckvadi. og sem þeir sögdu nei. sagdi hann *fardu* vel verölld. Þeir ridu so affram. tok synana so fliott af biskupe ad þá þeir komu ad litla halse (þad er so mikid sem ein bæjarleid), var hann ölldungis blindur og feck alldrei sion sidan. Þetta meinar Sigurdur Gudnason sig lesed hafa i bok Sira Torfa i Bæ. ef ei. þá er þad relatio gamalla manna.

Þá Danska stridskiped kom ut. villde biskup Ögmundur flya burt einhversstadar. Asdis á hialla afried honum þad. og ried honum ad koma til sin. Þvi qvad hann sidan þá hann var tekinn.

Huxadu um þad hringalád
hvad hlautst af ordum þinum,
kölld eru iafnan qvenna rád
kemur ad ordum minum.
relatio Jslenskra.

1504. var Sira Augmundur Palsson prestur á Breidabolstad i Fliotshlid og profastur. *Vide Skalholltzbref.*

1510. i fardaugum var hann enn þá prestur. *Vide Skalholltzbref.*

1512. strax fyrir alþing var hann enn þá prestur. *Vide Skalholltzbref.*

1515. um Palsmesso leite um veturenn var Augmundur enn þá prestur og profastur undir Eyiafiollum. *Vide contractum* hans vid Holmfride Erlendzdottur. inter tabulas Scalholtenses.

Sidar á þessu sama áre 1515. er hann ordinn aboti i Videy. *Vide Videyensia.*

1519. ætladi Ögmundur biskupsefne ad sigla. enn vard apturreka.

1520. siglde hann med Engelskum til Englands og þadan for hann til Noregs. sama ár.

1) Það mun vera síra Sæmundr Hrólfsson.

1521. for hann fra Noregi til Danmerkur. feck þar kongs Confirmation og for so sama sumars fra Danmörk aptur til Noregs. Vigdest so um hausted i Norege. og var þar um veturenn epter.

1522. lagde hann til hafs fra Norege. kom vid Hialltland. og visiterade þar. Siglde sidan til Jslands. og tok land. efter mikla þrautarreisu. á Vestfiördum.

1521. *friadaginn næstan efter S. Magni dag* ɔ: 19. Aprilis um vorid var Ögmundur aboti i Biörgvin. Vide um leyfesbref Þorleifs Biörnssonar.

1521. anteqvam in Daniam abiret Ogmundus Abbatibus qvibusdam et officialibus suis. qvibus peregre iturus vices Episcopi in Islandia commiserat. e Norvegia scribit. rogans ut Ecclesiæ curam gerant. Resignat etiam regimen Monasterii Videyensis.

1523. tok biskup Augmundur vid kongs umbodi ifer allt Jisland i Hafnarfirde. Vide Seriem præsidum.

1523. Visiteradi Augmundur biskup fyrst i Austfiordum. Vide *Eida kirkiu skiöl*.

1526. epter Alþing. var Augmundur biskup aptur i Austfiordum. certum ex actis illius".

Um yfergang.

Vorum heigbornasta herra. oc volldugasta hofdingia konung Kristiern med guds nad. Danmerks. Noregis et cetera heilsum vier audmiuklega med guds kvediu ok vorre.

Kunngiorum vier ydar verdugasta[1]) vallde. ad þann arma lyd sem bygger uppa ydart skattland Jsland. klagar sig einkilega[2]) fyrer þann stora oriett sem þad fatæka folk skier af þeim utlendskum Fovetum. sem þar i landed koma. so Danumann sem skylldugur er eina mark eller tvo. hann er gripinn ok fangat.[3]) ok[4]) skal gefa ut fyrer sinn hals tiu eller dartig mark. hinn annar sem drept[5]) hefur sitt barn edur giaurt kietteri. hann skal kvittur. nær hann gefur ut ku eller[6]) a. um hann hefur til. ok her forminkast med ydar nadiss skattur oc gudstiund. oc ef svoddann oriettur skal stá. svo er landed platt i eyde.

Þar fyrer bidium vier audmiuklega. ok fatækur almuge. ad ydar næd villde skicka oss innfæddann Foveta ur Noregs kongs rike. þann ydr (ok) krununne være hollur ok trur.

Vill ydar nad skicka ydar mann Vigfus Ellendsson vorn foveta i Jsland. þa villdum vier þad giarna. þvi hann er

1) nadugasta 27. 2) mykeliga 27. 3) fanginn 27; 4) [so hann 27. 5) drepid 27. 6) edur 27.

ydur ok krununne hollur ok trur i allan mata. ok hann vilium vier giarnan hylla ok styrkia i ydrum eyrendum.

---

**541. 25. Júlí 1519. á Eyrarbakka.**

Vitnisburðarbréf nokkurra manna um róstur á Alþingi 1517, 1518 og 1519 af völdum Týls Pétrssonar.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Árna Magnússonar „ur brefabok biskups Ögmundar". — MSteph. 27. 4to bls. 1, einnig eptir afskript úr bréfabók Ögmundar biskups, skr. c. 1720. — Prentað í Safni til sögu Íslands II, 195—196.

Um yfergang Tyls [Petursssonar.[1])

Þad seigium vier Loptur Eyolfsson. Jon Magnusson. Sæmundur Eireksson ok Markus Jonsson. fyrer full sañinde. ad svoddañ oriettur hefur giordur vered uppa alþing her i lande i næstu forlidin iij. ær.

Jn primis var þar einn logrettumadur sleiginn ok skotinn fyrer ongva sok af utlendskum fovita, utan hañ baud sig under log oc rett.

Añad[2]) ær var þar gripinn eiñ logrettumañ ok settur i baullt[3]) af Tyl Peturssyne, fyrer eingin sak.[4]) utan hañ sagde upp logsamdañ dom.

Ed þridia ær hliop greindur Tyl upp med daggard ok stingsverd. ok villde i hel sla[5]) abota Augmund. fyrer ongva sok adra. eñ hañ sagde þetta ecke vera Sancte Olafs log: ok vor nadugaste herra konungurinn villde eckj[6]) lata suo regera sitt Skattland. ok her epter vilium vier sveria. ok Vigfus logmañ hiellt honum her utaf.

ok til sañs vitnis þryckium vier vor insigle uppa þetta bref. Skrifad i Jslande uppa Eyrarbacka Anno Domini ꝳ. d. xix. uppa Sancti Jacobi dag.

---

1) [b. v. 27. 2) annar 27. 3) bolt 27. 4) sök 27. 5) [helslá 27 6) 27; ek (!) 62.

542. 28. Júlí 1519. á Höfðadalseyri.

Ragnhildr Bjarnadóttir, ekkja Björns Guðnasonar í Ögri, fær Þorleifi Örnólfssyni fult umboð sitt um tvenna tólf mánuði að flytja og færa sín bréf fyrir konung og að gegna öllum hennar málum til kæru og andsvara, hennar vegna og barna hennar, samkvæmt Alþingisdómi frá 1. Júlí 1519 (Nr. 534).

Kriegers safn 2. 4to bls. 130—131, með hendi Styrs Þorvaldssonar c. 1700. Sbr. kgsbr. frá 30. Nóv. 1519 (Nr. 546).

Bref um̄ utan̄ferd Þorlejfs Örnolfssonar.

Þad giörum vier Olafur Gudmundsson. Jon Biörnsson. Jon Narfason. og Jon Sigvatsson godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi. ad vier medkiennunst. á fimtudag hinn næsta fyrir festum Olavi regis og martiris. þá liddid var frá Gudz burd ꝏ. d. og nijtián ár. á Höfdadalz Eyri i talknafijrdi. vorum vier i hiá. saum og heyrdum á ord og handaband þessara manna. af einni álfu Ragnhilldar Biarnadottur. enn annari Þorleijfz Örnolfssonar. ad svo undirtol(u)du og fyrir skildu ad greind Ragnhilldur gaf og feck nefndum Þorleijfi Örnolfssyni sitt löglegt um̄bod til þess ad flytia og færa mijn bref fyrir mijns herra naader. þau sem eg hefi honum i hendur feingid. eptir þvi sem dandimanna domur hefur adur tildæmdt. skal hann og fullt andsvar og áklögun hafa þessum mijnum málum minna vegna og minna barna ad öllu jafnfullt. sem eg sialf til allra loglegra andsvara. skal hann þessu mijnu um̄bodi adfylgia næstu tvennu xij manudi eptirkomandi.

Og til sanninda hier um̄. settum vier fyrrnefndir menn vor Jnnsigli fyrir þetta umbodzbref. skrifad i sama stad og dag. sem fyr seigir.

---

543. 1. August 1519. í Einarshöfn.

Skrá, er Ögmundr ábóti og biskupsefni í Skálholti hefir látið gera til þess að hafa með sér utan á vígsluför sinni, um

skjöl þau og skilríki, er liggi við skjalasafn Skálholtsdómkirkju og sýni það, að Vatnsfjörðr sé staðr (beneficium), þó að honum hafi leingi verið haldið fyrir kirkjunni með ofríki.

Bisk. Skalh. Fasc. XIV, 3, frumrit á skinni nú stórlega skemt. — AM. Apogr. 2469 með hendi Árna Magnússonar eptir frumritinu, er þá var „hier og hvar tekid til ad trosna", þó var það þá „i vidustum stödum læselegt", segir Árni. Á meðan hann var að rita bréfið upp hafði hann við höndina afskript með hendi síra Bjarna Hallgrímssonar í Odda frá c. 1680, og eptir þeirri afskript hefir Árni fylt það í afskript sinni, er þá var fúnað úr frumritinu, og er það sett hér í hornklofa.

Vm Vatzfiardar eign 1519.

Liggia suodan skilriki med insigludum brefum og gaumlum registrum fyrir kirkiune j vatzfirde fyrir hennar heimalande. eignum faustum og lausum ad domkirkiunne j skalhollte.

Jn primis ad greind jaurd vatzfiordur var dæmd æfinligt beneficium af virduligazta herra og faudur jone erchibiskupe j nidarose godrar minningar. og korsbrædrum þar.[1]) var þar þa fyrir hans nad badi veriandi og sækiandi.

kom þa sidan nockur satt[male][2]) vpp æ þennan gard vatzfiord j suodan mata ad biorn heitin einarsson skyllde hallda sama gard j sina lifstid. en epter hann andadan skyllde greindur gardur vatzfiordur vera æfinliga beneficium upp þadan. Enn hann var þar epter gripin med ofbelldi fyrir vtan laug af leikmonnum og hallden sidan med orette meir en hundrad ar.

Jtem j anare grein hefur nu suo til komit nær þessum timum ad biskup stephan godrar minningar klagade upp æ fyrnefndan gard vatzfiord og kirkiunar peninga og feck þar aunguan reikningskap vt af enn kirkian var þa litt hallden bædi jnan s[ig og] vtan. var þui garduren dæmdur j biskupsens forsia til prestastefnu enn malit vnder xij. presta dom huersu greindur gardur skyllde blifa þadan j fra.

1) Það var 24. Júlí 1273. Sjá Dipl. Isl. II, Nr. 39. 2) Hér las séra Bjarni „sattargiörd", en Árna þykir „sattmale" svara betr til rúmsins (eyðunnar). Það mun vera dómr Vinalda erkibiskups frá 1393, sem nú er ekki til.

Jtem j þridia Dome var jordin vatzfiordur og hennar peningar faster og lausir Dæmd vnder æfenligt beneficium.

Jtem giorde greindur biskup stephan sama vid biorn þorleifson vm optnefndan gard vatzfiord ad hann skylldi vpp gefa og vidskiliazt þad sama akall sem hann þottizt eiga til stadarens. enn þar j mote skyllde hann og hans forelldrar kuitter vm rangligt halld sem þeir hefdi haft a gardinum og gozenu.[1])

Jtem komu þesse bref aull og skilriki fram fyrir vorn verduga herra. herra gauta med guds nad erchibiskup j nidarose til profs og ransakanar og gaf hann þar vppæ sitt bref og insigle ad honum litizt þessi bref og skilriki med sinum greinum og articulis skiarlig og lauglig j allan mata. þui styrkte hann þau og stadfeste med þessu sinu brefi fyrirbiodandi huerium manne þau ad hindra j nockurn mata vnder hæstu strid(u) laganna. Enn hier j mote hefer biorn gudnason halldit med gripdeildum optnefndan gard vatzfiord og fyrir þad var hann bannsunginn af biskupinum. Enn nu med þad seinzta fyrir .ij. arum lidnum lofade hann ad hann skylldi koma fyrir rikissens rad j noreg[i v]nder full[komi]t og endaligt suar.

Eru þesser menn til vitnis hier vm [er] þessi adur greind skilrike hafa sied og lesit. jon einarson. þormodur gunlaugson prestar skalholtz biskupsdæmis. [Er]lendur [þorua]rdzson. sæmundur eirekson. jon magnusson. olafur narfason.

Og til saninda hier vm settum vier vor jnsigle fyrir þetta transkriftarbref skrifat i einarshaufn a eyrarbacka. ad uincula petri. anno domini M.° d.° decimo nono.

---

**544. 10. Ágúst 1519. á Breiðabólstað.**

Vigfús Erlendsson lögmaðr yfir alt Ísland staðfestir dóm frá 17. Febr. 1513 um ásetu og yrking á Nesi í Grunnavík (Nr. 340).

1) Hér stendr aptr „haft" í frbr., en því er ofaukið.

AM. Apogr. 987 „Ex originalibus Sæmundar Magnussonar å Hole i Bolungarvik accuratissime". Árni lýsir innsiglum, og var þetta brêf læst saman við dóm Björns Guðnasonar frá 17. Febr. 1513.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sender uigfus erlinzson laugmann yfer allt island kuediu guds og sina. kunnigt giorandi. arum epter gudz burd. þusund. fim hundrud og nitian ær faustudagin næsta firir niv uikna fostu.[1]) j lambey. æ þingstad riettum þa eg uar þar ad skipa malum manna kom fyrir mig pall diakne olafsson J umbodi fodur sins olafs eirekssonar med suo latanda dom sem hier er vid festur med dandimanna innsiglum beiddi og krafdi laga vrskurdar æ huert afl hann skylldi hafa. þui nefnda eg ut med mier .vi. menn til samþycktar ad skoda þenna sama dom. Nu af þui ad mier og þeim leizt hann ad ollu laugligur og skiallegur. þui ad suo profudu og fyrir mig komnv og tilkolludum beztu monnum er hia mier uoru og mier samþyckiandi j domsssæti sitiandi og logliga til krafdur æ laganna uegna. sagda eg j gudz nafne amen med fullum laga urskurdi og doms atkuædi adur skrifadan dom ad ollu logligan og skiallegan. og iordina nes fullkomna eign fyrr nefndz olafs eirekssonar. epter þui sem domurin þar adur um gior utuisar. Og til sanninda og fullrar samþycktar hier um. setti eirekur þorsteinsson. jon hallzson. narfi ellinzson. ellingur gislason. jon eireksson og gudni þorarinsson sin jnsigle med minv insigle fyrir þetta urskurdarbref. Skrifad æ breidabolstad j fliozhlid. laurencius messu. sama are sem fyr seigir.

---

545. **4. November 1519. á Sauðafelli.**
**9. Janúar 1520. á Staðarfelli.**

Tylftardómr, út nefndr af Þorleifi Pálssyni kongs umhoðsmanni milli Gilsfjarðar og Skraumu, um ákæru þeirra Jóns og Snorra Arnfinnssona til Þorleifs Gamalielssonar, að hann hefði veitt Arnfinni föður þeirra bana, en Þorleifr vann

1) þ. e. 18. Febr,

séttareið þar fyrir þegar samstundis, undir þær greinar, er bréfið hermir.

AM. Apogr. 2267 með hendi Magnúsar Einarssonar eptir frumritinu á skinni meðal Jörfabréfa „accuraté collatum“.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda stulle þordarson. brandr einarsson. sygurdr oddzson. asmundr clemensson. gudmundr gudmundzson. oblaudr grimsson. arne þorsteinsson. olafr gislæson. guttormur snorason. sueinn olafsson. liotur magnusson. hening þordarson. Q. guds oc sina. kunnigth giorandi a faustudæginn næsta epter allra heilagra messo (vm) ueturinn arum epter guds burd. m. d. oc nitian ar. a saudafelle j middaulum a þingstad rettum. uorum uier j dom nefnder af ærligum dandimanni þorleifi bonda palssyni er þa hafdi mins herra kong(s)ins syslu oc umbod j millum gilsfiardar oc skraumu ath skoda oc rannsaka oc fullnadardoms atkædi a leggia hueria magt edr ualld at hafa skylldi su akiæra er jon. anfinnzson kiærdi þar þa. oc hans broder snorre anfinnzson til þorleifs gamalielssonar suo uær heyrdum at hann hefdi ueitt arnfinne faudr þeirra bana at þui at þeir hygdi. Nu saker þess at laugmalid til skipar at epter gaungum[1]) oc uitnum skal huert mal dæma. enn þeir kuomu þar med einge fram uitne nie gogn til sagdrar akiæru. þui dæmdum uær adr nefndan þorleif gamalielsson saklausan um sagda akiæru upp a mannslagid. enn saker þess at optnefndr þorleifur medkendizst at hann hefdi sleijt fyr nefndan anfinn faudr þeirra med auxi a herdarbladit oc litinn auerka æ fingurinn. Nu fyrir þann skulld at opt nefndur þorleifur ueitti uidgaungu um saugd tilrædi. þa dæmdum uær honum til .ui. eids. huort hann hygdi at honum hefdi þau til dauda dreigid edr eigi. Enn hann sor þar þegar samstundis suo felldan eid at hann hugdi at þau tilrædi hefdi honum ecki til dauda dreigid. þui dæmdum uær konginum tuær merkr a saugdum tilrædum enn sonum anfinnz heitins .c. j fullgilldis peningum sem laug til skipa at giálldazst skule j

1) Svo.

sarbætr oc gialldi at laugheymile optz nefndz jons aufinzsonar. heima j blonduhlid nema hann uile jnndælla um gioræ.

Samþyckti þenna vorn dom med oss adr skrifadr syslumann oc setti sitt jnsigle med uorum jnsiglum fyrir þetta domsbref huert er skrifat uar under stadarfelle a medalfellzstrond a manudaginn næsta epter epifanie domini are sidar enn fyrr seiger.

---

546. 30. Nóvember 1519. í Kaupmannahöfn.

Bréf Kristjáns konungs annars, þar sem hann, samkvæmt dómum og úrskurðum Jóns lögmanns Sigmundssonar og staðfesting konungs á þeim, úrskurðar að Torfi Björnsson, Guðnasonar og systkin hans megi hafa, njóta, nytka og halda Vatnsfjörð og allar eignir þær, er lögmaðr hafði dæmt Birni Guðnasyni föður Torfa.

Landsbókasafn 72. 4to bls. 601—602, með hendi síra Jóns Halldórssonar í Hítardal 1724 beint eptir frumritinu á skinni: „Þetta Bref er skrifad effter sijnum Original á kalfskinne med ósköddudu kongsins Signete þar vid föstu og hängande. effter þvi sem eg riettast þocktest lesid geta. Hijtardal d. 5. Augusti Anno 1724. Jon Halldorsson", — Eptir þessari afskript er bréfið prentað í Kirkjusögu Finns biskups II, 257—258. Síðan er það prentað í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar 1, 169—172, eptir tveim afskriptum; var önnur þeirra tekin „Epter hende Jons Dan", en hin var staðfest af Sigurði Sigurðssyni, sem lögþingisskrifari var á öndverði 18. öld. Sbr. Nr. 542.

Christiani secundi Bref um vatnsfiord og honum fylgiande gots og garda. utgefid Torfa Biörnssyne. Anno 1519.

Wii christiern met guds nade Danmarkis. Norgis. vendes och gotes konijngh. udvaldh konnijngh till Sveriige. Hertugh udi Slessvigh. Holstein. Stormarn och Dijtmersken. greffve i Oldenborgh og Delmenhorste. giöre alle vitterligth at oss Elskelig Ravellde[1]) Biörns gundesöns Effterleverske paa vort landh ijslandh. och hennes Barn Torffve Biörnssön och

1) „o: Ragnhilldur", setr síra Jón á spássíu.

hans Brôdre oc sijskene haffve nu ladeth berette fore oss. at nu noghen aar sithen forledne haffver voreth trette emellom Biôrn Gundesôn paa ijslandh og Biôrn Torluffssôn. om noghen gaardhe oc gots som liggendis ære paa ijslandh. som kaldes vastfôðre gaard. oc flere gorde och gots item at vor Lagmand Jon Sigmonsson paa ijslandh haffver till fordum dômtes samme forne gaarde och gotz till forne Biôrn gundesôn oc hans barn oc arffvinghe effter Norges lôgh. oc haffve vii og tilfordum fundet samme Lagmands Breff och dom som hann ter paa giffvet haffver ved sine fulde macht at bliffve. og forne Biôrn gundeson oc hañs barn oc rette arffvinghe at nýde och beholde forne garde met alle forne gotz. som vort Breff vii ter paa till fordum giffvet haffve ythen mere ther om udviiser oc indeholder. Tha effter saadan forne leilighede Breffe og bevisninge. som ter paa ganget er. undhe oc tillade vii at forne Biôrns gundesôns Barn. som kaldes Torffve Biôrnssôn oc hans Brôdre oc Sýskene mue haffve. nýde. bruge oc beholde alle forne gaarde och gots. som vor Lagmand forne Jon Sigmonsson haffver hannem och hañs arffvinge tildômte effter Norges lôgh. Thi forbiude vii allom ihvo the hellst ere eller vaare kunde serdelis vore fogeder oc Embetzmand och besonderlighen forne Biôrn Torlaffsôn forne [Biôrns gundesons[1]) [sôn Torffve Biôrnson[2]) oc hans Brodre oc Sôstre her emoth paa forne gaarde oc gotz at hindre. hindre lade. môdhe. qvellige[3]). platze. deele eller i nogen mode at uforrette under vor konnijnglighe hefndh oc vrede.

giffvet paa vort slot kôpnehaffn Sancti Andreæ Apostoli dag aar effter guds byrd MDXIX.

under vort Signeth.

---

1) [Svo afskript síra Jóns. Bæði Finnr biskup og Magnús Ketilsson prenta „Biörn Gundeson". 2) [bætt við hér í útgáfunni, því að það má til að standa efnisins vegna. Það vantar í afskript síra Jóns, og eins hjá Finni biskupi og Magnúsi Ketilssyni. 3) MKet.;

547. 1519. í Haga.

Erlingr Gíslason lýsir því, að hann hafi tekið eiðfestan vitnisburð af Jóni Brandssyni um það, að skipherra Gerst Melen (Maulen) hafi feingið Eyjólfi Gíslasyni til frjáls forræðis og æfinlegrar eignar „það sama kaupskip og skipabrot öll, er komið var á hans reka".

AM. Fasc. XLIV, 13, frumrit á skinni fúið. Innsiglið fyrsta er fyrir bréfinu, en hin tvö eru dottin frá. — Apogr. 1182.

Þat giore eg ellingur gislason godum monnum kunigt med þessu minu opnv brefi at eg medkennizt at eg hefi teckit suo felldañ vitnisbvrd af ioni brandssyni sem hier seger.

at til þess lagdi hann hoñd a helga bock ok suo (skaut) hann sinu mali til gvds at þar var hann ȷ hia sa ok heyrde æ ord ok samtal þessara manna eyolfs gislasonar og gerzt meleñ[1]) at suo fyrir skildu at fyrnefndur skipherra fick[2]) adur greiñdum eyolfi þat sama kaupskip og skipabrot oll er komit var æ hans recka til frials forrædis ok æfiñlegrar eignar ok at so stofudum eidi sie honum suo gvd hollur sem hann satt seger gr(a)mur ef hann lygur.

voru þesser nær ueranda menn greipur prestur ionsson. hallur stullason ok settu sin insigli æ[2]) med minu insigli fyrir þetta brief er skrifat var i haga æ bardastrond þa er lidit uar fra hingatburd uors herra iehsu cristi m⁰ fim hundrud xıx ar.

---

548. 7. Janúar 1520. á Svínavatni.

Gottskalk biskup á Hólum fær Þórarni Jónssyni jörðina alla Búrfell með hálfu „auðna" Búrfelli á Ásum til fullrar eignar upp á þá peninga, sem biskup hafði í borgan geingið við hann með fullri lofan.

---

vellige, afskr. síra Jóns með punktum undir, sem merki þess að orðið hafi verið torlesið. Hjá Finni biskupi er prentað „wellige". 1) eða: maleñ. *Maulen* er hann nefndr í dómi Snæbjarnar Gíslasonar $^{11}/_{10}$ 1520. 2) Svo.

AM. Fasc. XLIV, 14, frumrit á skinni og er innsigli biskups fyrir bréfinu. — Apogr. 3439.

vm Bwrfell.[1])

Uer gottskall med gvdz nad biskup a holum i hiallttadal giorum godum monnum viturligt med þessu uorv opnv brefue at ver hofum vn̄t og feingit þorarn̄e ionssyni iordena alla bvrfell med halfu audna bvrfelle a assum er liggur i suinavaz kirkiv sokn med ǫllum þeim gognum (og) gædum sem henne hafa fremst fylgt at forn̄u og nyu og uer urdvm fremst eigandi ad til fullrar eignar og frials for(r)æđis uppa peninga sem ver hofum i borgan̄ geingit uid hann med fullri lofan. skal hann mega frialsliga ad sier taka fyr sagda iord nær hann uill. og til sanenda hier um setivm uer uort insigli fyrir þetta bref skrifat a suinauatne a assvm fostudagen næstan̄ epter hin þrettanda (dag iola) um veturenn. anno domini. ꝏ. d. xx.

---

549. 20. Janúar 1520. á Ökrum.

Finnr Arnórsson fær Maríukirkju á Hvanneyri í Andakíl þá eign og ákæru, er hann og (Arnór Finnsson) faðir hans máttu eiga til Smáhamrareka.

AM. Apogr. 1739 eptir kopíu með hendi Páls lögþingisskrifara Gíslasonar, en síðan borið saman við frumritið og leiðrétt eptir því: „Innsigled er nu (1709) burtu. og er þesse ofanskrifud Copia confererud vid Originalenn. sem nu er eign Sira Þordar Jonssonar á Stadarstad“ (AM).

Finnur fær kirkiunne smahamra reka.[2])

Þat giori eg finnur arnorsson godum mǫnnum viturligt med þessu minu opnu brefi at eg medkiennuzt. at eg hefi feingit Mariukirkiu ꝺ́ Hvanneyri alla þꝺ́ ęign og akæru er eg og minn fader eiga mꝺ́tti til Smꝺ́hamra reka. hvalreka.

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 2) Stóð utan á frumbréfinu með nýrri hendi. Þar stóð og með hendi Páls Gíslasonar: „1520. Xum. 8“.

vidreka og med aullum hlunnindum og takmarki sem bref þar um tilvisar. þessum mönnum nærverandum Sira Gisla Halldorssyne. Jone Halzsyne. Helga Helgasyne. Berge Jngimundarsyne og mörgum ödrum godum mönnum nærverandum. for þesse giorningur fram á aukrum á mýrum þa er lidid var fra guds burd ꝍ. d. og xx. ár faustudaginn næsta fyrir Palsmessu um veturinn a sama are sem fyr seiger.

---

**550. 28. Marts 1520. á Hólum.**

Jón Hallsson selr heilagri Hólakirkju og Gottskalki biskupi til fullrar eignar tuttugu hundruð í jörðunni Hóli í Kinn fyrir hálfa jörðina á Völlum (Stóruvöllum) í Bárðardal með þeim innstæðukúgildum, er þar með fylgja.

JSig. 66. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ex originali". — MSteph. 27. 4to bls. 432—433, skr. c. 1720 „Ex membrana". Hefir það verið annað frumrit sama bréfs gert 13. Apr. 1520.

Kaupbref fyrer. xxv.c i Hole i Kinn.[1])

Þath giorum uier magnus arnason. ȷon magnusson ogh Rafn Brandzson godum mönnum uiturligt med þessu uoru opnu brefi. at harum epter Gudz burd. ꝍ. d. ogh tuttugu ár miduikudaginn næstañ epter marie messu annunciacionis ȷ langafaustu ȷ stopplenum á holum ȷ hialltadal uorum uier ȷ hia saum ogh heyrdum æ ord ogh handaband Godskallz med Gudz nad Biskups á holum af einne halfw. enn af annare ȷons hallzsonar. ath suo fyrir skildu ath sagdur ȷon hallzson selldi heilagri holakirkiu og Biskupinum fim hundruth og xxc ȷ iordinni hool i kinn er liggur i stadar kirkiu sokn. til fullrar eignar og frials forrædis. undan sier og sinum erfingium. med aullum þeim gognum og gædum er greind ȷord hefir fremst ætt til fialls og til fioru til motz uidh adra menn. hier i mot gaf biskupinn greindum jone hallzsyne halfa ȷordena a uollum i bardardal i lundarbrecku kirkiu-

1) 27.

sokn med þeim ȷnnstædu kugilldum [er[1]) þar med fylgia. vndan heilagre holakirkiu og sier. fyrr sogdum ȷone til fullrar eignar og frials forrædis. med aullum þeim gǿgnum og gædum er[2]) greindre ȷordu fylger og fylgt hefir. og heilǿg holakirkia hefir fremst eigandi ath ordith. [Skilde hver hallda sijnu kaupe til laga og sa svara lagariptijngum er selde.[1]) Ogh til sannenda hier um̄ setium vier fyrnefnder[3]) menn vor ȷnncigli fyrer þetta bref er skrifath uar ȷ sama stad. [are og deige.[4]) sem fy̋r seigir.

---

551. 31. Marts 1520. á Kirkjubóli.

Thomas prestr Ólafsson, prófastr milli Langaness og Hvítaness, kvittar Jón Narfason af öllum sakfellum við heilaga kirkju og hann.

AM. Fasc. XLIV, 23, frumrit á skinni og er innsiglið enn fyrir bréfinu. — Apogr. 866.

Þat giore eg thomas prestur olafsson profastur ȷ millum langanes og huitanes godvm monnum kvnigt med þessv mínv opnv brefi ad eg medkenvzt at eg hefe afleyst ȷon narfason af þeim sakfellum sem hann hefur opinber at ordin[5]) vid heilaga kirkiu og mic og set honum mogvliga penetenciam sem greindvm brotvm til heyrir og fesegt vpp borit sem mier uel æ nægir. þui gef eg adr skrifadr valztmadr[5]) fyr skrifadan ion avldvngis kuitan ok ækærvlavsan fyrir mier og aullum minum epterkomendvm kirk(i)vnar formonnum ʀettvm vm aull þav sakfelle sem hann hefur ȷ falit[5]) og vm erv lidin og profastur ma yfir taka og seirliga[5]) af þiem[5]) fiormenings mædvm[5]) sem hann hefur opinber ad ordin[5]) med dyrvne þordardottur. Ok til saninda hier vm feste eg mitt ȷnsilgi[5]) fyrir þetta kv(i)ttvnar bref skrifat æ

---

1) [þ. v. 27. 2) sem 27. 3) firskrifader 27. 4) [föstudagenn ȷ paskaviku a sama äre 27. (þ. e. 13. Apr.). 5) Svo.

kirk(i)vboli ȷ skvtvlsfirdi lavgardagin næsta fyrir palmsvnnvdag vm vorit anno domino[1]) m⁰ d⁰ xx.

---

552. 30. Apríl 1520. á Munkaþverá.

Dómr sjö klerka, útnefndr af Jóni presti Finnbogasyni í umboði Gottskalks biskups á Hólum, um skilgetning Þuríðar Brandsdóttur, Þorsteinssonar.

Bisk. Skalh. XIX, 51, frumrit á skinni. Af 8 innsiglum voru öll nema 2, dottin frá á dögum Árna Magnússonar. — AM. Apogr. 2394 „accuraté“. Sbr. Nr. 556.

Bref um anastadaarf.[2])
jhesus.

Þath giorum wier brodir Einar med guds myskunn abote a munkaþueræ. finnboghe einarsson. Eigill hallsson. suein finnboghason. loptur petursson. Raugnualldr raugnuallds-son. og magnus magnusson. prestar holabiskupsdæmis. godum monnum viturligt med þessu woru opnu brefe. ath ærum epter guds burd. þushund. fim̃ hundrut og tuttugu áár manudaginn næstañ fyrir tueggia postula messo æ vorit. a munkaþueraa i eyiafirde. vorum vier i dom nefndir. af ærligum manne sira ione finnbogasyne er þá [hafde þar til[3]) fullt og logligt vm̃bod med brefue og incigle virduligs herra og andaligs faudr godskalls med guds nad biskups a holum. at vier skildum skoda. alita og doms atkuæde a leggia. huort þuridr brandsdottir være skilgetiñ og lavgliga i ætt komiñ edur eige. kom biskupsins kref þar fram̃ fyrir oss suo lat-añda og inne halldanda. at sæmundr simonarson hefde synt sier tuau bref med godra manna inciglum presta og leikmanna. at adr nefndre þurıȷde brandsdottur hefde verit skipt arfue eptir brand heitinn þorsteinsson. faudr sinn í mots vid aunnur sıȷn syskiñ. og af þui sagdistz biskupinn

1) Svo. 2) Utan á bréfinu með gamalli hendi; 3) [þá þär til häfde, frbr. og mun það eiga að merkja, að „þar“ og „hafde“ eigi að skipta sætum, sem betur fer á.

ecke kunna annat at merkia i þeim. enn at fyrr nefnd þuridr brandsdotter mune vera skilgetiñ og logliga i ætt komiñ. fyrir þann skulld. at þeir menn hefde skipt henne sinum faudrarfue sem þar hefde giorla til vitat. haufum vier og þesse saumu bref. heyrt. sied. og yfuerlesit. med heilum og oskauddum inciglum. huer oss litustz og syndustz riett og loglig vera. i ollum sínum greinum. til fulls vitnisburdar og sannra likenda at þuryjdur brandsdotter sie skilgetin og laugliga i ætt komiñ. Þui at guds nad til kalladre dæmdum vier fyrr nefndir prestar epter þeim brefum. vitnum og gaugnum sem þa þar fram komu i dominn fyrir oss opt nefnda þuryjde brandsdottur skilgetna vera og laugliga i ætt komna. nema þau lauglig vitne leidistz fyrir biskupinum edur hans vmbodsmanne. sem honum synist med sinum lærdum monnum riettliga hrinda mega skilgetning tíjttnefndrar þuryjdar.

Samþyckte fyrr nefndr sira ion finbogason vmbodsmann heilagrar hola kirkiu med oss þenna vorn dom og sinn fullan laga vrskurd a lagde sem hann framastz maatte at laugum giora og þar med sette hann sitt incigle med vorum inciglum fyrir þetta bref. er skrifuat var a munkaþueraa i eyafirde a sama are degi syjdar. enn fyrr seigir.[1])

---

**553. 31. Maí 1520. á Kolfreyjustað.**

Lýsing Jóns prests Indriðasonar, að Valgerðr heitin Ólafsdóttir, kona Guðmundar Magnússonar, hefði gefið fimm hundruð eptir sinn dag upp í jörðina Hólma í Reyðarfirði kirkjunni þar heima og jungfrú Maríu, og að Ólafr Guðmundsson hefði í testamenti sínu á sama hátt feingið kirkjunni í reikningsskap og gjöf tíu hundruð í nefndri jörðu, og enn að Guðmundr heitinn Magnússon hafði, samkvæmt máldaga Magnúsar heitins biskups, feingið kirkjunni tíu hundruð í Hólmum.

1) þ. e. 1. Maí.

Bisk. Skalh. Fasc. X, 17, frumrit á skinni og er innsiglið dottið frá. — AM. Apogr. 2624.

bref vm holma i austfiordum.

Þat giore eg ȷon prestur indridason godum monnum kvnnigt med þessu minu opnu brefi ath broddi tiorffason og gudrun olafsdotter lystu þui fyrir mier ath ualgerdur heitin olafsdotter eiginkuinna gudmundar magnussonar hun hefdi gefit fimm hundrut upp ȷ iordina holma er ligur ȷ reydarfirde kirk(i)unne þar heima og iungfru mariu til æuenligrar eignar epter sinn dag. ȷ anare grein uar eg ȷon prestur indridason þar hia og heyrde eg ꜳ ath olafur heitin gudmuudsson giordi sitt testamentum heill ath uiti og allri skynsem̄d en siukur ȷ likama. sagdi og lysti fyrir mier ath kirkian ꜳ holmum ȷ ʀeydarfirde skylldi eiga tiu hundrut upp ȷ fyrr greinda iord holm̄a ȷ sinn reikningskap en ef hann ętti eigi sua mikit ath giallda ȷ sinn re(i)kningskap þa gefe hann þat heilagri kirkiu sem meira ueri ok en hier til er maldagabrefit suo latandi þar ꜳ holm̄vm sem biskup magnus heitin gud hans sal nadi [hefur þar um giortt[1]). hefdi feingit titt nefndri kirkiu tiu hundrut gudmundur heitin magnusson vpp J þratt nefn̄da ȷord holm̄a. Ok til sanen̄da hier um setti eg fyrr nefndur sira ȷon indridasøn mitt insigle fyrir þetta uitnisburdarbref er skrifath var ꜳ koltreyvstad ȷ faskrudsfirdi fimtudagin nesta in octavo in̄ pentecosten anno domini millesimo quingentesimo vigesimo.

---

554. **4. Júní 1520. á Skarði í Langadal.**

Vitnisburðr um samtal þeirra Gottskalks biskups á Hólum og Jóns bónda Einarssonar um fékaup þeirra Jóns bónda og Kristínar dóttur biskups, og kjöri biskup í þessa peninga sextigi hundraða jörð, og skyldi það vera Ey á Skagaströnd.

ÍBfél. 67. 4to bl. 73 með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745). — Afskript meðal jarðabókarskjala Árna Magnússonar,

1) [neðst við fald og innvísað.

Húnavatnssýsla Nr. 2, staðfest að Geirrauðareyri 15. Apr. 1704 af Guðmundi Þorleifssyni, J(óni) Jónssyni og Birni Jónssyni (= *b*).

(Utskript) af vitnisburdi og skilmala um Ey æ skagaströnd.

Þeim godum monnum sem þetta bref siæ edur heyra senda Einar Oddsson. Arngrimr Liotsson. Jon Halldorsson og Semingr Olafsson kvediu guds og sina. kunnigt giorandi med þessu voru opnu brefi. at vier vorum þar[1]) j hiæ. sæum og heyrdum æ. á[1]) Holum i Hialltadal. a brudlæpsdegi[2]) þeirra Jons Bonda Einarssonar og Christinar Gottskalksdottur. at so fyrir skildu. at virdugligr herra Biskup Gottskælk spurdi Jon Einarsson hvert sa skildagi skylldi halldaz er þeir hofdu giort. eda skylldu þeir giora annan. um fekæp þeirra hustru Christinar. en ædrgreindr Jon Bondi Einarsson sagdi at Biskupinn skylldi ræda. en Biskupinn kiðri at sæ giorningr skylldi standa sem þeir hofdu ædr med sier giort. [enn Biskupinn sagdist[3]) skilia til i þessa peninga sem þeir hofdo[4]) æ sattir um ordit. lx hundrada jord. og skylldi þat vera Ey æ skagaströnd.

Og til sanninda hier um setium vier fyrr nefndir menn vor innsigli fyrir þetta vitnisburdar bref. er skrifat var æ Skardi i Længadal. mænadaginn næstan eptir De Trinitate um vorit. ærum eptir Guds burd M D ok xx vetr.

---

555. 6. Júní 1520. á Hólum.

TESTAMENTISBRÉF Gottskalks biskups Nikulássonar á Hólum.

Bréf þetta er tekið hér eptir tveimur afskriptum: *a*, afskript með hendi Hákonar sýslumanns Gíslasonar frá c. 1640, gerð fyrir Þorlák biskup Skúlason á Hólum, nú geymd í Landsskjalasafninu í Reykjavík; *b*) skjalabók Biskupsskjalasafnsins í Fol. bls. 25—33, er Þorlákr biskup lét rita 1641—1642, og er bréfið þar einnig ritað með hendi Hákonar Gíslasonar. Eptir *a* er gerð afskript sú af þessu bréfi, sem er í

1) b. v. *b*. 2) brudkaupsdeige *b*. 3) [*b*; og sagdiz hann *a*. 4) hefdi *b*.

bréfabók Brynjólfs biskups, því að þessi afskript hefir verið leingi í Skálholti og fylgt síðan bréfabók Þórðar biskups Þorlákssonar. Og eptir annari hvorri þessara afskripta er gerð afskript síra Vigfúsar í Hítardal í Landsbókasafni 115. 4to II, 6—17. Bréf þetta, ásamt latneskri þýðingu, er áðr prentað í Kirkjusögu Finns biskups II, 629—644.

Giafa Bref Byskupz Gottskalcks til hőla domyrkiu.

J(n) Nomine Domini Amen.

Vier Gottskallk med Gudz nǻd Bẏskup ǻ Hőlum Giörum godum monnum viturligt med þessu voru opnu Brefi. ad vier vilium sialfer kunngiora ydur. huor kot eda ȷarder hafa vnder oss borid ȷ þann tıȷma. sem almattugur Gud hefur oss overdugañ þolad yffer Hola Byskupzdæme. huad þeir partar eda ȷarder heıȷta. huðrsu dyrar þær Eru. og huorsu þær hafa vnder oss borid og huad vier giorum af þeim.

fyrst fyrer nordan Jokulsǻ.

dalur xc.

aland xc. iij kugilldi med badum. Landskylld þriar merkur.

Gardur xijc. fimm kugilldi. Landskylld c.

voru þessar þriar golldnar ȷ wtlegd fyrer Barneign j hordæme.

Sueinhvswıȷk xxc. vj kugilldi. Landskylld. c. kom fẏrer framfæri og kienslu til prestz Sijra Jons Magnussonar.

xxc ȷ Skordum. iiij kugilldi. Landskylld. c. kom fyrer annad kot og peningar ǻ millum.

Þuerǻ xxc. vj kugilldi. Landskylld. c. og keyptt fyrer fulla peninga.

J Hiedara vmbodi.

Hool ȷ Hofdahuerfi. xv.c vj kugilldi. Landskylld. fimtan aurar og keypt fyrer fulla peninga. og er þo Christzfie.

Hrafnstader. xxxc. vij kugilldi. Landskylld. ijc. og kom J prouentu.

half Biorgin. xc. fiogur kugilldi. Landskylld. x. aurar og gollditi ȷ sakfelli.

Vad. xxc. vj kugilldi. landskylld viij agilldi. og giefid ȷ prouentu.

Hoskulldstader med kotinu fimtigi c. vj. kugilldi. Land-

skylld. ijc. og komu halfer fyrer Biskupztıjunder. enn halff med Sıjra Thomase Eıjrıjkssýne. enn kotid keýpt.

Halfer Hallbiarnarstader. xv.c. iiij. kugilldi. Landskylld .x. aurar. og golldner ȷ sakfelli.

fagranes. xiiijc. iiij kugilldi. Landskylld. x aurar. og var keypt.

Strond .xc. iiij kugilldi. Landskylld .c. og var giefiñ.

Minne weller. xc. og keypt.

Christnes .lxc. x kugilldi. Landskylld .iij.c.

kristnes. kroppur. Hialmstader og Grıjsarđ komu fyrer þær ȷarder sem vnder oss hafdi borid. og er kroppur. xlc. vj kugilldi. Landskylld atta agilldi.

Hialmstader xxc. vj kugilldi. Landskylld. c.

Grıjsarđ .xxc. vj kugilldi. Landskylld. c.

Krukstodum .v. kugilldi. Landskylld. xv. aurar.

Draflastader .xxc. v. kugilldi. Landskylld atta agilldi.

Seliahlijd. xxc. vj kugilldi. Landskylld. c.

Gilsđ. xxc. vj kugilldi. Landskylld. c.

voru þessar þriđr ȷarder keyptar.

Gierdi .xijc. vj kugilldi. Landskylld. xij aurar. kom þad ȷ ȷardakaup.

Hleýnargardur. lxc. x kugilldi. Landskylld. ijc. og sumur keýptur. enn sumur ȷ sakfelli.

Huassafell sumt keýptt. enn sumpt fyrer Biarna heitin Olason[1]) ȷ sakfelli.

Ytra krossanes. xxxc. vj kugilldi. Landskylld. cc. keýptt fýrer fulla peninga. enn halfftt og kuastader ȷ Suartđrdal komu fyrer sydre[2]) Bæisđ.

Sydra krossanes. xxxc. vj kugilldi. Landskylld. c. keyptt fýrer fulla peninga.

Mýrarlőn. xxc. vj kugilldi. Landskylld. c. keyptt fyrer fulla peninga.

Aslacksstader. xlc. vj kugilldi. Landskylld. c. þa wti eruiijđr.

Arnbiargar Brecku og halftt Krossanesid ýtra fieck oss sıjra Eıjrıjkur Sumarlidason fyrer vora peninga. Enn hann tok ȷ sama fyrer ʀiettarbotina. af þeim fim̃bogasonum.

Aas xxxc. vj kugilldi. Landskylld. c. a hinu þridia đri.

1) leiðrétt; Olafsson, *a, b.* 2) *b*; sydra, *a.*

J á .xvc. bitolud. vj. kugilldi. Landskylld. c.

Stedie .xxc. vj. kugilldi. Landskylld .c.

xc ȷ Grund ȷ Þorvalldsdal.

Steinstader. xxx.c. vj kugillde. landskylld kugilldi. og keyptter fyrer fulla peninga.

Holar .xxc. viij kugilldi. landskylld. c. og Midland. badar ȷ sakfelli.

fagraskogur. xxxc. vj kugilldi. Landskylld. ijc. og er sumur keyptur. enn sumur golldinn ȷ mýkinn sakfelli.

Kalfskinn xlc. vj kugilldi. Laudskylld ijc og golldiñ fyrer vorar tıȷunder.

Skalldalækur halfur. xc. j kugilldi. Landskylld .xl. alner og var keyptur.

Brimnes. xc. iiij kugilldi. landskylld. x. aurar.

Melar .xxc. vj kugilldi. landskylld. c.

Kongustader .xxc. vj kugilldi. Landskylld .c. og halfar audner settar vnder vrdakyrkiu.

xc ȷ audnum. vj kugilldi. Landskylld .c. golldnar af Jone Sigmundssyni ȷ sakfelli.

Hreıȷdastader .lxc. vj kugilldi. Landskylld. ijc. og keypter af morgum fyrer fulla peninga.

Klaufa Breckur fimtige c. viij kugilldi. Landskylld .ijc. og golldnar af Jőne Sigmundssyne ȷ sakfelli.

Dæli fimtige .c. viij kugilldi. Landskylld. ijc. og gaf Steirn Snorrason. xc. Hőlakyrkiu. enn. xlc. keyptt af Bornum Steıȷns er hann gaf þeim ȷ Testament. og voru keýptt fyrer fulla peninga.

J Olafsfirdi.

Gardur. xxc. vj kugilldi. Landskylld halft annad hundrad. og var keyptur at tueıȷmur.

Reyker.xlc. iij kugilldi.Landskylld.ijc. ogkeypteraf morgum.

J fliotum.

Jllugastader. xxc. iiij kugilldi. Landskylld. c. keyptter halfer. og halfer fyrer leýfe.

Molastader xxc fimm kugilldi. Landskylld c. keypter halfer. og halfer fyrer Eydikot.

Molbrigdastader. xxc. vj kugilldi. landskylld c. og keypter.

Tunga .lxc. vj. kugilldi. landskylld iijc. og kom hun fyrer Þőrustadi ǻ Sualbardsstrǿnd er golldiñ var ȷ sakeyre.

Yztemőr. xlc. iiij kugilldi, landskylld fiogur agilldi annars hundrads og tuær tıȷunder.

Bruarland. xlc. vj kugilldi. landskylld iijc. og sett aptur vnder kyrkiuna fyrer prouentu Salbiargar.

Grinder xxc. vj kugilldi. landskylld ijc.

Osland. lxc. ıx kugilldi. landskylld iijc og halft keyptt. enn halft fyrer leyfe.

Brecka og hundholl. Dalur hia aukrum, xxxc. vj kugilldi. landskylld halftt annad hundrad.

Abær. xxc. og golldinn ȷ sakfelli.

Willingarnes. xxc. og xvjc betur. vj kugilldi. Landskylld ijc. og golldid sumpt ȷ skulld. enn sumpt keyptt.

Gilhagi. xxxc. vj kugilldi. landskylld kugilldi og x aurar. og suara presti halfre mork.

Sæfuarland xxc. iiij kugilldi. Landskylld .c. og keyptt fyrer sydra krossanes.

Hafragil .xijc. vj kugilldi. Landskylld fiorar vætter fiska. og kom med Sıȷra Einare Vlffssyne.

J Hunawatsþingi.

Hafstader .xlc. vj kugilldi. Landskylld kugilldi og c.

finstader lc. vj kugilldi. landskylld ijc. og kom fyrer kvıȷar ȷ Nordurǻrdal. er fiell ȷ obotamal Sıȷra Jons Kollasonar.

Manaskǻl xxc. v. kugilldi. landskylld. c. golldiñ fyrer peninga og stendur þo til lausnar vm iij. ǻr.

Steinẏiastader .xxc. vj kugilldi. landskylld c. og kom med Sıȷra Bessa Þorsteinssyne.

xc ȷ mẏrum. iij kugilldi. Landskylld. x. aurar. golldnar fyrer fulla peninga.

halfftt Spǻkonufellid. xxx.c. a kyrkian þar ȷ xvc. vj kugilldi og iij fyrer presti. Landskylld kugilldi.

Eingehlıȷd half. xxc. vj kugilldi. landskylld. c. og keyptt fyrer fulla peninga.

xxc ȷ moberge. ij kugilldi og et þridia fyrer presti. Landskylld kugilldi.

Æsisstader xxxc. fimm kugilldi. Landskylld ijc og keyptt fyrer fulla peninga.

Kuastader .xxc. vj kugilldi. Landskylld .c.

Hol .xxc. vj kugilldi. Landskylld. c.

Steinā .xxxc. v kugilldi. Landskylld. c. og lxxx alner og tıjund. og þessar badar komu fyrer Gudrunarstadi. er fiell ȷ obötamāl Sıjra Jons Kollasonar.

Langamÿre xxc. vj kugilldi. landskylld .c. keypt fyrer fulla peninga. og aunnur Langamyri xxxc. vj kugilldi. Landskylld. ijc. og keÿptt fyrer fulla peninga.

Asar .xxc. vj kugilldi. landskyild .c. og keypt fyrer fulla peninga.

Elldjarnsstader. xxc. vj kugilldi. landskylld. c.

Hrafnabiorg. xxc. vj kugilldi. landskylld c.

Liotzholar. xxc. vj kugilldi. landskylld .c.

Snæringstader. xxc. vj kugilldi. landskylld. c.

Geijthamar. xx.c. vj kugilldi. Landskylld viij āgilldi.

Mosfell. xxc. ȷ Eydi. Komu þessar sex ȷarder fyrer þær ȷarder sem Einar Olafsson helldur.

Litli dalur. xxc. vj kugilldi. Landskylld .c. og er kyrkiu eign ā kūlu.

Hollt. xxc. vj kugilldi. landskylld .c.

Grund .xxc. vj kugilldi. Landskylld. ijc. og standa þessar badar fyrer kyrkiugodsenu ā kulu.

Þorkielshuol. lxc. vj. kugilldi. Landskylld. iijc. og keyptur fyrer fimtigi .c. enn kyrkian þar ā .xc.

Galltarnesid .xlc. vj kugilldi og j fyrer presti. Landskylld kugilldi og .x. aurar.

Wasshorn .xxc. vj kugilldi. Landskylld. c. og galltt sıjra Þorsteirn Jllugason.

Fıjtiar .xxc. vj kugilldi. Landskylld .c. og galltt oss Jon Sigmundsson.

Sydre þuera. xl.c vj kugilldi. Landskylld. ijc. og sott med logum.

Enn hin Ytre þuerā. l.c iij kugilldi. landskylld ijc. og keyptt fyrer fulla peninga.

Asbiarnarstader. xxx.c golldner halfer fyrer fulla peninga. og halfer fyrer sakfelli.

Minne ős .xxc. vj kugilldi. Landskylld ,c.

Wıȷgdıȷsarstader .xxc. iij kugilldi. Landskylld. c.

Weller ȷ midfirdi. xvjc. vj kugilldi. landskylld .c. og golldid ȷ sakfelli.

Barckarstader .xlc. v. kugilldi. Landskylld .ijc.

Adalbol. xxxc. vj. kugilldi. Landskylld .c. golldid halft. enn feingid oss halftt.

Biargarstader ȷ Nupsdal .xijc. og .iijc. ȷ Hnausum keyptt fyrer peninga.

halfer Balkastader ȷ Hrvtafıȷrdi. xvc. iij kugilldi. Landskylld .c.

Kula og vrder ad auk Wıȷdedalstunga med sıȷnum kotum logd til Beneficium.

halfar tiarner ȷ Suarbardal gaf Finnur Þorvalldsson sancte Johanni Baptistæ med voru thillægi. þui ad þad var allt Christzfie.

Enn allttt fyrrskrifad gods laust og fast. nema þad sem ȷ obotamǻl hefur fallid. þa reıȷknum vier oss og wora eign wera. þui ad vier hofum keypt þad med woru aflagodzi. enn sumpt borid vnder oss ȷ sakeyrer þann sem Christiñ riettur skipar Byskupe. enn Gudi til lofs og dýrdar. Enn oss og þeim sem ǻttu og aullum Christnum sǻlum til fridar og lıȷknar og mýskunar. þa giefum vier allt skrifad gods laust og fast heilagri Holadomkyrkiu til æfinligrar eignar. vnder þa grein ad sǻlutıȷder þær og salumessa sem vor fyrverare Byskup Olaf godrar minningar og Gud hans sǻl nǻdi. skipadi ad syngiast og lesast skylldi ȷ sancte Annæ stuku. sie eilijfliga vppi halldid suo sem fyrr nefndur Byskup Olafur. Gud hans sǻl nǻdi. hefur skipad. þuiad hann gaf þar peninga thil. suo og þær messur tuær humiliavit og af sancta Anna ǻ faustudaga og Laugardaga. þa sem ecki ber[1]) ǻ frammistodu holld. ȷ heilagri Holakyrkiu. skuli ȷafnañ syngiast. þar med skipum vier og fiorar aartıȷder ǻ tolf manudum vppa domkyrkiu. ǻ aull klaustrin. aull Beneficia. og a huorn þingaprest ȷ sıȷnum þingum ǻ wetur. wor. sumar og haust ǻ þessum tijmum sem hier epter greiner. hinar fyrstu

1) *b;* í *a* er fyrst skrifað „*ber*“, en svo gert úr því „*sier*“.

ártijder á weturinn decimo octavo kalendas Januarij. þad er tueiym nottum effter Luciæ messo.[1]) adrar tertio nonas Maij. þad er .ij. nottum effter krossmesso á worid.[2]) hinar þridiu á sumarid decimo qvinto kalendas Augusti. þad er tueim nottum fyrer Þorlaksmessu á sumarid[3]). hinar fiordu aartyjder á haustid decimo tertio kalendas Octobris. Þad er tueim nóttum fyrer Matthei Apostoli et Euangelistæ[4]). Enn þa nockurn þessara fyrrskrifadra aartyjdadaga ber á sunnudag. faustudag edur laugardag. þa mismunar Humilavit og af sancta Anna skulu syngiast. sem fyrr seigir. þa bidium wier ȷ vmbodi allra Christna sálna. kiærliga þa tuo dandimenn og presta. kyrckiuprestinn og Rectorem Chori á Holum ad þeir skipi þessar aartijder med sinni messu á einhuorn þann dag þeirrar wiku. sem þeim þyker best til fallinn. suo ad þessar fyrrsagdar artyjder. med messunne falli aldrej nidur. skulu þessar sálutyjder syngiast ȷ kornum med niu lestrum á kuollded fyrer. enn Commendaciones animarum á morgunen epter tertiam og þa strax sálumessañ syngiandi med þessum orationibus Concede qvæsumus omnipotens Deus. animabus omnium Episcoporum ac sacerdotum tuorum. Deus in cuius miseratione animæ fidelium red. Misere qvæsumus Domine animabus omnium benefactorum nostrorum defunctorum. Omnipotens sempiterne Deus qvi vivorum Deus fidelium Deus omnium eu ȷ huorre messu. Enn til þess ad kiennemenn sem eru chorales dagliga heima ad domkyrkiunne flytie og fremie þessa tyjdaskipun á huorium tolf manudum medan þeir þiona domkyrkiunne. þá aukum vier kaup huors prestz fram yfer þad sem weniuligt er .x. aurum. huors messudiakns xx alnum. huors subdiakns. x. alnum og huors klerks v alnum. Enn vnder þa grein. þa leggium vier þeim þessa peninga ad þeir giori þess audvelldligar og betur alla fyrrskrifada tyjdaskipun. og ef so kann til ad bera ad nockur af korsprestunum wilie fara sinna erinda annarstadar burt af stadnum. þa þessar þriár messurnar skulu seigiazt þa fyrerbiodum vier honum þad vnder hlydne vid Gud. heilaga

1) þ. e. 15. Dec. 2) þ. e. 5. Maí. 3) þ. e. 18. Júlí. 4) þ. e. 19. Sept.

Hola domkyrkiu og hennar formann. nema hann hafi annañ prest wıjsañ. ad syngia fyrer sig þessar þriar messurnar. sem er Humiliavit og af sancta Anna og aartıjdar messuna. vm allañ þann tıjmañ sem hann er ȷ burt. Og þui giorum vier ollum godum monnum witurligt. med þessu voru opnu Brefi. ad wier stadfestum oc samþýckium med þessu voru opnu Brefi. ad wier stadfestum og samþyckium Bref og giorning wors wirduligs faudurs og fyrerverara. Byskups Olafs godrar minningar. Gud hans saal nádi. vm messu og sálutijder ȷ Annæ stuku. Suo og confirmerum wier þad fullkomliga ȷ aullum audrum sıjnum grejnum og articulis sem þad hans Brief ȷnne helldur. og þad sama wæntum wier. truum og fylliliga treystum til allra worra Erligra Epterkomandi Byskupa. Officiala. Raadsmanna. og kyrkiupresta heilagrar Hőla domkyrkiu. ad þeir mune őbrigdiliga halldast lata vm alldur og æfui þessar þriar messurnar med aartijdunum. sem wier skipum og ȷ þessu Brefi fyrr greiner. þar med bidiandi ydar kiærligt faderne. og elskuligt Broderni. ad þier aller sieud vmbodsmenn allra christinna sálna dygguertruer og trauster. so sem þier wilied suara fyrer Gudi. og kiorum wier giarnan fyrer Guds skulld ad þier samþyckid þennan worn giorning med ydru Breffi og Jnsigli. þui ad sier giorer huor sem giorer. Enn moti þeir sem Gud vill. oc vid þurfa. Enn til mejri wissu og stadfestu ad þessi wor skipun og giorningur skuli obrigduliga halldast vm alldur og æfui. hafa Edla herra abotarner. og Herra priorinn. og aller forprestar og suo aller adrer kiennemenn Hola Byskupzdæmis sem hier epter nefnast ȷ Briefinu samþýcktt þessa wora skipun og giorning a almenniligre prestastefnu. á Wıjdiwollum ȷ Blonduhlıjd ȷ Skagafyrdi þeir sem woru þar og suo heıjta.

Broder Einar med Guds nád abőte á Mwkaþuerá.

Broder helge med Gudz þolinmædi abőte á Þingeyrum.

Broder Nicholas med Guds forsiő og skipun prior á Modruvollum.

Jon fimbogason ȷ Mwla.

petur pálsson.

fimboge Einarsson.

Jon Þorgilsson.
Gudmundur Jonsson.
Nichulas wilhialmsson.
Jon fimbogason ] Laufasi.
Jon Arason.
Gilsbricktt Jonsson.
Þorsteirn Jonsson.
Olafur Jonsson.
Eigill Hallsson.
Jon Jonsson á Mýklabæ.
Jon Jonsson á Skinnastodum.
Þorbiorn Jonsson á Bægisá.
Þorbiorn Jonsson á Stadarbacka.
Olafur Gudmundsson.
Sniolfur Jonsson.
Jon Sueinsson.
Haldan Narfason.
Thomas Eijrijksson.
Jon Andriesson.
Sigmundur Arason.
Jon Philippusson.
Steirn Markusson.
Jon Olafsson.
Jon Marteinsson.
Sueirn fimbogason.
Loptur Petursson.
Magnus Gudmundsson.
Einar Magnusson.
Jon Brandsson.
Gijsle Gudmundsson.
Thomas Jonsson.
Thomas Einarsson. og
Þorleijfur Jonsson.

med flejri dandi manna samþýcke sem ecki eru nefnder. og med þeirra samþycke sem nefnder Eru. og ecki eru nu á prestasteffnunne. øtlum wier ad fá þeirra samþycktt eff oss hreckur lijf til. og nær Gud vill vier finnunst.

Og til sanninda hier vm setium vier wort Jnnsigli med fyrr sagdra prælata og presta Jnnsiglum fyrer þetta Bref. er skrifad var ad domkyrkiunne á Holum j Hialltadal. á midvikudægin næstañ fyrir Barnabæ Apostoli Anno Domini M⁰ D⁰ xx.⁰

---

556. 13. Júní 1520. á Víðivöllum.

Gottskalk biskup á Hólum samþykkir og staðfestir dóm frá 30. Apríl 1520, Nr. 552.

Bisk. Skalh. XIX, 52, frumrit á skinni læst saman við Ánastaðadóm frá 30. Apr. 1520. Innsigli biskups er dottið frá. — AM. Apogr. 2394.

Vier gottskall med gudz nad biskup æ holum giorvm godum monnum viturligt med þessu uoru opnu brefe at þa er lidit uar fra gudz burd Md og xx ár miduikudaginn næstan epter barnabe apostoli æ uidiuollum j blaunduhlid j skagafirde æ almenneligre prestastefnu kom fyrir oss ærligur mann sæmundur simonarson huer er þa hafdi umbod þuridar brandzdottur med dom og urskurd sira jons finnbogasonar og ærligra persona hver er svo hliodande var at þuridur brandzdotter uar dæmd skilgetin og laugliga j ætt komeñ epter þeim brefum og biuisingum sem þar hofdu fram komit. beiddizt adurnefndur sæmundur simonarson samþyckis og laga vrskurdar æ þessum dome. Þvi at gudz nad til kalladri samþyckium vier þenna þeirra dom logligan myndugan og riettiliga halldanda og hier fullnadar laga urskurd æ leggianda. og uoru allir lærdir menn þenna dom og uorn vrskurd samþyckiandi sem þa uoru æ prestastefnnu. fyrirbiodum vier huerium manne at raska eda ʀiufa þenna uorn urskurd. Og til sannenda hier um setium vier uort jncigle fyrir þetta urskurdarbref er skrifat var j sama stad. og deigi sidar enn fyr seiger[1]).

---

1) Þ. e. 14. Júní.

557. 14. Júní 1520. á Víðivöllum.

Dómr klerka, út nefndr á prestastefnu af Gottskalk biskupi á Hólum, um umboð það, er Guðrún Jónsdóttir — kona Einars Jónssonar, Sigmundssonar, en Einar hafði verið í banni í þrjú ár — hafði gefið Gilbrikt presti Jónssyni frænda sínum yfir öllum sínum peningum.

AM. Fasc. XLIV, 15, frumrit á skinni. Af 12 innsiglum er nú eitt fyrir bréfinu. — Apogr. 3440.

Brief Helga Abota a Þyngeirum 1520.[1])

Ollum godvm monnum þeim sem þetta bref sie Edur heyra sendvm vier helge med guds nad abote a þingeyrvm. Einar med samre nad abote a mukaþvera. nicholas priur at modruuollum. jon finbogason. petur palsson. ioon þorgilsson. þorstein jonsson. gudmundr jonsson. nicholas vilialmsson. tvmas Einarsson. jon sueinson prestar holabiskupsdæmiss kunnickt georandi þa lidet uar fra hollgan uorss hera ihesu christi md og xx ar a uideuaollum i blonduhlid i skagafirde a almennelegri prestastefnu fimtodagin næsta epter barnabe apostoli uoru uier i dom nefnder af uorum andalegum fodr og virdeligvm hera biskup Godskall til a at lita og um at dæma þar med riettiliga ad skoda huort abl hafa skylldi þat umbod er gilbrikt prestur jonsson uændist þar fyrir biskupenum gudruno jonsdottur frændkonu sina hafa gefit sier yfer ollvm sinvm peningvm og hier med beidde hann og krafde doms a fyrir adur greindum hera huort hann mætte at logvm hallda þetta umbodit edur eigi. Þui i fyrsto grein syndist þat og satt geordist þar þa fyrir oss at hun hefde med vottum og handsolum gefit honum sitt umbod og suo i annare grein uissum uier Einar jonsson mann gudrunar vera dæmdan j bann og i þui leigit hafa upp a þriu ar i samtt suo hann hefur huorke lausn nei[2]) leidriettv tekit þui seigia log af honum oll fiar forrædi at so komnv og svo dæmdvm vær hann huorke mega hafa hennar fiarhalld edur annara manna fyr en hann uæri i sannlegri hlydne uid heilaga kirkiv. i þridiv grein uar þat og reiknad

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 2) Svo.

og rietteliga talid af skiluisum monnum þar fyrir oss i domenvm at adur nefndur prestur sera gilbrickt uæri nanastur fyr nefndri gvdrvno at frændseme af þeim sem fvlla borgan hefdi fyrir fe hennar og þui fyrir allar þessar greiner litasst oss login stydia en i onguan mata kreinkia adur greint mal. Og at suo profvodv nv fyrir oss komnv med heilags anda nad til kalladri dæmdvm vier umbodit i allan mata stodvkt og myndokt og titt nefndan sera gilbrickt mega nv stragx ad sier taka þar med epter ad leita og vpp ad spyria segta og sækia saker a gefa a ollvm peningvm kvikvm og daudvm fostum og lausvm fridvm og ofridum epter þuj sem þratt nefnd gudrvn jonsdotter vard fremst eigande at med logvm og hier med var þenna vorn dom samþyckiande med oss virdugligr herra og vor adr greindur andaligr fader Biskvp Godskall. En til meire avdsyningar setivm vier advr skrifader menn vor jnsigle fyrir þetta domsbref Er skrifat var a hialttabacka a kolkvmyrvm a manvdagin næsta fyrir natiuitas sancte mariæ uirginis[1]) vm sumarit a sama ari sem fyr seiger.

---

558. **14. Júlí 1520.** **á Hlíðarenda.**

Vitnisburðarbréf nokkurra helztu bænda fyrir sunnan land um hirðstjórn og lögmensku Vigfúsar bónda Erlendssonar, og lýsa þeir yfir því, að þeir vilji hafa hann að hirðstjóra, eptir heitorðum Gamla sáttmála.

AM. Fasc. XLIV, 20, frumrit á skinni. Af 12 innsiglum eru nú 9 fyrir bréfinu og sum þó mikið brákuð. Árni lætr rita utan á bréfið: „Ölldungis klär. retinebo tamen“. Prentað í Safni II, 198—199.

bref kongiinum til skrifat vm jslenska hirstiora .[vigfus erlendsson.[2])

Þat giorum uier Eirekur þorsteinsson. jon þoruardsson. Runolfur þorsteinsson. narfui ellendzson. olafur jonsson. jon

1) þ. e. 3. Sept. 2) Utan á bréfinu með gamalli hendi, nema frá [er með hendi frá 17. öld.

eirekxson. jon helgason. gudni þorarensson. tumas jonsson. jon hallzson. biorn arnorsson. olafur þorualdzson. og olafur jonsson godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ad uier uitum fyrir full sanendi og uitni vm berum ad uel boren mann vigfus bonde ellendzson logman hefer stadit og stediad sig sem einn kurteis dande man j allan mata þann tima sem hann uar hirdstiore yfer jsland suo og eige sidr nu sidan j sinne logmanz stett og under þa goda trv sem uier berum til hans bidium uier hann underuisa uorum uerdugazta herra kong Cristiern huad uier audmiuklega beidunzt at hans uerdug nad lati oss aptur fa þau frelse og friheitt sem oss uoru lofud af uirduliguztum herra hakone konge agætrar miningar j mote þeim skatte og þegnskyldu sem vier hofum honum jatad krununar vegna sem suaren sattmale þar um gior utt uisar ad uier skolum hafa jslendzkan hirdstiora þann sem oss hallde med log og rett. huorra uier þickiunz nu miog mist hafa j næstu .iij. ar forliden fyrir ofsa og akefd utlendzkra hirdstiora og umbodzmanna suo sem sked hefir um þau fridbrot sem gior hafa verid á uorum logþingum ad logrettumenn hafa ualla matt ohræd(d)er dæma log og rett edr upp seigia logsamda doma fyrir þeirra ofsa og ojafnadi sem full raun hefer. æ. ordit ad logrettumen hafa uerid gripnir og slegnir og j fangelsi setter þar æ þingenu fyrir retta logsogu.

Nu fyrir þesse greind tilfelli og fleire onnur lizt oss þetta j aunguan mata suo leingur standa mega og þui keyrum uier helzt ad hafa adr greindan Vigfus logman fyrir hirdstiora yfer oss suo framtt sem vors verduga herra nad uill honum þat til ski(c)ka þui uier treystum honum vel ad hann mune hallda oss med log og landzins rett sem hann hefer adr giortt.

Og til sannenda hier um setium uier fyrskrifader men uor jnnsigli fyrer þetta brief huertt skrifad uar á hlidarenda j fliozhlid laugardagen næstan fyrer diusi(onem) apostulorum arum epter guds burd. ᛘ. d. og xx ar.

559. [1520].

Vitnisburðr um róstur á Alþingi 1517, 1518 og 1519 (af völdum Týls Pétrssonar).

AM. Fasc. XLIV, 11, frumrit á skinni. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. Árni Magnússon ritar utan á bréfið „circa 1519“, og er það annað hvort frá því ári eða 1520. Fult svo líklegt er, að það sé frá 1520. Sbr. vitnisburð Vigfúsar hirðstjóra Erlendssonar frá 14. Júlí 1520. — Apogr. 2907. — Prentað í Safni til sögu Íslands II, 194—195.

Tilbvrder ꝺ alþinge.[1])

Suodan parlamentum hefir sked a alþingi vpp a næstu vmlidin. iij ar.

fyrsta sumaret var þar einn dandiman eltur og skotinn af hirdstiorans monnum og gripner hans peningar en hann baud sig adur vnder laug j laugrettu ef þeir mætti nockut til hans tala med dandimanna vitordi. enn þeir syniudu honum laganna.

Anad arid var þar tekin laugrettu madur sleigin og bardr og settur j jarn fyrir aungva sauk adra en hann sagde vpp dom þann sem hann dæmdi med audrum godum monnum og laugmadurin samþykti.

Þridia sumarit tauluduzt þeir vid j laugrettu abote augmundur og hirdstioren vm nockurar manbætur sagdi aboten suo ad honum þætti ecki iafnar bætur eiga koma epter þa vtlenzka men sem sig forbryte hier med ran og grip og adra ohlutuende sem fyrir hina jslendzka er vtlendzker slægi j hel saklausa. En hann vard þegar reidur med mielu forze og skipade sinu folke til ueriu. en aboten bad hann vera til frids enn hann biozt til bædi sla hann og stinga og var hann halldin af laugmannenum suo hann kom þui ecki fram. en skipade sinum monnum ad sla abotann j hel. og ef suo skal lengi fram fara þa er landit snart j fatækt og almugen hneyktur og suiuirdr.

Voru þesser dandi menn hier nalæger vigfus erlendzson laugmann yfer alt jsland. helgi prestur jonson. jon

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

hallzson. narfe erlendzson. jon magnusson og j vitund allz almugans ad þetta hefir suo sked.

Og til saninda hier vm setium vier vor jnsigle fyrir þetta bref skrifat j sama stad deigi sidar enn fyr seiger.[1])

---

**560. 11. August 1520. í Harvík.**

Bróðir Ögmundr (Pálsson) lánar Vigfúsi lögmanni Erlendssyni 67 Rínargyllini og 2 nobel, er Vigfús skuldaði og geldr Týl Pétrssyni gegn kvittan, en setr bróður Ögmundi jörðina Galmatjörn í Höfnum að veði, og lofar bróðir Ögmundr að líða Vigfús um biskupstiundir í tvö ár.

Landsb. 62. 8vo úr bréfabók Ögmundar biskups, með hendi Grunnavíkr-Jóns. Bréf þetta fæst nú ekki öðruvísi en í þessu ágripi.

Broder Øgmundur gieck i borgun fyrer Vigfus Erlendsson logmann i Jsland vid Tyl Petursson. er þa hafde fyrer skemstu vered fovete i Jsande um .lx. Rins gylline og vij betur. þar til lanade hann honum tvo nobel. var þetta strax gollded. og Tyl gaf Fusa kvittañ um̃ sinn Reikningskap. Hier fyrer sette hann Øgmundi og domkirkiunni i Skalhollti i panta borgun Galmatiorn liggiande i Hofnum til medferdar og aftekta. so leinge ad greind skulld er eigi golldiñ. Skal hun gialldast af honum edur hans erfingium i skreid og vadmale. gulli og silfre. domkirkiunnar formanni i Skalhollti i godre Reidu epter moguglegheitum. her med lofar Øgmundur ad bida greinds Vigfus um allar hans Biskupstiunder af fôstu og lausu. þar til gud sender fullmegtugan formann til stolsins. sem Øgmundur segest reikna tvo ar. ad sumri komanda.

Giorningsvottar voru Sera Hallur Þorsteinsson. Jon diakne Olafsson. Freysteinn Grimsson. Markus Jonsson. Sigurdur Asbiarnarson.

---

1) Hvorki staðr né dagr er tilgreindr fyrr í bréfinu, og hefir sá, sem ritaði, gleymt að gá að því; en bréfið er ritað annaðhvort 1519 eðr 1520.

brefed er skrifad Laugardagin næsta epter Laurentiusmessu i Harvik i Englande Anno Domini M.° D.° xx.°

---

561. [11.—13. Aug. 1520. í Harvík].

Samningr þeirra bróður Ögmundar biskupsefnis og Vigfúsar lögmanns Erlendssonar um það, að þeir styrki hvor annan.

MSteph. 27. 4to bls. 3—4, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. — Prentaðr í Safni II, 197 eptir handriti Landsbókasafnsins 62. 8vo, sem hefir að eins ágrip bréfsins (= *b*).

Ver broder Augmundur under Guds þoliñmæde Abote j Vid€y. eige sijdur umbodsmann heilagrar Skalholltz kirkiugiorum godum monnum kunnugt med þessu opnu brefe. ad uier hofum giort soddañ samtal og lofan vid Wigfus Ellendsson lögmann j Jsland og hann uid oss.

Jn primis skal huor ockar stirkia annañ til goda med ord og uerk utañ lands og jnnañ.

kann so skie vier blijfum fram̃ueigis fullmegtugur forstandare Domkirkiunnar j Skalhollte. enn greindur Wigfus mijns herra kongsins [fovete[1]) þar j land þa uilium vi stirkia hann ad filgia fram lögum og Riette þar þess þarf konungsins og Crununnar j Norege ed besta og fatæks almuga jnn j landid og hann oss upp a heilagrar kirkiu vegna þar behof giorest j suo mata. ad heilog kirkia hafe sitt og minn herra kongurinn sitt.[2])

---

1) [*b;* vantar í *a.* 2) Í handriti Landsb. 62. 8vo stendr: „Hæc compositio facta esse videtur 1519 vel 1520. antequam Ögmundus ex Jslandia abiret“. — Þetta er þó varla svo, heldr sýnist sem þetta sé gert erlendis (sbr. „*þar* í land“ ɔ: á Íslandi), og þá líklega í Harvík í August 1520.

562. 13. August 1520. í Harvík.

Bréf bróður Ögmundar biskupsefnis í Skálholti til Kristjáns konungs annars, að hann biðr konung að samþykkja kosning sína, lofar honum trú og hollustu, og getr þess, að Týll Pétrsson hafi lofað, ef hann verði fógeti framvegis á Íslandi, að halda menn með lög og rétt.

MStep. 27. 4to bls. 1—22 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. — Ágrip prentað í Safni II, 200, eptir handriti Landsbókasafnsins 62. 8vo (= b).

Vorum Heygbornasta Herra Kong Kristiern med Guds nad Danmerkur og Norgers et cetera.

Ver broder Augmund under Guds þoleñmæde Abote af Uidєy. Єige sijdur overdugur utsendingarmann[1]) H(eilagrar) Skalholltskirkiu heilsum uorum Heigbornasta Herra Kong Kristiern med Guds nad Danmarkar og Noregx et cetera Kunnugt giorande jdar verdugasta uallde. ad uier erum utsender af Domkyrkiunne j Skalhollte til uors fodurs j Gude Erkebiskups j Þrandheime og hans verduglegra[2]) capitulabrædra þar. þess Erindis ad hann sette sijnar uijgsluhendur jfer oss j allañ mata omaklegañ til fullmegtugs formans jfer Skalhollts Biskupsdæme, og ef so er vier blijfum þann mann j Jslande[3].) þa lofum vier uppa uora tru og æru. ad vera hollur og trur j allañ mata sem anad suarid Rijkesins Rǻd j Noreige. og hallda fatækan[4]) almuga med Sancte Olafs lǒg og Noregs kongs Riett. Her med stirkia hans foveta til allra Riettra mǻla mijns Herra kongsins uegna j suo mata. ad minn Herra kongurinn hafi sitt [og H(eilog) kirkia sitt[5]) effter þui lǒgmǻle sem uorer helgustu fedur Paparner[6]) hafa sett og kristner kongar hafa stirkt. hillt og samþickt og suarinn sattmale utuijsar ǻ mille kongs og Biskups.

Vm so er ad Tijl Petursson blijfur mijns Herra kongsens fogete[7]) i Jslande framveges. þa hefur hann lofad ad hallda oss og fatækañ almuga med sama lǒgmale. grijpe

1) utsendare b. 2) verdugra b. 3) Jsland b. 4) b; fatækum a. 5) [sl. b. 6) Pafvarner b. 7) fovete b.

huorke nie fange nockurn mann. utañ þann sem Sancte Olafs lôg til seigia og logmenn[1]) þar j landid. uoru þesser giorningsmenn[2]) tilkallader Wigfus Ellendsson lôgmann j Jsland og Jon Jacobsson kaupmann j Eingland af lundun. Og til sans uitnis her um̄ þrickium uier og Tyl Petursson ockar Jnnsigle med þessara manna Jnsiglum fyrer þetta bref skrifad j Harvijk firsta Jdus dag Augusti manadar Anno Domini. M. D. xx.

---

563. 15. August 1520. 1521. á Svalbarði.

KRISTÍN Þórarinsdóttir fær Sigmundi presti Guðmundssyni, syni sínum, alla þá peninga, tuttugu og fimm hundruð, er henni féllu til erfða eptir Kristínu Jónsdóttur móður sína, er Pétr Arason hafði haldið í mörg ár í aungu hennar frelsi; svo og fær hún honum sök og sókn á öllum þeim peningum, sem hún mætti eiga eptir foreldra sína á Sólheimum í Mýdal.

AM. Fasc. XLIV, 16, frumrit á skinni frá síra Skúla Þorlákssyni. Af 3 innsiglum er 1 fyrir bréfinu. — Apogr. 557.

Þat gior(e) eg ion prestr finbogason officialis heilagrar holakirkiu. þorgeir stullason ok ion gunlugson godvm monnum uitrligt med þessu uoru optnu brefui. ad þa lidit uar fra hingatburd uors herra ihesu christe[3]) þvssvnd fim hvndrut ok xx ær æ sualbarde j þilstilsfirdi æ mariv messo eña seinne um sumarit. vorum uer j hia savm ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna siera sigmundar gudmunzsonar ok kristinar þorarensdotter modr hans at hvn gaf honum ok galt alla þa peninga sem henne fell til erfda epter modr sina kristinu ion(s)dottr fim hundrut ok xx j fostu og lausv. Er petr arason hefr halldit vm morg ær j ongv hennar frelsi ok setit j ouirtum arfui. feck hun honum sok ok sokn æ ollum þeim peningum er hun matti eiga

1) b; lögin a. 2) -vottar b. 3) Svo.

epter favdr sinn ok modr a solheimum j mydal. Ok til sanenda hier vm setta eg ion prestr finbogason mitt insigli med fyr nefndra manna insiglum fyrir þetta bref skrifat j sama stad ok fyr seger einu ari seinna.

564. 16. August 1520. á Stað í Steingrímsfirði.

Áreiðar og skoðunargerð þriggja presta og þriggja leikmanna, er til voru nefndir af síra Jóni Einarssyni officialis í Vestfjörðum, um þrætuland og landamerki á Selárdal milli Bólstaðar og Staðar í Steingrímsfirði.

AM. Apogr. 2359. „Originalbrefed liggur vid Stadarkirkiu i Steingrimsfirde. Enn copiu þä. sem þesse er epter skrifud. sendi mier biskupenn Mag. Jon Arnason 1724“ (AM.).

Copia af landamerkiaskrä ä millum Bőlstadar og Stadar jarda i Selardal.

Þad giorum vier Halldor Tyrfingsson. Jon Ellingsson. Þorkell Palsson. prestar. Stulle Þordarson. Sigurdur Oddsson. Jon Gislason. leikmenn. godum monnum kunnugt. med þessu voru opnu briefe. ad ä fimtudagenn næsta epter assumtionem Sanctæ Mariæ ä Stad i Steingrimsfirde. nefnde oss og beidde sira Jon Einarsson er (þä) hafdi officialisdæme yfer Vestfiordum. til med sier at skoda og ä at rijda jardarpart þann er ägreining war ä millum Sera Jons Halldorssonar vegna kirkiunnar ä Stad i Steingrijmsfirde. og Gudmundar Loptssonar. Skodudum vier maldaga kirkiunnar a Stad. er i hverium svo stőd. ad kirkiañ ætte Selærdal allañ til ummerkia til mots vid Bőlstad. og Gilstade. Jtem af odrum parte tiede fÿrr sagdur Gudmundur Loptsson sin brief og skilrijke þar fyrer oss. hver er svo voru latande. ad hann ætte land allt ad kopstadagile. og þvi ridum vier fÿrrskrifader menn ä þenna jardapart. og leitudum og skodudum sem smäsmuglegast. hvar sa bær munde staded hafa [er ad fornu er gilid er vid kient[1]). fundu vier þar hverge likende

1) Svo.

til i fyrrgreindu takmarke. nema vid þad gil. er gegnt er Geirmundarstodum og litt nedar. þad leitst oss at þar munde bær ad fornu verid hafa. þvi at þar voru gamlar totter margar. og kom oss þad samañ ef sa bær hefde verid nockurn tima i þessum parte. at kopstadir hafa verid kalladir. at hann mundi þar verid hafa. og þad sama gil munde þar vid kient er þar rennur firer nedañ topternar. Samþýcktest og adur greindur sera Jon Einarsson þessu. at þar være hellst lijkende til. ad þar munde kopstadagil ad fornu kallad hafa verid. og sette sitt innsigle med vorum fyrer þetta alitsbrief hvort er skrifad var a sama deige sem fyrr seiger Anno Domini M. D. xx.

---

**565. 1.—7. September 1520. á Kolfreyjustað.**

Vitnisburðr, að Svarthöfði heitinn Narfason hefði lýst því, að hann ætti tíu hundruð í jörðunni Skoravík í móðurarf sinn, og hefði þau aldrei burt feingið né peninga fyrir tekið.

AM. Fasc. XLIV, 24, frumrit á skinni frá Staðarhóli, og eru bæði innsiglin dottin frá. — Apogr. 1500.

Þat giore[1]) uid guñsteirn petturson. olafur ȷonson godvm monnum kunnigt med þessu okru opñu brefe ad vid heyrdum suartthofda heiten narfason leyssa[1]) þui fyrir okr ad hann ætte. x^c. ȷ skorauik ȷ sinn modr arf þav hefde han aldrei giðfum gefit eda solvm seltt ok aldrei hefde han peninga þar up fyrir dreigit ok hann hefde ahrært marga tima ok hier epter vil(i)vm vid sveria ef þurfa þiker. Ok til sannenda hier vm settum vid fyrer[1]) nefnder menn okur ȷnsigli fyrir þetta uitnisb(v)rdarbref er skrifad var a koltryusta(d) j fadskrusfirde[1]) fyrir[2]) nativitas sancte Marie er lidit var (fra) hingat bvrde uors hera ȷesv christi þvshvnd. v.^c og. xx. ar.

---

1) Svo. 2) Svo; sjálfan daginn vantar í bréfið af vangá.

565. **2. September 1520. á Skriðuklaustri.**

Jón Sæmundsson selr í umboði Teits bónda Þorleifssonar Þorvarði príor á Skriðu tuttugu hundruð í jörðunni Borgarhöfn í Fellshverfi klaustrinu til fullrar eignar fyrir fjóra tigi hundraða í lausafjám, með öðrum greinum, er bréfið hermir.

AM. Fasc. XLIV, 21, frumrit á skinni. Öll (3) innsiglin eru dottin frá (Skriðuklaustrsbréf). — Apogr. 2885.

kavpbref priors þorvardar fyrir borgarhôfn.[1])

Þat giorum vier einar prestur arnason. saulue gudmundsson. brandur jonsson. leodegarius vigfusson. ellendur arnason godum monnum vitanligt med þessu voru opnu brefi. þa lidit var fra hingat burd vors herra jhesu christi þusund fim hundrut ok. xx. år a skridu klaustri j fliotzdal sunnudagen næsta epter egidius messu vm haustid. vorum vier þar j hia saum ok heyrdum æ ord ok handaband þessara manna. af einne alfu herra priors þoruardar en af annari jons sæmundssonar. faldizt þat og skildizt vnder þeirra handabande at greindur ion sellde fyr nefndum prior þoruarde j vmbode teitz bonda þorleifssonar. xx. hundrut j borgarhôfn j fellzhuerfe i kalfafellz kirkiu sockn med ollum þeim gôgnum ok giædum sem greindum iardarparte fylger ok fylgt hefer at foñu ok nyiu ok skrifadur teitur vard fremst eigande at skriduklaustri til æveñligrar eignar ok frials forrædis vndan sier ok sinum erfingium. Hier j mot gaf opt nefndur prior þoruardur xl hundrada j lausa godzi. þriatige hundrut j smiorum. fim̃ hundrut j vgsum. ok fim hundrut j hestum. skyllde þa þegar gialldazt fimtan vietter smiorsens ok hestarner aller. en are epter komande smiorit ok vgsarner þat sem epter stæde [ok jardarparturen klaustursens eign ok allt þat æ ræke huortt þat være trie edur hualer ok biargleigur ad næsta vori vpp fra þeim deige þeir keyptuzt med ok ævænliga epter þat.[2]) skyllde herra prior þoruardur hallda adur greindri jôrdu til laga en titt nefndur teitur suara laga riptingum ok giallda aptur klaustrenu

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) [bætt við fyrir neðan bréfið og vísað inn.

suo vordna peninga ok iafnmyckla. edur adra iafngoda og formadur klaustursens lætur sier lika at taka ok skila peningunum aptur æ kaupreinen ef optt nefndur jardar partur geinge af med logum. samþyckte þenna giorning conventubrædur æ nefndu klaustri. Ok til sanninda hier um settum vier fyr skrifader menn vor insigle fyrir þetta kaupbref skrifat j sama stad deige ok are sem fyr seiger.

---

567. 2. September 1520. Í Kallaðarnesi.

Andrés Andrésson selr Sæmundi Eiríkssyni jörðina Tannastaði í Ölvesi fyrir tíu hundruð í lausafé.

AM. Apogr. 4472 með hendi Árna Magnússonar „Ex orig. Transscripto Excerptum. Ur Hustru Þrudar brefum fra Pali lögmanni sendum 1723, en sendum til baka 1724. Collata accurate satis". Bréf þetta hefir ekki fundizt öðruvísi en í þessu ágripi.

Anno 1520. Sunnudaginn næstañ fyrir festum Cutberti i kirkiunni i Kalldadarnesi. selldi Andries Andriesson Sæmundi Eirikssyni iordina Tannastadi i Aulvesi. i Arnarbæliskirkiusokn. Skylldi Sæmundur þar fyrir luka: 4 malnytu kugilldi. 2. gielldfiar hundrud. hundradzhest. tveggia fiordunga ketil og wi. stikur varningsklædis i hundrad. ijᶜ i þarfligum peningum. Vottar ad kaupinu voru. Sira Sniolfur prestur Palsson og Olafur Þorgeirsson. sem hier um giöra bref. daterad ut supra.

---

Þetta bref transscribera ex originalibus Ari Þormodzson og Sygurdur Kodransson. sine loco. anno et die.

Brefid er ritad aptanā annad Jslendzkt bref. elldra. sem synest. og vel skrifad. Er so su skrift utskafen. sem nu er svo aptan ā þessu brefi. Ecki verdur lesed. hvar um þetta elldra bref verid hafe. so grant er þad utskafed.

Sigilla Ara Þormodzsonar og Sygurdar Kodranssonar hanga vid brefid.

---

568. 16. September 1520. á Munkaþverá.

Vitnisburðr, að Eyjólfr Einarsson og hans fylgjarar hafi gert Runólfi Höskuldssyni bús upptöku á Bakka í Öxnadal, er mundi hafa reiknazt til hér um bil fimtigi hundraða.

AM. Fasc. XLIV, 17, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. Apogr. 3441.

Bus Vpptaka a backa j Øxnadal.[1])

Þat giore ek hallur asgrimsson godvm monnum viturligt med þessv mínv opnv brefi ath ek vissa fyrir fvll sanninde at eyolfur einarsson ok hanz fyllgiarar giordv bvs vpptokv rvnolfi höskollzssyni a backa j oxnadal svo giorla ath þar var litil peñingur edur nær eingin. mundi þat hafa reiknazt svo mikit sem til fimtige hvndrada. Ok til sanninda hier vm setta ec mitt jnsigle fyrir þetta vittnisbvrdarbref er skrifat war æ mvnkaþveræ j eyiafirde svnnvdagin næstan epter krossmessv vm havstid þæ er lidit war fra hingadbvrdi vors herra ihesu christi þvshvnd. v. hvndrvt ok xx ær.

569. 8. Oktober 1520. í Ósló.

Andrés biskup í Ósló, Mattís Hvörv prófastr við Maríukirkjuna í Ósló, Hans Mule höfuðsmaðr á Akrhúsi, Eiríkr Eiríksson lögmaðr í Ósló og Bent Heringsson lögmaðr undir Agðasíðu lýsa því, að Ögmundr ábóti í Viðey og biskupsefni í Skálholti hafi lagt fyrir þá bæði páfabréf og konungsbréf um, að löglegt skyldi hjónaband Þorleifs Björnssonar og Ingvildar Helgadóttur, þótt þau væri fjórmenningar að frændsemi, og börn þeirra skilgetin og arfgeing, og staðfesta þeir og samþykkja öll þessi bréf.

AM. Apogr. 743 með hendi Jóns Magnússonar, bróður Árna, eptir transskripti frá 7. Janúar 1521.

---

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld hinni venjulegu, sem ritar á bréf Hólastóls.

Wij anders met guds nade biscop i Oslo. Mattis Hvðrv proust till marie kirke ibidem. Hans mule hðffetmand paa Agerhuss. Eric er(e)csson Lagmand i Oslo oc bent Heringsson Lagmand vnder Audeside giðr vitterligt met thette obne breff at mandagen nest effter sancti francisci dag Anno Domini m d xx kom tha fore oss paa Raadstuen[1]) j Oslo wærduge fader herr Amund abbat wdi Weydðen Closter paa Jisland oc wdvald biscop till Schalesticht ther samestedz met wor helligste faders pavens breff forkerandis oc jndholdendis en tilladelse oc stadfestelse hvorledis Tolleff biðrnsson oc Jngvald Heliesdotther som ære tilsðgede i Echteskaff j fierde led emod then hellige screfft. at the mue och skulle effter thenne tiid. som thette breff wdgiffuit er. bliffue fri oc frælse. j forne Echteskaffs bond ærlige oc vbrðdelige. bode for geslig oc wartzlig oc thesligest theris bðrn. bode the som the til forn haffu(e)r fðd oc tid effter skulle nyde oc holde ærens priuileg(i)a oc jndgaa j arff oc eyæ. effter tharis[2]) forrældra j alle mode som fri oc ærlige bðrn bðr at gøre effter theris foreldra et cetera. Jtem soge vij hðrde og læsde offuer alle forne article (wdi) tvene hðgborne fðrstes breff. konig Christern oc konig hanss breff. koniger offuer Danmarck Suerige oc Norige hvæss siele gud nade jndeholdendis en stadelige stadfestelse sameledis at forne Tollef biðrnsson oc Jngvalld Heliesdotter oc theris arffuinge mue oc skulle frii frælselige arffue som ærlige oc æchte bðrn bðr at gøre j alle mode. hvilken stadfæstelse effter theris befaling vii haffue aff vor nadigste herr. vij stadfæste oc wed macht dðmme j alle theris puncthe oc ther wdoffuer fforbiudendis alle paa wor nadigste herris wegne geslig oc wærtzlig emod at gaa thesse forne puncthe friiheder oc article. j noger mode vnder vor nadigste herris hæffn och vredæ.

Till yttermer sanigen henge vij wore jndsigell nedhen for thette wort obne breff giffuit aar oc sted som forscriffuit staar.

---

1) Jón Magnússon les hér „baadstuen", sem varla mun rétt.
2) Svo.

570. 15.—21. Oktober 1520. á Hafstöðum.

Vitnisburðr um landamerki Hafstaða á Skagaströnd.

AM. Fasc. XLIV, 18, frumrit á skinni, og er innsiglið dottið frá, og aptan af bréfinu er skorið yfir þvert.

Þat giori eg einar bardarson godum monnum kvnnigt med þessv minv [opnv brefe. at eg var. . . . . . . ] a skagastrond v ar og tutugu eda leingur og vissa eg ad þessi landa[merki voru hofd og halldin og suo so]gdu mier þa gamler menn ad halldit hefdi verit og haft . . . . . . . seier ad hafstader æti vt i halladalsa ed nedra og upi slat . . . . . . . ur klofasteinum halfa kialarmýri og suo i hafstadagil . . . . . . . [no]rdan fram og manadarteig a halladal en a millum eýiar ytri . . . . . . . . [til þes]sara vmmerkia nedan fra sio fyrir vtan borgernar vp i kveñhol vp . . . . . . . og grensshofda. vr grenshofda vp i milli selia og suo i k . . . . . . . [Og til sannenda hier vm] set eg mitt insigli fyrir þetta bref er skrifat uar a hafstodum . . . . . . [næ]stan epter kalicktusmesv arvm epter gvdz bvrd ꝏ. d. xx.

---

571. 21. Oktober 1520. í Haga.

Dómr sex manna, útnefndr af Snæbirni Gíslasyni kongs umboðsmanni milli Gilsfjarðar og Langaness, um ágreining Þýzkra og Eyjólfs bónda Gíslasonar út af skipi og peningum, sem rak á hans lóð, og Eyjólfr hafði að sér tekið.

AM. Fasc. XLIV, 22, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum eru 2 fyrir bréfinu. — Apogr. 1183.

Breffiñ ȷ haga.[1])

Ollvm godum monum þeim sem þetta bref sia og heyra senda helge gislason. þordur halldorsson. erllingur gislason. Jngimundur ketelsson. ȷon þorarinsson. ȷon ȷonsson kuediv guds og sina kunnigt giorande at þa er lidet uar fra hing-

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

adburd vors herra ihesv christi. þusund. fim̄. hundrut. nítian ær og eitt ær. æ vadle æ þingstad riettvm. lavgardaginn næsta epter lucasdag[1]) vorum vær ȷ dom nefnder af ærlegum dandemanne snæbirne gislasyne er þa hafde mins herra kongcens[2]) syslu og vm̄bod ȷ mille gilsfiardar og langanes. at skoda og dæma vm̄ þann askilnad sem uar ȷ mille eyiolfs bonda gislasonar og þyzkra. vm̄ þat skip og peninga sem rak a hans lod. var maled. skodat æ alþinge og dæmt heim aptur ȷ hierad þar sem malet fiell og snæbiorn skylldugan at skoda og at rannsaka og dom yfer at nefna og endelegan veg æ at giora. kom þar fram su sakar gipt af þy(z)ckum at þeir gæfe adur skrifvdvm eyiolfe bonda þa sok at hann hefde teket at sier skipa broten avll og bitalad avngvm peningum. sv avnur sauk at hann hefde havggvit mastret fyrir bord suo þeir þættiz þar fyrir ecke hafa matt hialpa skipenv. sv en þridia at hann hefde haft peninga med leynd og ecke til skila halldet. en fyr skrifadur eyiolfur bonde vændezt því. at þat hefde giorningur þeirra veret. marchus. fris. lyckia meigis og herman box er kavpmenn hofdv veret æ skipenv og hannes pafenskock er eiga þottezt part ȷ gozenv at þeir fiengv greindvm eyiolfe bonda til fullrar eignar fyrir sin kostnad og omac og lodarkaup. hesta læn og manna en setta part vr ollu þvi goze sem æ skipenu var at frateknv þvi goze sem skipenv og skipherranum til heyrde. Jtem ȷ annare grein bar þratt greindur eyiolfur bonde þat fram vm̄ skipabroten at skipherran̄ gert mavlen hefde feinget sier þav oll til fullrar eignar ȷ suo dan mata at greindur skipherra skyllde bihallda aule og miole koste og kotlum. kodlum og byssvm og ollvm skipsens reida. medkendiz opt nefndur eyiolfur bonde þat at hann hefde havgvet mastret fyrir þennan sama skulld at skipit var þa rifet og skemt og fvllt med sio þvi hann þottezt ecke avdrvvis geta biargad gozenv og skipenv en sagdiz þvi ecke hafa latid virda gozet at þeir komv til ȷnan þriggia natta fra þvi at skipit var landfast og tocv at sier allt gozet og gafv hann kvittan vm̄ alla abyrgd æ gozenv.

1) þ. e. 20. Okt. 2) Svo.

Þvi at suo profvdv og fyrir oss komnv. og þess at suo stendur ȷ bok vore ȷ kavpabælke at halldaz skule avll handsolvt kaup. þav sem halldaz mega at logvm og bok mæler ecke ȷ mote og vottar vita og vid er geinget þui dæmdvm vær fyrr nefnder domsmenn titt nefndan eyiolf bonda gislason skylldugan at leida tuo loglig vitne at hvorvm giorninge þeim sem hann hafde giort vid kavpmennena og vid skipheraꝃ og hafa leitt ed seinzta fyrir næsta auxarærþing. eꝃ at leiddvm vitnvnum dæmdvm vær adur nefnder domsmenn þeirra giorning stodvgan og stadfastan og ȷ allaꝃ handa mata lauglegan og allaꝃ þaꝃ vid og peñinga sem eyiolfur bonde hafde haft af þui sama skipe dæmdvm vær hans æfenlega eign epter þeirra giorninge. eꝃ sv sok er þeir gafv honum at hann hefde hogguit mastret fyrir bord. leizt oss ecke afl hafa þuiat þat var boret og svaret af tueimur skilvisvm vottvm og vnder allra dandemanna vitorde þeirra sem ȷ sveiteꝃe vorv at skipet var þa allt ʀifnad og skemt er hann kom til og hafde stadet vm̃ heillt siofarfall suo aller mattv þurrvm fæte til fara. þotte oss þat honum þa tiltækelegaz af þui at suo stendur ȷ bokeꝃe ȷ vogʀegs kapitvla at landeigande skal vogrek vardveita hverr sem ʀeka æ. eꝃ sa er æ ȷordu byr skal allt færa vr flædarmale. þui leizt oss hann þat med avngv mote giort geta nema hann tæke þetta til ʀads. þvi dæmdvm vær hann þetta ʀiett giort hafa. sv en þridia sok at hann hefdi haft peñinga heimilldarlavsa med leynd og ecke til skila halldit. þui dæmdvm vær titt skrifodvm eyiolfe bonda þar fyrir siettareid. vaꝃ hann eideꝃ þar æ þingenv fyrir syslvmannenvm og oss dőmsmonnum at hann hefde avngva peꝃinga haft hvorke leynelega nie opinberlega adra eꝃ þa sem þeir fiengv honum og sitt byte[1]) og þeir afenttv honum sialfer. Jtem voru tuo skialleg vitne leidd at huorum giorninge kavpmannanna og skipherrans at oss aheyrande domsmonnum þvi dæmdvm vier optskrifader domsmenn med fvllv doms atkuæde þeirra giorning og kaupskap staudugan og laugligan og titt skrifadan

1) Það, sem eptir fer af bréfinu, er með öðru og daufara bleki, en sömu hendi.

eyiolf gislason kuittan og akærvlavsan og hans epterkomendur fyrir þyzkvm og ollvm þeirra epterkomendum og hans æfenlega eign allaꝛ þaꝛ vid ȷarn og peninga er hann hefer af þvi skipe haft. og til meire sannenda hier vm̄ samþyckte þennaꝛ vorn dom snæbiorn gislason kongs vmbodsmann og sette sitt ȷnsigle med uorvm ȷnsiglum fyrir þetta domsbref skrifad ȷ haga æ bardastrond a sama are. deige sidar eꝛ fyr seiger.

---

572. 29. Oktober 1520. Í Miklagarði.

Gottskalk biskup á Hólum selr Magnúsi Björnssyni jörðina Reyki í Tungusveit fyrir jörðina Miðvík á Svalbarðsströnd, og kvittar biskup um kirkjugóz á Reykjum, en Magnús skal halda Reykjakirkju sæmilega að bókum og öllum skrúða.

Eptir frumriti á skinni, sem Hanson telegrafmaðr léði mér 26. Sept. 1898, en hafði um sumarið keypt af Jóhanni Pétrssyni á Brúnastöðum. Af 5 innsiglum eru 2 heil og 2 brákuð, eitt glatað. — AM. Apogr. 4113 með hendi Jóns bróður Arna „Ex originale".

Kaup og mældagabref fyrir Reikium j tungu sueit.[1])

Þat giðrum vier jon fin̄bogason thomas jonsson prestar. Magnus arnason Sæmundur Simonarson og finnur þoralldzson leikmen̄ godum monnum uiturligt med þessu voru opnu brefui at þa lidit uar fra gudz burd. Md og xx ar j micklagardi j eyiafirdi manvdaginn næstan̄ fyrir allra heilagra messu vorum vier j hia savm og heyrdum ǻ ord og handaband virduligz herra gottskallz med gudz nad biskups æ holum af einne ǻlfv enn magnusar biðrnssonar af annare at suo fyrir skildu at biskupinn selldi fyrnefndum magnúsi biðrnssyni jǫrdina ʀeyki j tungusueit j skagafirdi med aullum þeim gǫgnum og gædum eignum og jtǫkum sem greindri jǫrdu fẏlger og fẏlgt hefer at fornu og nẏiu og

1) Utan á bréfinu stendr og: „Kaupbref fyrir reykium at Biskup goskalk selur hana magnuse Biornssyne" (frá *at* með sömu hendi og falsaði máldaginn).

biskup godskall uard freṁst eigandi at. epter þeim dandi presta dőme sem þar vm (gior) ut uisar. enn hier j mőti gaf opt nefndur magnus biornsson jǫrdina midvíjk æ Sualbardzstrǫnd er liggur j laufæss kirkiu sokn med aullvm þeim gǫgnvm og gædum eignum og jtokum sem greindri jǫrdu fylger og fylgt hefer at fornv og nyiv og magnus uard freṁst eigandi at og þar til xiiij hvndrud. med (þeim) skildaga og skilmala at biskupinn gaf kvitt aull þau kirkiu godz sem þar til haufdu ꝺ̃ fallit æ adur nefndri jordv ʀeykivm enn þratt nefndur magnus skylldi hallda ʀeykiakirkiu at bokum skruda kalek og aullv ærliga. enn ef jordin geingi af magnuse med logum þa skylldi aull kirkiu godzin okuitt enn magnus mega ganga aptur at sinum peningum domlaust. þeim sem hann gaf fyrir greinda jord reyke. Skylldi huor hallda sinu kaupe til laga og suara lagaʀiptingu sem log ut uisa. Og til sannenda hier um setium vier fyr skrifader menn uor jnncigle fyrir þetta jardakaupsbref er skrifat uar j sama stad og dag sem fẏr seigir.

**Ad. 572.** 1.

*Falsmáldagi fyrir Reykjum, dagsettr á Hólum 24. Júní 1521.*

Aptan á frumrit þessa bréfs er ritaðr þessi máldagi Reykjakirkju með hendi frá öndverðri 18. öld, 1730—1740 á að gizka, og að vísu hefir ekki verið búið að skrifa þenna máldaga á bréfið, þegar Jón Magnússon (d. 1738) afskrifaði það fyrir Árna Magnússon (Apogr. 4113), því að máldagans getr hann að eingu, enda er máldagi þessi falsbréf, gerðr án efa til þess að byggja á lögmannsdóm frá 4. Maí 1621, sem líka er falsbréf.

Þezi er mꝺ̃ldagi Reikia j tungusueit epter ꝭ. Hőlakirkiu mꝺ̃ldagabők; austur fyrir sig ꝺ̃ hun i forna jǫkulzær farueg og steingarda allt ofañ at krossodda; nordur fyrir sig i þann mosavaxna farueg er þar geingr uestr ofañ krossodda og lambanez i Sijkit sem afmarkar Borgareij fraṁ at Grætzhőlma rædr sijdañ Suartæ merkium frram jfer Reikiafoss oc hornmel nedañ Reikiauelli, Þadañ ræda ener ellzu og westustu farueger ofañ kælfholma Selholma allt til þess zijkit fyrir uestañ tijdabacka midaz beint fram i wardañ nedañ uegiñ æ lestamel. Sudur fyrir sig eiga Reiker a holinn fyrir nedañ milnutiarnar lækiñ mőtz uid wardan a lesta-

mel. sijdan̄ beint upp i tvenna lijritta i holltinu, þa fyrir nordan̄ Olbogarmel i grasi uaxit gardlag er geingr uestr ur hin̄i sidri Reikia Geijl, deiler þa stefna austr jfer steinstadasand i mosakeldr oc gardzendan nordari nidr a breckunni þa i steingardinn austr uid jokulzá(!) forna farveg gegnt skeidmelz enda sinnri utan helluberg rettsynez. jtők a hon manadarbeit nautpeningi j Skidastada j jőrd. oc gielldfiar rekstr uestr a gil a uor epter Mario Messo firri.

Skrifat at Hőlum i Hialltadal a jonz Messo Baptistæ Mvxxi.

vitna gottskalk med gudz nad holabiskup. pall canukubroder. jon Hallsson stadarinz Radmadr. Þorvaldr fin̄sson Briti.[1])

**Ad. 572. 2.**

*Falsaðr lögmannsdómr um landamerki Reykja, dagsettr á Reykjum 4. Maí 1621, og bygðr á falsaða máldaganum frá 24. Júní 1521.*

Eptir frumriti á skinni, sem Hanson telegrafmaðr fékk sumarið 1898 hjá Jóhanni á Brúnastöðum í Skagafirði og léði mér $^{26}/_{9}$ 98. Af 5 innsiglum voru 3 fyrir. Er þetta án efa *falsbréf* og gert um sama leyti, sem máldaginn frá 24. Júní 1521, og á því falsbréfi bygðr.

Landamerkia Domz bref
anno M D cxxi.[2])

Þeim gődum monnnum sem þetta Bref sia edur heyra sendum wier epterskrifader menn kvediu Gudz og wora n̄l. hallur arnkelzsson. Thomas Eyreksson. prestar. magnus Biornsson. Einar andresson. Jon Olaffsson. Jon Jonsson. leikmenn. kunnugt gioran̄di med thessu Opnu brefi. at arum epter Gvdz burd Anno M. Dcxxi þann 4 Dag maij mánadar a Reikium i Tungusueith worum ver til stadar med Halldori lőgmanni oc fleirum godum monnum til ad skoda forn og nij merki millum Jardanna Reikia Skijdastada Steinstada og merkigardz epter bőn Jardanna Eigenda Þorvallds Jonssonar og Þordijsar Magn(u)zdottr til at fyrirbiggia upprisin̄ tvimæli og Tvistugheit millum hans og hanz Landseta. þar fyrir ad giordri Gran̄skning á tiedra Jarda landamerkium med samburdi wit hin elldstu skiől er fyrirfunduz a Pergamentum med sijnum hangandi waxjnnziglum. tok welnefndr lőgmadr so fellda̅n witnisburd af Oddi Arna-

1) Gottskálk biskup dó 1520, og er það eitt nóg til þess að sýna, að máldagi þessi er fals. 2) Utan á bréfinu með samtíða hendi.

syni og Þorhilldi sistr hans sem um̃ Lx ar hǒfdu werid æ Steinstodum og Merkigardi. Wilhialmi Þorgeirssyni. Gudmundi Jsleikssyni og Wilborgu Hañezdottr sem ǒll voru uppaliñ æ Skydastǒdum og Reikiavǒllum ǒll yfer L ara at su væri landeign Reikia og merki um̃huerfis at ꝩstañ redi krossgardar vit Jokulsar farveg forna eiñ ꝺ́ landmerkium Stapa og Steinstada riettlinis nordr fræ ʀꝩdhamri annar æ landmerk(i)um Reikia og Steinstada 3ie ꝩstr undañ arnarbergi 4rdi ꝩstr undañ skiphǒl, 5ti ꝩstur undañ kroszodda aller wit forna adalfarveg vatnanna ad vestañ fram̃ undañ garde þeim er geingr nordur milli fornu valla og Skinnþufu. ad nordañ rædr Reikialandi k(e)llda su er geingr vestr fyrir ofañ krossodda og lambanes. ræda þꝺ́ sijki er afdeila Borgareij fram̃ ad farveg utañ til vit grætholma. þꝺ́ rædr Svartæ fram̃ ad Reikiafossi. þadañ rædr enn Svartæ fram̃ ꝺ́ mǒtz vit Reikiavelli. þæ eiga Reikir Selhǒlma kælfholma og Tydabrecka (!), sem allt i vestasta farveg hefr under Reyki leigit beitt og sleigit verid arliga fram̃ ad lestamel. Millum Reikia og Steinstada rædr merkium stefña vestañ yfer ꝺ́na af melzhǒfdanum upp ꝺ́ krosshǒl fyrir utañ og nedañ minlu (!) Tiorn, þadañ upp i tvenna lyritta (brædr kallada af sumum) er standa ꝺ́ holltinu nordañ veginn, þadañ upp i Olboga (!) nordañ Steinstadavǒll, af Ølbogamel (!) ꝩstr yfer Steinstadasand i Grænhamra, þadañ mosa kellda i nirdri gardzeñdan nidr a breckunni þꝺ́ i krossgard ꝩstr vit forna Jokulzar farveg motz vit skeidmelz enda sidri milli Wydivalla og hellu. Enn landamerkium Reikia vestañ fram̃ æ Mælifellzdal Rædr kidærgil ad nordañ Mælfella (!) ad nedañ fremri knuka ad frammañ ||[1]) Og ꝺ́ Reikiafiall upp sem wǒtn at dragaz. lijka ættu Reikir mænadar beit fyrir sinn navtþening i Skijdastadalandi epter Mario Messo firri. Jtem thessi væri landamerki mille Steinstada og Merkigardz. ur sijki er geingr ur Svartæ upp i backann æ Einginu og uppi stein æ hlǒdum æ hǒlsinum̃ þadañ sionhending ꝩstr j follallda Grǒf þꝺ́ tekr Steinstadaland vit og allt fram̃ i skurd grasi vaxinn nedañ under stǒpunum og ꝩstr i kossgarda. at svo felldum proum (!) teknum bædi skialegum og Eydfestum. Dæmdi welnefndr halldǒr Olafsson logmadr med fullum laga urskurdi greind landamerki ǒbrigdañlig og leiglendingar Þorvaldz Jonssonar skilldi ella forbriota sijna abud og rijma af Jǒrdunum og svara honum xv ꝩrum fyrir logleisu og heimskufulla aseilni. Enn þeirra hussbondi hallda allri landeign

---

1) Alt framhaldið, sem eptir fer, er ritað aptan á bréfið.

Reikia til akuedinna merkia epter þvi sem fyrr vottar og svarit var.

Ok til stadfestu settum vier wor jnnsigli fyrir þetta landamerkia Domz Bref a sama stad deigi sijdar enn upphaflega greiner.

Frumrit þessa bréfs er auðsjáanlega frá fyrra helmingi 18. aldar. Á 1. innsiglinu stendr: *S thomas Ol.*, en því nafni heitir enginn af dómsmönnum; 2. innsiglið skemt og ólæst; 3. innsiglið glatað. Á 4. innsiglinu stendr að vísu: *Jon Ha* . . ., en því nafni heitir heldr enginn af dómsmönnum; 5. innsigli glatað. Gamalt bréf hefir án efa verið skafið upp, þó að skafan sé ekki berleg á skinninu, og notuð gömul innsigli.

---

## 573. 15. November 1520.

Kjörbréf Niðaróssklerka, útgefið af Eiríki Walchendorph erkibiskupi í Niðarósi, til handa Ögmundi ábóta Pálssyni til biskupsdóms í Skálholti.

Landsb. 62. 8vo með hendi Grunnavíkur-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ögmundar.“ — Prentað í Finni Johannæi Hist. Eccl. Isl. IV, 201—202.

Vigslu[1]) Bref Biskups Augmundar.

Jn nomine Domini Amen.

Reverendissimo in Christo patri ac Domino. Domino Erico Valchendorp. Divina providentia Archiepiscopo Nidrosiensi. Nec non sedis Apostolice Legato. capitulum sacro sancte metropolitane Nidrosiensis Ecclesiæ. obedientiam et obseqvium præstantissima. cum omni decenti reverentia et honore. Sacris canonibus novimus esse cautum. ne ultra tres menses. justo impedimento cessante. pontifice proprio cathedralis vacet ecclesia. ne lupus rapax pro defectu pastoris gregem invadat Dominicum. aut in suis facultatibus uiduata grave dispendium patiatur. Siqvidem pię ac beatę memorie Dominus Stephanus episcopus Skalholtensis ecclesie. Domino Deo maximo sic disponente. xvii.

---

1) „Substitué: Kiörs“, hdr.

Calendas Novembris Anno Domini M. D. xvIII. obiit[1]). et exalavit spiritumque tenues emisit in auras. corpus qvoque ejus. celebratis prius ceremoniis sepulcralibus. qvam(!) pie qvam reverenter. ut decuit. ecclesiastice redditum est sepulture. Jdeoque emersuris in hoc periculis animarum et ecclesiarum. ut tenemur. volentes providere. et ne ipsa ecclesia Skalholtensis viduitatis sue incommoda diutius deploraret. fuit a presentibus protunc canonicis ecclesie Nidrosiensis. ad qvos de jure et prescripta consvetudine spectat huiusmodi electio et dies ut puta qvintus decimus mensis Novembris cum continuatione seqventium concorditer assignatus ad electionem futuri pontificis. ipsius vacantis Skalholtensis ecclesiæ pastores. celebrandam Anno a Christo nato M⁰. D.⁰ xx.⁰ citatis autem interim absentibus ad capitulum nostrum Nidrosiense vocatis pariter et rogatis. citiorisque reditus admonitis omnibus. qui huic negotio pene salutari debuerunt. voluerunt. et commode in termino prefixo interesse potuerunt. Et deliberatione itaque habita per qvam formam esset in electionis negotio procedendum. placuit nobis omnibus et singulis per formam scrutinii eidem ecclesie providere. unde tres de nostro collegio fide dignos. Dominum Othleuum. Johannem Reff[2]) in utroque jure Bachalarium. canonicos nostros concorditer duximus assumendos. dantes eis unanimiter plenam potestatem ut secro et sigillatim vota sua et nostra diligenter requirerent. et in scriptis redacta publicarent. Scrutatores autem ipsam potestatem sibi traditam acceptantes. et ad imum angulum nostri capituli se recipientes. secreto et diligenter inqvisiverunt vota singulorum. sicut nobis post modum retulerunt. primo ad invicem vota sua et nostra post modum pro ut a nobis et in mandatis habuerunt. documentum ipsum in scriptis redactum more communi . . . . . . . [3])

---

1) þ e. 16. Okt. 1518, og mun það órekandi, en það er laugardagrinn fyrsti í vetri. Biskupasögur II, 287 segja, að Stephán biskup hafi dáið þriðjudaginn fyrstan í vetri, sem er 19. Okt. 1518.
2) „NB tertius desideratur", hdr. 3) „reliqva desunt", hdr.

574. **20. November 1520.** **í Niðarósi.**

Bréf Eiríks Walchendorphs til Andrésar biskups í Björgvin, Höskuldar biskups í Stafangri og Magnúsar biskups í Hamri, að þeir skuli koma saman í Björgvin og vígja bróður Ögmund ábóta í Viðey biskupsvígslu til Skálholts og gefa út vígslubréf honum til handa.

Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Øgmundar". — Prentað í Finni Johannæi Hist. Eccl. Isl. IV, 203—206.

Ericus Dei gratia Archiepiscopus Nidrosiensis et Apostolice sedis Legatus. venerabilibus et reverendis in Christo patribus et Dominis. Domino Andoro Dei gratia episcopo Bergensi. Hosculdo Stafangrensi. Magno Hamarensi. eadem divina gratia episcopis. dilectissimis fratribus nostris. salutem. reverentiam et honorem. Charissimi fratres. hisce jam proximis diebus ad nos ex Jslandia venerabilem Dominum Avgmundum Pauli. ad monasterium Videy Abbatem. huc appulisse. commendatias totius cleri Skalholtensis Dýocesis. decessum boni pastoris et patris sui. et ipsius Dyocesis viduitatem et orbitatem deplangentis. serum apportantem. vobis significamus: in qvibus suis literis ipsi Domino Avgmundo humanitatis et virtutum Testimonium. qvale vir bonus semper aspiraret. attribuunt. et eum sibi in pastorem et episcopum. et in Domini Stephani. bonæ recordationis. ibidem immediate episcopi. successorem dari et constitui. nobis et venerabili dilectoque capitulo nostro quam humillime supplicant. id ipsum venerabilis et reverendus frater noster Dominus Gottschalcus ibidem episcopus. suis literis. nobis et super hoc allatis. non solum rogitat. verum etiam eum idoneum predicans constantissime exhortatur. Qvibus permensis et consideratis etiam ipsius ecclesiæ et cathedralis sedis viduitate deliberata. canonici dilecti filii nostri et capitulum nostrum. ad qvod ex Apostolico privilegio et inveterata consvetudine. legitima qvoqve præscriptione Skalholtensis episcopi spectat electio. eum. tanqvam idoneum. maturum. et ad utramque administrationem. spiritualem ac

temporalem. providum satis et circumspectum. post invocationem divinam. observato in omnibus juris ordine. in Skalotensis ecclesiæ episcopum. et illic depascentis gregis Dominici pastorem elegerunt. eumque sic canonice et rite electum et electionem ipsam nobis presentarunt. rogantes obnixe. ut et nos. tum ob divina merita asseqvenda. cum ob imminentia varia pericula propulsanda. hanc electionem. sic rite. sicque canonice celebratam. et approbare. et confirmare. ratamque in omnibus habere dignaremur. Nos igitur perpendentes longam ipsius Skalholtenis ecclesiæ viduitatem. et ipsarum cathedralium præsertim ecclesiarum orbitates ut plurimum esse dispendiosas et in primis cavendas. cum ex hoc in spiritualibus et temporalibus intolerabilia multoties dispendia lugent se incurrisse. Sed qvia inaccessibilis hoc tempore nos disjungit distantia. qvæ et cum maxima importunitate nos prohibet in unum consultandi et decernandi gratia personaliter convenire. et qvia illustrissimus princeps. Dominus et rex noster gratiosissimus. extra hoc regnum regalibus et regia prudentia dignis nunc implicatur negotiis. ideo secundum scriptam exhortationem et petitionem nobilis viri magistri Johannis Mule. qvem idem Serenissimus rex noster in talibus et similibus emergentibus negotiis constituerat in his regionis partibus obtemperandum et fecerat aut oratum precationem et astrictionem super homagium et obseqvium regni. Eidem Serenissimo Domino regi nostro et Norvegio regno prestandum. a prefato Domino Amundo exegimus et solempniter accepimus. et eam in scriptis redactam sigilli sui appensione communivit. Et super hoc in nomine sancte et individue Trinitatis. eclectionem ipsam sic rite factam et nobis humiliter præsentatam. privilegio Apostolico et authoritate metropolitica approbavimus confirma(vi)mus. et per præsentes approbamus et comfirmamus. ratamque et firmam in omnibus. et per omnia eam habituri. Eidemque Domino Amundo predicto electo. et ob suorum exigentiam meritorum ad sacram Skalholtensem ecclesiam confirmato. ut plenius eiusdem fluctuate ecclesie indemnitali consuleremus. juxta canonicam dispositionem. plenariam potestatem.

jurisdictionem atque administrationem. generalem et specialem. in temporalibus et spiritualibus. ut pretacte Skalholtensis ecclesie pastori legitimo congruit. commisimus et committimus. eumque illi perficimus. tanqvam episcopum et idoneum congruumque pastorem. admonentes pariter et exhortantes. ut jugum Domini. suis impositum humeris. prompta devotione suscipiens et reverenter. sic se in ejusdem ecclesie cura gerere studeat sollicite. fideliter et prudenter qvod ecclesia ipsa desiderato sponso gubernatori provido et administratori fructuoso gaudeat se commissam. ipse qve præter æterne retributionis optatum gaudium et cælorum premium æternum. favorem nostrum omniumque sibi commissorum gratiam et benedictionem. et perpetuam Christifidelium laudem exinde uberius conciliare capescere et asseqvi mereatur. Qvapropter universis et singulis Skalholtensis Dyocesis inhabitatoribus clericis et laicis omnibus sub virtute sancte obedientie districte precipimus et precipiendo mandamus. qvatenus eidem Domino Amundo electo et confirmato subsint. et legitime obtemperent. nihil honori aut juri eius derogantes. sed eam. qvam vero præsuli suo debent. reverentiam studeant eidem sollicite exhibere. nec cuipiam alii preter eum aut ejus assensum. de juribus episcopalibus redditibus. seu de qvibuscunque proventibus. pertinentiis fructibus et emolumentis. prædicte Dyocesi attinentibus. rationem et computationem deinceps reddere presumant. Postremo. reverendi patres. qvia. ut diximus. longe dolenter recensentes ipsam eandem Skalholtensem ecclesiam proprio ac singulari defensore iam ferme ad biennium fuisse orbatam ac pastorali vel uti optimo suo presidio destitutam. idcirco reqvisito. et consulto capitulo nobis dilecto necessarium et oportunum duximus. ut eidem Domino electo et confirmato munus consecrationis circiter carnis privium proximum. nec tardius. Bergis impertiatur. ut tanto securius et facilius ordinatis et compositis rebus suis. possit bona hora et mitiori tempore Jslandiam versus iterato navigio feliciter divertere. et ne vel propter consecrationis suæ dilationem. contra spem. omnemque voluntatem suam sicut et contra nostram. adhuc

absessio sua ultra futurum annum, qvod Dominus nollet. retardaretur. qvę prorogatio in maximum ecclesiæ divergeret detrimentum. et sicut sciverites (!) omnes. nec nos contra id concretum glaciale et hyemale tempus obniti tantum sufficimus. ut vel navigio posse Bergis devenire speramus. Qvare vobis. charissimis fratribus nostris. episcopis prænominatis. qvam benigne supplicamus. injungimus et demandamus. et in personas vestras auctoritate qua fungimur metropolitica. plenariam potestatem hac vice transferentes. imploramus. qvatenus in eundem Dominum Amundum electum et confirmatum consentientes. et ad prefixum terminum Bergis existentes et convenientes. omnes simul tres eum consecrare et episcopum facere. eo qvo decet modo. reverenter solempniter et devote accuretis deinde literas consecrationis suæ. sigillorum vestrorum robore defensatas. eidem conferre et elargiri dignabimini. maximopere flagitamus. qvos labores vestros et importunitates clementissimus Deus. beatus Olavus et sanctus Thorlacus latius resarcient et recompensabunt.

Datum in curia nostra Archiepiscopali Nidrosiensi ad xıȷ. Calendas Decembris[1]). Anno ab incarnatione Dominica millesimo qvingentesimo vigesimo sub nostro secreto præsentibus infra appenso.

---

## 575. 29. November 1520. í Þrándheimi.

Eiríkr Walchendorph erkibiskup í Niðarósi staðfestir og samþykkir páfabréf og konungsbréf um hjónaband Þorleifs Björnssonar og Ingvildar Helgadóttur, og börn þeirra skilgetin og arfgeing.

AM. Apogr. 742, með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali“, sem var á kálfskinni. — AM. Fasc. LXXII, 2 A, 7, transskr. á skinni frá c. 1528. Hèr er fylgt afskript Jóns með hliðsjón af transskriptinu.

---

1) „*Septembris* extat, sed absqve dubio legendum *Decembris*“, hdr.

reijsa nu til Danmark med Guds miskun og uoga mijnu lijfe þar uppa ad afueria kirkiunnar skada. þad eg er mann til. er mig sagt ad eg sie ganske miog forloginn fyrer mijnum[1]) herra kongenum[2]). huilken þad hefur giört. þad ueit gud og Sancte Thorlacus. Sendi eg mijn bref heim til Domkirkiunnar. þui bidium (vier) ȷdur kiærliga ad huor stirke nu annan uppa þad besta. og bidied fyrer minne saluhialp til Guds. Styrked Wigfus Ellendsson lögmann j mijns herra kongsins[3]) Erindum og sijnum. kann vort folk ad seigia ȷdur þad margt sem uier kunnum nu ecki ad skrifa uppa þennañ her tijd. Bidium vi[4]) ȷdur kiærliga ad skunda Sancte Thorlacs[5]) skipe og uoru folke sem snarast afftur til baka j sumar a mote oss ad leisa þær[6]) skullder sem vier höfum giort uppa þetta hier[7]) skip. Hofum vier til panta uid brigguna[8]) allt þad silfur sem uier höfdum ofortært sem eru vegnar 15 merkur. þui bidium vi ȷdur draga til skipsins þad snarasta þier kunnid vadmal og skreid. smior og slatur so folkid hafe arskost. þui her er ganske hord tijd sem Sira Þormodur kann [ȷdur seigia[9]). Er skip so best ad þad sie brukad so leinge þad uarer.

Giorid alla hlute med rꜳ́de[10]) officialis brodurs vors og annars kirkiunnar Rꜳ́ds þar sem þui nꜳ́er[11]).

---

594. [Vorið 1521. í Björgvin].

Bréf Ögmundar biskupsefnis til klerka í Skálholtsbiskupsdæmi, þar sem hann skýrir þeim frá ferð sinni á konungsfund, er fyrir sér liggi, og segir af sér ábótadæminu í Viðey.

MSteph. 27 4to bls. bls. 6—7, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur BrefaBok Biskups Ogmundar“.

1) minn 62. 2) konunginn 62. 3) 62; Biskupsins (!) 27. 4) vier 62. 5) 62; Thorlaco 27. 6) 62; þar 27. 7) b. v. 62. 8) bryggiuna 62. 9) [sega ydur 62. 10) rad 62. 11) „Sine loco et anno, item nomine authoris. Est autem absqve dubio Øgmundi hæc Epistola, scripta in Norvegia, forte Bergis, tempore vernali 1521. anteqvam in Daniam migraret“, 62.

[Annad[1]) Sendebref [til Jslands.[1])

Frater Augmundus Dei gratia et cetera. Salutem in eo qui est fons et origo totius bonitatis.

Heilsum uj kærliga ǫllum uorum medbrædrum j Skalholltsbiskupsdæme Prælatum og Prestum et cetera. Einkanliga abota Narfa ad Helgafelle. Arna brodur vorum ad Þickuabæ. Prior Þoruard ad Skridu. officialibus med Radsmanne j Skalhollte Sira Helga mijnum. brædrum[2]) ǫllum og sierliga modur uorre. og ollum Sancte Thorlaci[3]) uinum og uorum. Kunngiorum vier ȷdur kiærer viner. ad vier Erum heilbrigder og allur uor Selskapur. sem gud late oss slijkt til ȷdar spiria.

Hǫfum vier hafft [svara reisning[4]) og mykenn kostnad. og uppa ný skulum vier nu[5]) Reijsa til Danmerkur [med guds miskun[6]) effter vors kiæra fǫdurs[7]) j Gude Erkebiskupsins ǻuijsun. Þui bidium vier ȷdur alla [kiæra vine[8]). ad huor stýrke annañ til goda heilagrar kirkiu ed besta og fatækx almuga. hillum vier stirkium [og samþyckium[9]) ȷdur alla og sierhuoria j sijnu starfe fullmegtugañ so leingi gud vill ad vier komum til ydar.

Nu saker þess ad vier vitum ǻleingdar mǻ ecki klaustur vera fyrer utañ hirder riettañ ǻn stort salar[10]) far og skada. ad[11]) ødrum parte ma Einginn tuo Beneficia ad sier binda. þuj j Guds nafne Amen Resignerum vier og uppgefum j Guds ualld og jdra forsia heilagt Claustur j Videý. þeirre personu til vallds og formannsstiettar sem ȷdur synest vidurkuæmelegur til. Auijsum uier og kiosum af uorum parte þar til uorn kiæra brodur[12]) Sira Helga Jonsson. sem uier settum þar j uort umbod j sijdst. Kann so skie sem oss skal uel lijka ad annar verdi skıȷckadur af andligu. vallde til Skalhollts domkirkiu. þa uilium vier giarnan þiona under hlydne fyrer brodur j greindu Claustre so leinge uier lifum. Og til sanninda et cetera.[13])

---

1) [sl. 62. 2) brædrunum 62. 3) Thorlaks 62. 4) [62; snara reising 27. 5) b. v. hér 62. 6) [sl. hér 62. 7) faudur62. 8) [kiærer viner 62. 9) [b v. 62. 10) salu 62. 11) af 62. 12) 62; fodur (!) 27. 13) „Sine loco et anno, est vero hæc epistola absqve dubio scripta in Norvegia, forteBergis, tempore vernali Anno 1521, anteqvam in Daniam migraret Ogmundus“, 62.

595. 21. Maí 1521. í Lambey.
25. Maí 1521. í Dal undir Eyjafjöllum.

Dómr sex manna, útnefndr af Narfa Erlendssyni fullmektugum umboðsmanni yfir Rangárvallasýslu, um afgreiðslu á peningum þeim, er Salgerðr Snjólfsdóttir hafði næsta ár haft umboð yfir vegna Vigfúsar bónda Erlendssonar bónda síns.

AM. 191. 4to bls. 64—65, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, skrifuð samtíða á skinn. — AM. Apogr. 5521; er bréfið heilt í afskriptinni, en af fyrra skinnblaðinu er nú ytri helmingrinn týndr síðan daga Árna, því að blaðið hefir í öndverðu verið saumað saman í miðjunni að endilaungu, en saumrinn svo bilað og ytri hluti blaðsins losnað frá og glatazt.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sendum uier runulfur þorsteinsson. tomas ionsson. ion eireksson. gudni þorarensson. Simeon ionsson og biorn arnorsson Q(uediu) G(udz) og sin.[1]) kunnigt giorande ad sub anno gracie. anno domini ᴍ⁰. d.⁰ uicesimo primo. þridia dagen j fardagauiku j lambey á þingstad rettum uorum uier j dom nefnder af ærligum manne narfa erlendzsyne huor er þa hafde fullmegtugt umbod yfer rangaruallasyslu til ad skoda og ransaka og fullnadardom á ad leggia huornin husfru salgerdr sniolfsdotter skyllde greida og afuenda þa peninga sem hon hafde næsta ar umbod yfer haft uegna vigfus bonda erlendzsonar bonda sins.

Nu af þui ad oss syndest fodursyster skilgeten næst standa j rettu erfdatale af þeim skylldum monnum sem til stodu. þui dæmdum vier fyrr greinder domsmenn med fullu doms athkvæde. husfru holmfridi erlendzdottur skilgetna systur adr greindz uigfus erlendzsonar bæde til kallz og konu rettiligan uidtokumann allra þeirra peninga sem hann att hafde og adr greinda husfru salgerde skyllduga henne alla at afuenda þa hon hefde umbod yfer haft og greinda holmfride logligan fiarhaldzman yfer ollu adrgreindu omaga goze og fullmegtugan forsuarsmann suo leinge og þar til sem onnur logligre skipan kemur uppa.

1) þannig.

Ok til sannenda hier um sette adr greindr kongs umbodsmadur sitt jnnsigli med uorum fyr skrifadra manna jnnsiglum firir þetta doms bref huortt skrifat uar j efra dal under eyiafiollum laugardagen j fardagauiku ꝗ̃ sama are sem fyr seiger.

---

596. 23. Maí / 19. Júní 1521. á Hlíðarenda. / í Gunnarsholti.

Hólmfríðr Erlendsdóttir og Salgerðr Snjólfsdóttur nefna sex menn til þess að skoða og dæma, hvað haldast skyldi af gjöfum þeim, er Vigfús Erlendsson hafði gefið nefndri Salgerði konu sinni.

AM. 191. 4to bls. 37, bréfabók Jóns skálds Hallssonar, rituð samtíða á skinn. — AM. Apogr. 5519.

Ollum godum monnum þeim þetta bref sia edr heyra senda jon þoruardzson. runolfur þosteinson. tumas ionson. narfi erlendzson. gudni þorareinson ok biorn arnorsson Q(uediu) G(udz) og sina kunnegt giorandi þa lidid var fra guds bvrd. ꝍ. d. xx og j ar a hlidarenda j fliozhlid fimtadagen j fardaga viku vorvm vier til nefnder af holmfridi erlendzdottur (og) hustru salgerdi sniolf(s)dottur ad skoda og dæma huat halldazt skylldi af þeim giofum er vigfus erlendzson logman hafdi gefit adr greindre salgerdi kuinv sinne a brudlupsdeigi huat hvn reiknadi verit hafa. lx. hundrut j tilgiof ok þar med fiordungsgiof og hier til kostulegan kross med feste forgyllt. nv af þui at hun hafdi þa þar huorki bref ne skilriki firir þessum giofum. þvi dæmdum vier þetta þeirra mal til næsta oxararþings vnder xii logrettumanna dom. en saker þeirra forfalla sem ꝫ voru um færleikaleyse at hun komzt ecki til sinna peninga j austfiordu og eige helldr þeir sem henne skildu afgreida dæmdum vier henne sæmeligt halld vid fimta man heima a hlid-

arenda fram yfer þing en aller hennar peningar skylldu standa ælagalauser þar til at til yrdi komizt at afvenda þa epter þingit.

Ok til sannend(a) hier vm settvm vier fyrrskrifader menn vor jnsigli fyrer þetta doms bref skrifad j gunarshollti j aueriahrepp miduikudagin næstan firir jons Messo baptista æ sama ari sem fyrr seiger.

---

597. **23. og 24. Maí 1521.**

Virðingargerð á öllum peningum kvikum og dauðum, sem börnum Vigfúsar heitins Erlendssonar hafði til erfða fallið eptir hann, en Hólmfríðr Erlendsdóttir systir hans lét virða; svo og um útgreiðslu á skuldum eptir Vigfús.

**I.**

AM. 191. 4to bls. 3—14 og 17—18, sem á að koma inn milli 6. og 7. bls. í skinnbókinni (bréfabók Jóns skálds Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur, rituð samtíða).

Anno domini. M°. qvingentisimo. vicesimo primo a fimta dagin ok fostvdagin j fardogvm. voro þesser menn til kallader af hollmfridi erlendzdottr at skoda ok logliga uirding æ at leggia alla þa peninga kuika oc dauda sem bornum uigfus heitins erlenssonar hafdi til erfda fallit epter hann oc Gudrunu pallsdottur modur sina. og synder voro oc fram lagder af salgerdi sniolfsdottur. á hlidarenda j fliozhlid oc suo j teigi. jtem jon þoruardson. runolfur þorsteinsson. tumas jonsson. Gudni þorarinsson. Narui erlensson. Simeon jonsson oc biorn arnorsson.

Jtem j fyrstu .x. kyr gilldar. tuær kyr oc þar ofan á uetrgamalt naut firir. cc. ij kuigr milkar oc ij naut uetrgomul j .cc. ij navt þreuetur oc ij ueturgomul firir .cc. iiij naut tuæuetur firir cc. Gomul kyr oc fim kalfar firir c. xx hundrud j æsaud oc ero þar j þriv kugilldi lamblaus. Jtem x hundrud j gelldum saudum tuæuetrum oc eldrum. d.c j

veturgomlum. Jtem. xv. hestar firir xx hundrud. Reiknazt aller þesser peningar .l. hundrvd og iiijc. og xxc. j hestum.

Jtem þetta j ofridu. tuenn týgi alfær. x. pancarar[1]) uonder og eirn þar til skarri. vi. hattar oreidder. eitt crevet [o]c armaria. stalhufa oc brestur til hokvjarnit. einer hanzkar. iiij byssur uondar. eitt uont arbrysti med .vi. skeýtum kofrlaust.

Þetta j uirdingargoze. j diskum og borddiskum. dukum. trogum oc uppgiordar kerroldum. halt þridia hundrat.

J orfum og hrifum. ʀekum og kuislum. Klyfberum oc reipum. krokum og laupum. þetta allt firir x. aura.

Þriar sængr alfærar j. cc. x. ʀekuoder. fiorar æbreidur og fimta æklædi. iij hæindi oc ein bediardyna. j fiogur ægilldi. vi. katlar. iij ponor. ein pottavsa. ij pottar. var þetta j. cccc. fiorar konnr. tintr oc er þar j eitt koparkanna. skakmenn nockrer. kuotra. þriv glasstaup. litit horn med latuns beit. eitt skurn. ij latuns skaler. ij leirkruser. var þetta allt. cccc.

Jtem. dcc. j ʀeidskap. v. aura j liaum oc brynum. snidlum oc auxum. Jtem alfær smidia oc huerfisteirñ.

Jtem cc. j oþæfdum uadmalum. c. j. skædaskinnum. þriar kistur firir hundrad. j. cccc. j kerum og tunnum. hogsetum og pipum. Jtem gamall uondr med .xiij. hringum miog slitinn. gamall ʀefill med .xiij. hringvm. ʀefils slitti uont oc hafa uerit j xij hringar. ʀeiknadzt þat sem j virdingargozi var niu hundrud oc xxc og einum. x. alnum minnr.

Þesser vottar voro þar uid uerandi siera þorleifur eiriksson. þorsteirn jonsson. ȷon hallzson. jon eireksson.[2]) þorbiorn[3]) ionsson. ȷon ȷonsson. þorsteirn fusason.

Jtem somu uirdingarmenn oc vottar j teigi oc uirtuzt sod[an] peningar þar sem hier seger.

x. kyr gilldar. þreuetur kuiga oc kalfr j hundrad. ij. kuigr þreuetrar oc eirn kalfr. j cc. þriar kyr gamlar j. ij. hundrud. ij naut tuæuetur j hundrad. ij kalfar oc .ij. naut uetur gomul litil oc. ij. sauder tuæuetr(er) .j. c.

1) Svo. 2) eiresksen, skb. 3) misskr. í skb.: þorvinson. *Þorbjörn* Jónsson kemr við ýmsar bréfagerðir þessa Hlíðarendafólks.

hundradz hestur. gamall hestur og meiddur oc þreuett hross. j. c. vj c. j ueturgomlum saudum med fiorum tuæuetrum. v. hundrud j lamlausum[1]) ásaud. fiogr æsaudar kugilldi gilld.

Jtem .xxiiij. trog. x. kerolld med skiolum. vij. stampar og eitt tunnu hrof. þrir diskar. ix skaler. vij. hrifr. iiij orf. ij kuisler. ein reka. v. klyfberar. ein ox oc snidill. iij liaer. eirn pall. ij stiorar þrituger oc einn fertugr. ij kyrhuder. reip á hes[t]. fyrir .c. hundrad j uondum. ellzgognum et cetera. Aller frider peningar saman reiknader j teigi. xiiij. oc. xx c. Enn j ófridu cc j ellzgognum. x c. [j k]irkiufe oc xv allnum betur. þar at auk .ij. kyrhuder oc ij ue. . . .

Jtem uoro þesser j virding j asi j holltum þa þar var ad sied epter vigfus logman. jon þoruarzson. ketell jonsson. jon stullason. ormur asbiarnarson. eyiolfr olafsson og olafr jonsson.

Jtem afhent joni þoruardzsyni kirkivfe ui kyr og vj æsavdar kugilldi. virtizt þar at auk kirkiu fianna ein kyr gilld oc ij tuispenar og þar ofan æ t[uæ]uetur gridungr fyrir. cc. þreuetr kuiga og gomul kyr og tuæuetur kuiga gelld fyrir cc. iij naut ueturgomul fyrir hundrad.

Jtem suo micit j æsaud. iiij kugilldi j lamblausum æm. onnur. iiij. j gelldum am og þar j. iiij. sauder tuæuetrer.

Jtem .vij. hundrud j gelldfe. var hier golldit af joni eirekssyni uegna erlenz berfinzsonar. ij malnytu kugilldi. oc þriu hundrud j lam og gelldum saudum. xij aurar presti j saungkaup. var þat leigan af framnesi.

Jtem var suo mikit j uirdingargozi j asi sem her seiger. xiiij kerolld med skiolum uondum. viij skaler. x diskar. iij borddiskar. iij katla hrof og ein panna. einn strokur oc annar uondur. þetta allt fyrir .c. einbytnu. pipu og uont kerr j jordu. ij kistur. onnur med loki. stedi oc uond[2]) . . . . [3]) auxar brot. pall oc rotin kyrhud allt [uirt] fyrir .c. Jtem dynvver. ij uondar huiluuoder. [x]v. alner med uont uadmal oc ij kapalskinn. [i]iij hesta reip oc þar til orf og

1) Svo. 2) hér er eitt orð molnað úr blaðhorni. 3) Hér tekr við 7. bls. í skb. en þar á milli, milli þeirrar 6. og 7. bls. á að koma bls. 17—18 (rangt bundið inn).

hrifr. oc uog. allt þetta fyrir. c. v. ægilldi hins þridia hundr-a(d)s j hestum. uoro þar med. ii. kalfar. kambar[1]) oc ein ær gelld .c.

Reiknadz þat sem j asi var j fridu at auk kirkiu fianna .ccc. og. xx^c. oc. v. ægilldi betur. oc þar til. ccc. j ollu þui sem ofritt var inan gatta.

Þessar uoro mazmenn j eingey þa uirt uar epter uigfus erlenzson laugman en jon sturlason afhenti. Erlendr þorvarzson. sira biorn olafsson. snæbiorn halldorsson. jon sturlason. ormur þorsteinsson. biorn olafsson. oddur asgrimsson. virtizt þar .v. kyr gilldar oc uænar er kirkian atti enn þar vm fram uar tuæuetur kuiga mylk oc ein tuæuetur gelld. oc enn gomul kyr oc tuæuett naut. uar þat giort fyrir. cc. iij. naut ueturgomul fyrir .c.

Jtem inañ gatta dyna oc hægindi med rekiuuodum. ketill uondur. uader oc hudarspotur. pottbrot oc þrir aunglar. þetta allt fyrir .c. ij ker. eir[n uadur.]. Jtem fiortan hundrud skreidar med þa sem um uor[id] hafdi feingizt oc cc. sidan. Jtem var suo micit [bu]sgagn j engeý. xiij. trog. xj uppgiordar kerold oc ero. ij. uond. v. ker og er eitt uont jard[ker]. oc er ecki fært af þessum meir enn eitt. skiola. fiogra fiordunga ketill. pottbrot eitt. viij tunnr. v. hrifr. iij. orf. einer krokar. einer laupar. vj klyfberar oc er eirn reiddur. palreka. brythogg. eitt stefni. kista oc stokr j kirkiu oc skrudakista. at auk uond kista loklaus. xx. skaler. vi. ssmadiskar[1]). iij fot. iij borddiskar. v skaler j burinu. einn duckr .iiij. alln(a) langr. iiij skalar brot. æ þria hesta reip. ein hud og ero ristar af .ij. leingiur. eitt uont kapalskinn. j matbord. litit bryni. eirn bedur med hæindi oc rekiuuodum. iiij uoder. einn sexæhringur og uondur batur. ij lasar. Jtem virtizt hier af .xij. aurar j tolufe. busgagnit oc ambodin. Jtem ketillin og sængin. uadrin. hudin. pottbrotit oc þrir aunglar. þetta allt fyrir .c. hestur ga[2])mall. þriv kerolld oc þrir kalfar. þetta allt fyrir .c. ker annat stor(t) fyrir x. aura.

Jtem var hier golldit af siera birni j songkaup su hiñ mylka kuigan og þar til veturgamalt naut. onnur kuigan

1) Svo. 2) hér tekr aptr við 7. bls.

var golldin joni sturlasyni oc þar til. vi. aura. Geck þa af fram kyr gomul oc naut tuæuett er giortt uar fyrir c. Enn nautit hit ueturgamla uar goldit oddi asgrimssyni j kaup sitt oc odrum uinnumanni þar j eÿnni.

Jtem er eg[1]) þar skylldugr at giallda auk kirkiu fiana .ccc. oc. xvj. alner med kierinu og hestinum gamla.

Þessar uoro jarder. hlidarendi. teigur. barkastader. þuera. heylækur. buturalldastader. griota. viñdas og uar þa j eydi. vollr. hilldisey. fit. Borg og midbæli. klombur og mini borg. kirkiujarder. jtem Ravfarfell. as j holltum oc Raudalækur. jtem þorkellsgerdi og vindas. galmatiorn oc kirkiuhofn. hefer biskupin tekit uid þessum fiorum j sinn reikningsskap.

Jtem med jördunum voro æ leigustodum. viij. kugilldi oc. xx. oc x. aurar betur.

Jtem med þessum jordum tok ec[1]) kirkiufe.

J asi j holltum .vi. kyr og .vi. æsaudar kuilldi.

Jtem j eyngey .v. kirkiukyr.

Jtem med laugarnesi .vi. hundrud.

Jtem j borg med kirkiunne tuæuetur kuiga mylk.

Jtem j fillpholti[2]) eitt kirkiv kugilldi.

Jtem æ Raudalæk j bænhus kugilldi oc kapla. c. þar til a þuera. kirkiukyr j þorkelsgerdi. allt annat h(er) med kirkiuni.

Suo morg skreid j uestmaneyium. æ sama ari sem fyr seger.

hlutur gudmundar .vjc.

hlutur þorleifs .ij. fiskum fatt j. vjc.

hlutur siguaz .v. fiskar og atta tiger ens fimta hundrads.

hlutur einars þrir tiger ens sietta hundra(d)s.

hlutur þorsteins xiiij fiskar og .cccc.

Jtem hlutur af skipi lafranz halft annat hundrad.

Reiknadz oll þessi skreid halft viijc a hinu þridiu m° til tals og iiij fiskluter under fiollum lest til tals.

Jtem j seluogi .xix .(c). til tals.

vc. j hofnum til tals.

J ejngey. xiiij. hundrvd til tals.

1) þ. e. Jón Hallsson 2) Svo.

Jtem gilltizt oll su skreid sem uar j uestmaneyium half fiorda lest oc. xuíj. fiskum betur. uar þat med giaftollum er þar uoro gefner oc ollu þui sem þar var fyrir utan urkast. þat for heim til hlidarenda. iiijc. enn. ijc. til teigs. uoro þessar skullder þar af golldnar. half lest er salgerdr hafdi latit taka fyrir fram utt af þeim j smiori oc uini. bior oc mioli. jarni. klædi oc lerepti. skom oc hufum og odrum hlutum.

Jtem tumas dreyra .lx. fiska fyrir skulld er uigfus hafdi giort med hann j grindauik um halftunnu smiors og halftunnu uins.

Jtem golldit kristforus[1]) andressyni uegna jon man. vij oc x tiger med gillda fiska.

Jtem golldit uilhalm[1]) var[2]) iiӌ fiska til gilldis. og þriar allner oc .xx. oþæft uadmal. for þat fra hlidarenda. uissi þessa skulld sueirn gunsteinsson og jon smasueirn. Reiknadz þetta. xiij. fiskum fatt j niu hundrudum og vaden at avk.

Jtem for ur seluogi .xijc. til tals. geingu v tiger j hueria vett af þeim. var þat (!) golldit hans kastinbrok af half. xuiij vet j. dc.

Jtem herman brandiborg vij uoder uadmals .ij. alner oc .xx. j hueria. og xuj uetter oc. j mork oc. vj. fiordungar betur.

var þar goll(d)it j su hallf xj. uett sem af geck þui sem ur uoginum for. foro til matfiska. xl urkast þar af þeim. þar uar og goll(d)it j su hallf lest sem j hofnum uar. uogzt þar .xij. uetter. vr eingey foro .cc. til tals. voguzt þar iiij uetter oc hallf tiunda uett. af þeirri skreid sem holmfridur atti af landskylldum hennar oc hlutvm. Setta ec adur grein(d)um herman til panta fyrir lest er epter stendur oc. cccc. þar til .xxx. gÿlleni. ero þar j .vi. nobil oc. vj. rosennobil. iij franzkar krunur. dupil dukat oc ein dupil dukat oc eitt halft nobil. var þetta allz .xv. styki. skal hann þetta aptur færa at sumri komanda.

Jtem golldit gertt skradara .c. med gillda fiska og .lxxx. betur.

1) Svo. 2) vr, hdr.

Jtem lykin .c. at uigt oc uett betur.

Jtem klauus vorm x alner uadmals.

Jtem didrek sem verit haf(d)i a mula .viij. alner uadmals er uigfus uar honum skylldugur fyrir hufu med t(v)eimr brotum.

Jtem (j) holminum henrek surbikar oc olaf meyiar .ccc. fiska til tals. enn .cc. til gilddis[1]) oc uod uadmals. for þat ur engey.

Jtem golldit joni jakobssyni á bazendvm, þýzkur daggardur fyrir .vic. fiska oc fyrir gamallt naut. uod uadmalls oc eitt nobil. var þetta gomol skulld fyrir vigfus logman.

Jtem golldit klauus er verit hafdi sveirn vigfus. iij. rinsgyllini. j þyzkum reidupeningum j sin þionuzt(u)laun.

Jtem birni didrekssyni. hver vera skylldi sueirn fusa. golldit .xj. alner volmals[1]) huitt oc. viij. alner þar til gratt oc giordr vt at ollu. skal hann eiga hlut sinn sialfr oc standi til æuentyr. hvort hann færr nockud ellr ecki. aptur skal hann skila skinnklædum oc aunglum. hier skulu born fusa ollungis kuit(t) um þat sem hann hefr honum lofat. Reiknaz þetta .uijc. æ ene .uij. lest. er þat ærid uar golldit hid fyrsta arid.

Suo margar skullder golldnar jslens(k)um monnum uegna fusa æ sama ari.

vmbodsmonnum ellens berfinnssonar .x. hundrud.
sira þorsteini jonssyni .ccc.
joni jonssyni halft ccc. . . .
sira birni olafssyni .c.
sira sæmundi. xij. aurar.
einari uinnumanni æ hlidarenda .xij. aura.
sueini gunsteinssyni .xij. aura.
asmundi a barkastodum saudur.
sniolfur hest.
pall hest.
markus jonsson hest hinn bezta.
jon sturlason .c.
eyiolfur olafsson ku oc asaudar kvgilldi fyrir kros er

1) Svo.

hann feck uigfus.

katle jonssyni .uíj. agillde fyrir kirkiusmidi j asi.

narfa erlenssyni .vii. agilldi frid oc .vi. fiordunga smiors.

Jtem hafa suo miclar skullder golldizt þetta arit uegna uigfus logmanz.

fiorar lester hans egerzsyni j silfri oc skreid. og þar at auk allan reikningskap af rangaruallasyslu vm eitt ar. er þetta allt mins herra kongsins skvlld.

Jtem heinrek surbikar og olaf meyiar golldit fimtiger fiska j hafnarfirdi. þar med var oll þeirra skvlld ut giord oc erfing(i)ar ui(g)fus kuitter.

Jtem golldit uilhialm huit eingelskum kaupmanni uegna uigfus logmanz .ixc. [1]) fiska til gilldis. vissi narfi erlensson þessa skulld þui hann hafdi uid tekit j umbodi brodur sins .vijc. enn fusi siallfr .cccc[1]).

Jtem uar suo micit j kistu logmanzins uigfus. þeirri sem jon hallztson leysti [u]t j hafnarfirdi.

Fyrs(t) bref hans oll oc skilriki. þau sem hann hafdi med sier haft.

Jn primis lifraudur stakkur med svortum lambaskinnum oc r[a]udur fallrockur. ij treyiur. þrennar hosur. einn hnifur buin er hans egerzson tok uid.

Jtem kordahnifur obuenn.

ij pungar.

ij. stiguel. onnur forn og utslitin.

Jtem stalbogi med tueimur uindum oc nockrar pilur med kogre.

Jtem logbok.

þriar skýrtur.

Jtem þriar hufur lodnar.

einn hattr.

ij litlar munnlaugar.

Ein uorvhempa med klædi.

Jtem uar j kofrinu ein silfrfestur med hringum er stod halft fiorda lod oc xx.

eirn lindi litell.

v. staxhnappar oc .ij. handsol.

gra uoshempa.

1) Svo.

þyzkur sodoll oc beils[1]) med Reida.
ein treflaska og skakmenn.

War suo mickit j kistunni þeirre hia markusi uar .IX. stikur med gult uarningsklædi. oc half .vij. stika med blatt uarningsklædi. skiñastakur spilltur. ein treyia med .vj. oc .xx. smahnoppum. ij. skẏrtur uondar. ein linlok. kordahnifur buin oc daggardr er hans tok uid. ferñer silfrhringar oc eirn stakur. læstur pungur. ij hufur fodradar. ein konohufa. ij tidabækur. se(c)kur med skinn oc þetta j. stackr fodurlaus. vond treyia. eitt garneẏ med skinn. annat med klædi errmalaust[1]). þrenn por sko og uoro tuenn[1]) af þeim miog forner. oc tuennar klorur.

Jtem uar þat allt silfur sem j kistunum uar oc ec tok uid upp æ uigt .lxxx. lod oc þriu betur fyrir utan .v. staxhnappa og eina kapuhringa.

Jtem uar þetta uirtt af þui sem j kistunum uar. dockur sta(c)kur forn einbyrdur. treyiur iiij oc annar sa smapanz(are) sem þar uar j halft anat hundrad.

Jtem skyrtur þriar oc ij pungar .j. c.

Jtem þriar skinnahufur fyrir c.

Enn at auk þessa sem uirt uar. voro þrir stackar. oc half .XVI. stika med klædi. stalboginn oc logbokin.

Voru þesser menn j uirding. siera jon einarsson. snorri hialmsson. salamon heinrexson. fusi Runolfsson. jon boñdi þoruarztson oc þorbiorn jonsson.

halfur þridie þumlungur jc.[2])

## II.

AM. 191. 4to bls. 65—80 (bréfabók Jóns skálds Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur, rituð á skinn samtíða). Skrár þessar I—II eru samferða fyrst framan af, en síðan skilja leiðir. Mart er í þeim yngra en frá því í Maí 1521, — og að visu frá 1522 eða 1523.

Anno domini ꟾꟾ.° d.° uicesimo primo. a fimtadagen og fostudagen j fardogum uor(u) þesser menn til kallader af holmfride erlendzdottur ad skoda og logliga uirding ǻ at

1) Svo. 2) Hér er nokkurt autt bil í bókinni. Þar er skrifað með daufara bleki, en samtíða hendi: „saulmundur seger". Þá kemr reikningr frá 1523. Sölmundr hét vinnumaðr á Hlíðarenda hjá Vigfúsi lögmanni.

legia alla þa peninga kuika og dauda sem bornum vigfus heitins erlendzsonar hefde til er(f)da falled epter hann og gudrunu palsdottur modur sina og synder voru og fram lagder af salgerde sniolfsdottur æ hlidarenda j fliozhlid og suo j teigi. ȷtem jon þoruardzson. Runulfur þorsteinsson. thomas ionsson. gudni þorarensson. narui erlendzson. simon ionsson og biorn arnorsson.

Jtem j fyrstu .x. kyr gilldar. tuær kyr og þar ofan a ueturgamallt naut fyrir .cc. tuær kuigur milkar og .ij. naut ueturgomul j .cc. tuo naut þreuetur og .ij. ueturgomul fyrir .cc. iiij naut tuæuetur fyrir .cc. gomul kyr og .v. kalfar fyrir .c.

Jtem. xx.c j asaud og eru þar j .iij. kugilde lamblaus.

Jtem .x.c. j gelldvm saudum tuæuetrum og ellrum. en. dc. j ueturgomlum.

Jtem. .xu. hestar fyrir .xxc.

Reiknazt aller þesser (peningar) .lxx.c. og .iiijc. betr.

Jtem þetta j ofridu. tuen tygi alfær. x. pansarar uonder og eirn þar til skare. vi. hattar oreider og eitt kreuet og armiarn. stalhufa og brestur til hokuiarnit. einer hañskar. iiij byssur uondar. eitt uont arbryste kofurlaust med .vj. skeytum.

Þetta j uirdingargoze j diskum og borddiskum. trogum og uppgiordarkeroldum halft þridia hundrad. J orfum og hrifum. rekum og kuislum. kly(f)berum. reipum. krockum og laupum. þetta alltt fyrir .x. aura.

Jtem .iij. sængr alfærar j .cc. x. reckiuuoder .iiij. abreidur og fimta aklæde .iij hægende og ein bediardyna þetta allt j .iiij. ærgilldi. uj. katlar. iij ponur. ein pottausa. ij pottar. uar þetta j .cccc.

Jtem .iiij. konnur og er þar j eitt koparkanna. skakmenn nockrer. kuotra. iij glasstaup. litid horn med latunsbeitt. eitt skurn. ij latunsskaler. ij leirkrusser. uar þetta allt j .cccc.

Jtem .dcc. j reidskap. u. aurar j liaum og brẏnum. snidlum og oxum.

Jtem alfær smidia og huor(f)istein.

Jtem .cc. j oþæfdum uadmalum. c. j skædaskinum. iij

kistur fyrir .c. iiijc. j kerum og tunum. hofsetum og pipum.

Jtem gamall uondr med med. xiij. hringum miog slitten. gamall refill med .xiij. hringum. reuels slitti uoñt og hafa uerid j. xij. hringar.

Reiknazt þat sem j uirdingargozenu uar. ıxc. og .xxc. og einum .x. alnum minur.

Þesser voru þar uottar sira þorleifur eirexson. sira þorstein ionsson. jon eirekxson. þoraren simionsson.[1]) jon jonsson og þostein fusason.

Jtem somu uirding(ar)menn og uottar j teigi og uirdtuz suodan peningar sem hier seiger. x kyr gilldar. þreuetur kuiga og kalfr fyrir .c. ij kuigur þreuetrar og eirn kalfur fyrir .cc. iij kyr gamlar j .cc. naut tuæuetur j. c. ij kalfar og ij naut ueturgomul litil og .ij. sauder tuæuetrer j .c. hestur j. c. gamall hestr og meid(d)r og þreuet hros(s) fyrir c. uj.c. j ueturgomlum saudum med fiorum tuæuetrum .d. j lamblausum asaud. iiij asaudar kugilde gilld.

Jtem þetta uar þar j ofridu .xx. trog og .iiij. betur. x. keruld med skiolum. vij stampar og eitt tunnuhrof. iij diskar. ıx. skaler. vij hrifur .iiij orf. ij kuisler. ein reka .v. klyberar.[1]) ein ox og snidell. iij liaer og einn pall. ij stiorar þrituger og einn fertugur. tuær kyrhuder. reip ꝺ́a þetta allt fyrir. c. hundrat j uondum eldzgognum.

aller frider peningar saman reiknader j teigi uoru xiiijc. og xxc. en .cc. j ofridu.

Þesser uoru j uirdingu j asse þa þar uar ad sed epter uigfus logman. jon þoruardzson. ketell ionsson. jon stullason. ormr asbiarnarson. eyiolfr olafsson og olafur jonsson.

Woru þar fyrst afreiknud[1]) kirkiupeningar. uj kyr og .uj. asaudar kugilde. uirtiz þar ad auk kirkiu fiana .iijc. og. xxc. og fim aægillde[1]) betur og þar til .iijc. j ollu þui sem ofrit var innan gatta.

Þesser uoru j uirdingu j eingey þa uirt uar epter uigfus logman en jon stullason afuente. Erlendr þoruardzson. sira biorn ollafsson. snæbiorn halldorsson. jon sturlason. ormur þorsteinsson. biorn olafsson og odr asgrimsson. uirt-

1) Svo.

iz þar fyrst af .v. kyr godar og gildar er kirkian þar atti en þar ad auk uirtiz þat allt sem uar þar fritt .cc. en iij hundrat j ofridu. tok sæmundr bondi uid þui ollu sem þar uar.

Þessar uoru jarder epter uigfus heitten. hlidarender.[1]) teigur. barkarstader. þuera. heylækur. buturalldastader. griotaa. uindas og uar j eyde. uol(l)r og hilldisey. fitt. Borg og midbæli. raufarferll ed austra. klombr og minne borg kirkiuiarder.[1])

Jtem as j holltum og Raudalækur.

Jtem þorkelsgerde og uindas j seluoge.

galmatiorn hafde uigfus sett biskup augmunde til pañta fyrir tiundum sinum. kirkiuhofn. þorkelsgerde og vindas. hefer biskupen tekid j sinn reikningskap og kirkiunar j skalahollte sem giorningar þar um gioruer uttuisa.

Jtem med ollum iordum uigfus heitens uoru ǫ́ leigustodum. uiij. kugilde og xx og x aurar betur.

Med þessum iordum tok holmfridr kirkiufie j ase j holltum .xij. kugilde. j eyngey .v. kyr. med laugarnese. uj^c. j borg med kirkiune tuæuetur kuiga milk. j fiflhollte eitt kirkiukugilde.

Jtem ǫ́ raudalæk ij bænuskugildi og kapla hundrad þar til. ǫ́ þuerǫ́ kirkiu kugilde. j þorkelsgerde halft annad hundrad med kirkiuni.

Suo morg skip tok holmfridr epter uigfus logmann sem hier seiger.

teinaring gamlan og halfan attæring. hofdu þesse geingit j uestmaneyium.

attæringur j midbæli er giordr uar fyrir .iij^c. og annat sexæringur. uar hann giordr fyrir halft annat .c.

J landeyium broten attæringur.

Jtem j eingey litit sio manna far gamalt og uppgiafa battur[1]). uppgiafa skip halft j hofnum aralaust og halfur batur uondr. var þat huortu(e)gia uirtt fyrir .c.

Suo mikid tokż inn j landskyllder um uorid af iordum uigfvs heitens under eyiafiollum. uj. aurar a enu fiord(a) .c. en fyrir uestan markarfliott. uj.^c j seluoge og med sundum halft setta .c. uar þat allt golldit j ofridu.

1) Svo.

Jtem oll su skreid sem holmfridur tok barnana uegna epter uigfus heiten brodur sinn j ollum stodum j uestmaneyium og under eyiafiollum. j soluoge. hofnum og j eingey. uar saman reiknud half en atta lest og eitt .c. þar til til tals og iij fiskar minur.

Domur æ hlidarenda milli þeirra holmfridar og salgerdar ꜵ fimtadagen j fardogum j huorium at uoru þesser menn. ion þoruardzson. Runolfur þ(orsteins)son. tumas j(ons)son. narfi e(rlends)son. gudni þ(orarens)son og biorn arnorsson. dæma[1]) þeir salgerde sæmiligt halld uid fimta man heima æ hlidarenda fram yfer þing en adrar greiner þeirra æ mille woro dæmdar til alþingis.

Þessar uitans[2]) skulder woro utt golldnar jslendz(k)um monnum j fridum peningum af adr greindum peningum uigfus.

ione eirekxsyne og gisla simionssyne[2]) fiarhallzmonnum erlendz berfinnzsonar .xuiiij. c.

sira þorste(i)ni ionssyne. iijc.

Jone ionssyne .uc. og hinu beztu tygen.

sira birni olafssyne .c.

sira sæmunde xij aurar.

e(i)nare uinnumanne æ hlidarenda xij aura.

sueine gunnsteinssyn(i) xij aura.

asmunde ꜵ barkarstodum tuæuetur saudr.

Salgerdr hest.

pall fusason hest.

markus ionsson hest.

ion stulason[2]) hest.

Eyiolfur olafsson ku og asaudar kugilde.

katli jonssyne. vij. ærgillde.

narfua erlendz(syni) .uij. ærgillde[2]) frid og .vj. fiordunga smiors

Reiknazt .xvjc. og .xxc. og uinnufolkid allt ad auk.

Þessu(m) monnum let holmfridur giallda kaup æ hlidarenda uegna fusa heitens.

sañde .c.

1) dæmi, sjá Nr. 596. hdr. 2) Svo.

eyiolfe olafssyne .c.
gudmunde sigurdzsyne .c.
þorleife helgasyne .x. aura.
siguate .x. aura.
jone jonssyne .vj. aura.
solmunde .v. aura
jone clemenssyne. v. aura.

Jtem j eingey.
jone stullasyne .c.
tueimur uinnumonnum þar ode og þorgeire sina .vj. aura huorum.

Jtem Jngialde ꜵ uilkingslæk. uj. aura fyrir oxahud.

amunda steinsyne .xx. alner fyrir hud.

er þetta allt saman reiknad .uij. hundrut.

Jtem golldet uttlenzkum monnum uegna uigfus heitens. minum herra kongenvm .iiij. lester fiska til gilldis.

Jtem þyztkum monnum.

Jn primis herman brandeborg .iiij. lester til gilldis j gulle. skreid og uadmalum.

Jtem uilkin rvgg og skipherra lycki smid lest fiska til gilldis.

Jtem hans kars(t)en brok lest fiska til gilldis.

Jtem skipherra karsten iung og helmiñg kuittenberg .x. uetter fiska.

Jtem olaf meyiar og henrek surbikar .cc. fiska til gilldis og uod[1]) uadmals.

Jtem gertt skradarra[2]) .c. fiska til gilldis og .lxxx. betur.

Jtem iaspar sueini fusa heitens uppꜵ .ıxc. fiska.

Jtem petur skraddare tiu tige fiska til gilldis.

Jtem eingelskum monnum golldit suo miket.

Jn primis joni brun tuær lester og iijc. fiska til gilldis.

Jtem jone jacobssyne tuær lester til gilldis. lx. fiskum minur.

Jtem uilhialmi huit .ıxc. fiska til gilldis.

Jtem ioni iacobssyne (!).

Jtem jone mel .vjc. fiska til gildis.

---

1) tvískrifað í hdr. 2) Svo.

Jtem thomas dreyra og heri magnus .c. fiska huorum þeirra.

Jtem kristiphorus andressyne tiu tiger fiska og uij. betur til gilldis.

Jtem robert leg. c. fiska til gilldis og uod uadmals. er þetta saman reiknat .xvij. lester fiska til gildis. uc. fiska .lx. og uij betur. half onnur uett fiska og atta alner uadmals betur. epter þui sem kuitunarbref þar um gior utt uissa.

Hier ad auk golldet olaf meyiar og henriek[1]) sur(bikar) enn uegna uigfus .x. fiskum fatt j cc. og uod en onur þar til.

Jtem clavvs iarmar uod uadmals.

Jtem didrik mejnar .xviij. alner uadmals og ij fiordunga smiors.

Jtem claus suein uigfus halft annad hundrat.

Jtem birne didrekssyne .iijc. og uod uadmals.

Jtem arna kaupmanne j hafnarfirde .c. fiska til gildes og .xxx. betur.

Jtem hans littla þeim sem vigfusi feck ararnar gollden uod uadmals.

Reiknazt þetta og lest.

Aoll[1]) su adr skrifud skreid sem holfridr[1]) tok efter uigfus uar til gilldis fim lester og .cc. betur. .xuij. fiskar og .ij. fiordungar betur. hefer þesse adr skrifud skreid og .ij. lester j silfri golldizt af pening(um) uigfus heitens upp j hans skullder. og enn hier til hefer golldit (uerid) af hans peningum .viijc. af þeim .iiij. lestum sem herman brandeborg tok uid og þa'. ıxc. sem ȷaspar sueinn uigfus tok uid og enn hier til clauus sueine uigfus .iij. Rínsk gylne j þyzkum reidupeningum.

Jtem kostur sa allur sem uar æ hlidarenda þa holmfrid[1]) tok uid reiknazt fyrir .iij. lester epter þui sem dæmt uar æ alþinge. uar salgerde sniolfsdottur dæmtt þar af fæde uid fimta man fra fardogum og til alþinges.

Jtem uar gollden half lest uegna greindrar salgerdar kaupmonnum j uestmaneyium er hon hafde latit taka utt af um uorit sinna uegna. smior og miol. bior og uin. malltt og jarñ. lerept og sko med audru smakrami.

1) Svo.

Reiknazt alltt þat sem barnana peningur hefer gollden uerit j skullder uigfus heitens j skreid. silfre og koste .xı. lester og .viij. tiger fiska betr.

Jtem reiknazt þat sem af peningum holmfridar og jons hallzsonar hefer golldit uerid j optskrifadar skullder uigfus half atta lest j gulle og silfri. skreid og uadmalum. gelldum nautum og saudum. og enn hier ad auk .xx. fiskar og .vij. betur og uiij alner uadmals.

var þat kirkiu eignen[1]).

Jtem hefer sæmunde bonda og þeim gudride suo mikit golldit uerid .xx. malnytv kugilde og .i. betur. avnur .x. med borg. en onur med midbæli og hestur. ein kyr med griotá.

Jtem .cc. j ofridu og tuæuetra kuigu milka med kirkivni j borg.

Jtem tok adr greindr sæmundr uid suo myklu j ase j holltum. vj kyr og .uj. asaudar kugillde. hier ad auk halft þridia .c. j uirdingargoze og .ij. hesta. uar huortuegi af erfdapeningum.

Þesser woro j uirdingu og skipte á hlidarenda þa skipt uar med pali uigfussyne og systrum hans. Jtem eirekur þorsteinsson. jon þoruardzson. erlingr gislason. jon eirekxson. biorn arnorsson og suein holmfastzson.

Jtem tok sæmundr þar uegna pals og onnu. cccc. j uirdingar goze og eigi fulla .uj. aura betr og þar ad avk. ccc. j reidskap og þat ad auk sem hann tok j reflum og tioldum. bokum og ambodum.

Jtem tok hann suo mikit j eingey. xij. aura j tolufie. busgagni og ambodum og hier til .iijc. j odru goze.[2])

Jtem þar .cc. frid og hier til .ccc. er gvlduzt a huoli j hualrepp.

Jtem hlaut pall og kristin syster hans j adr greindu skipte .iiij. katlar. ein kanna. ij tintur. eitt horn. ij glos. ein leirkrus. ein latuns skal. ij munlaugar. eitt tinfat. xij trefot og .lx.xvij. borddiskar. ıx. trog. ij skiolur. ij kerolld. ein

1) Efst á spássíu og ekki vísað inn. 2) Orð þetta sýnist hafa verið tvískrifað; skinnið er hér skemt.

pottausa. uirtizt þetta fyrir .xv. aura ꝺ́a enu. u̲ta .c. og ad auk ecke fuller .vj. aurar j sængarklædum. hier til half onur hud. ein ox. ein liar og bryni. hier ad auk hlaut pall .iiij. pansara og .ij. jarnhatta. ein kr(a)ga. eitt heinge. eina armskifu. Jtem hlaut kristin j sinn part. ij. pañsara og .ij. iarnhatta. eina byssu. hier til hlutu þau goda logbok og nialu og tidabok og tiold og refel. huoruostein og alfæra smidiu. stalboga og kordahnifur nockud buen um skaptid. Suo feld skipa skipte. sæmundr bonde feck tuo hlutte j littlum attæringi a uegna gudridar en halfan attæring uegna aonnu. jtem uegna pals gamlan teinæring halfan og halfan .vj. æring nidri j eingey. kristin hlaut og halfan attæring.

Summa summarum aller þeir peningar frider sem sæmundr bondi hefer uid tekid bædi sinna uegna og pals og aonu. eru xx^c og .u. ærgilldi æ enu xj^ta hundrade. Ꞓn .xu^c. j uirdingargoze og ein mallttunna . . . . . [1])

Jtem afuent med teig ad biskups skipan sem domr þar um hafde honum til sagt kirknan(a) uegna þeirra sem uigfus heittinn erlendzson hafd(i) att.

Jn primis .xxx^c. j kum og am og fridum peningum og þar til .c. j uirdingargoze og sæng j .c. xij. fiordungar smiors og .c. fiskar. tok sira salamon heñreksson uid þessum peningum og afuenti pali uigfussyne og hier ad auk tueir hundrads hestar raudr og bleikalotur.

Jtem afuent sira þorleifi eirekxsýne æ hlidareñda ad biskupsens skipan med kirkiunne þar .iiij. kyr og .iiij. æsaudar kugillde. ij. hestar og þreuet hross ofan a fyrir .cc. fiogra uetra gamallt naut og .uiij. sauder tuæuetrer fyrir .cc.

Jtem afuent adr nefndum sira þorleifi j sama stad uegna ualla kirkiu j huolhrepp epter biskupsens skipan .ij. kyr. en þridia uar þar med adr. jtem .iij. æsaudar kugilde. tuæuet naut og .iiij. sauder tvæuetrer fyrir .c. og hier til hundrads hestur. tok pall uigfusson uid þessum peningum kirknana uegña.

Jtem afuente jon hallzson pale uigfussyni j sama stad uegna kristinar . . . . . . [2])

1) rifið úr eitt eða tvö orð, 2) Vantar í skinnbókina niðrlag.

## III.

AM. 191. 4to bls. 2 (bréfabók Jóns Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur á skinni, rituð samtíða).

Suo morg skip tok ec epter vigfus heitten logman sem hier seiger.

teinæring siofæran og halfan attæring. geingu þesse j uestmaneyium.

attæringur j midbæli og annad sexæringur. uar annad giortt fyrir iijc en þad jd minna fyrir halft annad hundrad.

Jtem j landeyium brotten attæringur er sandr og eyiolfur olafsson hofdu med farid wm weturen.

Jtem j eingey litid sio manna far. wppgiafaskip halftt j hofnum aralaust og halfur bætur vondr. var þat huortvegia fyrir c.

skipbrot j seluo(g)e.

## IV.

AM. 191. 4to bls. 63 (bréfabók Jóns skálds Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur, rituð samtíða á skinn).

Reiknazt all(t) þat sæmundr hefer uit tekid j uirdingargoze bædi sinna uegna og pals og onnu .xuc. €n j fridum peningum ad saman reiknndu .u. ærgilde æ enu .xj. c. og .xx. med þui sem hann tok j eingey og j landskyldernar og j hualuerdit.

Jtem goldit sæmunde bonda eirekxsyne j hualuerd er rak j midbæli .viij. ær milkar .c. ij naut tuæuetur .j. c. iij ær med lombum. iiij. sauder ueturgamler og ueturgamallt naut fyrir .c. afuentizt þetta a huoli hans manne. uar sueinn holmfastzson og brandr þorarensson. biorn olafsson þar hia.

---

598. **[um 30. Maí 1521].**

Lofan Ögmundar biskupsefnis að Skálholti við Kristján konung annan.

MSteph. 27. 4to bls. 7—8, með hendi Benedikts lögmanns Þor

steinssonar c. 1720. — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar".

Soddan lofan hef eg giort vid vorn Heigbornasta konungenn.

Jn primis ad vera hanz nad hollur og trur so leinge eg lifer. og stirkia hans fogeta j Jslande so þeir giore huorium manne lỏg og Riett. og hialpa þeim til med menn og hesta. þa bihof giorest uppa hanz nadis vegna. og Cronunnar ed besta. j so mata ad heilog kirkia bihallde æ jafnañ sitt.

Jtem lofudum vier ad samla[1]) ecki meijra folk til alþingis enn 15 eller 20 hestar. so þar ut af feingi ecki landid edur fatækur almugi skada. og so sagde hans nad ad sijner fogetar skilldu giora.

Jtem lofudum vier og huar helst þad kinne ad biuisast[2]) med sannindum̄ ad vier hefdum keifft nockud jardagotz undan Crununne til kirkiunnar. þa skilldum vier nefna 6 kyrkiunnar Prælata og hans nadis fogeti 6 logriettumenn. og lata mig þad uel nægia. sem þeir 12 segde ꝺ̃[3]) milli Crununnar og kyrkiunnar. huad eg hopunst til med guds miskun ad ecki [finnast skal.[4])

---

## 599. 8. Júní 1521. á Þingeyrum.

Helgi ábóti á Þingeyrum staðfestir dóm frá 29. Apríl, Nr. 589 að framan.

AM. Fasc. XLV, 4, frumrit á skinni frá Staðarhóli, og hefir verið læst með 1 innsigli saman við XLV, 3. — Apogr. 1457.

Vier broder helgi med gudz nad aboti ꝺ̃ þingeyrum og officialis heilagrar holakirkiu fyrir uestan ỏxnadalsheidi (giorum) godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ad sub anno gracie ꝏ⁰ d⁰ xx⁰ ı⁰ jn uigilia ascensionis do-

1) suamla 62. 2) 62; bevijsast 27. 3) b. v. 62. 4) [skal finnast 62. — Aptan við bréfið stendr í 62: „sine nomine subscripto, loco vel anno. Est autem indubie Ogmundi, conclusum in Dania 1521. cum ibi Regem inviseret. circa festum corporis Christi."

mini[1]) á suinauatni æ asum kom fyrir oss ærligr mann þorarinn bondi jonsson og tiedi oss þar opit bref eigils grimssonar og einars þordarsonar med þeirra heilum og oskoddum hangundum jnsciglum so hlydanda at ordum greinum og articulis um hiuskapar kauplysingar og festing er fram hafdi farit millum jons hallgrimssonar og helenar þorarinsdottur. sem sa domr jnnehelldur og ut uisar sem þetta uort bref er med fest og honum uar til dæmt. Og til sanninda hier (vm) setium uier uort jnscigli fyrir þetta bref skrifat æ þingeyrum j uazdal laugardaginn jnfra octauas festi corporis christi a sama ære og fyrr seiger.

---

**600. 15. Júní 1521. á Ökrum.**

Sjö lögréttumenn og nefndarmenn lýsa því, að þeir hafi valið og samþykt Grím Jónsson lögmann norðan og vestan á Íslandi, og viti þeir það með sannindum, að hann hafi verið til lögmanns tekinn og kjörinn á almennilegu Öxarárþingi.

AM. Fasc. XLV, 8, frumrit á skinni. Öll (7) innsiglin eru dottin frá.

logmannzbref grims jonssonar[2]).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda gíjsle hákonarson. einar einarsson. jon jonsson þordur gunarsson. narfe jngemundarson. halldor jonsson ok marteinn þoruardzson. laugrettumenn ok nefndarmenn J hegranesþingi. kuediu gudz ok sina kunnigt giorandi ad fyrir þær greiner. er laugin ok landzins uane suo til víisa ad sá skal logmadur uera er laugriettumenn samþýckia. ok þui fyrir naudsyn landzins ok styrking laganna haufum uier af uorum parte til ualid ok samþyckt heidarlegan mann grim jonsson ad uera laugmann fyrir nordan ok uestan á jslandi. uitum uier hann fyrir allar greiner þar uel til fallin. Suo ok uitum uier med sannendum ad fyr nefndur mann grimur jonsson uar til logmannz tekin ok kiorinn á almenneligu auxarárþingi. Ok til sanenda hier

1) þ. e. 8. Maí. 2) Utan á bréfinu með hendi frá 16. öld.

um settum uier fyr nefnder menn uor ןncigle fyrir þetta kiorsbref er skrifad uar æ aukrum ן blaunduhlijd ן skagafirdi laugardagin næstan fyrir botolfsmessu. arum epter gudz burd. þusund. fimm. c. xx. ok eitt. ær.

---

**601.** **20. Júní 1521. Í Kaupmannahöfn.**

Kristján konungr annar samþykkir og staðfestir páfa, erkibiskupa og konunga bréf um hjónaband Þorleifs Björnssonar og Ingvildar Helgadóttur, og börn þeirra öll arfgeing.

AM. Apogr. 745 með hendi Jóns Magnússonar, bróður Árna „Ex originali. Brefed er ä pergament. hreint og hvitt enn skriffteñ oskir og jll aflestrar". Innsigli konungs heilt og óbrotið var fyrir bréfinu. — AM. Fasc. LXXII, 2[3], transskript á skinni frá c. 1528.

Wii Christian met gudts naade Danmark(s) Suerigis Norgis Vendis oc gottis konig. Hartug j Sleszuig Holsten Stormarn oc ditmersken greffue j Oldenborg oc Delmenhorst giðr alle wittherligt at effther thi thenne breffuiser Biðrn torleffsson oc hans syskenn haffue nu met werdoge fader her Amund Electus till skalholte domkirke ladet wise for oss eth wort helligste faders pavens Legatus breff oc tuende andre wor kiær(e) herr faders oc faderfaders kong Christierns[1]) hues siæle gud naade stadfæstelsse breff lydandis at forne Biðrn torlaffssons fader oc modher mege bliffue samend j Echteskap endoch the sameñ hðr(e) pa slecht j fiorde ledh effter som forne breff ythermer jndeholde och vduise oc sameleidis fordraget oc tilgiffuit them hues rett the paa kronens wegne haffde till them oc theris born oc godts ther for j alle modhe hwilcke breff wij aff wor synderlig gunst oc naade haffve stadfest oc fuldburdit oc met thette vort opne breff stadfeste oc fuldburde wedh alle theris ordh oc article som the jndheholde oc vdvese[2]). Och forne Biorn torlaffsson oc hanss syskene retthe oc æchte arffuinge at vere effther theris fader oc modher oc erffue

1) Svo bæði 745 & lxxıı; 2, og hefir því nafn Hans konungs gleymzt úr frumritinu sjálfu. 2) wthwise lxxıı, 2.

fader oc modher oc all andhen arff som hannem oc ollum hanss syskinde kand tilfalde meth lagen thi forbiude wii alle ochwo[1]) the helst er eller wære kunde oc serdelis wore fogether Embitzmend som nu er eller her[2]) effter kommende worde paa wort land Jsland forne biörn torlaffsson eller hans syskine her emodt at hindre. hindre lathe. mődhe. quellie. wmake eller j [nokru mothe[3]) at wforrette[4]) vndher wor koniglige heffn oe wreidhe.

Geffuit paa wort slott Kaupnehaffn Torstdagen nest efftter sancti botulphi abbatis et confessoris dag aar [et cetera[5]) mdxxi vndher wort signet.

---

602. 21. Júní 1521. á Munkaþverá.

Finnbogi prestr Einarsson fær Gisla syni sínum til fullrar eignar jörðina Fjósatungu í Fjnóskadal, og áskilr sér fyrstum kaup á henni, ef Gísli vilji selja hana.

AM. Fasc. XLV, 6, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Þat giorir ek finnboghe prestr Einarsson Godum monnum viturligt med þessu minu opnu brefue. ath ek hefuir gefit gisla finnboghasyne syne minum alla iordina fiosatungű er liggur i hnioskadal i illugastada kirkiu sokn med ollum þeim gaugnum og giædum eignum ok itavkum sem greindre iordu fiosatungu fylgir ok fylgt hefuir at fornű ok nýu ok ec hefuir fremst eigande at ordit sem bref þar vm̄ giord wt wíjsa. med þeim skildaga og fororde. at ef adr nefndur gíjsle vill þessa iord fiosatungű nockrum selia edur burt fa þa skil ek þat til at hann fǻe mier nefnda iord fiosatungu fyrstum aptur til eignǻr fyrir suo mykla peninga sem ockur badum vel semur. Ok til sanninda hier vm̄ setur ek mitt incigle fyrir þetta bref er skrifuat ok giort var a munkaþueraa j eyafirde. faustudaginn næstań fyrir ionsmessu bap-

1) ethwo lxxii, 2 (*rétt:* ehwo). 2) leiðrétt; hand 745; hands lxxii, 2. 3) [nockre mathe lxxii, 2. 4) [lxxii, 2; wsæmte 745; 5) [domini lxxii, 2.

tiste vm sumarit. arum epter guds burd þusund fimm hundrut tuttugu ok eitt aar.

---

603. 2. Júlí 1521. á Öxarárþingi.

Tylftardómr út nefndr á Alþingi af Erlendi Þorvarðssyni, „er þá var samþyktr lögmaðr fyrir austan og sunnan á Íslandi“, um gjafir Vigfúsar Erlendssonar til Salgerðar Snjólfsdóttur konu sinnar.

A.

JSig. 66. 8vo með hendi Grunnavíkur-Jóns c. 1740 „Ex originali. collatum. frá Syslumannenum Jone Benedictssyne sendt mier 1740“. Fyrir bréfinu höfðu verið 8 innsigli, af þeim voru 1740 „ei epter nema þriu broten“.

vm þat sama feste kross (!) veri betri enn þat
silfur er hann hafdi fyrir henne fargad þa
skylldi þat koma nidur ȷ þeim x^c er
hann gaf henne ȷ tilgiauf.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heyra sen̄der eirekur þorsteinsson. ȷon þorvardsson. Rvnollfvr þorsteinsson. tvmas ȷonsson. loptur eyolfsson. olafvr ȷonsson. oddvr þorkielsson. steinn þorgilsson[2]). skvle tvmasson. gvdmvndvr gvdmvnsson. einar eim̄ason[2]) ok kolbeinn andresson kvediv gvds ok sina. at þa er lidid var fra hingatburd vors herra ihesu christi ꝏ. v.c[3]) xx ok eitt ær. þridiudægenn næstan epter peturs messo ok pals æ almennelegu auxarærþingi voru vier ȷ dom nefnder af ærlegum manne erlende þorvardzsyne er þa var laugmadr fyrir austan ok sunnan a islandi. at skoda ok dæma um̄ þær giafer er vigfus erlendzson gaf salgerdi sinne husfrv .lx. hundrada j tilgiauf ok fiordungsgiöf wr fe sinu. Nu at suo prowdu ok fyrir oss komnu dæmdum vier fyrgreinder domsmenn med fullu doms atkvæde adr greindre husfru Salgerdi Sniolfs-

1) „fyrer ofan stendur þetta kannske af vanvara oafskored“ (Jón Grunnvíkingr). 2) Svo. 3) vic, hdr., sem er rangt.

dottur sinn mala vskertan. sem hann kom jnn j fridu ok vfridv ok lx hvndrada j tilgiauf. Nu saker þess at skullder ok akærur komu a fien erfingianna vegna at þeir mundu litla eda aungua vppbera. þui dæmdum vier at fyrnefnd fiordungsgiöf skyllde nidur falla þui oss leiz at hun munde eingeñ verda epter skullda greisluna. Enn fyrir þat sama silfur er fyr nefndur fuse hafdi wt af landenu med sier og hun gæte bíjvisat at hun hefdi att[1]). og nockvd smasilfur[2]) at auk. Nu fyrir þetta sama silfur dæmdum vier fyr greindre Salgerdi þann sama kross er Sniolfur vændiz at fuse hefdi gefit henne j kiaurgrip er hun hafdi þa at hallda til fullrar eignar vpp hiedan sem hun gæte bíjvisat at hun hefdi att. enn þat hun hefdi meira skylldi hvn aptur leggia vnder sin sannende hier vm. silfur eda adra hlute.

Samþyckte þenna Dom med oss fyrgreindr lavgmadur elleñdr þorvardzson ok sette sitt incigle med vorum inciglum fyrir þetta domsbref huert ed skrifad var j sama stad ok ære deige sidar enn fyr seiger.

B.

AM. 191. 4to bls. 37—39 (bréfabók Jóns skálds Hallssonar og Hólmfríðar Erlendsdóttur, rituð samtíða á skinn). — AM. Apogr. 5520.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda eirekur þorsteinsson. jon þoruardzson. rvnolfur þorsteinsson. tvmas jonsson. loptur eyolfsson. olafur jonsson. steinn þorgeirsson. skuli tumasson. gudmundr gudmundsson. einar jmason. oddr þorkelsson. kolbeinn andresson. kuediu gud(s) oc sina. at þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jhesu christi ꝏ. vc. xx og eitt þridiudægen næsta epter peturs messo og pals a almenuelegu axararþingi voru vier j dom nefnder af ærligum manni erlendi þorvardzsyni er þa var samþycktur laugmadur fyrer austan oc sunan á jslandi at skoda og dæma vm þær giafer er vigfus erllensson gaf salgerdi sinni hvsfrv sem var .lxc. j tilgiof oc fiordvngsgiauf vor[3]) fe siñu.

1) Hér stendr í 66, en er aptr útstrykað: „er hun atte sem var x aura kross og godar koparfestar. gull hveur er keypt var fyrir lest skreidar tuær silfurskeider“. 2) Hér stendr í 66, en útstrykað: „er fyrnef“. 3) Svo = *úr*.

Nu at suo provodu ok fyrer oss komnu dæmdum vier fyrgreinder domsmenn med fullu doms atkuædi adr greindre husfrv salgerdi sniolfsdottur aptur sinn mala uskertañ sem hann kom jn j frid(u) oc ofridu .lxc. j tilgiauf. Nu saker þess at skullder oc akærur komv a fen erfingiann(a) uegna at þeir mundu litla eda aungv(a) peninga uppbera þui dæmdum vier at fyrnefnd fiordungsgiauf skylldi nidrfalla þui oss leiz at hun mundi eingen verda epter skullda afgreidsluna. En fyrer þad sama silfur er fyrnefndr vigfus hafdi vt af landiñu med sier og hun gæti biuisat at hun hefdi att. Nv fyrer þetta sama silfur dæmdvm vier fyrgreindre salgerdi þan sama kross er sniolfur vændiz at adr nefndr vigfus hef(d)i gefit henne j kiaurgrip ok hvn hafdi þa at hallda til fullra(r) eignar upp hiedan. En þat sem þesse kross væri betre en þat silfur sem hann hefdi fyrer henni fargat skylldi þat koma nidr j þeim .lx.c er hann gaf henne j tilgiauf. Enn allt þad er hun hefdi meira at hallda þa skylldi hvn þat allt aptur leggia silfur edra[1]) hlute under sin full sanendi.

samþyckti þena vorn dom fyrgreindr erlendur þoruardzson logman og sette sitt ȷnscigli med vorvm inciglum fyrer þetta domsbref huert et skrifad var j sama stad og are deigi sidar en fyr seigir.

---

**604. 4. Júlí 1521. fyrir utan Túnsberg.**

Bréf Ögmundar biskupsefnis til Magnúsar biskups í Hamri, þar sem hann skýrir honum frá því, að hann hafi verið á konungs fundi „um helga líkamans dag“ (= dýradag = 30. Maí 1521) og feingið hjá honum góð erindislok, sendir Magnúsi biskupi útskript af bréfi konungs og biðr hann að koma sem fyrst til Björgynjar upp á vígslugerð sína, því að hann vilji sem fyrst komast til Íslands.

MSteph. 27. 4to bls 8—9 með hendi Benedikts lögmanns Þor-

1) Svo = edr adra.

steinssonar c. 1720. — Landshókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur BrefaBok Biskups Ogmundar". — AM. Apogr. 2782 með hendi Árna Magnússonar.

[Bref Magnuse á Hamre tilskrifad[1]).

Reverendo in Christo Patri et Domino. Domino Magno divina gratia ad sacram Hamarensem cathedralem antistiti hæc litera præsentetur cum humilitate et cetera. Salutem in eo qvi est fons et origo totius bonitatis.

Kiærliga tackar eg ydare[2]) nad fyrer allt vel giort til mig og mijn dreing. nær gud vill eg verdskullde. ma ȷdar nad uita. ad eg uar hoss min herra[3]) kongiñ[4]) um helga lijkamans dag[5]) og fieck eg hans nádis uilia og samþicke uppa þad Erende sem eg uar ut for sendur af Erkebiskupinum. þui sende eg ȷdur utskrifftum̃ af hans nadis brefe til ȷdar og annara ȷdra medbrædra sem hlyder uppa mijna vigslugiord. þui þægia[6]) eg giarnañ ad ȷdart Elskuligt faderne uillde sem snarast omaka ydur til Beren. so at[7]) eg mætta[8]) sem first med guds miskun koma heim til Jslandz i gen. þad uillda eg giarnañ med ydri[9]) nad verdskullda nær gud uill ad ek[10]) kom̃ur[11]) til magt. kann min dreing seigia idur nockud þad eg skrifa ecke. Ej meira um̃ siñ.

Her med bifolum[12]) uier ydarn hejdur. lijf og sal allzmegtugum̃ gude. ȷungfru Mariæ og ollum̃ helgum̃.

Skrifad utanfor Tunsberg in Translatione beati[13]) Marthini Anno 1521.

---

605. **12. August 1521.** **á Hólmum.**

Máldagi um landamerki Melrakkaness í Geithellahrepp í Suðrmúlasýslu í transscripto þriggja manna eptir máldaga(bók) Þykkvabæjarklaustrs í Álptaveri (**Falsbréf**).

Eptir afskript með þekkjanlegri hendi Pétrs Sveinssonar, prests

1) [Sendebref 62, 2782. 2) 62; ȷdar 27. 3) 62; herr 27. 4) kongen 62, 2782. 5) þ. e. 30. Mai. 6) 62, 2782.; þæge 27. 7) leiðr. AM. fyrir *oc*. 8) 62; mætte 27. 9) ydar 2782, 62. 10) 2782, 62; jeg 27. 11) kome 62. 12) 62; befolum 27. 13) Sancti 62, 2782.

Pétrssonar á Hofi í Álptafirði, c. 1824. Afskript þá fékk eg frá Haraldi Briem á Búlandsnesi $^{8}/_{3}$ 1893. — Bréf þetta hefir öll einkenni þess, að það sé falsbréf. Í fyrsta lagi er það ekki mjög líklegt, að máldagabók Þykkvabæjarklaustrs hafi verið austr á Hólmum 12 Aug. 1521. Í öðru lagi verðr ekki séð, að Þykkvabæjarklaustr hafi nokkurn tíma átt jörðina Melrakkanes. Í þriðja lagi var Árni Magnússon ekki prestr á Hólmum 1521. Hann varð fyrst prestr þar 1583 Í fjórða lagi er transscriptum dagsett að mánaðardagatali, en ekki messutali, sem er afargrunsamlegt í íslenzkum bréfum enn 1521. Í fimta lagi er orðfæri transscripti ískyggilegt og afkáralegt, einkum í niðrlaginu. Bréf þetta er að líkindum saman sett nálægt miðbiki 18. aldar, á meðan menn mundu enn til þess að Jón Þorláksson (d. 1712) hefði einhvern tíma verið sýslumaðr í Austfjörðum, en þó verið búnir að gleyma, hvenær hann var uppi. Jón Arnórsson var lögsagnari Hans Wiums í miðhluta Múlasýslna 1769—1778. Þó er ekki óhugsandi, að hann hafi einhvern tíma framið eitthvert dómstarf í syðsta hluta sýslnanna, en hvort sem væri, þá bætir það ekkert úr göllum þessa bréfs.

Máldagi Melrackaness[1]).

Þad medkénnum vér Arni Prestur Magnusson, Einar Hjðrleifsson og Oddur Teitson, Anno 1521, og giðrum góðum mðnnum kunnugt, ad vér hðfum sied og ýfirlesid eiginn Máldaga Þickvabæar klausturs, ord fyrir ord, sem hér eftir fylgir:

Melrackanes á Landeign ad Bragdavallar Gili, enn Beit ad Jðkulgili, Siónhendíng uppá Tumás øxl, og ofanad anni og útá Hilinn, og allar Fossbreckur, og af Fossbreckum og útá Berghilinn, og af Berghil og í Línghólma, og úr Línghólma og útj Stein þann sem stendur ei ðrt i midium Leirum.

Jtem, Sanda alla út frá sðgdum Steini og ad Sands Enda, og sama Rif sem kastad er upp i milli Jskills eyar og Lands og út ad Hvalskérium, og Sanda alla vestur ad Osi, þar sem hann hefur fallid ad fornu lagi, og allar Víkur innad Stecká, og inn med ðllum Skudum ad fyrrnefndri Tumás øxl, Siónhending upp frá Stecká, Enn Beit ad Grásteini, og nordur frá Tumás øxl þar til vðtnum hallar;

Jtem á Melrackanes Strángs Eyri i midium Fjrdi.

1) Utan á afskript Pétrs.

Jtem Skóg í Háls Jörd er heitir Skialdar Endi, um̄ tvenna Læki uppá Fiallinu, enn nordur um̄ nidri.

Jtem hálfa veidi i Hamarsá móts vid Hálsmann;

Jtem Skóg í Geithellra Jörd upp med Þrándará, so lángt upp í Fiall sem Skógur vegs útá Þrándarholt, og so ofanad Geithellraá.

Og til meiri stadfestu hér um̄ setium̄ vér vor Jnnsigli hángandi vid þetta Bref hvört ed skrifad var á Hólmum i Reidarfiyrdi þann 12ta Augustij. Datum sem fyrr seigir.

Var þetta Bréf upplesid og auglist a Geithellna þingi Anno 1590 þann 7da Junij —

Jón Thorláksson Gisli (eyða)
Benidict Jónsson

Upplesid fyrir Manntalsþings Rétti á Geithellrum d. 7da Aprilis.
Testerar J. Arnórsson

---

**606.** **28. August 1521.** **í Björgvin.**

Bréf Ögmundar biskupsefnis til Magnúsar biskups í Hamri, sem forfallast hafði sökum áhlaups Svía að fara til Björgynjar, þar sem hann biðr hann meðal annara orða um að koma til Björgynjar til framkvæmdar vígslu sinni, því að biskupsefni kveðst vera „ganske skyldug orðinn“.

MSteph. 27. 4to bls. 9 með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur Brefa Bok Biskups Ogmundar“. — AM. Apogr. 2783 með hendi Árna Magnússonar.

Annad sendebref til sama Biskups[1]).

Salutem in Domino sempiternam.

Kiærlega þackar eg ydur fyrer allt vel gert. ma ydar nād vita ad eg fieck ydart bref i buoriu eg fornam ad i hofdud[2]) forfall og herra Electus i Oslo hefde rādid ydur og forboded ad fara nockurn stad þennan̄ tid. saker þeirra Suenskra. og saker þess ad [ek veit[3]) ydur hefur nu fātt

1) þ. e. Magnús biskups af Hamri „Sendebref“ er fyrirsögn í 62 og 2783. 2) hefdit 2783, 62. 3) [b. v. 2783, 62.

fulla uissu um þeirra ahlaup uppa þenna tid. þui bid eg ydur audmiuklega ad lata mig uita nær ydar nad uill omaka [sig hit[1]) ad. og fullgera vors [herra nadugasta[2]) kongsens og Erchebiskupsens bref og bodskap uppa mina Consecrationem. Bid eg ydart Elskulegt faderne og hejdursamlegt herradæme for heilag Trifaldigheit og sancte Thorlacs skulld ad uilied uirdast til ad fullgera mitt erende datt firsta sem i[3]) kunned. þvi eg er ganske skylldug[4]) ordenn. Enn domkirkiañ hefur vaxerad i mang ár sem ydar nád ueit. Enn þar sem[5]) ydar nad skrifar um̃ Biskupsens fráfall i Stafangur. er þad entet. þui hann er til[3]) reidubuenn natt eller dag þegar hann fornemur ad ydar nád dregur til Beren. gered nu her um̃ sem eg hefur alla goda von til ydar. og eg vil giarnañ verdskullda nær gud gefur mer magt til.

Cum his paucis vos et vestrum consilium altissimus in prosperis observare dignetur.

Scriptum Bergis die Sancti Augustini episcopi et confessoris Anno domini M⁰ D⁰ xxı⁰.[6])

---

**607. 28. August 1521. í Björgvin.**

Bréf Ögmundar biskupsefnis til Mattísar biskupsefnis í Ósló, þar sem hann biðr hann að eiga góðan hlut að því, að Magnús biskup af Hamri komi sem fyrst til Björgynjar að framkvæma vígslu sína.

MSteph. 27. 4to bls. 9—10, með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720. — Landsbókasafn 62. 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns „Ur BrefaBok Biskups Ogmundar“. — AM. Apogr. 2784 með hendi Árna Magnússonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“.

1) [62 2783; her 27; 2) [kiæra nadugasta kerra 62, 2783. 3) þ. v. 62, 2783. 4) skulldug 27. 5) sl 62. 6) „Sine nomine tam scribentis qvam illius ad qvem scriptum est. Est autem Ogmundi ad Episcopum Hamarensem, seqvebaturqve immediate in libro, literas Ogmundi ad dictum Episcopum Hamarensem datas apud Tunsbergum in translatione S. Martini 1521“ (AM).

Sendebref.

Salutem plurimam [et cetera[1])

Mikelega þackar[2]) eg ydur kiære herra Electe[3]) fyrer ydart skrifelse og uelgierning i fiord. er eg var hoss ydur. meiged vita ad[4]) eg hefe haft snara[5]) reisu[6]) mikeñ hid og didt. var eg hos vorn nadugasta herra konunginn. og fieck eg hans nǻdis vilia. hille og samþicke med bref og innsigle uppa þad erende sem eg var ut fyrer sendur af domkirkiunne i Skalaholti. þui bid eg ydur audmiuklega enn sem firre ad hialpa mig fatækañ med ydar[7]) ord og tillogur vid biskup Magnus i Hamar ad hann uilie[8]) gera sem verdug herra og omaka sig med tad allra firsta hit[9]) til Beren uppa vora consecrationem effter vors nǻdugasta herra kongsens brefe. huad eg hefe mang og merkeleg erende til Jslandz med tad allra firsta konungsins vegna og krununnar sem hann bifalade[10]) mig sialfur i Danmarck. gered nu her um̃ sem eg hefe alla goda tru til ydar. Hialped min dreing kiære herra um̃ vegabref og tærepening til baka um̃ hann kann treingia.

Non plura ad præsens sed vos et vestrum statum altissimus in prosperis observare dignetur.

Scriptum in Bergis ipso die sancti Augustini episcopi et confessoris Anno domini M° D° xxı°.[11])

---

608. **1. September 1521. Í Otrardal.**

Bjarni Andrésson fær og gefr Helgu Gísladóttur jörðina Geirseyri í Bæjarkirkju sókn á Rauðasandi með tíu kúgildum til æfinlegrar eignar og frjáls forræðis, og skyldi þessi gjöf snúast upp í hans fjórðungsgjöf og aðrar hans löggjafir, sem erfingjar hans mætti ekki upp á tala.

AM. Apogr. 2778, með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM).

---

1) [b. v. 2784. 2) þacka 62. 3) Electus 62, 2784. 4) b. v. 62, 2784. 5) suara, vill AM. leiðrétta 2784. 6) reisur 2784. 7) ydur 2784. 8) villde 62,2784. 9) b. v. 62 2784. 10) befalade 27. 11) „Est Ogmundi ad electum Osloensem“ (AM).

Þad giore ek Ormur Tumasson godum monnum kunnugt med þessu minu opnu brefe. ad þar var ek i hiå å Hole i Billdudal. så ek og heyrdi ek å ord ok handaband þessara manna af annare alfu Biarna Andressonar. oc af annare alfu Helgu Gisladottur. ad so fyrer skildu ok undertauludu ad greindur Biarne fieck og gaf ådur skrifadre Helgu ȷordina Geȷȷrseÿre er liggur i Bæiarkirkiu sokn å Raudasande med x. kugilldum til friåls forrædis og æfinligrar eignar undan sier ok sinum erfingium. enn under fyrr greinda Helgu ok hennar erfingia. skÿllde þesse hañs giof oc giorningur snuast upp j hañs fiordungsgiof oc i adrar hañs loggiafer þær sem hañs erfingiar mætte ecke uppåtala. Ok her epter vil ek sveria ef þurfa þÿker. Ok til sanninda her um̃ setta ek mitt insigle å þetta vitnisburdarbref skrifad j Otrardal in festo Sancti Egidii þå er lidid var frå hingadburd vors Herra Jesu Christi M⁰. D⁰. xx. og eitt år.

---

**609. 8. September 1521. í Haga.**

VITNISBURÐR um gjöf Bjarna Andréssonar á jörðunni Geirseyri til Helgu Gísladóttur.

AM. Apogr. 2779, með hendi Orms Daðasonar „Ur brefabok biskups Ögmundar“ (AM).

Þad giore ek Snæbiorn Gislason gődum mǫnuum kunnugt med þessu minu opnu brefe. å Hőle i Billdudal uppå sialfa krossmessu um̃ vored. var ek forsagnarvottur fyrer giorninge þeirra Biarna heitins Andressonar ok Helgu Gisladottur ad greindur Biarne gaf Helgu Gisladottur jaurdena Geȷȷrseÿre er liggur j Bæiarkirkiu sokn å Raudasande. ok þar til x. målnÿtu kugillde til æfinlegrar eignar undan sier ok sinum erfingium enn under fyr nefnda Helgu. Skÿllde þesse hans giof og giorningur snuast i hañs fiordungzgiof. eda j adrar hañs loggiafer þær sem hañs erfingiar mætte alldre reingia nie uppå tala ad laugum. főr þesse giorningur fram̃ med fullum handsolum þeirra j millum. Ok til

sanninda her um setta ek mitt insigle fyrer þetta vitnisburdarbref. skrifad j Haga á Bardastrond Mariumessu sidare um hausted þá lidid var fra hingadburd vors Herra Jesu Christi M.º Dº. xxº. ok ıº. ár.

---

610. **14. September 1521.** **Í Skógi.**

Þórkatla Árnadóttir geldr og fær Jóni Dagstyggssyni, syni sínum, „ábóta að kendr er," í sín þjónustulaun allan þann part í jörðunni Hlíð í Kollafirði, er Árna syni hennar bar til erfða eptir Dagstygg Jónsson föður sinn, en hún hafði haft fyrir Árna þar til hann lézt alt í frá láti föður hans, og Jón unnið hjá henni kauplaust í níu ár, frá því faðir hans dó.

AM. Fasc. XLV, 11, frumrit á skinni og er innsiglið dottið frá — AM. Apogr. 1501.

Þat giore ec bergur tumason godum monnum kunekt med þessu minu opnu brefi at ec uar þar ȷ hia sa ec og heyrda ec þar a at þorkatla árnædotter galltt sẏne sinvm Joni dagstẏgssẏne abotta at kendur er allan þann partt ȷ Jordune hlid ȷ kollafirdi ȷ fellzkirkiv sokn er arna syne sinvm bar til erfda epter dagstẏg heiten ȷonsson faudur sin sem gud hans sal nadi til fvllrar eignar og frials forrædis vndan sier og sinum erfingium aullum audrum en fẏr skrifudum Joni. en under jon son sinn abota og hans erfingia. Lysti hun þui þa þar fyrir mier og tilskildi ȷ þeirra handabandi at þennan ȷardar partt gylldi hun honum ȷ sin þionuztulaun. upp á þau .ıx. ær er hann hafdi hia henne vered og ecki kaup neitt upp borid. sagdizt þorkatla hafa hapt fyrir adur nefndum omaga arna. fra þui er fader hans fiell fra og til þess er gud kalladi hann. og þui uisse hun eigi betur en suo at hun mætti þennan ȷardar partt fá til eignar huerium sem hun uilldi. for þesse giorningur fram ȷ hlid J kollafirdi. en til meire stadfestu og sanenda set ec mitt Jnnzigle fyrir þetta uitnesburdarbref huertt er skrifad uar ȷ

skogi ȷ middaulum. krossmessu um haustid. þa lidit uar fra guds bwrd. ꝏ. v. c. og. xx. og eitt ár.

---

611. 29. September 1521. á Skarði.

Vitnisburðr, að Jón Sigmundsson hafi enn aptr að nýju feingið og goldið Gottskalk biskupi jarðirnar Hól og Bessastaði í Sæmundarhlíð með jáyrði og samþykki Bjargar Þorvaldsdóttur konu sinnar (**Falsbréf**).

Bréf þetta er prentað hér eptir Morðbréfabæklingum Guðbrands biskups: a) hinum II. Hólum 1595 og Reykjavík 1903, bls. 93—94, og b) hinum III. Hólum 1608 og Reykjavík 1904, bls. 155—156. — Afskript af bréfi þessu er og í Syrpu Guðbrands biskups í Biskupsskjalasafninu (= c). Sbr. Nr. 125.

Skilrijkid fyrer hole og bessastodum þeirra gotskalks nidia.

Þad giorum vier[1]) Olafur Hallsson og Eyolfur Eyolfsson godum Monnum viturligt med þessu ockru opnu briefe ad vid vorum vidstadder a Þijngeyrum i Hunavatz Þinge vm Haustid. Þa Byskup Goskalk reid i Visitatiu. þa Jon Sigmundzson fieck og gallt nefndum Byskup Goskalk enn aptur ad nyu Jardernar Hol og Bessastadi i Sæmundarhlijd j Reyneness stadar Kirkiusokn. med Handsøludu jayrde og Samþycke sinnar Kuinnu Biargar Þorualldzdotter. til fullrar Eignar. eptir þui sem bref þar vm giort þar vm vtuijsar. hier epter vilium vier Sveria ef þurfa þiker. Og til sannenda hier vm. setium vid fyrr skrifader Menn ockar Jnsigle fyrer þetta Brief giort og vtgiefid a Skarde i Langadal. a Mickaels Messu sialfa. þa lidid var fra hingad burd vors Herra Jesu Christi ꝏ. d. xxj Aar.

---

1) sl. *c*.

612. **30. September 1521. á Holtastöðum.**

Gottskalk biskup á Hólum gefr Jóni Þorvaldssyni ábóta á Þingeyrum umboð til að leysa Jón Sigmundsson af því mannslagi, er hann í féll, þá er hann varð Ásgrími Sigmundssyni, bróður sínum, að bana í kirkjugarðinum í Viðidalstungu, og Jón hefði meðkenzt (**Falsbréf**, *eitt af morðbréfunum).*

Bréf þetta er áðr prentað í Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum III. Hólum 1608 og Reykjavík 1904, bls. 144—146, en er hér tekið eptir AM. Apogr. 696 $\alpha$, stafréttri afskript eptir frumfalsbréfinu. Lætr Árni Magnússon þar fylgja þessa athugasemd með hendi Hans Beckers: „Þetta er innsigle Gottskälks Holabiskups under falsbrefinu um umbod, giefed Jone abota Þorvalldssyne til ad afleysa Jon Sigmundsson af brodurdräpinu 1521. nefnelega hins fyrra Gottskälks biskups bref hefur vered upp skafed og skrifud ä aptur þesse lygd. Þad er audsied ä brefinu ad þad er uppskafed, og skrifad ä aptur. Þetta innsigle er annars fyrer þeim so nefnande original so ä sig komed sem epter fylger: Sancta sem i þvi situr er i þessum original skir. Hægra megin af jnnsiglenu er skriften öldungis bur(t)brotin. Jtem nedan af Jnnsiglinu, allt þad sem er fyrer nedan fæturna á Sancta, nefnelega figuran og þeir tveir smäu krossar. þetta er, so sem sagt er, allt burtbroted, og allt . . . sem hier er allæselelegt. Hiner aller Staferner, sem hier eru punctader, eru litt læser i þessum original, ad skilia til ad gjöra ur þeim ord, en ductus synast þo skirer helldur enn ecke og ad visu eru þeir hvörke fleire nie færre. Ecke gietur hann Sæmundzzson (!), nema originallinn sie of rangt stungenn. Þad sem i originalnum er burtbrotid, er hier fyllt ur ödru innsigle gottskälks biskups hins fyrra, allt eins giordu, og þetta hefur vered, adur enn þad brotnade". Mynd af innsiglinu er á miða, sem liggr hjá afskriptinni. Um þessi bréf í heild sinni (Apogr. 693—697) segir Árni: „Þetta eru Copiur af falsbrefunum. Eg þyrfte ad skoda betur þä so kölludu originala". — AM. Apogr. 3958 eptir transskripti á pappír frá 1594; Apogr. 696 $\beta$ „Epter ovidimeradri copiu á pappir" (AM). — Bps. 4. 4to bls. 213 og 218 (Syrpa Guðbrands biskups = c og d, með hans eigin hendi). Landsskjalasafn 94. 4to bl. 41 b með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600 (= e „Nu epter fylgia þau Bref Biskup heldur Login"). Texti prentaða bæklingsins er hér kallaðr *b*.

aflausn Jons Sigmundssonar.[1])

[Uj gottskall[2]) med gudz nad biskup at[3]) holum giorum[4])

1) 696 $\beta$; þad herlega goda hrefit vm Jon Sigmundsson og brodurdrap hans, c. 2) [Vier Gottskalk 3958, d; Vj Gottskalk c; sl. Vj 94. 3) a, 3958, b, c, d. 4) giori d.

þat godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at vier hofum feingit jone [þorualldssyni[1]) abota a þingeyrum vortt fullt ok [logligt[2]) vmbod ok biodum honum skylldugliga at afleysa jon sigmundsson af þui mannslage er hann j fiell [þa er[3]) hann vard asgrime sigmundssyni brodur sijnum ofyrersyniu[4]) ad skada j kirkjugardinum a[5]) videdalstungo[6]) [þui hann hefur þat kienst fyrer mier og[7]) fleirum godum monnum hiaverundum[8]) ok setia[9]) honum skripter[10]) epter þui sem heilog kirkiunnar log þar vm gior vt uisa. þui hann hefur [med oss vm peninga segt so[11]) forlikast[12]) sem oss vel a næger. ok til saninda hier vm settum[13]) wier[14]) vortt jnncigle fyrer þetta bref [vtgefit a holltastodum j langadal næsta daga epter michaelsmesso[15]) anno domini [ꝏ d xx ok eitt[16])

---

## 613. 30. September 1521. á Holtastöðum.

Vitnisburðr þriggja manna, að þeir hafi verið við staddir, þá er Jón ábóti Þorvaldsson tók umboð af Gottskalk biskupi að leysa Jón Sigmundsson af mannslági því, er hann féll í, þá er hann varð ófyrirsynju Ásgrími Sigmundssyni að bana í kirkjugarðinum í Víðidalstungu, og Jón meðgekk fyrir biskupi og mörgum góðum mönnum **(Falsbréf,** ***eitt af morðbréfunum).***

Bréf þetta er áðr prentað í Morðbréfabæklingi Guðbrands biskups hinum III Hólum 1608 og Reykjavík 1904, bls. 143—144, en er tekið hér eptir ÁM. Apogr. 697, sem er afskript gerð stafrétt eptir frumriti falsbréfsins, en texti þessi eins og hann kemr fram í bæklingnum hjá Guðbrandi biskupi er í orðamun hér neðanmáls kallaðr

1) [sl, c. 2) allt, d. 3) [sl. 3958, b; [þegar c. 4) oforsyniu d. 5) j, b, c, d. 6) vidudalstungu c, d. 7) [b. v. 2958, b. 8) [sl c. 9) setie 3958 10) skript 3958. 11) b. v. d. 12) [vm peninga sekt so vid oss forlijkast c. 13) setium 3958, b, c, d. 14) vij b. 15) vm Hausted, b. v. b 16) 1521, b. d; [giefit a holum j hialltadal. þridiudagin næstan fyrer purificacionis S. marie anno m. cd l[átralið útstrykað] domini (!), *c.* Þessu bætir Guðbrandr biskup aptan við: „þá vér vorum dauðir fyrir einu ári“.

*b.* Til hliðsjónar eru ennfremr hafðar þessar afskriptir: AM. Apogr. 3957, eptir transskripti á pappír frá 1594; syrpa Guðbrands biskups í Biskupsskjalaaafni c. 1600 (= c) og Landsskjalasafn 94. 4to, III, bl. 41b með hendi Jóns lögmanns Sigurðssonar c. 1600.

Þat giorum uid[1]) þordr biarnason[2]) andres gvdbrandzson[3]) einar ionsson godum monnum uiturligt[4]) med þessu voru opnu brefe at vid[5]) vorvm vid þa abote ion þorvalldsson tok vmbod af biskup gottskalk til at afleysa ion sigmundsson af þui mannslage er hann fiell j þa hann vard asgrime sigmundssyni broder[6]) sinum ofyrersyniu[7]) [ad at[8]) skada j kirkivgardinum j videdalstungu og hann medgieck fyrer biskupinum og morgum odrum godum monnum. Og til sanninda hier vm setivm vier fyrrskrifader menn vor insigle fyrer þetta vitnisbref[9]) vt giefit á holltastodum j langadal næsta dag eptir sancte michaelz[10]) messo anno domini[11]) [ꝏ dxxı.[12])

---

## 614. 30. September 1521. á Breiðabólstað.

Dómr tíu klerka og tveggja leikmanna útnefndr af Jóni Einarssyni officialis heilagrar Skálholtskirkju um þau tíu kúgildi, sem Árni ábóti Steinmóðsson, guð hans sál náði, bygði síra Jóni Arasyni fyrir tveimur árum, en heilög Skálholtskirkja átti og hafði hvorki af feingið leigur né ábata.

Bisk. Skálh. XIX; 53, frumrit á skinni. 4 innsigli hafa verið fyrir bréfinu, og eru öll dottin frá. — AM. Apogr. 2395 „ordriett" með hendi Árna sjálfs.

Domur um kugillda klagan af sira ione einarssyne
Anno 1521.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda þorleifur eireksson officiales. jon gislason profastur. bryniolfur halldorsson. þorsteirn ȷonsson. fuse runolfsson. gudmundur arnason. jon biornson. sueirn þorarinsson. sala-

1) vier, b. 2) Biarnarson, b. c. 3) Gudmundsson, b, c. 4) kunnugt, b. 5) vier 3957, b. c. 6) brodur 3957, b, c. 7) oforsyniu c. 8) [þannig 697; ad 3957, b. c. 9) þannig 697; vitnisburdarbref 3957, b, c. 94. 10) Michaelis 3957, 94. 11) sl. c. 12) [M. D. XX og eitt 3957; 1521, b, c.

mon heinreksson. are steinolfsson. klerkar skalhollz biskupsdæmis. jon eireksson. biorn arnorsson. leikmenn. kuediu guds og sina kunnigt gioraňdi ad sub anno gracie ℳ⁰. d. vigesimo primo. a breidabolstad ȷ fliotzhlíd manudagenn næsta epter michelsmessu vorum. vær ȷ dom nefnder af ærlegri personu sera joni einarssyni officiali heilagrar skalhollz kirkiu. til at skoda og rannsaka og fullnadardom æ at leggia vm̃ þa aklagan, sem sera jon einarsson klagadi uegna heilagrar skalhollzkirkiu. um̃ þau .x. kugilldi. sem aboti arne steinmodsson. gud hans sal nade. bygdi sera joni arasyni fyrir tueimur næst forlidnum arum. enn heilvg kirkia huorki fengit leigur ne abata. voru peningarner utheimter nu ȷ vor et uar og fienguzt ecki. af logligum̃ um̃bodsmanni sera jons arasonar. var um̃bodsmaduren sera jon guttormsson þar þa stefndur logliga af greindum officiali. suo uier heyrdum um fyrr nefnt fiarhalld. Og at heilags anda nad til kalladri. at suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum uær fyrr nefnder domsmenn med fullu doms atkuædi siera jon guttormsson skylldugañ at greida um̃bodsmanne heilagrar skalhollzkirkiu. vegna siera jons arasonar þesse somu kugillde ȷnnan sioundar med leigum og leiguleigum fyrra arit. Enn med fullum laga avexti seirna arit sidan heimt uar og ecki fienguzt peningarner. tuo fiordunga smiors epter huert kugillde. og halftunnu skyrs og halftunnu syru og iij. vætter ullar epter oll kugillden. Enn heilagri skalhollz kirkiu .lx. marka ȷ sitt fullrietti. Skylldi þridiungur gialldazt sektafiarins ȷnnan manadar heima ȷ skalhollti at heyrdum dőmenum. annar at næstum fardogum. allt golldit at michaelsmessu at odru hausti. Og til sanninda hier um settum vier fyrrnefnder domsmenn vor ȷnnsigli fyrir þetta domsbref skrifat æ nupe j eystra hrepp in profesto dionisii a sama ari sem fyr seger[1])

---

**615. 6. Oktober 1521. í Kaupmannahöfn.**

Kristján konungr annar skipar Hans Eggertsson hirðstjóra yfir Ísland.

1) þ. e. 8. Okt.

Landsbókasafn 72. 4to bls. 630—631 með hendi sira Jóns Halldórssonar í Hitardal 1725 „skrifad effter originalnum". Prentað í Lagasafni Magnúsar Ketilssonar I, 172—173 og Finni Johannæi Hist. Eccl. Isl. II, 258.

Christiani secundi Embættis Bref Hannes Eggertssyne fyrer hirdstiorn a Jslande. utgefed Anno 1521.

Christiern met guds nade Danmarkis. Sverrigis. Norgis. vendis oc gothis koning. Hertug i Slessvig. Holsten. Stormarn oc Dytmerschen. greffve i Oldenborg oc Delmenhorst. helse Ether oss Elskelige verdige father. Bisper. vore lensmend oc menige almue. som bygge oc boe paa vort land Jsland kerligen met gud oc sancte Oluff konge. vider kiere venner. at vii haffve thilltroet oc befalet thende Breffviser oss elskelige Hans Eggertssön at vere vor Embitzmand ther paa Jslandt og ther met Ether alle oc menige Jsslender udi verd oc forsvar ad haffve. Thi bete oc biude vii ether alle oc hver. serdelis at j vere hannem paa vore vegne hörige og lydige. fölgachtige oc biistandige giörendis oc giffvendis hannem hviss sagerøre. landgielde. gesterii oc all anden rettighet. som j oss og Norges krune plichtige ere oc aarligen at giffve oc giöre. Hand skall holde Ether alle vedt sancte Oluff konings lög oc gode gamle sedvaner oc ingen aff Ether at uforrette i nogen mader. Serdelis bete oc biude vii ether alle fornte vor lensmand. at til gode rede antvorde fornne oss Elskelige Hans Eggertsson vor Embitzmand hviss skatt oc töld. som j offver alt Jsland upboret oc indtaget haffve. hand skall siden ythermer giöre oss ther reide oc regenskab fore. og lader thet ingenlunde. Her met Ether gud befalendis oc sancte Oluff koning.

Sgiffvet paa vort slot Köpenhaffn söndagen nest effter Sancti Francisci dag det aar 1521.

Under vort Signeth.

---

616. **21. Oktober 1521.** **á Ökrum.**

Grímr Jónsson lögmaðr norðan og vestan á Íslandi skipar til næsta Öxarárþings Jóni Þórðarsyni konungsins sýslu og

umboð milli Hvítár og Skraumu, eptir því sem áðr nefnt konungsins umboð var mér nú í sumar tilsagt upp á Öxarárþingi".

Dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni bls. 92—93, skr. c. 1608.

Eg Grimur Jons(son) Laugmann Nordan og Vestan á Jslandi heylsar aullum Godum mönnum sem Byggia og Bua millum huitar og Skraumu, med Gudz kuediu og minni.

vil eg ydur viturligt giora. at ec hefi vnt og veitt ærligum dandi manni Jone Bonda Þordarsyni mins herra kongsins syslu og vmbod hier med ydur. suo sem fullmectugvm syslumanni ber ad hafa. med skottum og skylldum og aullum þeim riett og rentu. sem kongdominum til heyrir. og eigi er laugligur sattmali á kominn. Skal hann smærri og stærri (mal) sætta og semia. sekta og nidursetia. fyrir sig stefna. profan (a) taka. og doma yfer nefna. þar sem þess þarf med. Skal hann og eiga vj marka mal aull og þar fyrir jnnan sier (til) vidlettis fyrir sitt starf. Enn ef stærri mal kunnu til ad falla. sem Gud lati færri enn fleiri. þa skal hann þau sækia vndir kongdominn og giora mier þar riettan reikningsskap þar af. Skal hann og mins herra kongsins jardir Byggia j greindu takmarki. Viseyri saman taka eda taka lata og flytia til næsta auxararþings. og giora mier þar riettan reikniningskap ad aflucktum nefndarmonnum sitt þingfararkaup. Skal hann og afvenda þeim greindan kongsins skatt. sem þa er laugligur vidtaukumann mins herra kongsins vegna med minv vitordi og annara Godra manna. Suo og skal fyrrgreindur Jon Þordarson fullt vmbod til hafa þeim monnum dag ad gefa. sem j vandrædi kunna ad falla edur fallit hafa. og Boda. þeim til min sem skiotast kunna þeir. þeim sem á kirkiunnar nadir komast. Bid eg tittnefndan Jon ad hann tali laug og riett til huors mannz þo med vægd og myskunn þar sem þad til heyrer. enn þrioskum og þralyndum sie hann riettur domari og refsingasamur. Bidur eg alla Goda menn vm og sierdeilis mins herra kongsins vinj og mina ad þier sieut greindum Jone

Greidir og goduiliuger medan hann stendur j þessu mins herra kongsins starfi og vmbodi og latid hann vel og ʀeidugliga ad komast þeim Goduilia. sem þier vilied honum giort hafa. Skal hann þessa mins herra kongsins syslu og vmbod hafa til næsta auxararþings. Eptir þui sem adur nefnt kongsins vmbod var mier nu ȷ sumar til sagt vpp ꝏ̃ auxar(ar)þingi. med laugriettumanna ʀadi og samþycki allz almugans. sem þar var saman kominn.

Og til sanninda hier vm setta eg mitt Jnnsigli fyrir þetta syslubref er skrifad var ꝏ̃ Aukrum ȷ Blaunduhlid ȷ Skagafirdi. Laugardæginn fyrstañ ȷ vetri Arum eptir Gudz Burd ꝏ d xx og i ar.

---

## 617. [21. Oktober] 1521. [Í Ogri].

Vitnisburðr um heimsókn Ara Andréssonar með tuttugu menn vopnaða eða meira til Núps í Dýrafirði, heimilis Hannesar Eggertssonar, og um óskunda þar og gripdeildir (30. Júní—1. Júlí 1520).

Landsbókasafn 115. 4to I, 303—304 með hendi síra Jóns Halldórssonar í Hítardal c. 1730. Afskript eptir handriti síra Jóns af þessu bréfi er í ÍBfél. 126. 4to bls. 61 með hendi síra Gísla Ísleifssonar í Kálfholti. Sbr. Nr. 584.

Witnisburdur um Heimsőkner Ara og Gudmundar Andressona til Nups i Dyrafijrde Anno 1521.

Þad giőre eg Tristram Buason gődum mőnnum kunnigt med þessu mijnu opnu Brefe. ad eg var heimilisfastur hia Hannese Eggertssýne under Nupe i Dýrafijrdi i þann sama tijma sem Are Andresson kom under Nup um vorid næstu nőtt Effter Petursmessu og Påls um sumarid med flock manna. nær xx edur meir. aller med týum og vopnum þad eg kunne ad merkia. vissa eg ecki þeirra framferde edur giőrninga fyrr enn þeir komu inn skalann. þar eg lå sofinn og vakinn i sænginne og sex menn adrer sem þar heýrdu

til. voru þeir aller med brugdnum vopnum og verium. sem i skalann geingu. kenda eg þar fẏrstañ ara andresson. ad hann kom þar ad. sem eg lá. med vopnum. sló á sængena. og bad mig vaka. og sagde eg hefdi leinge þionad þeim. sem sier hefdu i mot verid. enn eg sagda. ad eg hefde þeim einum þionad sem eg villda vera bijkiendur. reidde greindur Are sijna veriu til hôggs sem eg sá fyrir vijst ad þad hôgg hefde á komid. ef Are hefde ecke verid halldinn af ôdrum monnum. Sá eg þa ad þeir menn adrir sem i skálanum voru af mynum selskap. voru slegner og hôggnir med vopnum af mônnum greindz ara andressonar. Komst eg þa ut ur gardenum og adrer myneṙ fylgiarar. var þa skemman uppbrotin sem þar stód ute. og kosturinn utborinn sa þar var þa inne. Sá eg og út ur kẏrkiunne var borid .x.c skreidar af monnum Ara og i burt. hveria Hannes Eggertsson hafde þar ádur inn sett og hann hafde i kongsiñs sakfelle tekid. og under hans lás lẏst. var þar fliótande Tijæringur fyrir lande. og þar med ij voder vadmals. 4 vætter skreidar og sexæring(ur). er greindur Are i burtu hafde og hañs menn. sex vopn. eina Bẏssu stora. er gyllti vel xx gyllene[1]). einn vagn.

voru þessir menn med tijttgreindum ara i þessare reijsu under Nup Ketell Þorsteinsson. Grijmur Einarsson. Þordur Ketilsson. Jon Erlingsson. Jon Ketelsson. Pall Tumasson. Tumas Gudmundsson. Jon Gijlsson. Rafn Þorvalldsson. Olafur Helgason. Jon Olafsson. Einn þyskur hiet Castian. Jon Jonsson. Jon Ketelsson.

---

618. **21. Oktober 1521.** 1 Ögrl.

Vitnisburðr um heimsókn þeirra bræðra Ara og Guðmundar Andréssona til Núps i Dýrafirði (i August 1520), um viðtal þeirra og Guðrúnar Björnsdóttur, konu Hannesar Eggertssonar, og um óskunda þann og gripdeildir, er þeir þá frömdu.

1) „c: 25 Rd Courant“ á spássiu.

Landsbókasafn 115. 4to I, 304—306, með hendi síra Jóns Haldórssonar í Hítardal c. 1730. Afskript eptir því í ÍBfél. 126. 4to bls. 62—63 með hendi síra Gísla Ísleifssonar í Kálfholti. Sbr. Nr. 584 og 617.

Annar vitnisburdur um adra heimreid þeirra Brædra.

Jtem medkennest eg ádurgeindur Tristram Búason. á sama áre var eg under Nupe nær Gudrun Biörnsdotter kvinna ádurgreindz Hannesar Eggertssonar um sumarid effter Mariæmessu fýrre feck fulla bevijsing. ad Are Andresson og Gudmundur broder hañs voru komnir til alfftamýrar med selskap þess erýndis. ad þeir villdu under Nup. og taka ad sier gardenn. liet fyrrnefnd gudrun Biörnsdotter skrifa Bref og senda sijna eigen menn med til greindra Brædra Ara og Gudmundar. hvad so inne hiellt i millum annara orda. ad Gudrun baud lóg og dóm fyrir sig og alla sijna menn. hier med fyrir alla peninga sijna kvika og dauda. fasta og lausa. sierlega tilgreindañ gardinn Nup i Dýrafijrde og allar þær jarder. er med liggia og greindum hiönum tilheyra Hannese og Gudrunu. Enn effter fá daga lidna komu tijttgreinder Brædur Gudmundur og are heim under Nup med flock manna og flester med týum og vopnum. flude þa Gudrun á kirkiu og so eg ádur skrifadur Tristram Buason. þvi eg kunne hvorge flýa fyrir mijns krankleika saker enn allt annad hennar folk flude gardinn og vogadi óngva þionustu ad veita á gardinum fyrir heitan og umsógn[1]) greindra brædra Ara og Gudmundar. var þa kirkian affturlátin. er þessi selskapur kom heim á gardinn. stód Gudrun þa fyrir kirkiuhurdinne. er are kom ad. og bad hana upp láta enn hun sagde neij fyrir. hlupu þa á hurdena nockrer af þeirra selskap. so hun geck nær upp. hófdust þaug þa ord vid are og Gudrun. lýstu þa þeir Brædur are og Gudmundur (ad þeir) skýlldu greindañ gard ad sier taka Nup og allar adrar eigner er þar til liggia. Baud greind Gudrun Biörnsdotter þa enu sómu bod fýrir sig og sijna menn. sem fyrr seiger sier til fridar og frelsis og óllum sijn-

1) Svo = unnsögn.

um mönnum. enn fyrerbaud allar ölöglegar adtekter og adgiörder ad sier og sijnum monnum. Lýste og offtgreind Gudrun þvi fyrir mier og fleirum ödrum. þo hun hefde orded nockru ad lofa vid greinda Brædur Gudmund og ara. þa giörde hun þad meir fyrir ötta saker. ad hun villde frida sitt folk. so þad mætti blijfa med frij. voru þar og hus upp broten. og ut borin hennar eign. lýsti greind Gudrun Biörnsdotter fullre heimsökn á þa Brædur Ara og Gudmnnd og alla þeirra medfylgiara. Enn effter þennan þeirra skilnad Gudrunar og sagdra Brædra Ara og Gudmundar. töku þeir leigur af 20 kuilldum vestur i fiördum. er nefnd Gudrun átti. enn allar leigur og landskullder annad ár þar effter. og effter þessum mijnum framburde vil eg sveria ef þurfa þicker. og til sanninda hier um þricke eg mitt Jnnsigle fyrir þetta mitt (vitnis)burdar Bref. er skrifad var i Øgre i Jsafijrdi manudaginn næsta fyrir festum Simonis og Taddei[1]). árum effter guds burd 1521.

---

**619. 31. Oktober 1521. í Ósló.**

Landsvistarbréf út gefið af Kristjáni konungi öðrum til handa Ólafi Ormssyni, er orðið hafði að skaða (= vegið hafði) Skúla Þormóðsson.

AM. Fasc. XLV, 1, frumrit bréfsins á skinni með bråkuðu innsigli.

Wij Cristiern met gwtz nade Norges Danmarkes Sweriges wendes ok gottes konungh Hertugh i sletzwiig Holsten stormaren och Dijtmersken Greffwe wti oldhenborgh och Delmenhorsth Sendher ollvm mönnom them som tette breff see ether høre Q(uediu) G(uds) och sina.

wer willom ath thier widher at wer haffwom i heidher widher gvd saker oc gode manne bønistadher och effther thi proffwe och qvitten som han haffde aff koninglige dom-

1) Svo = Judæ Taddæi.

mere och nere som han haffwer qvitteñ aff arwinge hins daude. tha haffwe wij giffuet oluff ormsson som skolæ tormodsson[1]) worth at skadhe offter landtzwiisth och fvlle qvitten a saa motthe at jngen skall macth haffwe hedhen aff om thette moll til at tale i nogen maade nema hwer sem thette gører wille haffwe forgiorth fieæ och friidh och werdhe aldrig mere bothamadher siiden.

wor thette breff giorth i oslo vigilia omnium sanctorum anno domini ᗰd xxj. Herr Hans arildsson canich i osloo [jtem til marie kirke[2]) jnceglede.

---

## 620. 1521.

Skrá um eignir kirkjunnar á Reykjum í Tungusveit, þegar Magnús Björnsson tók við.

AM. Apogr. 4114 með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna „Ex originali“ á kálfskinni, sem aldrei hafa innsigli verið sett fyrir. Sbr. Nr. 572.

Anno do(mini) ᗰ d xx primo

a sama are þa magnus biornsson med tok Reykium j tungusveit jn primis innan kirkiu. kross og alltare med sinum buninge. mariu likneski. ᗰichaels likneski og einn dukur yfer. gamallt tialld vm þueran koren. kluckur iiij. kalekur med corporal. tuenn messoklædi med slitnum haukulum og einn haukull slitin. irskur kross. glodarker ij. er annat uont. Jtem þetta j bokum grallare godur. sequenciubok. missale de tempore irsk litil. gudzspiallabok de tempore med pistlum og collectum. capitularius. psalltari. ẏmnarius. historie bok fra aduentum fram yfer iol. historiebok de sanctis fra andresmesso og fram yfer mariumesso j faustu. skrudakista stor. og kertakista litil. baxturjarn. fontz umbuningur. jarnstikur ij. ein koparstika. gallt sira magnus kẏrkiunne eina bok er hiellt komonspisla med gudzpiollum og med missale syngi-

1) þ. e. Skúla Þormóðssyni. 2) [óljóst og óvíst.

ande fyrir xv aura er fallit hafdi j portio medan hann hiellt. og. c. j vadmale.

Jtem liet sira magnus heim fra skidastodum iiij alner og xx. af merkigardi ij alner. af vatni viij alner. af odru uatni iij alner.

---

## Athuganir og lagfæringar.

---

Bls. 22 í fyrirsögn að Nr. 16 „um þrítugt“ les: þrjátíu og fimm ára eða þar um bil. — Bls. 41, Nr. 35, l. 2. Robortus, l. Robertus. — Bls. $48_{15}$ (í fyrirsögn að Nr. 47) „fyrir“ falli niðr. — Bls. 60 (í fyrirsögn að Nr. 57) landeign Skefilsstaða, l. landeign Skefilsstaða og Gauksstaða. — $68_{17}$ hunrdud l. hundrud. — Bls. $76^{3}$ Norðmnnna l. Norðmanna. Bls. $78^{11}$ Fm̅boga l. Fim̅boga. — Bls. $93_{14}$ (í fyrirsögn að Nr. 90 og eins á bls. 113 í næstneðstu línu) Sigurðar Ívarssonar l. Sigurðar Daðasonar. — Bls. $101^{16}$ Finnhogasonar l. Finnbogasonar. — Bls. $115^{6}$ (í fyrirsögn að Nr. 104) Þorvaldsdóttur l. Þorvarðsdóttur. — Bls. $122^{3}$ gudwunnzson l. gudmunnzson. — Bls. $169_{7}$ elreck. l. eireck. — Bls. $193^{9}$ Guðmundarsonar sínss l. Guðmundar sonar síns. — Sama bls. 6. l. a. n. þessi l. þessu. — Bls. $196^{9}$. þrsteinssonar l. þorsteinssonar. — Bls. $197^{10}$ Barðarströnd l. Barðaströnd. — Bls. $198_{5}$ Kirkjubólskirkju l. Kirkjubóls. — Bls. 202. Yfirskriptin ætti að vera: Hvítárbakkabréf. — Bls. 205. Ártalið yfir bréfinu Nr. 171 er misprentað 1507, fyrir 1508. — A sömu bls. 15 l. a. n. balfa l. halfa. — Bls. $209_{5}$ opnn l. opnu. — Bls. $216^{10}$ Rerolution l. Resolution. — Bls. $219^{13}$ nonnum l. monnum. — Bls. $226^{6}$ spstkina l. systkina. — Bls. $239^{2}$. kossmesso l. krossmesso. — Bls. $342_{8}$ Josson l. Jonsson. — Bls. $243^{11-12}$ vtgefir l. vtgefin. — Bls. $244^{10}$ sér l. séra. — Sama bls. í 12. l. a. o. Medkinningarbref l. Medkienningarbref. — Sama bls. í 2. l. a. n. bráfabók, l. bréfabók. — Bls. $249_{6}$ dyreika l. dyrleika. — Bls. 260 í fyrirsögn að Nr. 219 BÉFSFORM l. BRÉFSFORM. — Bls. $261_{14}$ vidinera l. vidimera. — Bls. $263^{17}$ sannind l. sanninda. — Bls. $272_{2}$ Honde l. Hende. — Bls. $277^{4}$ tll l. til. — Bls. $282_{11}$ = l. —. — Bls. 283. Yfirskr. HRAFNAFJÖRG l. HRAFNABJÖRG. — Bls. 288 (efst í horni til hægri) 1508 l. 1509. — Bls. $330_{8}$ og biskop l. biskup. — Bls. $343_{2}$ VITNISURÐR l. VITNISBURÐR. — Bls. $343_{14}$ balldit l. halldit. — Bls. 360 í yfirskr. ABFR fyrir ARFR. — Sama bls. 14. l. a. o. Björsdóttur l. Björnsdóttur. — Bls. $361^{8}$ fordod l. forbod. — Bls. $381^{18}$ afrleiddi l. arfleiddi. — Bls. 380—382, Nr. 315, á að dag- og árfærast til

22. Maí 1515, og er prentað á þann hátt í IX. bindi Nr. 54. — Bls. $384_6$. futoro l. futuro. — Bls. $386_{16}$ biskuþ l. biskup. — Bls. $389_5$ fygiurum l. fylgiurum. — Bls. 394[16] sleglð l. slegið. — Bls. 431[2] nm. Magnsar l. Magnúsar. — Bls. 445[17]. Eptir orðunum „j hamar og" á að réttu lagi að bætast inn: *Biorgvin og* (sbr. Dipl. Isl. II, Nr. 458), en það stendr ekki í handritunum af Leiðarhólmsskrá. — Bls. 478 í yfirskript fyrir HEYBRENNA l. HESTGRIP. — Bls. 478 í fyrirsögn að 368: 23. Aug. l. 23. Júlí. — Bls. 482 (í fyrirsögn að Nr. 371) Sigmundsson l. Sumarliðason. — Bls. 483 neðanmálsgr. 1. ⟂ eyðunni í bréfinu á án efa að standa: *skylldum* (Sbr. 467, bls. 610). — Sama bls. 14. l. a. o. vor l. voru. — Bls. 488[9] asgrrimsson l. asgrimsson. — Bls. 516[4] Skáfholti l. Skálholti. — Bls. $518_4$ Einarsson l. Einarssonar. — Bls. 521 og Noregj(is) l. Noreg(is). — Bls. 530[5] (Nr. 401) l. (Nr. 402). — Bls. $555_{10}$ Magnns l. Magnus. — Bls. $599_4$ aetera l. cetera. — Bls. 653 í 1. línu fyrirsagnar að Nr. 499: ANDRES l. ANDOR (= Anþór = Annþór = Arnþór). — Bls. $658_6$ Dögurðarues l. Dögurðarnes. — Bls. 660[1] Sauðlauksdal l. Sauðlausdal. — Bls. $694_3$ gudmuudz(son) l. gudmundz(son). — Bls. 695[4]. Komman (,) eptir „kærur" falli niðr. — Bls. 708[19] Gudmuodzsonar l. Gudmundzsonar. — Bls. 710[21]. Hér má nú bæta því við *um bréfabók Ögmundar biskups*, að *frumrit hennar* hefir Brynjólfr biskup fyrst þekt 1656, og var það þá hjá Árna lögmanni Oddssyni, sem án efa hefir haft það frá Skálholti. Getr Brynjólfr biskup bókarinnar á þennan hátt í prestastefnubók sinni (III, 17) 1. Júlí 1656:

„Jtem birti Einar Guttormsson utskrifft af brefabok sem sogd er Biskups Augmundar ∈r finst hia herra Arna Oddssyni Logmanne huar jnni ad Biskup Augmundur medkenner ad hann hafi giort soddan kaupskap vid Gissur Sighuatsson ad hann hafi sellt honum jordena alla Stærra botn er liggur j Hualfyrdi j Saurbæiar kyrkiu sokn fyrer Hallkelsstadi j Huitarsijdu og Gylsbacka kyrkiusokn. datum þess giörnings 1525. Skalholti in octava sancti Johannis Evangelistæ[1]). Su utskrifft uar handskrifftud af Logmannenum H(erra) Arna Oddssyne og Sira Joni Jonssyni a Melum".

Bls. 715 í 1. l. fyrirsagnar að Nr. 545: umhoðs- l. umboðs-. — Bls. 717. Af bréfinu Nr. 546 er ennfremr til afskript í safni Magnúsar konferenzráðs Stephensens 57. 8vo, gerð eptir frumritinu handa Árna Magnússyni, og staðfest:

„Rett ut af Originalnum ad vera skrifad Testerar
S. Sigurdsson
landþingsskrifare".

Er samhljóða því prentaða hér, nema að lyktum er bætt við:

„Dominus Rex per se",

en mislesin í afskript þessari skammstöfunin. — Bls. $723_6$ kref l. bref. — Bls. 729 Laudskylld l. Landskylld. — Bls. 733[10] Humilavit l. Humiliavit. — Bls. $755_6$ frram l. fram. — Bls. 782[13] Andrés l. Andor (= Arnþór) og „Ander(s)" í 10 l. a. n. Ander.

1) þ. e. 3. Janúar = DI, IX, 237.

— Bls. 795[6]. armaria. Þetta orð gátum við Guðmundr meistari Þorláksson (d. 1910) ekki lesið öðruvísi, þegar við lásum afskript mína saman við frumritið 5. Maí 1903, en frumritið er lúið og gallað á þessum stað. Þegar þessi staðr er borinn saman við hinn texta skrárinnar, sézt þó, að þar (bls. 803[20]) stendr: armiarn (= armjárn = handjárn). Mun því hið sama eiga að standa hér. — Bls. 807[12]. uilkingslæk l. uikingslæk.

## REGISTR.

1) *ekki* „lögmanns", eins og stendr í registri VI. bindis. Ber að leiðrétta það. 2) Kynni að vera einn maðr.

1) Þessi staðr gæti þó átt við Árna á Kimbastöðum Gíslason.

1) Í þessum bréfum, sem eru vitnisburðir frá 1517 og 1521 um að Bjarni hafi gefið Helgu Gísladóttur Geirseyri í Patreksfirði, er að vísu ekki talað um, að Bjarni sé þá dáinn. En vitnisburðirnir sýna það sjálfir, að til gefandans nær þá ekki lengr, og því hefir vitnisburðanna þurft. Bjarna Andréssonar. Guðmundarsonar, er síðast getið í bréfum 1508, svo að með vissu sjáist, að hann sé á lífi. Hefði hann ekki dáið skömmu síðar, kæmi hann án efa mikið við bréf á næstu árum þar á eptir. Þetta mun og alt vera einn maðr.

1) Líklega alt einn maðr; þó eru þrír staðirnir nokkuð vafasamir.

---

1) Kynni þó að vera einn maðr.

1) Dálítið er þó vafasamt, hvort þessi staðr á við Godsvin *Skálholtsbiskup*.

———

1) Milli þessara manna er ekki hægt að greina til fullrar hlítar.

---

1) Guttormr Arnórsson, sem verið hefir prestr á Kolfreyjustað 1457 (Dipl. Isl. V. 154), virðist vera sami maðr og þetta. Í bréfinu 20. Aug. 1457, sem ekki er til öðruvísi en í afskript frá 1703, virðist föðurnafnið muni misskrifað eða mislesið „Arnórsson“ fyrir: *Arnoddsson.*

1) Virðist vera alt einn maðr, þó að hann komi ýmist fyrir í Húnavatns- eða Hegranessþingi.

---

1) Getr þó hvorttveggja verið einn maðr.

1) Gæti þó verið einn maðr.

1) Eitthvað af þessum tilvitnunum kynni þó að geta átt við Jón Björnsson yngra.

1) Kynni þó að geta verið einn maðr.

1) Sýnist alt geta verið einn maðr. 2) Hér er enn sem fyrri ómögulegt að greina milli þessara tveggja manna til nokkurrar hlítar.

1) Gæti þó verið einn maðr.

1) Ekki þori eg að segja, nema sumar tilvitnanirnar í registri VI. bindis eigi við þennan mann, sem látnar eru eiga við Jón sýslumann Hallsson.

1) Milli þessara tveggja presta, eins og Jóna Jónssona í heild sinni, er ekki hægt að greina til neinnar hlítar.

---

1) Jón yngri Magnússon, Þorkelssonar, virðist vera sami maðr og Jón á Svalbarði. Hvort eitthvað af þessum stöðum kynni að eiga við Jón eldra verðr ekki sagt. Ekki er ólíklegt, að Svalbarðs-Jón sé fæddr um 1486, og gæti hann þá verið farinn að koma við bréf 1506.

1) Gæti þó hvortveggja verið einn maðr.



1) Báðir þessir staðir sýnast geta átt við sama mann.

---

1) Gæti þó verið einn maðr.

---

1) Í registri við VII. bindi segir, að Kristín væri enn á lífi 1506 og er það bygt á rekadóminum $^{12}/_{5}$ 1505—$^{14}/_{4}$ 1506 (VII, 698). En af Ögursskrá Björns Guðnasonar (í þessu bindi bls. 338) er að ráða, að hún sè dáin á undan Páli syni sínum (1496). Mun það vissara, því að orð dómsins eru ekki tvímælalaus.

1) Virðist alt vera einn maðr, handgenginn Gottskálki biskupi.

1) Það er varla vafi á, að þetta sé alt sama kona, og að Bjarni og Björn Árnason sé sami maðr.

1) Það er varla vafasamt, að þessu er svona varið. Narfi er enn príor í Skriðu 6. Júlí 1506, en 30. Aug. sama ár er Þorvarðr orðinn þar príor, og 1508 er Narfi skýlaust nefndr ábóti í Þykkvabæ, og er það án efa þessi, — hækkað í metunum, — en ekki Narfi Ívarsson, sem var orðinn aðstoðarábóti á Helgafelli 1512. Hann hefði varla sótt úr ábótaembætti í Þykkvabæ í aðstoðarstöðu á Helgafelli.

1) Kynni þó að geta verið sami maðr.

1) Sýnist varla vera sami maðr og sá næsti á undan.

1) „Paulus Haqvinius, in ditione Holtarum, inter venandum sub mersus vitam finiit“.
(Sira Guðm. Högnason í Vest-

---

mannaeyjum í bréfi til síra Þorsteins Pèturssonar að Staðarbakka, dags. 18. Febr. 1743. — JSig. 207. 4to).

1) Mun eiga hér við.

---

1) Samkvæmt þessu á að leiðrétta registr við VI. bindi. Sbr. registr VII. bindis.

---

1) Það er umtalsmál, hvort þetta er ekki einn og sami maðr.

1) Í registri VI. og VII. bindis hefir verið talið, að Steinunn mundi dáin fyrir 1487. En bréfið Nr. 462 í þessu bindi tekr af öll tvímæli, að hún er enn lífs 1517.

1) Getr alt verið einn maðr. Er þó ekki fullvíst. 2) Sbr. þó Sæmund Árnason.

1) Milli þessara manna er ekki hægt að greina til hlítar. Þorbjörn prestr á Bægisá er talinn fyrri í testamenti Gottskalks biskups. Mun það því hann, sem ráðsmaðr var, og meir þótt um hann vert.

